# VESTAN UM HAF

LJÓÐ, LEIKRIT, SØGUR OG RITGERÐIR

EFTIR

ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI

VALIÐ HAFA

EINAR H. KVARAN OG GUÐM. FINNBOGASON

REYKJAVÍK MCMXXX
BÓKADEILD MENNINGARSJÓÐS

# Formáli.

*Það er ekki lítið, sem prentað hefir verið á íslenzku vestan hafs — öll blöðin (þar á meðal yfir 40 árgangar af tveim stærstu blöðunum), tímaritin og bækurnar. Margt af þessu er nálega ókunnugt á Íslandi. Að vísu hafa blöðin og sumt af tímaritunum komið hér allvíða, en það, sem í blöðum birtist, hefir sjaldan varanleg áhrif, því að blöðin glatast og gleymast jafnóðum. Sala bóka, sem komið hafa út vestan hafs, hefir og verið sáralítil hér á landi, enda fæstar þeirra verið hér hjá bóksölum. Af skáldritum Vestur-Íslendinga eru „Andvökur“ Stephans G. Stephanssonar og hinar stærri sögur J. Magnúsar Bjarnasonar í allmargra höndum. Flest hitt hefir verið öllum almenningi hér sem fólginn fjársjóður. Bók þeirri, er hér birtist, er ætlað að bæta úr þessu eftir föngum. Höfum við farið yfir nálega allt, sem frumsamið hefir verið af Íslendingum vestan hafs, og valið sýnishorn af því, sem okkur virtist hafa mest bókmenntagildi. Hefir reglan verið sú, að taka helzt það, er sýnir líf Íslendinga í hinu nýja landi, því að það er allt nýjung og viðauki við það, sem áður var til í bókmenntum vorum. Við höfum því ekki tekið nema eina sögu, er gerist á Íslandi, og hana fyrir þá sök, að hún er eftir Stephan G. Stephansson. Af kvæðum hans höfum við nær eingöngu tekið lýsingar á vestrænni náttúru og þjóðlífi, og þó hvergi nærri í hlutfalli við það sæti, er hann skipar í bókmenntum vorum. Sama er og um sögur J. Magnúsar Bjarnasonar, að við tókum minna eftir hann, af því að hann er mörgum hér kunnur áður. Af leikritum Guttorms J. Guttormssonar tókum við aðeins eitt, vegna þess að verið er að prenta hér heildarútgáfu af þeim. Þá höfum við nálega eingöngu haldið okkur við hin veraldlegu ritin, og ekki valið úr hinum auðugu bókmenntum Vestur-Íslendinga um trúmál og kirkjumál. Þær bókmenntir eru sérstaks eðlis, og hefði þurft mikið rúm til að gera þeim skil. En okkur voru af útgefendum afmarkaðar 50 arkir, því að stærri mátti bókin naumast vera, svo að hún gæti orðið almennings eign. Af þessu leiðir það, að hér gætir lítið sumra þeirra manna, er mikil áhrif hafa haft á fé-*

*lagslíf og hugsunarhátt Íslendinga vestan hafs. Þá höfum við og sleppt þeim höfundum, er aðeins hafa um stundarsakir starfað og ritað vestra, svo sem Einar H. Kvaran, Jón Ólafsson og Gestur Pálsson, þó að það, sem þeir hafa ritað um vestræn efni, heyri þessari grein bókmennta vorra til, þegar reikningarnir verða gerðir upp að fullu.*

*Þrátt fyrir þetta vonum við, að bókin sýni allvel, hve merkilegan þátt Íslendingar vestan hafs hafa lagt til íslenzkra bókmennta, og að hún verði mönnum hvöt til að kynna sér hann betur en áður.*

*Í efnisyfirlitinu höfum við vísað til heimildanna í svigum, og á að jafnaði heimildin við það, sem á eftir fer, unz annarar er getið. Æfisöguatriðin, sem tekin hafa verið eftir prentuðum heimildum, hafa verið borin saman við kirkjubækur í Þjóðskjalasafninu og leiðrétt þar sem hægt var, og verður þó ekki ábyrgzt, að allt sé rétt. Um dulnefnið „Kveldúlfur“ vitum við ekkert. Í höfundatalinu merkir * fædd[ur], F. faðir, M. móðir, K. kona, † dáin[n].*

*Að endingu viljum við þakka stjórn Bókadeildar Menningarsjóðs fyrir hinn mikla áhuga, sem hún hefir frá upphafi sýnt í því að koma þessari hugmynd í framkvæmd og ekkert til sparað, að útgáfan mætti verða sómasamleg.*

*Reykjavík, maí 1930.*

**Einar H. Kvaran. Guðm. Finnbogason.**

# EFNI



## LJÓÐ

## LEIKRIT:



## SÖGUR:

## RITGERÐIR:

# Höfundar

---

**Bergþór Emil Johnson.** * 1/8 96 Mikley, Manitoba. F. Einar Jónsson. M. Oddfríður Þórðard. K. Kristín Björnsd. Byron. Bergþór gekk í kanadiska flugliðið í apríl 1918, en var ekki kominn úr landi, þegar vopnahlé var samið. Skólakennari. Kaupmaður í Wpg.



**Björn B. Jónsson,** dr. theol. R. F. * 19/6 70 Ási, N.-Þing. F. Björn Jónsson. M. Þorbjörg Björnsd. K. 1. Sigurbjörg Stefánsd. 2. Ingiríður Guðmundsd. Johnsen. Til Vesturh. 76. Nýja Ísl. — Argyle. Útskr. prestask. Chicago 93. Vígður s. á. Prestur í Minnesota 94—14, síðan í Wpg. Forseti Kirkjufélagsins 08—21. Ritstj. „Kennarans“ I—IV. „Vínlands“ I—II, „Sameiningarinnar“ frá 1914.





**Eggert Jóhannsson.** * ⅟₁₁ 60 Vindheimum, Skag. F. J. Jóhannsson. M. Arnfríður Jóhannesd. K. Elín Hjörleifsd. Til Vesturh. 76. Meðritstjóri „Leifs“ 83—86, „Heimskringlu“ 86—97, ritstj. „Aldarinnar“ 94—95. Skrifstofumaður. † 29.



**Einar Páll Jónsson.** * ¹¹⁄₅ 80 Hárekksstöðum, N.-Múl. F. J. Benjaminsson. M. Anna Jónsd. K. Sigrún Baldwinson. Í lærða skólanum 02—04. Til Vesturh. 1913. Meðritstj. „Lögbergs“ 17—27, síðan ritstj. Rit: Öræfaljóð. Wpg. 15.



**Eyjólfur Eyjólfsson Wium.** * ⁴⁄₁₀ 55 Ósi, Strandas. F. E. Sigurðsson. M. Guðný Gíslad. Til Winnipeg frá Fáskrúðsfirði 00. Þar eitt ár. Síðan til Saskatchewan. Fluttist 05 til Red Deer Point og er þar enn.



**Friðrik Jónss. Bergmann.** * 15/4 58 Garðsvík, S.-Þing. F. J. Jónasson Bergmann. M. Halldóra Bessad. K. Guðrún Thorlacius. Inntökupróf í latínuskólann 74. Til Vesturh. 75. Útskr. af Luther College í Decorah Iowa 81. Las guðfræði í Oslo 83—84, í Philadelphia 85—86. Þá vígður til Garðar-safnaðar N. Dak. Þaðan til Winnipeg 02. Kennari í ísl. fræðum við Wesley-College til 09, og prestur Tjaldbúðarsafnaðar til æfiloka 11/4 18. Ritstj. „Aldamóta“ 91—03, „Breiðablika“ 06—14. Helztu rit: Ísland um aldamótin. Rv. 1901. Vafurlogar. Wpg 06. Trú og þekking. Rv. 16.



**Gísli Jónsson.** * 9/2 76 Háreksstöðum, N.-Múl. F. J. Benjamínsson. M. Guðrún Jónsd. K. Guðrún H. Finnsdóttir. Útskr. Möðruvallaskóla 96. Til Vesturh. 03. Prentsmiðjustjóri í Wpg. Rit: Farfuglar. Wpg. 19.



**Guðbrandur Erlendsson** * 28/6 45 Kirkjubólsseli, S.-Múl. F. E. Ásmundsson. M. Guðný Brynjólfsd. K. Sigríður Ingibjörg Hávarðard. Til Vesturh. 75. Bóndi í Nova Scotia. Síðar N. Dak. Rit: Markland. Endurminningar frá árunum 1875—1881. Wpg 16.



**Guðmundur Árnason** * ¼ 80 Munaðarnesi, Mýras. F. Á. Þorláksson. M. Helga Kjartansd. K. Sigríður Einarsd. Sæmundsen. Til Vesturh. 02. Útskr. af Meadville guðfræðingaskóla 08. Stundaði nám í Berlin 08—09. Ritstj. „Heimis“ um skeið. Prestur únítarasafnaðarins í Wpg 09—15 og kennari 16—26. Prestur únítarasafnaðanna í Álftavatns nýlendu frá 27.



**Guðrún Helga Finnsdóttir.** * % 84 Geirólfsstöðum, S.-Múl. F. F. Björnsson. M. Bergþóra Helgad. Gift Gísla Jónssyni prentsmiðjustjóra. Til Vesturheims 04.



**Gunnsteinn Eyjólfsson.** * ¼ 66 Unaósi, N.-Múl. F. E. Magnússon. M. Vilborg Jónsdóttir. K. Guðfinna Eiríksd. Til Vesturheims 76, Nýja Ísland. Póstafgreiðslum., sveitarskrifari, kaupm. Sjálfmenntaður. Tónskáld. Rit: Elenóra. Saga frá Wpg. Rv. 94. Tíund. Saga frá Nýja Ísl. Wpg. 05. † ⅔ 10.

**Guttormur Guttormsson.** * 10/12 80 Krossavík, N.-Múl. F. G. Þorsteinsson. M. María Birgitta Jósefsd. Kvæntur. Til Vesturh. 93. Útskr. frá Manitoba háskóla 1907, frá prestask. í Chicago 09. Prestur Þingvallasafnaðar, Sask. til 18, síðan í Minnesota.



**Guttormur J. Guttormsson.** * 5/12 78 Víðivöllum, Nýja Íslandi. F. Jón Guttormson. M. Pálína Ketilsd. K. Jensína Danielsd. Barnaskóla og sjálfmenntun. Bóndi á Víðivöllum. Rit: Jón Austfirðingur og nokkur kvæði. Wpg 09. Bóndadóttir. Wpg 20.



**Jakobína Johnson.** * 24/10 83 Hólmavaði, S.-Þing. F. Sigurbjörn Jóhannss. skáld frá Fótaskinni. M. María Jónsd. Gift Ísak Jónss. bróður E. P. J. og G. J. Til Vesturh. 89. Argyle. Seattle, Wash. Kennaramenntun. Hefir þýtt ísl. ljóð á ensku.





**Jóhann Magnús Bjarnason.** * 24/5 67 Meðalnesi, N.-Múl. F. B. Andrésson. M. Kristbjörg Magnúsd. K. Guðrún Hjörleifsd. Til Vesturh. Nýja Skotl. 75. Kennarapróf. Alþýðusk.kennari. Rit: Sögur og kvæði. Wpg 92. Ljóðmæli Ísaf. 98. Eiríkur Hansson. Kh. & Ak. 99—03. Braziliufararnir I.—II. Wpg 05, Rv. 08. Vornætur á Elgsheiðum. Rv. 10. Haustkvöld við hafið. Rv.28.



**Jóhannes P. Pálsson.** * 81, frá Reykjum á Reykjaströnd, Skag. F. Páll Halldórsson. M. Jóhanna Jónsdóttir. K. Sigríður Pétursson. Til Vesturheims 93. Kennarapróf í Wpg og var kennari um skeið. Síðan próf á læknad. Manitobahásk. og læknir í Árborg, N.-Íslandi 09. Til Elfros, Sask. 18. Nú Langham. Rit: Hnausaför mín. Wpg. 28.



**Jón Bjarnason, dr. theol.** * 15/11 45, Þvottá, S.-Múl. F. B. Sveinss. M. Rósa Brynjólfsd. K. Lára Guðjohnsen. Stúdent 66, cand. theol. 69, vígður s. á. Til Vesturh. 73. Kennari við Luther College í Decorah til 75. Ritstj. „Budstikken“, Minneapolis til 77. Prestur í N. Ísl. 78—80. Á Seyðisf. 80—84. Síðan í Wpg til æfiloka 3/6 14. Forseti Kirkjufél. 85—08. Ritstj. „Samein.“ frá 86—14. Rit: Guðspjallamál. Prédikanir. Rv. 00, m. m.

**Jón Runólfsson.** * 31/8 55 Gilsárteigi, S.-Múl. F. R. Jónss. M. Margrét Bjarnad. Til Vesturheims 79. Minnesota, Manitoba. Sjálfmenntaður. Kennsla og skrifstofustörf m. m. Rit: Þögul leiftur. Wpg 24.



**Jónas Ari Sigurðsson.** * 6/5 Litlu-Ásgeirsá, Húnav. F. Sigurður Bárðarson. M. Guðrún Jónasard. K. 1. Oddrún Frímannsd. 2. Stefanía Ólafsd. Útskr. af Ólafsdalskóla 86. Til Vesturh. 87. Útskr. af prestask. í Chicago 93. Vígður s. á., og verið prestur víða. Nú í Selkirk.



**Jónas Jónsson Hunford.** * 7/11 47 Sellandi, Húnv. F. J. Rafnsson. M. Guðrún Guðmundsd.. K. Margrét Sigurbjörg Bjarnad. Til Vesturh. N. Dak. 83, Alberta 88. Bóndi. † 21/6 29.





**Jónas Stefánsson frá Kaldbak.** * 31/3 82. Kaldbak, S.-Þing. F. St. Guðmundsson. M, Jónína Jónasd. K. Jakobína Sigurgeirsd. frá Grund. Búfr. frá Hólaskóla 02. Til Vesturh. 13. Bóndi í Mikley.



**Kristinn Stefánsson.** * 9/7 56 Egilsá, Skag. F. St. Tómásson bóndi og læknir. M. Vigdís Magnúsdóttir. K. Guðrún Jónsd. frá Máná. Til Vesturheims 73. Lengst af í Winnipeg, húsasmiður o. fl. Sjálfmenntaður, víðlesinn. † 26/6 16. Rit: Vestan hafs. Ljm. Rv. 1900. Út um vötn og velli: Ljm. Wpg. 1916.



**Kristján Níels Júlíus.** * 7/4 59 Akureyri. F. Jón Jónsson. M. Þórunn Kristjánsd. Til Winnipeg 78, síðar Minnesota og N. Dak. Að mestu sjálfmenntaður. Mest landbúnaðarstörf. Rit: Kviðlingar. Wpg 20.

**Lára Goodman Salverson.** $^{9}/_{12}$ 91. Wpg. F. Lárus Guðmundsson. M. Ingibjörg Guðmundsd. Gift George Salverson, norskum manni í Calgary, Alberta. Kennarapróf. Rit: The Viking Heart. Toronto 23; When Sparrows Fall. Toronto 25; The Lord of the Silver-Dragon. Toronto 27.



**Magnús Jónsson** (frá Fjalli) * $^{17}/_{7}$ 51 Hóli, Skag. F. J. Jónsson. M. Sigríður Magnúsd. K. Margrét Grímsdóttir. Til Vesturh. 87. Bóndi og smiður. Nýja Ísland, Argyle. Blaine. Rit: Vertíðarlok. Glenboro 20.



**Magnús Markússon.** * $^{27}/_{11}$ 68 Hafsteinsstöðum Skag. F. M. Árnason. M. Filipia Hannesd. K. 1. Helga Hallsdóttir. 2. Lára Guðbrandsd. Til Vesturh. 86. Sjálfmenntaður. Starfað fyrir verzlunarfélög. Rit: Ljóðmæli Wpg. 07, Hljómbrot. Wpg. 24.





**Páll Guðmundsson.** * 2⁄1 87 Hurðarbaki, Ásum, Hún. F. Guðm. Pétursson. M. Anna Guðmundsd. K. Súsanna Guðmundsson. Tvö ár á gagnfræðask. á Akureyri. Til Vesturh. 13. Málari í Wpg.



**Ragnar E. Kvaran.** * 2⁄2 94 Winnipeg. F. Einar Hjörleifsson Kvaran. M. Gíslína Gísladóttir Kvaran. K. Þórunn Hafstein. Stúdent Rvík 13. Cand. theol. 17. Til Vesturheims 22. Prestur í Wpg.



**Richard Beck.** * 9⁄6 97 Svínaskálastekk, S.-Múl. F. Hans K. Beck. M. Þórunn Vigfúsd. K. Björg Samson. Stúdent Rvík 20. Til Vesturheims 21. Meistarapróf við Cornell háskóla 24. Doktorspróf s. st. 26. Kennari við ríkisháskólann í Grand-Forks. N.-Dak. Rit: Ljóðmál. Wpg. 29.



**Rögnvaldur Pétursson** dr. theol. R. F. * 14/8 77 Ríp, Skagaf. F. Pétur Björnsson. M. Margrét Björnsd. K. Hólmfríður Jónasd. Til N. Dak. 83. Stundaði nám við Manitoba háskóla 98. B. D. frá prestaskóla únítara í Meadville 02, las guðfræði og germanska fornfræði við Harvard háskóla 02—03. Prestur ísl. únitara í Wpg 03—09 og 15—22 Field Secy Am. Un. Assoc. Ritstj. „Heimis" 04—10, 13—14, „Heimskringlu" 13—14, „Tímarits Þjóðræknisfélags" 21 til þessa dags. Rit: Ferðalýsingar frá sumrinu 1912. Wpg 14. Minningarrit íslenzkra hermanna. Wpg 23.



**Sigurbjörn Jóhannsson** * 24/12 39 Breiðumýri, S.-Þing. F. J. Ásgrímsson. M. Rósa Halldórsd. K. 1. Kristbjörg Kristjánsd. 2. María Jónsd. Til Vesturh. 89 Argyle. † 03. Rit: Ljóðmæli. Wpg 02.



**Sigurður Júlíus Jóhannesson.** * 19/1 68 Læk, Ölfusi. F. J. Jónsson. M. Guðlaug Hannesd. K. Halldóra Þorbergsd. Fjeldsted. Stúdent 97. Til Vesturh. 99. Læknapróf í Chicago 07. Ritstj. „Dagskrár" II. 01—02, „Lögbergs" 14—17, „Voraldar" 18—21. Annars sinnt læknisstörfum. Rit: Sögur og kvæði I.—II. Wpg 00—03. Kvistir. Rv. 10.



**Stephan G. Stephanson.** * 3/10 53 Kirkjubóli, Skagaf. F. Guðm. Stefánsson. M. Guðbjörg Hannesdóttir. K. Helga Sigríður Jónsdóttir. Til Vesturh. Wisconsin 73, N.-Dakota 80, Alberta 89. Bóndi. Rit: Úti á víðavangi. Wpg 94. Á ferð og flugi. Rv. 00. Kolbeinslag. Wpg 14. Heimleiðis. Rv. 17. Vígslóði. Rv. 20. Andvökur I.—III. Rv. 09—10, IV.—V. Wpg 23. Blaðagreinar: Lögberg 11/4 88, 11/3 93, 8/3 06, 3/10 07, 27/3 13, 8/6 16, 17/8 16, 5/10 16, 12/8 26. Heimskringla: 21/6 92, 8/3 93, 18/8 94, 12/3 96, 13/1 99, 13/4 99, 20/7 99, 17/8 99, 14/9 99, 5/10 99, 20/4—3/5 00, 9/6 00, 14/7 20, 18/8 20, 24/11 20, 13/1 21, 23/2 21, 28/3 23. Voröld: 1/4 19, 25/11 19, 7/5 20. † 10/8 27.



**Þorskabítur (Þorbjörn Bjarnason)** * 29/8 59 Írafelli, Kjós. F. B. Eggertsson. M. Þorbjörg Ólafsdóttir. Uppalinn Reykholtsdal. Til Vesturheims 93. Wpg. Síðan 97 í Pembina, N. Dak. Sjálfmenntaður. Rit: Nokkur Ljóðmæli. Rv. 14.



**Þorsteinn Þ. Þorsteinsson.** * 11/11 79 Uppsölum Eyf. F. Þorsteinn Þorsteinsson. M. Aldís Eiríksd. K. 1. Rannveig Jónsd. 2. Goðmunda Halldórsd. Útskr. Hólaskóla 00. Til Winnipeg 01. Málari. Ritstj. „Sögu". Rit: Þættir. Ljóð. Wpg 18. Heimhugi. Ljóð Rv. 21.

**Örn (Kristinn Pétursson)**



* 7/9 88 Neðri Hvestu, Selárdalssókn, Barðastrandarsýslu. F. Pétur Björnsson skipstjóri. Kristinn ólst upp í Arnarfirðinum, og mun það hafa ráðið dulnefni hans. Til Kanada fór hann 09, og hefir dvalið þar síðan. Um önnur æfiatriði hans hefir ekki vitneskja fengizt.

# Inngangur.

## 1. Um ljóðin og leikritin.

Flutningur Íslendinga vestur um haf hefir í mörgum efnum verið próf á gildi íslenzkrar alþýðumenningar, því að andlegur þroski og menning manna kemur hvergi betur í ljós en þar sem þeir setjast að meðal erlendra þjóða, fjarri fósturjörðu sinni og fornum háttum. Þá reynir á það, hve fljótir menn eru að átta sig í hinu nýja umhverfi, hve fljótt þeir verða þar heima. Alþroskaður andi væri alstaðar heima, því að hann gæti hvar sem væri séð skyldleik hins nýja við hitt, sem hann þekkti áður, og þar með náð tökum á því. Þar eiga við orðin: „Hver, sem hefir, honum mun verða gefið og hann mun hafa gnægð, en hver, sem ekki hefir, frá honum mun tekið verða jafnvel það, sem hann hefir". Ljóðagerð hefir frá öndverðu verið sterkur þáttur í menningu vorri, og Íslendingar vestan hafs hafa þar svarið sig í ætt sína. Þeir hafa ekki látið dvína kveðandina í hinu nýja landi; annir og örðugleikar landnámslífsins hafa ekki megnað að kefja hana. Er það tiltölulega geysimikið að vöxtum, sem þeir hafa kveðið, en sem von er, mjög misjafnt að bókmenntagildi. Annarsvegar eru hagyrðingar, er að mestu hafa lifað á því andans nesti, er þeir höfðu að heiman, svo að prentstaðurinn einn eða fyrirsögn kvæðis sýnir, að það er ort vestan hafs og ekki heima á Íslandi. Slíkur kveðskapur hefir sitt hlutverk að inna. Hann er sniðinn eftir stundarþörfum og sýnir andlega viðleitni, er sízt ber að gera lítið úr. Sigurbjörn Jóhannson hefir í inngangskvæðinu að ljóðabók sinni („Til landa minna") átakanlega lýst því, hvernig margt

af slíkum ljóðum verður til. Hins vegar eru þeir, sem að einhverju leyti hafa orðið landnámsmenn fyrir bókmenntir vorar, tekið yrkisefni úr hinu nýja umhverfi sínu og bera þess merki í meðferð og háttum, að þeir hafa orðið fyrir áhrifum af enskum og amerískum bókmenntum. Vona ég, að þeir, sem lesa þessa bók, finni, að yfir mörgum kvæðanna er nýr blær, þó að oft kunni að vera erfitt að benda á, í hverju nýjungin er fólgin. Þessi blær stafar af samruna tveggja menningarstrauma og nýjum viðfangsefnum, er taka varð nýjum tökum. Má það heita aðdáanlegt, hve fljót þessi skáld hafa verið að draga til sín næringu úr hinum nýja jarðvegi og hve vel þau hafa samþýtt hana upplagi sínu og menningararfi. Er það því merkilegra, þegar þess er gætt, að langflest þeirra eru sjálfmenntaðir alþýðumenn, er hafa orðið að berjast harðri baráttu fyrir lífi sínu í hinu nýja landi. Aðeins 4 af þeim 19, sem kvæði eru tekin eftir í þessa bók, hafa gengið í æðri skóla.

Langvíðlendastur þessara landnámsmanna er auðvitað Stephan G. Stephansson. Og landnám hans fyrir íslenzkar bókmenntir er fyrst og fremst í því fólgið, að hann hefir tekið upp ný yrkisefni, sem enginn hafði áður snert við á voru máli. Á ferð og flugi hefir hann farið eldi íslenzkunnar um Vesturheim og helgað oss landið. Í ljóðum Stephans eru saman komnar svo margar og fjölbreyttar lýsingar af vestrænni náttúru, að þær einar út af fyrir sig eru ómetanlegur gróði fyrir bókmenntir vorar. Hann virðist jafnvígur, hvort sem hann lýsir Klettafjöllunum eða sléttunni, vatninu eða ánni, greniskóginum eða akrinum, sveitinni eða borginni, sumrinu eða vetrinum, vorinu eða haustinu. Og gróðinn fyrir oss er sá, að þarna er lýst náttúru lands, sem er gagnólíkt voru landi, með slíkum tökum á íslenzkunni, að það er engu líkara en að hún væri fædd og uppalin í Vesturheimi. Ég skal t. d. benda á

lýsingar hans á allskonar trjám. Trjálífið er ekki fjölskrúðugt á Íslandi, og björk, reynir, víðir, lyng og fjalldrapi munu vera einu viðartegundir, sem speglast hafa í lindum íslenzkra ljóða, og svo eik, sem misst hefir öll sjálfstaklings einkenni og vex þar sem rímið heimtar. En í ljóðum Stephans er útlendu trjánum lýst svo snilldarlega, að héðan af halda þau sjálfstaklingseðli sínu í íslenzkum sálum, hvort sem þau ná að festa rætur í landinu eða ekki.

Stephan hefir óðalsbréf íslenzkunnar fyrir hverjum bletti, er hann lítur á. Hann getur sagt eins og Frakkar: „Voir, c'est avoir“ (Að sjá er sama og fá.) Hann lýsir t. d. sveitinni sinni í Alberta svona:

> **Brávellir**, brekkuhöll,
> **bláfell** og **klettafjöll**
> útskorin dölum og drögum.
> **Espihóll**, áin blá,
> engiland, móa-flá,
> **lundar** í harðlendis högum.
>
> Hækka upp vestrið við
> víðlendis yfir mið
> **sólundir** heiðblárra hæða.
> Glaðviðris gróin ró
> glóir um sumarskóg,
> **varmár** um **víðidal** þræða.

Þessi einfalda upptalning lýsir útsýninu svo vel, að vér sjáum sveitina fyrir oss með gögnum og gæðum. En um leið er hún orðin íslenzkt óðal. Orðin, sem ég hefi sett með breyttu letri, eru jafnframt íslenzk eða þó norræn örnefni og bæjarnöfn, er gefa sveitinni heimablæ. Og þó blossar frummerking gömlu örnefnanna, t. d. í „brávellir“ og „sólundir“, upp með nýju afli í þessari nýju umgerð: Brávellir = bjartir, ljómandi vellir, sólundir = sóllendi. Einmitt af því að Stephan hefir í orðgnótt sinni allt, sem hann þarf til að spegla eða endurkveða það, sem mætir augum og

eyrum, er hann alstaðar heima hjá sér, er þar allur sem unir. Það er vert að taka eftir því, að þótt Stephan hafi unnað íslenzkri náttúru heitt og lýst henni skálda bezt, þá verpur hún engum skugga á vestræna náttúru eða blindar augu hans fyrir því, sem þar er fagurt og sérkennilegt. Hann nýtur hennar og hún fær að njóta sín í kvæðum hans.

Beztu lýsingar Stephans hafa það enn sér til ágætis, að um leið og orðunum slær niður einmitt þar sem þeim var ætlað að hitta, þá koma samlíkingarnar hvaðanæfa og gera allt lifandi og sjálfstakt. Og hefir það ekki á öllum öldum verið einkenni hins sanna skáldskapar, að gefa öllu líf og andardrátt, að gera hina sýnilegu veröld samkvæða við sál mannsins, svo að hún yrði eign hennar og óðal? Í mörgum kvæðum Stephans finnum vér einmitt þennan undirstraum lífsins í náttúrunni, finnum, að lýsingin er hvorttveggja í senn: mynd hins sýnilega og saga hins ósýnilega anda, sem í því býr og bærist. Með þessum hætti speglar mannlífið og náttúran hvort annað á víxl. Mikil saga er t. d. sögð í þessum línum:

> Á vinstri hlið silalegt aurana óð
> ið óslygna, skoluga Fljót,
> sem lyfti ei fæti í foss eða streng —
> því fjör, jafnvel straumanna, deyr,
> að vaga' um aldur með fangið sitt fullt
> af flatlendis svartasta leir.

Annars eru nóg dæmi þess, er nú var sagt, í þeim ljóðum, sem tekin hafa verið í þessa bók. Af hinum fjölbreyttu mannlífsmyndum Stephans hefir aðeins verið tekið kvæðið „Díkónissa". Það sýnir vel þá hliðina á kveðskap hans, er að þjóðfélagsskipulaginu snýr, hvernig hann lítur á hinn vestræna Mammon og hinar geysilegu andstæður auðs og örbirgðar, er honum fylgja. Skáldið leysir að vísu ekki úr vandanum, því

að síðasta úrræði Díkónissu, að reyna að dreifa auðsafninu, „að vera

> eyðsluskepnan gjálifs-gera,
> glopran sú, sem fleygir pyngjum,
> molur og ryð í rokna-sjóði.
> sóunin í dala-dyngjum“ —

er ekki annað en vonleysis-fálm, en lesandinn hefir fengið að heyra, hvaða meingallar eru á skipulaginu.

Landnám Stephans, einhvers mesta skáldsins, sem á íslenzku hefir ort, er miklu víðáttumeira og fjölbreyttara en svo, að því verði gerð skil hér, enda er þess síður þörf, þar sem hér í ritinu birtast tvær góðar ritgerðir um hann. Skulum vér nú renna augum yfir óðul hinna skáldanna, að svo miklu leyti, sem einkenni þeirra koma fram í þeim kvæðum, sem hér hafa verið tekin.

Vil ég þá fyrst benda á, hve fagran vott mörg kvæði vestrænu skáldanna bera um djúpa og órjúfandi ást til Íslands. Er varla ofmælt, að sum þeirra má telja til hins fegursta, innilegasta og sannasta, sem kveðið hefir verið til Íslands. „Þó þú lang-förull legðir“, er nú hverjum Íslendingi kunnugt. Drápa E. Wíum til Íslands er mikið og máttugt kvæði, fornt í skapi, rammíslenzkt að orðbragði og hætti, með djúpri undiröldu ættjarðarástar og ættarþótta. Þýðlega andar vestanblærinn í kvæði Jóns Runólfssonar. Í kvæði Þorskabits til Íslands birtist svo helg og hrein ást og lotning, að fáir munu lesa það ósnortnir. Þá eru Íslandskvæði Einars P. Jónssonar sviphrein og glæsileg og kvæði Páls Guðmundssonar djúpt og innilegt.

En ástin til ættlandsins forna blindar ekki augu skáldanna fyrir kostum og fegurð fósturlandsins nýja, eða hamlar því, að þau festi ást á því. Það sýna kvæðin um Kanada, sem bera það með sér, að þau eru mælt af heilum hug, og um sveitirnar vestrænu, sem helg-

aðar eru af gleði og þrautum landnámsmannanna. Í hinu drengilegra kvæði Kristins Stefánssonar um Kanada segir hann að vísu:

> „Þú átt aðeins helming ástar okkar“,

en hann bendir um leið með heilbrigðum metnaði á það, að þessi fóstra þeirra muni erfa þá að lokum, finna —

> „neista hrotna frá þeim arineldi,
> er við höfum dyggilegast geymt“.

Í kvæði Gísla Jónssonar sézt, að ræturnar eru orðnar allfastar í hinum nýja jarðvegi, og í kvæði Guttorms J. Guttormssonar talar sonur um móður. Og þó á íslenzkan þar einn sinn bezta hauk í horni. Guttormur, sem fæddur er og uppalinn í Nýja Íslandi, er glæsilegt dæmi þess, hve góðu lífi íslenzkan hefir lifað þar. Vald hans yfir máli og rími er mikið, og ber hann þó merki þess, að hann hefir þroskazt jafnt af kynningu við enskar sem íslenzkar bókmenntir. Hann er Kanadamaður og Íslendingur í senn, og þó í heilbrigðu jafnvægi. Íslendingafljót, sem hann býr við, verður honum ímynd fjarðarins milli frænda, hafsins, er skilur að Íslendinga vestan hafs og austan. Þeir eru sem bjarkirnar beggja megin fljótsins:

> Yfir fljótið haldast þær í hendur,
> handabandi saman tengja strendur;
> 'andi blær, þær beggja meginn álsins
> birta allt með rómi sama málsins.

Minningarnar um fyrstu árin vestan hafs með öllum þrautunum, stríðinu og sigurvinningunum, eru að vonum ríkur þáttur í sálarlífi Vestur-Íslendinga og kveðskap. Átakanleg eru kvæði J. Magnúsar Bjarnasonar: „Íslenzkur sögunarkarl í Vesturheimi“, „Grímur á Grund“, „Smaladrengurinn“. Er þar allt í senn, hin milda samúð, hin yfirlætislausa frásögn, er þó gefur sér gott tóm til að segja það, sem þarf, og hinn ljóð-

ræni blær. Í kvæðum síra Jónasar A. Sigurðssonar: „Vestur-Íslendingar“ og „Á Mountain“ sjáum vér, hvernig landinn spjaraði sig, stóðst „hin hörðustu lífspróf í heimi“ og hvernig íslenzki arfurinn reyndist honum. Innilegu máli tala minningarnar í hinu ágæta kvæði Kristins Stefánssonar: „Gamla' húsið“. Þar er þetta:

Þá var líf og ylur í þeim bondum,
er á milli kunningjanna lágu,
glaðzt af litlu, djúpið deyfðar brúað,
dauði og visnun komst ei að í ræðum,
syrgt og tregað, útrétt hjálpar-höndin,
hugur aftur sólskins-birta vona.

Kemur það víða fram, hve vel menn báru byrðarnar hver með öðrum og hve bjartsýnir þeir voru, þrátt fyrir allt baslið. K. N. getur þess á sína vísu:

Það var á yngri árum,
þá engin sorg var til,
er flestir áttu ekkert
og allt gekk þeim í vil —
— — — —
því vonin vermdi allt.

En margir féllu í valinn eftir hraustlega framgöngu, áður en vonirnar rættust. Einn minnisvarðinn yfir slíka menn er hið ramgerða kvæði Guttorms J. Guttormssonar: „Sandy Bar“.

Í erfiljóðum eftir einstaka menn er fátt, sem gnæfir upp úr. Aftur er talsvert af góðum tækifæriskvæðum til lifandi manna. Skal hér sérstaklega bent á hið snjalla kvæði Þorsteins Þ. Þorsteinssonar til Vilhjálms Stefánssonar.

Einn er sá strengur, sem leikið hefir verið á vestan hafs betur en dæmi voru til áður í íslenzkum skáldskap. Það er kímnin, fyndnin, hin græskulausa glettni. Þar hefir K. N. (Káinn) verið hinn ágæti forsöngvari. Hér á landi hefir gamanið löngum orðið grátt, örvar fyndninnar eitraðar. En í vísum Káins er glettnin alltaf góðlátleg, aldrei kuldi í brosinu, heldur hrein

gleðin yfir að sýna hlutina í nýju ljósi gegnum gleraugu orðanna. Í því er hann nálega óviðjafnanlegur. Hann kann að prjóna svo við algeng spakmæli, orðtök, einstök orð, endingu eða jafnvel einstakan bókstaf, að allt verði sem nýtt eða öfugt við það, sem öðrum hafði í hug komið. Hann getur leitt mann öruggan við hönd sér eftir ruddum þjóðvegi málsins, þangað til maður óafvitandi hlunkast fram af barði, svo að hriktir í skrokknum — af hlátri, eins og t. d. þegar hann er að segja frá hjónunum:

> Þau höfðu hvorki þurrt né vott,
> þau höfðu bara hátt.

Eða hann ríður allt í einu með einföldu bragði svo flókinn orðahnút, að hárnæma hugsun þarf til að leysa, svo sem þegar hann flytur mjólkurmönnum þessa árnaðarósk:

> Bresti þá aldrei neitt at neinu,
> nema skort á mjólkurleysi!

Og jafnvel þótt hann segi frá með hversdagslegum orðum í óbreyttri merkingu, þá er eins og eldur gáskans felist alltaf undir. K. N. hefir í þessum efnum rutt nýjar brautir, sem óskandi væri að fleiri færu á eftir honum, enda má þegar sjá áhrif hans í sumu, sem ort hefur verið, bæði vestan hafs og austan. Hafa ýmsir af skáldunum vestra brugðið fyrir sig notalegri kímni, svo sem Kristinn Stefánsson, Þorskabítur, Jón Runólfsson, og sérstaklega Guttormur J. Guttormsson, er genginn næstur K. N. að fyndni og á gnótt af hnyttinni hugkvæmni, hvort sem hann bregður á leik í stöku eða smákvæði, eða í langri útleggingu á biblíusögunni, svo sem í kvæðinu „Bölvun lögmálsins“. Get ég ekki stillt mig um að benda á hið frumlega kvæði hans „Býflugnaræktin“. Það er í senn mynd af einum þætti í búskap Kanadamanna, er geyma býflugnabú sín á vetrum niðri í kjöllurum, og djúpsæ lýsing á undir-

heimum sálarlífsins, löngunum vorum og hugsjónum, er oft verður að bæla niður, vegna óblíðra lífskjara, í von um betri tíma, en verða svo að lokum „hart nær hungurmorða“ og stinga sem vond samvizka. – –

Íslenzkar konur eiga góðan fulltrúa í skáldahópnum þar sem frú Jakobína Johnson er. Virðist hún hafa þroskazt jafnt við að hlusta á raddir náttúrunnar sem á frásögn Íslendings sögufróða. Í kvæðum hennar er mildi og alúð göfugrar konu, sem lætur ekki blekkjast af fánýtu glysi, né bugast af önnum og áhyggjum, heldur leitar hinna andlegu gæða, andar að sér styrk og heilbrigði með því að líta á blómguð trén út um gluggann sinn og finnur „æðstu laun, sem guð á til“ í ástinni til barnsins síns.

Margar eru lýsingar prýðilegar í kvæðum þessara skálda. Eitt slíkt kvæði féll af ógáti úr lestinni í prentsmiðjunni og skal því tekið upp hér. Það er eftir Einar P. Jónsson og heitir Sumarlok:

Hringt er til úttarar enn í dag, —
ymur í skóginum kulda-lag
hljómsvipað hafrænu-gjósti.
Mér finnst eins og harmský á himninum, —
hálfgerður ótti' yfir deginum
og borginni þungt fyrir brjósti.

Blikvitar sumarsins brenna út, —
bjarkir með höfuðin niðurlút
hitra við tónþungans brimið.
Mér finnst sem hver alda þess organ-hljóms
sé eilífðar-refsing hins mikla dóms,
er laufhjörtun frysti og limið.

Fólkið, er sárþráir alltaf yl,
áfangastöðvanna leitar til
með einhverjum óvissu-hraða.
Tvísýnis-óttinn úr augum skín,
og ýmsir lesa þar forlög sín
í fjúkinu fölnaðra blaða.

Mér finnst eins og allt sé feigt í dag, —
sjálft framtíðarljóðið með dánarbrag
og veðráttan heimsendi heiti.
Haustloftsins ókennda ægi-far
knýr andvarp frá brjósti sléttunnar,
með líkfylgd á sérhverju leiti.

Stormhæðin eykst, — svo fer allt í hvarf,
en æfinnar fegursta sumarstarf
um ódreymdar aldir lifir
Hver mörk virðist gráthnípin, myrk og tóm,
er moldin jarðar sín eigin blóm
og svalvindið syngur yfir!

Sigðirnar blika við bleikan svorð, —
nú berjast um völdin á himni og jörð -
tvö megin-öfl mannlífsins strauma:
Haustjátning ísköld á aðra hlið —
og eilífðartrúin á sumarið
í starfsvöku dýrðlegra drauma.

Vona ég, að úrval það, er hér birtist af ljóðum Íslendinga vestan hafs, sýni og sanni, að þau eru blómleg grein á bragarmeiði íslenzkunnar, og að það er skylda vor, jafnt við sjálfa oss sem höfundana, að gefa þeim fullan gaum — njóta og nema.

---

Það er að vonum, að **leikritagerð** hefir ekki verið mikil með Íslendingum vestan hafs, þar sem þeir búa á víð og dreif, vantar leiksvið og stöðuga leikendur. Þegar svo er ástatt, er eðlilegt, að leikritaskáld semji helzt leikrit, sem ætluð eru aðallega til lestrar, eru form fyrir hugsanir, sem hentugt er að leiða fram í samtali. Nokkrir gamanleikir hafa að vísu verið samdir og sýndir vestra, en annars hafa aðeins tveir menn fengizt þar við leikritagerð og eru þeir sýndir hér.

**Guttormur J. Guttormsson** hefir samið ein tíu leikrit, og hafa sum birzt í íslenzkum tímaritum, en koma nú öll út í ár hjá Þorsteini Gíslasyni. „Hringurinn", sem hér birtist, sýnir allvel meðferð Guttorms. Hann leggur stund á blæinn, skapar aðstæður og samtöl, er

vekja sérkennilegan, stundum dulrænan geðblæ. Í „Hringnum“ hefir skáldið gert átakanlega mynd af óhugnaði skógarins í vetrarbylnum, þar sem feðgarnir eru að villast og aðstæðurnar verða enn ægilegri, þegar móðirin bætist í hópinn, en vér vitum af börnunum einmana og ósjálfbjarga heima í kofanum, meðan hópurinn rekur feigðarslóð sína í hring -- með hungraða úlfa í eftirför.

*Jóhannes P. Pálsson* er gagntekinn af umhugsuninni um æðstu verðmæti mannsandans, sannleikann, listina, trúna. Í „Gunnbjarnarskeri inu nýja“ hefir hann brugðið manngervi yfir horf ýmissa hugarstefna til sannleikans, sýnt, hvernig hver um sig, að hugsjónaástinni einni undanskilinni, vill umskapa hann eftir sínum þörfum, unz allur greinarmunur á sannleik og lygi hverfur — vill hafa hann fyrir vikadreng og ekki leiðtoga og herra -- og stranda því og tortímast að lokum.

„Svarti stóllinn“ bregður upp myndum af hættum þeim, er verða á vegi listarinnar. Hún verður að fánýtu fitli, þegar listamaðurinn lætur teygjast til að þjóna smekk þeirra, sem standa á lægra þroskastigi og gera sér tíðara um hund, kött eða apa, en um mannsálirnar. Hinsvegar getur sköpunarþrá listamannsins, ef hún verður einvöld, gert hann blindan fyrir annara hag, grimmilega eigingjarnan fyrir listarinnar hönd. Harmsaga Konráðs og Mónu er sú, að bæði vilja raunar það sama: verða til þess, að sannarlegt listaverk fæðist. Hún fórnar glöð síðasta blóðdropa sínum á altari listarinnar, en hann tekur við honum með kaldri ránshönd og sér um seinan, að hann hefir banað þeirri, er hann bezt unni.

## 2. Um sögurnar og ritgerðirnar og Vestur-Íslendinga.

Ég get hugsað mér, að marga, sem annaðhvort hafa ekkert, eða þá lítið, kynnt sér andlegt líf Vestur-Íslendinga, muni furða á því, að rétt sé að þeim tilkomumikil snilldarljóð eftir jafn-marga landa vora vestan hafs eins og gert er með þessari bók. Stephan G. Stephansson þekkja auðvitað allir, að miklu eða litlu leyti, og vita, að hann var mikið skáld. En áreiðanlega hefir mörgum verið ókunnugt um það, að í hópi landa vorra vestan hafs sé jafn-stór hópur ljóðskálda eins og þessi bók ber vitni um, skálda, sem mundu sóma sér vel á bókmenntaþingi hverrar þjóðar.

Samt er það nú svo, að ljóðagerð hefir löngum verið Íslendingum ástríða. Þeir hafa verið nokkuð margir, sem hefðu, eins og Hallbjörn sauðamaður, verið þakklátir Þorleifi jarlsskáldi fyrir að toga á sér tunguna, og hafa haft fullan vilja á því að fara að ráðum hans og „vanda sem mest bæði hátt ok orðfæri ok einna mest kenningar“. Og ljóðagerð hefir, eftir atvikum, látið þeim vel, frá því er Ísland byggðist og fram á þennan dag. Það er því ekki gott að gizka á, hvað landinn kann að inna af hendi í því efni, hvar sem hann er staddur á hnettinum. Fyrir því þykir mér ekki með öllu ólíklegt, að ýmsum kunni að verða það enn meira undrunarefni, að kostur skuli vera á að leiða fram fyrir þá jafn-stóran og jafn-álitlegan flokk af íslenzkum, vestrænum sagnaskáldum eins og hér er gert. Því merkilegra er þetta, sem þeir menn í þessum flokki munu vera örfáir, sem fengið hafa nokkura verulega tilsögn í því að rita á íslenzkri tungu.

Þegar ég nú tek mér fyrir hendur að rita nokkurar

línur um þessar sögur, svo sem til skýringar, þá verður fyrst fyrir huganum hin snjalla saga Jóhannesar P. Pálssonar: „Allir vegir færir“. Hún er hin snarpasta ádeila á það gengi, er þær sogur óneitanlega hafa i hinum enskumælandi heimi, sem ekkert bókmenntalegt gildi hafa og eru í rauninni ekkert annað en æsandi vitleysa, sem engum manni kemur neitt við, og öllum ætti að standa á sama um. Rithöfundur hefir samið ágæta sögu, unnið að henni svo mánuðum og jafnvel árum skifti, og hún er hold af hans holdi og sál af hans sál. Handritið flækist um alla Ameríku, og enginn útgefandi vill við henni líta. Loks tekur rithöfundurinn sig til og semur í snatri sögu eftir vitleysufyrirmyndunum „um brjálaða, kynsjúka vændiskonu og stóra köngulló og morðingja-betlara“ og smellir á hana titlinum: „Sigur lífsins“! Eftir það eru honum „allir vegir færir“. Þar á eftir verður engin fyrirstaða að fá það prentað eftir hann, sem vit er í.

Þessi mótmæli hins einkennilega og gáfaða íslenzka skálds gegn rangsnúinni og fyrirlitlegri stefnu í bókmenntunum gætu verið samin í nafni allra vestur-íslenzkra sagnaskálda. Ekkert þeirra hefir orðið fyrir þeirri freistingu að leita að æsingar-efni handa lesendunum í glæpum og öðrum afskræmis-afbrigðum mannlífsins. Öll rita þau, vitandi eða óafvitandi, með það fyrir augum, að sögur þeirra hafi eitthvert bókmenntalegt gildi. Og yfir öllum sögunum er siðferðileg heiðríkja.

Hvað er þá efnið í sögum þessara rithöfunda?

Það er fyrst og fremst Vestur-Íslendingar sjálfir. Skáldin eru að lýsa þessum mönnum, lífinu, sem býr hið innra með þeim, kjörum þeirra og umhverfi. Þau standa eftirtakanlega föstum fótum í veruleikanum. Lýsingar þeirra eru látlausar, ljósar og sannar. Maður, sem ekkert vissi um Vestur-Íslendinga, annað en það, sem stendur í sögunum í þessari bók, en hefði athugað

það grandgæfilega, hann mundi alls ekki ófróður um landa vora vestan hafs.

Ég bendi fyrst á tvo kafla í þessari bók eftir J. Magnús Bjarnason, „Vesturförin“ og „Íslenzkt heljarmenni“. Þessi höf. er auðvitað mikið þekktur hér á landi, sérstaklega fyrir rómana sína, og flestum, líklegast öllum hefir getizt mæta vel að honum. Mér hefir ávallt fundizt eitthvað barnslega elskulegt við flest rit hans. Ég er ekki með því að gefa í skyn, að neinn einfeldningsbragur sé á þeim. J. M. B. er reyndur maður, menntaður maður og vitur maður. En á list hans er einhver sá blær, sem leiðir hugann að barnshjartanu. Frásagan um afa hans og ömmu og sjálfan hann, á tíu vikna ferðinni frá Seyðisfirði til Halifax, er sígildur gimsteinn. — Ég veit ekki, hvort Hrómundur Þórðarson, íslenzka heljarmennið, hefir nokkur verið til. Ég veit ekki, hvort hann hefir nokkuru sinni búið í eyjunni „Sailors' Woe“. Það má vel vera. En það skiftir ekki svo miklu máli, að því leyti, að sagan hefir sitt gildi fyrir því, auk þess hvað hún er vel sögð. Höf. tekur fram í byrjun hennar, að hún sé „ekkert glæsileg“. En það er hún. Hún er glæsilegt tákn þeirrar víkingslundar og karlmennsku íslenzkra landnámsmanna í Vesturheimi, sem aldrei lét bugast í einstæðingsskapnum og örðugleikunum, sem oft voru óhemjulega miklir.

Ekki get ég stillt mig um að benda á þriðju söguna eftir J. Magnús Bjarnason, af því að hún fjallar um efni, sem ég veit ekki til að neinum öðrum hafi hugkvæmzt að rita um. Flestir munu hafa hugsað sér, að þeir landar vorir vestan hafs, sem alveg komast út úr vestur-íslenzku þjóðlífi, „hverfi eins og dropi í sjóinn“, svo sem einn maður hér á Íslandi spáði fyrir öllum íslenzkum vesturförum fyrir mörgum árum — af lítilli spámannlegri andagift. Menn hafa hugsað sér slíka menn áhrifalausa, feyskna kvisti — að minnsta kosti

að því, er öllu íslenzku kæmi við. En J. Magnús Bjarnason segir okkur söguna af Svanfríði. Í raun og veru eru sögurnar tvær. Önnur er um Íslending, sem bjargar mönnum undan snjóflóði með mikilli lífshættu, en þiggur engin laun, því að hann leggi aldrei líf sitt í hættu í því skyni að öðlast laun eða lof, neitar jafnvel að segja til nafns síns, en lætur þess eins getið, hvert þjóðerni hans sé. Hin er um Svanfríði, íslenzka ekkju, sem kemst út úr öllu samlífi við Íslendinga, verður barnfóstra á enskumælandi heimili, fyllir börnin með þekking og ást á Íslandi og fær þann vitnisburð hjá föður þeirra, að hún sé að bjarga þeim undan bóklegu jokulhlaupi, sem nú sé að æða í algleymingi yfir hálfan Vesturheim. Sízt er fyrir það að synja, að aðalhugsun sögunnar reynist stundum rétt, og að oftar en oss órar fyrir kenni mikilvægra áhrifa frá einangruðum einstaklingum, sem lent hafa í gleymsku landa sinna — ef andlega atgervið er nógu veigamikið.

Þorsteinn Þ. Þorsteinsson er eftirtakanlega leikinn í því að ná lifandi myndum úr lífi Vestur-Íslendinga. Ekki finnst mér ástæðulaust að benda á það hér, að honum hefir tekizt nokkur síðustu árin að gefa út skemmtirit, sem er verulega skemmtilegt — ekki sízt fyrir það, sem hann leggur til þess sjálfur. Sögur hans í þessari bók eru allar teknar úr þessu tímariti hans, „Sögu", og meira hefði verið úr því tekið, ef rúmið hefði nægt til þess. Í sögunni „Lilja Skálholt" dregur hann upp einkar hugnæma mynd af íslenzkri einstæðingsmóður, sem er ekkert annað en gæðin, innrætir syni sínum stöðugt fyrirgefning og kærleik til annara manna, og brýnir fyrir honum, að hann eigi að vera góður við þá, sem eru vondir við hann — en horfir að lokum á það, ekki með öllu samúðarlaust, að hann verður við hólmgöngu-áskorun skólabróður síns og berst við hann, þar til er yfir lýkur. Lífið reyndist svo, þótt ekki væri það víðtækara en þessi saga sýnir það,

að karlmennskuna og harðneskjuna var ekki unnt að loka úti úr því. Allt er lifandi í þessari sögu: móðirin með allar áhyggjurnar út af því, hvað rétt sé, presturinn með norræna eðlið, sem veit vel, að fyrirgefningar-kenningunni verður ekki fylgt út í yztu æsar, drengirnir með allt fjörið, óbilgirnina og bardagalöngunina, og vinkonurnar, sem æpa: „My goodness!“ „Æ, guð minn góður!“ „Gracious!“ „Almáttugur!“ og „Holy Smoke!“ við öllum ósköpunum, sem á ganga.

J. Magnús Bjarnason segir í gamangrein sinni um „Jón Vesturfara“, að hann hafi haft atvinnu við „hverja einustu járnbraut í landinu“. Auðvitað má ekki skilja það bókstaflega, fremur en annað í þeirri fjörugu ritgjörð. En víst er um það, að margir Vestur-Íslendingar fengust við járnbrautarlagningu, meðan þeir, sem leituðu sér atvinnu hjá öðrum, urðu einkum að fást við örðugustu verkin. Þorsteinn Þ. Þorsteinsson dregur upp fyrir oss mynd úr því lífi, sem þá var lifað, í sögunni „Frá fyrri dögum“ — sögunni af piltinum, sem hlakkar svo hjartanlega til að koma heim til bláfátækrar móður sinnar með peningana, sem hann hefir unnið sér inn í þessu striti, en lætur ginnast til að sóa þeim öllum í fjárhættuspili, rétt áður en hann á að fara að leggja af stað heim. Hætt er við, að ýmsir landar vorir hafi lent í eitthvað svipuðu, þó að sögurnar af þeim hafi ekki verið sagðar jafn-prýðilega og þessi saga er sögð, og óskandi, að þeir hefðu sem flestir hitt jafndrenglyndan hjálparmann eins og föðurbróðurinn, æfintýramanninn og slarkarann Mr. Thorndale.

Ekki er síður lifandi myndin í sögunni „Verndargripurinn“ eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson — myndin af ungu stúlkunni í Winnipeg, sem fylgt er heim af dansleik um nótt og bjargast frá samskonar gáleysis-slysi og langamma hennar, amma og móðir höfðu lent í, — bjargast fyrir orðin: „Eigi leið þú oss í freistni, heldur

frelsa oss frá illu", saumuð með silki í klæði og hengd upp á vegg í eikarumgjörð.

Vestur-íslenzk skáld hafa auðsæja og skiljanlega ánægju af því að lýsa Íslendingum, sem eitthvað verulega sópar að. Ein af þeim lýsingum er í sögunni „Álfur á Borg" eftir Jóhannes P. Pálsson. Álfur er orðlagður með sveitungum sínum fyrir stórbokkaskap og sérvizku. Hann er af allt öðru sauðahúsi en þeir, einrænn víkingur. Hann langar sjálfan ekkert til að fá járnbraut inn í nýlenduna, þar sem hann á heima, en hann fyrirlítur „gjálfur og gjamm kjaftaska og málaskúma", sem hafa verið að þvælast með þetta mál tólf ár, og aldrei fengið neinn árangur. Svo að hann tekur sér sjálfur fyrir hendur að finna forseta járnbrautarfélagsins að máli. Og þó að hann kunni ekkert orð í ensku, heillar hann svo hug forsetans með meðfæddri tign sinni og víkingsbrag, að járnbrautin kemur. Frásögnin um Álf karlinn frammi fyrir járnbrautarkonginum verður víst flestum lesendum ógleymanleg.

Vestur-Íslendingar virðast hafa meiri tilhneigingu en vér hér heima til þess að leggja mikið upp úr kenningum um trúmál. Ein, yndislega falleg, saga, „Ása í Sólheimum", eftir Jóhannes P. Pálsson er í raun og veru um þá tilhneiging. Prestshjónunum, sem sagan er um, er báðum lýst af hinni mestu samúð. Presturinn „rétttrúaður", nokkuð þröngsýnn, en gæðamaður, samvizkusamur og einlægur. Prestskonan afarfjarri rétttrúnaðinum, en með djúpa og einlæga trúarhneigð í sál sinni, með ástríðu til þess að fylla lífið ljósi og ástríki. Þrátt fyrir hinn mikla skoðanamun verður þetta hjónaband fagurt og heillaríkt, af því að báðir aðiljar eru fullir af gæðum. Og þegar presturinn bíður, harmþrunginn og sundurtættur, eftir fyrirsjáanlegu andláti konu sinnar, og efasemdirnar taka að sækja að honum, þá verður ekki nema einn stallurinn fyrir hann að standa á. „Eitt var víst: að ef nokkurt himnaríki var

til, þá færi Ása þangað". Vindur ástarinnar og sorgarinnar var í raun og veru að þeyta burt öllu moldryki kenninganna.

Ljóst vitni um vanþekking manna hér heima á Vestur-Íslendingum er það, að fæstir munu vita neitt um Guðrúnu H. Finnsdóttur. Hún á fjórar sögur í þessu safni, og allar eru þær hver annari betri. Í fyrstu sögu hennar, „Landskuld", kemur fram hinn djúpsetti og eðlilegi ágreiningur landa vorra vestra á ófriðarárunum um það, hvort Íslendingar ættu að fara í ófriðinn. „Af því þeir eru menn", er sagt frá annari hliðinni, „þá bjóða þeir nú þessu landi líf sitt og limu, þegar því liggur á liðveizlu; landinu, sem tók þeim opnum örmum, þegar þeir áttu lítils úrkosta. Það er landskuldin, sem þeir gjalda Kanada, af því þeir eru menn". Frá hinni hliðinni kemur hatrið á ófriðnum, hryllingurinn við eymdinni og kvölunum og tortímingunni og andstyggðin á bænunum um sigur í kirkjum og heimahúsum, bænum, sem alveg eins eru sendar frá óvinaþjóðunum. „Móðurhjartað þar er eins viðkvæmt og bænirnar eins heitar. Guð er algóður faðir allra manna, er okkur kennt". — Ágreiningurinn hefir, svo sem að líkindum ræður, örlagaþrungnar afleiðingar fyrir persónur sögunnar.

Þá er næsta saga hennar, „Fýkur í sporin", átakanlega hugnæm, prýðilega sögð og sennilega nokkuð algeng í veruleikanum. Ingólfur er gamall bóndi, útslitinn eftir margra ára erfiði. Hann hefir komið upp fagurri bújörð, unnið hana úr óbyggðunum, misst konuna í mesta stritinu og alltaf saknað hennar sárt. Börnin hafði hann líka misst — nema eina dóttur á hann eftir, sem er yndi hans og eftirlæti. Hann hafði ætlað henni að verða húsfreyja á heimilinu, sem hann hafði að öllu leyti skapað, giftast einhverjum myndarmanni — Íslendingi. Hann hafði um mörg ár verið að búa sig undir að afhenda dóttur sinni æfistarfið. Og nú er hún að

giftast enskum lækni, sem auðvitað metur starf hans að engu og engan þátt tekur í íslenzku félagslífi. Til hvers var það svo allt? Jörðin orðin lítils virði, nema til þess að bera þar beinin – „ef það yrði þá leyft óátalið, að hann fengi að hvíla við hlið Þórdísar og barnanna". Það er djúpsettur, listrænn þunglyndisblær yfir þessari einkar yfirlætislausu sögu.

Og ekki er síður ástæða til að segja það sama um síðustu söguna hennar í þessu safni, „Undir útfall" svo að ekki sé fleiri getið. Hún er ekki nema tæpar 5 blaðsíður, en þar eru, með dásamlegum skýrleik lögð fram útgjöld og tekjur rúmlega fimmtugrar æfi. Rausnar og myndarbóndinn Ófeigur í Lundi er að halda heim til sín frá lækninum, með dauðadóminn yfir höfði sér, því að læknirinn hafði verið svo hreinskilinn að segja honum, að æfi hans væri bráðum lokið. Konu sinni hafði hann unnað, en einhvern veginn hafði svo farið, að samúðin og gleðin í sálum þeirra hafði þorrið, og að síðustu var risinn upp á milli þeirra veggur, sem hvorugt reyndi að rjúfa. Undirrótin til ófarnaðarins of mikið strit, þreyta og tilbreytingarleysi, er smálamaði alla lífsgleði og samúð. Og nú var spurningin mikla orðin sú, hvort hann gæti þennan stutta tíma, sem hann átti eftir, skilað aftur sólskininu, sem honum hafði verið lánað, eins og trébútarnir, sem voru að hita stofuna hans og brenna til ösku.

Síra Friðrik J. Bergmann hefir ekki, svo kunnugt sé, ritað nema eina sögu á æfi sinni, og hún er í þessu safni. Samkvæmt þeim nánu kynnum, sem ég hafði af þeim mikla fróðleiksmanni og fræðara, get ég tæplega hugsað mér, að þessi eina saga hans yrði um annað en þá aðalhugsun, sem í sögunni er. Skúli, aðalpersóna sögunnar, er þar látinn segja:

„Frá því ég var lítill, hefir mig langað svo óumræðilega sárt til að skilja. Og sú löngun hefir einlægt farið vaxandi, eftir því sem ég hefi skilið fleira. Ég hefi

aldrei haft mikið gaman af að leika mér eins og aðrir unglingar. Það hefir verið mér betra öllum leikum að fá eitthvað nýtt að skilja á hverjum degi. Ég er sannfærður um, að það er lífsins stærsta unun og dýrlegasti ávinningur að fá að skilja". Og síðar segir hann: „Það er ekki síður unun að koma öðrum til að skilja en að skilja sjálfur". Það var þessi ástríða til að skilja og koma öðrum til að skilja, sem ef til vill einkenndi síra F. J. B. flestu öðru fremur.

Mér finnst þetta eiga kynlega vel við um vestur-íslenzku sagnaskáldin yfirleitt. Ég hefi áður bent á það, enda sýna dæmi þau, er ég hefi vikið að — hve fjarri sögur þeirra eru því, sem á nútíðarmáli Reykvíkinga er nefnt „spennandi". Þar er enginn samsetningur ótrúlegra, æsandi atvika. Engin tilraun er gerð til að kveikja bál hálf-bjánalegrar forvitni um úrslit þess aðdraganda, sem enginn getur trúað á. Vestur-íslenzk sagnaskáld eru að leitast við að skilja mannssálirnar, þær mannssálir, sem þeir þekkja sjálfir, það umhverfi, sem þeim mannssálum er skipað í, það líf, sem þær skapa umhverfis sig.

Ekki eru Vestur-Íslendingar allir jafn-alvörugefnir í sögum sínum. Þeir hafa ritað góðar kímnisögur. Ég skal benda á þrjár. Gunnsteinn Eyjólfsson segir okkur söguna af Jóni á Strympu og Ásdísi hans, sem finna upp það snjallræði, til þess að losast við öll skattaútgjöld, að eiga aldrei neitt. — Jóhannes P. Pálsson nær eftirminnilegum og skoplegum tökum á hégómaskapnum í sögunni sinni „Veizlan mikla", — sögunni um veizluna, sem halda á frægum rithöfundi, en lyktar með þeim hætti, að Refill Rosti hleypir ekki heiðursgestinum inn í veizlusalinn, af því að hann er ekki búinn veizluklæðum. — Og Þorsteinn Þ. Þorsteinsson ritar sína dillandi skemmtilegu þætti: „Sögur Vesturfarans". Hér er aðeins tekið sýnishorn af þeim, valið

nokkurn veginn af handahófi, til þess að vekja eftirtekt á þeim.

En það er ekki eingöngu kímni og gaman og hláturs-efni í þessum Vesturfara-sögum Þ. Þ. Þ. — þó að það sé gott verk og göfugt að koma mönnum til að hlæja. Í þeim er þung undiralda af metnaði Vestur-Íslendingsins, þeim metnaði að vera Íslendingur. Það er ekki eingöngu gaman, sem sagt er um afdrif trefilsins frá Stínu, sem klipptur var niður í barnsrýjur, af því að hann var svo mjúkur fyrir botninn á börnunum. „Efast ég ekki um", segir sögumaður, „að hann hefir unnið verk sinnar köllunar ágæta vel. En raunalegur endi alls þess bezta íslenzka er það þó, að leggjast undir botninn á því, sem hér er fyrir".

Þessi bók ber það með sér, meðal margs annars, að sumum þykir nóg um þann metnað. En illa sæti það á oss hér heima að lítilsvirða hann. Af hverju stafar sú metnaðartilfinning? Vitanlega stafar hún af því, að yfir vötnum sálarlífs Vestur-Íslendinga svífur, eins og þessi bók ber svo ljóst og fagurt vitni um, það brot af guðs anda, sem er ást á Íslandi, íslenzkri þjóð og öllu því, sem íslenzkt er.

Full ástæða er til þess að benda sérstaklega á æfintýri þeirra vestmanna. „Sagan af Rósinni í Rio" eftir J. Magnús Bjarnason gerist í Brasilíu. En hún er einkennilega íslenzk í anda, því að langt fram eftir henni býst lesandinn við, að hún sé álfasaga, og að það sé huldupiltur, sem kemur til Lindu litlu. — „Karl litli", járnbrautarferðasaga litla drengsins yfir á Draumamörk, er samboðin hverju heimsfrægu æfintýraskáldi. Og helzt verður að telja „Morgunvindinn", „Gráskegg", „Fyrirför" og „Seinustu lóuna" eftir Stephan G. Stephansson æfintýri. Þau eru, ásamt „Fráfalli gamla Guðmundar stúdents", tekin úr greinaflokki, sem birtist í „Heimskringlu" og höfundurinn nefndi „Ar". Þær af greinum þessum voru valdar, sem mest voru sagna-

eðlis. Annars virtist okkur, er valið gerðum, að ekki hefði fyrst og fremst vakað fyrir skáldinu að segja neinar sögur, heldur að draga sérstaka þræði út úr vef lífsskoðunar sinnar og leggja þá fram fyrir lesandann, eins og þetta „Ar“ St. G. St. væri á nokkurs konar landamærum skáldsagna og ritgerða. Fyrir því lenti það hjá okkur aftast af sögunum, næst ritgjörðunum. Í ritgjörðinni „Endurminning um Stephan G. Stephansson“ lætur J. Magnús Bjarnason þess getið, að á köflunum, sem nefndir eru „Ar“, sé sá sérkennilegur snilldarblær, sem bendi á það, að hefði Stephan ritað eingöngu í óbundnu máli, þá hefði honum verið vísað til sætis á hinum æðsta bekk í musteri heimsbókmenntanna, og óneitanlega er það mjog sennilegt, að ekkert síður hefði kveðið að honum í óstuðluðu máli en sem ljóðskáldi, ef hann hefði fengizt við óstuðlaða málið af jafn-miklu kappi eins og ljóðin.

---

Það ræður að líkindum, að þær ritgerðir eftir Vestur-Íslendinga, sem prentaðar eru í þessari bók, eru minnst af því, sem úr er að velja í þeirri grein. Eftir landa vora vestan hafs liggur aragrúi af góðum ritgerðum, ekki sízt ræðum. Því að Vestur-Íslendingar eru mælskumenn. Svo að hér er eingöngu að tala um lítið sýnishorn. Við höfum leitazt við, eftir mætti, að taka í þetta ritgerðasafn greinir, sem að einhverju leyti einkenna Vestur-Íslendinga, hugsunarhátt þeirra og starfsemi. En við hefðum viljað hafa rúm fyrir miklu meira af því tæi.

Það er engin tilviljun, að ritgerðasafnið byrjar á hinni merkilegu grein Dr. Jóns Bjarnasonar: „Frelsarinn í jötunni; ormurinn á gullinu“. Hún var eitt af því fyrsta, sem hann ritaði, þegar hann hafði komið sér upp tímariti, „Sameiningunni“, og aðalhugsunin, sem þar kemur fram, var ávallt mjög sterkur þáttur í boðskap hans.

Hann er þar að vara við mammonshyggjunni og samruna hennar við vestrænt kirkjulíf. Hann sýnir þar fram á og hefir vafalaust rétt að mæla, að það sé „margfalt hægara að komast hér upp til metorða og tignar, ná trausti almennings til að styðja sig til embætta, fyrir þann, sem kallaður er kristinnar trúar, heldur en þann, sem undir engri slíkri trúarjátning gengur. Og svo verði kirkja Vesturheims einatt svo full af Fariseahætti, að út af flóir". „Ef það er nú rétt, sem naumast verður með rökum vefengt", segir hann, „að fjárgræðgi og mammonsþjónusta sé ríkjandi afl í þjóðlífi þessa lands, en landið að hinu leytinu fyllra af kristnum kirkjum heldur en nokkurt annað land í heimi, þá er auðsætt, að mikið af nútíðarkristindóminum hér er ekkert annað en kalkaðar grafir, fagrar og skínandi að utan sökum trúarjátningarinnar, sem á lofti er haldið, en að innan fullar með dauðra manna bein og allskyns óhreinindi". Og hann segir, að nú syngi kirkjurnar jólalofsöng englanna yfir efnishyggju og mammonsþjónustu aldarinnar.

En því fer fjarri, að þessi óbeit á mammonsþjónustunni og auðvaldstilhneigingunum og óttinn við þær, einkenni Dr. Jón Bjarnason einan meðal Vestur-Íslendinga. Þessa kennir eftirtakanlega mikið í skáldskap þeirra og öðrum ritum. Maðurinn, sem að ýmsu leyti stendur, að því er til hugarstefnunnar kemur, fjærst Jóni Bjarnasyni, Stephan G. Stephansson stendur alveg við hlið hans í þessu efni, eins og öllum er kunnugt, sem nokkuð hafa kynnt sér ljóð þessa mikla skálds.

> „Sjáðu pabba! þræða þanninn
> þessa auðs og kærleiks-götu:
> Góðmennið og gróðamanninn,
> guðhrætt flá og taka á motu",

lætur hann díkónissuna sína segja.

Þegar Sigurbjörn Jóhannsson yrkir „Minni Argyle-

sveitar", sem honum þykir svo undur vænt um, er ein viðvörun efst í huga hans:

„Svo varist hver þann villustig,
er váleg glöp má telja, —
í auðkýfinga þrældóm þig,
sem þjáða ambátt, selja".

Ekki er heldur um að villast samskonar hugsun í kvæði Guttorms J. Guttormssonar: „Bölvun lögmálsins. — Þessi dæmi eru tekin af handahófi. Hver athugull maður, sem les þessa bók, getur margfaldað þau.

Annars þarf ekki annað en líta á næstu blaðsíðurnar eftir að Jóni Bjarnasyni sleppir, þar sem Stephan G. Stephansson kemur enn til sögunnar í þessari bók, til þess, að þetta sama verði fyrir lesandanum. Þó að hann taki það þar fram, að hann hafi „ekkert horn í síðu nytsemdarinnar", og þó að hann telji ekki ómaksverða illdeilu við nokkurn mann, er héldi því fram, að fjórða bænin ætti að standa fremst í „Faðirvori", þá ristir hann þar mammonshyggjunni napurt níð, og heldur jafn-fast fram hinni andlegu hlið á þörfum mannanna og nokkur klerkur gæti gert — þar sem hann segir frá jafnaldra sínum, sem hafði orðið honum samferða til Ameríku fyrir fjörutíu árum. Hann hafði verið „sanngjarn og listhreifur að eðlisfari og vildi vel", en nú var hann orðin úttaugaður öldungur, og eignalaus af annari ánægju en efnum sínum og átti „engar þrár útum vallargarð sinna eigin jarða".

Þessi yndislega grein, sem hér er bent á, „Jökulgöngur", er, auk þess sem hún er viðvörun við mammonsdýrkuninni, lofgerð um íslenzka sveit, fegurð hennar, og lífsgleðina, alúðina, gestrisnina og gróðurinn í hugum mannanna. Það er Mývatnssveitin og fólkið þar, sem hann er að lýsa. Höfundurinn kemur þangað austan af öræfum og heyannir eru að byrja. En um fimmtíu manns koma á móti honum, til þess að fagna honum, og hirða ekki um annríkið þann dag-

inn. Sú höfðinglega alúð, sem þá kom fram hjá Mývetningum, hefir óneitanlega svarað vel kostnaði, þar sem hún varð ekki eingöngu til þess að gleðja Stephan svo hjartanlega, heldur varð líka tilefni til þess að bókmenntir vorar auðguðust að annari eins grein og „Jokulgöngum".

Hin greinin í ritgerðasafninu eftir St. G. St., „Hægt er að þreyja þorrann og góuna", er ræða fyrir minni Íslands flutt í Wynyard. Hún er ein af þeim samúðarfullu og ástríku kveðjum, sem Vestur-Íslendingar hafa sent Íslandi, og full af andríki höfundarins. Það á við hana, ekki síður en munnmælasöguna, sem hann leggur út af og kveður svo að orði um, að hún sé „eins og hringhenda með sigurhljóm í hverjum stuðli". Öll þessi ástúð til Íslands, sem rit Vestur-Íslendinga eru svo full af, og þar á meðal þessi bók, er sannarlega eftirtektarverð. Leikurinn er svo ójafn og einhliða. Það er ekki mikið, sem vér hér heima sendum vestur af svipuðu tæi. Sú var tíðin, að héðan barst ekkert vestur, það er fyrir almennings augu kom, annað en ónot. Vitaskuld var stundum svarað með harðyrðum. En átakanlegt var það samt, þeim er kunnugir voru vestra á þeim tímum, að athuga það kapp, er lagt var á það hér heima, að koma mönnum í skilning um, að Vestur-Íslendingar lifðu í eymd og volæði og menningarleysi, og að þeir hefðu svikið ættjörð sína, og að vita, að samtímis var stöðugt verið að senda fé til Íslands vestan að, peninga, sem af nauðalitlu voru teknir, þar sem allir Vestur-Íslendingar voru þá fátækir, og unnið hafði verið fyrir með súrum sveita. Þeir tímar eru nú um garð gengnir. Nú vita allir, að Vestur-Íslendingar hafa orðið þjóð vorri til hinnar mestu sæmdar í hinni nýju heimsálfu. En samt hefir, því miður, mikið vantað á það, allt fram á þennan dag, að vér hér heima höfum sýnt löndum vorum vestra aðra eins ræktarsemi og þeir hafa jafnan sýnt oss. —

Þessi ræða St. G. St. er eina Íslendingadagsræðan, sem við höfum getað komið að í þessu safni. Það er ekki fyrir viljaleysi af okkar hálfu, að þær urðu ekki fleiri. Um þau 40 ár, sem þessi dagur hefir verið haldinn hátíðlegur með löndum vorum vestra, hefir hann verið hinn öflugasti stuðningur þjóðernismálefni þeirra, meðal annars með þeim hætti, að hann hefir orðið tilefni til mikils fjölda af ágætis ræðum um Ísland, sem okkur hefði þótt sæmd fyrir þetta safn.

Ég kem þá að landnámsgreinunum í þessari bók. Til þeirra tel ég: kaflann „Á Grænavatni“ úr bók Guðbrands Erlendssonar, „Landnám í Albertahéraði“ eftir Jónas J. Hunford, „Jólin í bjálkakofanum“ eftir Friðrik J. Bergmann, „Hugleiðingar um Nýja Ísland“, eftir Eggert Jóhannsson og „Jón Vesturfara“ eftir J. Magnús Bjarnason. Þessar greinir lýsa sumpart landnáminu sjálfu, sumpart lífi manna fyrstu árin. Ein af þessum ritgerðum, „Landnám í Albertahéraði“, er tekin úr hinu merka safni af landnámssöguþáttum, sem birzt hefir í Almanaki Ólafs S. Þorgeirssonar. Vestur-Íslendingar hafa ekki að eins numið landið, heldur jafnframt haft mannrænu til þess að rita landnámssögu sína svo snemma, að hún gat orðið með öllu áreiðanleg. Þeir hafa í því efni, eins og ýmsum öðrum, fetað í fótspor forfeðra sinna. Ekki er það ólíklega til getið, að einhvern tíma á komandi öldum verði þetta heimildarrit jafndýrmætt afkomendum þeirra eins og Landnáma er oss.

Eitt atriði — og að eins eitt — er í þessum ritgerðum, sem mig furðar á. Það er í skemmtigreininni „Jón Vesturfari“, sem höf. hefir samið eftir fyrirmynd franska rithöfundarins Max O'Rells. Hann telur „Jón Vesturfara“ (Vestur-Íslendinga) sparsaman, „allt að því að vera nirfil“. Auðvitað er sú grein samin, þegar ekki voru liðin nema 20 ár frá því er íslenzkt landnám hófst vestra. Og um þær mundir höfðu menn enn

ekki úr miklu að spila. En ég hygg að fullyrða megi, að Vestur-Íslendingar hafi ávallt verið með afbrigðum örlátir og hjálpfúsir menn, í samanburði við efnahaginn. Aðstoð sú, sem þeir hafa veitt allslausum löndum sínum, nýkomnum héðan, hefir verið fyrirmynd. Gestrisni þeirra er takmarkalaus. Peningasendingar þeirra heim til Íslands hafa, að minnsta kosti um tíma, ekki verið neitt smáræði, að öllu samanlögðu. Og minna má á þann þátt, sem þeir áttu í fjárframlögum við stofnun Eimskipafélagsins, sem þeim áreiðanlega kom ekki til hugar að yrði gróðavegur eins og það hefir ekki heldur orðið fyrir þá. Fyrir þeim vakti ekkert annað en ræktarsemin við ættstöðvarnar og fólkið, sem þar býr.

Annars færa landnámsritgerðirnar í þessari bók og aðrar ritgerðir, sem um sams konar efni hafa verið samdar, en ekki komust inn í þetta safn, oss mikilsverðan fróðleik. Þær sýna oss fyrst og fremst, við hve óhemjulega örðugleika landar vorir áttu að etja framan af, hve mikils manngildis var krafizt, hve mikið reyndi á fjölhæfni og kjark og þolgæði og sjálfsafneitun til þess að standast allt og vinna þann sigur, sem mennirnir unnu. „Það fólk, sem þoldi þetta, það fólk, sem barðist þessari baráttu og sigraði, það var göfugt fólk, tápmikið fólk, íslenzkt fólk", segir Dr. Björn B. Jónsson í ræðu, sem kafli er prentaður úr í lesarkasafni Jóns Ófeigssonar, „Heima og heiman".

Landnámsritgerðirnar sýna oss líka meðal annars þá djúpsettu skipulagshneigð, sem með þessum mönnum hefir búið. Ég leyfi mér að taka hér upp nokkurar línur úr þessum ræðukafla eftir Dr. B. B. J., sem þegar hefir verið minnzt á:

„Þegar Íslendingar námu vesturströnd Winnipegvatns sunnanverða, var landið ómælt og að mestu leyti fyrir utan lög og dóm. Svo langt norður náði Manitobafylki þá ekki. Landið nefndist District of

Keewatin og var háð yfirstjórninni í Kanada einni. Þegar hinn fyrsta vetur mældu Íslendingar sjálfir landið og skiftu því í bújarðir eftir lögum þeim, sem um það gilda hér í álfu. Hinn næsta vetur, 1877, gerðust þau tíðindi, er ég hygg einsdæmi vera munu í nýbyggðum Vesturheims. Nýlendulýður þessi hinn íslenzki stofnar nokkurs konar lýðveldi hér á vatnsbakkanum. Lýðfundir eru haldnir og stjórnarfyrirkomulag ákveðið. Lög eru samin fyrir nýlenduna. Nýlendunni er skift í sýslur (byggðir), kosnir sýslumenn eða byggðarstjórar í hverri sýslu og sýslunefnd (byggðarráð). En yfirstjórn nýlendunnar er í höndum nýlenduráðsins, en það skipa byggðarstjórarnir 4 og yfirmaður sá, er nefndist ‚þingstjóri' (governor). Það æðsta embætti skipaði Sigtryggur Jónasson. Einhvern tíma kemur sú tíð, að í sögu Kanada verður frá þessu skýrt sem einhverjum einkennilegasta og aðdáanlegasta viðburði í sögu landsins á landnámstíð".

Nokkrum árum síðar var Keewatin, og þar á meðal Nýja Ísland, tekið inn í Manitobafylki. Þar með var endir bundinn á hið einkennilega, íslenzka þjóðskipulag innan Kanada. Nú réðu Vestur-Íslendingar ekki lengur yfir neinni stjórnarskrá. Á landsmál gátu þeir ekki að sinni haft nein verulég áhrif. Til þess voru þeir of fáir. Þar af leiðandi snerist tilhneiging þeirra til skipulagsbundins félagsskapar mest að kirkjumálunum. Í þeim málum hefir komið fram svo mikil röggsemi og svo ósleitileg barátta fyrir samheldni um trúarskoðanir þeirra, að hverjum sanngjörnum manni hlýtur að þykja mikils um vert. Óhætt mun að fullyrða, að í þann félagsskap hefir verið lagt meira starf, og meiri fórnfýsi kennt þar, en dæmi eru til um nokkurn félagsskap hér á landi.

Vestur-Íslendingar líkjast í mörgu — líklegast í öllu — þeim forfeðrum þeirra, er námu Ísland fyrir meira en 1000 árum. Þeir líkjast þeim í þeim mannkostum,

sem minnzt hefir verið á hér að framan. Þeir líkjast þeim líka í kappgirninni, eins og í raun og veru má búast við af þeim þrekmönnum, sem þeir hafa reynzt. J. Magnús Bjarnason orðar þetta svo í grein sinni um „Jón Vesturfara“: „Í innsta eðli sínu er Jón róstugjarn og skapmikill, og þolir illa yfirgang, en hann skeytir sjaldan skapi sínu á öðrum en sínu eigin hyski (löndum sínum), og á aldrei í illdeilum við nokkurn lifandi mann nema sjálfan sig. Hann segir sjálfum sér óspart til syndanna, því hann er maður hygginn og harður“. Stundum hefir oss vaxið það í augum hér heima, hve róstusamt hefir verið með löndum vorum vestra. Ekki er það fyrir það, að vér séum hótinu betri í þeim efnum. Menn hafa átt örðugt með að átta sig á þessu hér, af því að Vestur-Íslendingar deila um annað en oss verður tíðast að ágreiningsefni. Undirrótin til deilna hjá þeim er langoftast kirkjumál. Hér er það stjórnmálin. Vestur-Íslendingar hafa stundum hneykslast á því, hve harðar illdeilur vorar séu á því sviði. Sannleikurinn er sá, að hvorugir hafa öðrum um neitt að brigzla.

Atferli Íslendinga í Nýja Íslandi var að fleira leyti ólíkt atferli annara frumbyggja í óbyggðum Vesturheims en því einu, að þeir settu sér stjórnarskrá og lög. Fyrsti innflytjendahópurinn kom þangað 21. október 1875. Tæpum tveim árum síðar hafa þeir komið sér upp prentsmiðju og blaði í fámenninu og fátæktinni. Fyrsta tölublaðið kom út í sept. 1877. „Prentsmiðjan og blaðið“, segir Dr. Björn B. Jónsson, „eru óræk sönnunarmerki þess, að án bókmennta fær íslenzk sál ekki lífi haldið. Án bókmennta gátu nýlendumenn ekki unað æfi sinni árinu lengur“.

Það má með sanni segja, að þá beygðist krókurinn snemma til þess, er verða vildi. Langskýrasta einkennið á Vestur-Íslendingum hefir bókmenntatilhneigingin verið. Það hefir aldrei komið fyrir í Vesturheimi,

norðan frá Íshafi og suður á syðsta odda Eldlandsins, að jafn-fámennur þjóðflokkur hafi látið frá sér fara jafn-mikið af prentuðu máli, eins og blöð Vestur-Íslendinga eru, tímarit og bækur. Ekki þarf að taka það fram, að þetta prentaða mál er misjafnt að gæðum frá bókmenntalegu sjónarmiði. Svo er með öllum þjóðum. Og svo er í þessu efni tvenns að gæta. Tilhneigingin til að rita er bersýnilega óvenjulega algeng með löndum vorum vestra. Ekki eingöngu í samanburði við aðra þjóðflokka þar. Enginn samanburður kemur þar til neinna mála. Heldur líka í samanburði við íslenzku þjóðina hér heima. Að hinu leytinu hefir ekki að jafnaði jafn-mikilli gagnrýni verið beitt af ritstjóranna hálfu þar eins og tíðkast annarstaðar „Allt er birt og allt er birt", segir „K. N." í einni skopvísunni sinni. Það stafar sumpart af því, að blöðin eru tiltölulega stór, en ekki að sama skapi mikill fastur starfskraftur við þau. En að nokkuru leyti á það líka rót sína að rekja til þeirrar, nokkuð öfgakenndu, alþýðulegu hugsjónar, að gott sé að láta hvern mann fá tækifæri til þess að koma því fyrir almenningssjónir, sem hann kann að langa til að segja.

Þetta — að svo mikið hefir verið prentað vestra af því, sem að minnsta kosti mörgum virðist ekki hafa verið full ástæða til að birta, hefir sjálfsagt meðfram valdið því, að allt of mörgum hefir sézt yfir það, sem mikilvægt er í ritum Vestur-Íslendinga. Víst er um það, að almennt hafa menn hér heima alls ekki haft fulla meðvitund um þann merkilega skerf, sem landar vorir í Vesturheimi hafa lagt til íslenzkra bókmennta. Ég efast mjög um, að Vestur-Íslendingum sjálfum hafi verið það full-ljóst fram að þessu, nema ef til vill tiltölulega fáum mönnum. Vonandi verður þessi bók allskýr bending í þessu efni, þó að hún sé ekki og geti ekki verið annað en sýnishorn.

Í nánu sambandi við bókmenntahneigð Vestur-Ís-

lendinga stendur auðvitað það afarmikla kapp, sem þeir leggja á það að koma börnum sínum til mennta. Og að sjálfsögðu er, að hinu leytinu, gengi þeirra í Vesturheimi því að þakka, að börn þeirra fá menntun. Í því sambandi finnst mér ég geti ekki hjá því komizt að tilfæra kafla úr merkilegri ritgerð í síðasta bindi Þjóðræknisfélags-tímaritsins um Vestur-Íslendinga eftir síra Jónas A. Sigurðsson. Hann segir þar:

„Við það ber að kannast, að vér Íslendingar höfum ekki höfðatölunni til að dreifa. Vér erum til muna mannfærri en Kínverjar og Rússar. Aftur á móti er Vestur-Íslendingurinn jafnan framarlega eða fremstur í þeim mannhóp. er hann heyrir til. Hann er læknir eða lögmaður þorpsins. Hann er póstmeistarinn eða bankastjórinn, kaupmaðurinn, kennarinn, og á sæti í bæjarráðinu. Hann flytur fyrirlestra um land allt og syngur fyrir fólkið, og stundum eru lögin og ljóðin eftir Íslendinga. Vestur-Íslendingar hafa ekki setið hér auðum höndum þau 50 ár, eða rúmlega það, sem þeir hafa átt aðsetur í Ameríku. Meðal þeirra eru rithöfundar, skáld, tónskáld, blaðamenn, bókaverðir, dómarar, löggjafar, lögmenn, læknar, prestar, prófessorar, kennarar, lögregluþjónar og menn, er hafa á hendi margvísleg stjórnarembætti og umboðsstörf. Iðnað stunda þeir margir. Eru rafmagnsfræðingar eða sérfræðingar í ýmsum vísindum; stóriðjuhöldar, smiðir, bændur, sjómenn, námsmenn og verkamenn. Vestur-Íslendingar hafa reynzt námsmenn með afbrigðum. Í mörgum skólum hérlendis er það ekki talið fágætt, að Íslendingar skari fram úr. Verðlaunin hafa þeir jafnaðarlega borið frá borði. Í Kanada hafa Vestur-Íslendingar oftar en einu sinni lagt til Rhodes nemendur. Mun það tæpast ofmælt, að eins og karlmennska víkinganna þótti frábær til forna, að jafnannálsverðir þyki nú námshæfileikar íslenzkra lærdómsmanna. Þótt íslenzk þjóð sé fámenn og alin við

baráttu hefir hún jafnan verið öðrum fremur bókfróð og átt þann metnað að mennta afkomendur sína. Þekking og dyggðir hafa lengi verið þjóðarauðlegð Íslendinga.

„Að safna ýtarlegum skýrslum um námsferil allra Vestur-Íslendinga í 50 til 60 ár, væri ærið æfistarf, eins og hér hagar til, því Íslendingar hafa stundað nám við æðri skóla um alla þessa víðlendu álfu, síðan þeir fluttust hingað. Engin slík gögn eru heldur fyrir hendi. En einn hinna fjölfróðu Vestur-Íslendinga hefir bent mér á, að frá einum háskóla (University) hér vestra hafi útskrifazt um 90 vestur-íslenzkir námsmenn. Og þó er sá skóli til muna yngri en landnám Íslendinga hér. Tel ég þetta dæmi merkilega hugvekju.

„Ógerningur er að setja hér fram skrá um opinber störf, sem Vestur-Íslendingar skipa eða hafa haft með höndum, þá hálfu öld, sem þeir hafa dvalið í Bandaríkjunum og Kanada. Hygg ég það á einskis manns færi enn sem komið er. En á þessum 50 árum hér vestra hafa Íslendingar lagt fósturlöndunum til: Heimsfrægan landkönnuð, ríkis-yfirdómara, fylkis-ráðherra, dómsmálastjóra, tvo þingmenn í þjóðþingi Kanadamanna, um tuttugu Íslendinga, er átt hafa sæti á löggjafarþingum, nær þrjá tugi háskólakennara, um fjörutíu lækna og yfir fimmtíu presta. Allmarga lyfjafræðinga er mér kunnugt um, og um þrjátíu lögfræðinga. Íslendingar hafa verið bókaverðir við ýms stórmerkileg söfn hér vestra. Vestur-Íslendingur er forseti eins stærsta verkamannafélagsins í heimi. Vestur-Íslendingur lögsækir eitt ríki Bandaríkjanna fyrir hönd munaðarleysingja, er ríkið misbauð á hryllilegan hátt, vinnur málið; vekur mannúð um allt land, og verður beinlínis til þess að breyta hegningarlögum ríkisins. Vestur-Íslendingar hafa framleitt íþróttamenn, listamenn og sérfræð-

inga í ýmsum greinum og fræðum. Þeir af þjóðflokki vorum, sem kenna í miðskólum og barnaskólum, verða ekki taldir; svo almennir eru þeir vor á meðal. Af blaðamönnum, rithöfundum og skáldum erum vér líklega hlutfallslega auðugastir allra manna. Ég hefi talið saman nálega 30 íslenzk blöð og tímarit, sem út hafa komið þessi ár meðal Íslendinga í Ameríku. Efalaust hefir þó eitthvað fallið úr þeirri tölu. Einnig er ótalið með öllu allt starf Íslendinga við ensk blöð og ritgerðir. Á því sviði eigum vér þó ýmsa stórvirka þjóðbræður. Ýmsir Íslendingar starfa við stórblöð þjóðanna hér vestra, eða gefa út blöð á ensku, svo sem Gunnar B. Bjornsson. Marga aðra mætti nefna, er getið hafa sér góðan orðstír. Meðal höfunda, er á ensku rita af Vestur-Íslendingum, má sem dæmi nefna Vilhjálm Stefánsson og Láru Salverson, er, auk ritgerða, hafa samið margt bóka á enska tungu. Margra annara væri skylt að geta. Bókagerð meðal Vestur-Íslendinga er heldur ekkert smáræði. Þær bækur skifta tugum. Eru þær og um hin fjolbreyttustu efni, þótt hér sé ekki rúm til að greina nánar frá þeim ritstörfum. En athyglisvert er, að fyrstu sjálfstæðu skáldsöguna, sem hér er rituð, nefnir höfundurinn „Vonir". Vonir voru arfur Íslendinga. Vonir lágu hér í loftinu. Íslendingar eru ung þjóð, ungir sem landnemar hér vestra, og útsýn þeirra er útsýn æskunnar".

Ekki getur það dulizt neinum, sem þessa bók les að ég nú ekki tali um þá, sem lesið hafa „Andvökur" Stephans G. Stephanssonar að Vestur-Íslendingar hafa sýnt góð tok á því að lýsa vestrænu landslagi og öðrum náttúrueinkennum. Við hofum tekið tvær ritgerðir af því tæi í þessa bók, eftir Dr. Björn B. Jónsson og Dr. Rögnvald Pétursson. Önnur er um einn fegursta og tilkomumesta staðinn í veröldinni, Yellowstone Park. Hin er um eitthvert ömurlegasta land-

flæmið í Kanada, og jafnframt er hún stuttorð en ógleymanleg lýsing á útilegumannalífinu þar. Ekki þarf að efast um það, að menn lesa með mikilli athygli svo glöggar lýsingar á þessum fádæma andstæðum jarðarinnar.

Hér að framan er það tekið fram, að við hefðum óskað að hafa meira rúm fyrir ritgerðir Vestur-Íslendinga. Hér skal einnar getið sérstaklega, sem við teljum miður farið, að ekki komst að. Það er ræðan, sem síra Jónas A. Sigurðsson flutti á Norðmannaþinginu í Camrose 5. júlí 1926 og prentuð er í Tímariti Þjóðræknisfélagsins s. á. Hann kom þangað sem fulltrúi Þjóðræknisfélags Íslendinga og var settur á ræðumannaskrána. Hann notaði þetta tækifæri til þess að leiðrétta þann norska misskilning — eða hvað það nú er — að Leifur heppni hefði verið Norðmaður. Hann sannaði hátíðagestunum með órækum rökum, að Íslendingur hefði hann verið. Ekki er ólíklegt, að Norðmenn hefðu heldur kosið eitthvert annað efni í hátíðarræðu, sem þeim var flutt. Og auðvitað var ræðan um fleira en þetta, einkar ástúðleg í Norðmanna garð, svo sem vera bar, og allir tilheyrendur hljóta að hafa fundið, að hún var skemmtileg og hin skörulegasta. En trúað gæti ég því, að eftir á hafi þeir bezt munað eftir kaflanum um Leif, og ekki fundizt hann eiga sérstakt hátíðarerindi til sín. Hvað sem um það er, fór ræðumaður ekki eftir neinum hugsanlegum óskum Norðmanna í því efni. Hann stóð þar sem fulltrúi Íslendinga og þeirra erindi var hann að reka. Þetta er eitt dæmi þess kapps, er Vestur-Íslendingar leggja á það að halda uppi sæmd Íslands út á við í hvívetna. Óhætt er að fullyrða, að ef landar vorir vestra gerðu það ekki, mundi enginn gera það. Þegar Leifs-myndin kemur hingað heim, verður hún fyrst og fremst fyrir aldna og óborna skýrt, áþreifanlegt og eftirtakanlegt minnismerki þeirrar starfsemi. Því

að vitanlega eigum vér henni að þakka þennan sæmdar- og góðvildarvott Bandaríkjanna.

Ég er þá kominn að sjálfu þjóðernismáli Vestur-Íslendinga, eins og grein er fyrir því gerð í síðustu ritgérðunum í þessari bók, af þremur af leiðtogum málsins, prestunum Guttormi Guttormssyni, Guðmundi Árnasyni og Ragnari E. Kvaran. Við því ætti að mega búast af öllum skynsömum og þjóðræknum Íslendingum, að þeir láti sér ekki standa á sama um það mál — láti sér ekki standa á sama um það, hvort vér eigum í hinni miklu Vesturálfu heimsins, mitt í þyngsta straumi nútíðarmenningarinnar, marga tugi þúsunda af gáfuðum, mikilsmetnum, framkvæmdarsömum mönnum, sem vilja vera bræður vorir, halda uppi tungu vorri, sækja andlegt lífsmagn í bókmenntir vorar, endurminningar og þjóðerni vort allt, leggja mikilsverðan skerf til bókmennta vorra og efla sæmd vora og hagsmuni með öllum þeim hætti, sem þeim er unnt, með veraldarinnar magnmestu þjóðum — eða hvort vér eigum að glata slíkum hlunnindum. Allir þeir, sem ekki láta sér standa á sama um þetta — og sannast að segja get ég ekki hugsað mér það um nokkurn heilvita Íslending, ef hann fæst að eins til þess að íhuga málið — þeir ættu að lesa með athygli þessar vönduðu ritgerðir. Þær skýra það svo ljóst og skilmerkilega, hvernig málið horfir við frá sjónarmiði þjóðrækinna Vestur-Íslendinga, hver rök þeir færa fyrir þjóðernisbaráttu sinni, hvert þeir vilja stefna með hana og við hver andstæð öfl þeir eiga að etja.

Þessar ritgerðir eru allar teknar úr hinu ágæta ársriti, sem heitir „Tímarit Þjóðræknisfélags Íslendinga“. Það er eins og það sé ekki tilviljun ein, sem veldur því, að þeir eru allir prestar, sem „Tímaritið“ hefir fengið til þess að gera þessa samstæðu grein fyrir málinu, hvern frá sínu sjónarmiði. Kirkjufélagsskapn-

um hefir viðhald íslenzkunnar í Vesturheimi verið langmest að þakka, enda hafa leiðtogar þess félagsskapar, hvern flokk sem þeir hafa fyllt, verið hinir ákveðnustu Íslandsvinir og rammíslenzkir menn — menn eins og Dr. Jón Bjarnason, síra Friðrik J. Bergmann og Dr. Rögnvaldur Pétursson, svo að ekki séu nefndir nema einn af hverjum flokki. Það getur víst engum dulizt, hver feikna-stuðningur íslenzku þjóðerni er í því, að stöðugt sé prédikað í kirkjunum á íslenzku, barnafræðsla um trúmál fari fram á íslenzku, fundahöld og skemmtanir, sem standa í sambandi við kirkjufélagsskapinn sömuleiðis o. s. frv. Og líka ber þess að gæta, að þó að sá félagsskapur hafi ekki átt beinan þátt í útgáfu allra blaða og tímarita, sem komið hafa út með Vestur-Íslendingum, þá hefir hann átt mikinn óbeinan þátt í miklu af þeirri starfsemi. Í þessu efni erum vér í þeirri þakkarskuld við kirkjulegan félagsskap Vestur-Íslendinga, sem seint verður metin að fullu.

En svo varð mönnum það að lokum ljóst, að nauðsynlegt var að leggja breiðari og almennari grundvöll undir þjóðræknisstarfsemina en kirkjumálin geta verið. Í öllum þessum þrem ritgerðum kemur það fram, að menn hafa fundið til þess á síðari árum, að þeir eru staddir á nokkurum tvísýnu-tímamótum með íslenzk þjóðernismál. Einn höfundurinn orðar það svo, að öll íslenzk hugsjónamál séu dauð þar um aldur og æfi, ef þeim verður ekki komið í nokkurt horf á næstu árum. Út af meðvitundinni um þessa hættu hefir „Þjóðræknisfélag Íslendinga“ verið stofnað.

Og þó að einhverjum kunni að þykja hart, að það sé sagt, þá er það samt sannleikur um Vestur-Íslendinga, að hugsjónamál sín sækja þeir af því kappi og ötulleik og fórnfýsi, sem engin dæmi eru til hér á landi, og mönnum hér heima veitir örðugt að skilja. Svo hefir verið um kirkjumálin, og sama er að segja um

þjóðræknismálið, síðan er þeir einangruðu það frá öðrum málum og fóru að láta það standa á sínum eigin grundvelli. Það verk, sem í það hefir verið lagt að efla þetta félag og halda því saman, örva áhugann og skilninginn á því, sem íslenzkt er, á samvinnu þeirra manna í Vesturheimi, sem af íslenzku bergi eru brotnir, og á ástúðar-sambandi við Ísland, er svo mikið, að fæstir hér heima munu geta gert sér það í hugarlund.

Og nú virðist mér sú spurning liggja beint við. Er það oss vansalaust hér heima, að láta þetta mikla starf, sem er svo mikilvægt fyrir oss, alveg afskiftalaust? Er það drengilegt að standa hér í fjarlægð, ef til vill með tómlætisbros á vörunum, og hafast ekkert að til þess að rétta slíkri starfsemi hjálparhönd? Ber það ekki vitni um einhverja einfeldnis-fásinnu að vita ekkert, eða láta sem vér vitum ekkert um það, sem er að gerast með bræðrum vorum vestan hafs í þessu efni?

Mér virðist það bersýnilegt, að vér eigum að veita þeim ósleitilegan stuðning, eins og líka aðrar þjóðir veita þjóðræknisbaráttu sinna landa í Vesturheimi. Vér eigum að grennslast eftir, hvers stuðnings þeir æskja. Vilja þeir mannhjálp? Vilja þeir fjárstyrk? Allt ætti að vera sjálfságt og meira en velkomið frá vorri hálfu.

*Þó þú lang-förull legðir*
*sérhvert land undir fót,*
*bera hugur og hjarta*
*samt þíns heima-lands mót,*
*frændka eldfjalls og íshafs!*
*sifji árfoss og hvers!*
*dóttir langholts og lyngmós!*
*sonur land-vers og skers!*

*Yfir heim eða himin*
*hvort sem hugar þín önd,*
*skreyta fossar og fjalls-hlíð*
*öll þín framtíðar lönd!*
*Fjarst í eilífðar útsæ*
*vakir eylendan þín:*
*nóttlaus vor-aldar veröld*
*þar sem víðsýnið skín.*

*Það er óska-land íslenzkt,*
*sem að yfir þú býr —*
*aðeins blómgróin björgin,*
*sérhver bald-jökull hlýr,*
*frændka eldfjalls og íshafs!*
*sifji árfoss og hvers!*
*dóttir langholts og lyngmós!*
*sonur land-vers og skers!*

Stephan G. Stephansson.

## Sigurbjörn Jóhannsson

---

### *TIL LANDA MINNA*

Eg fer af stað í fátæklegum klæðum
að finna ykkur, kæru landar minir.
Mér bárust aldrei blóm frá mennta hæðum,
það búningurinn ljóða minna sýnir.
Þau skreyttu fötin aldrei eignast hef' eg,
og að mér sama forna kuflinn vef eg.

Eg ólst við mennta armóð Snælands dala,
og ekki heldur lærði eg að þegja.
Á heiða auðn í einverunni smala
mín orð eg fór í stuðlaföll að hneigja,
og ljóðaruglið lét eg vin minn heyra,
hann lof því gól og sagði: „Kveddu meira“.

Eg gjörði það, eg gegndi ljóða kvöðum,
en gagnyrðin var miður hirt að brúka,
það streymdi frá mér stefjarusl á blöðum
og stökur lét eg jöfnum höndum fjúka.
Það gleymt er nú og glatað flest að kalla
og gjörvalt hefði þannig átt að falla.

Við orf og reku oft eg samdi kvæði
og yfir hjörð um sumar jafnt og vetur,
en oftast þó í næturvöku næði.
Í nætur kyrrð sá andinn jafnan betur,
þótt fyrir ljós mitt löngum drægi skugga
í líki svölu hamhleypan á glugga.

Eg kvað ei til þess skáld eg teljast skyldi,
en skást mér féll að hugsa þó í ljóðum.
Eg kvaðir minna vina gjöra vildi
og vífin náðu á mér tökum góðum,
að neita þeim var næstum óhugsandi,
þótt nokkur stundum fylgdi þessu vandi.

Svo hef' eg flest í ýmsra anda kveðið.
Minn eigin reikning sýna nokkrar stökur.
Það dimmdi oft og dapurt varð þá geðið
við dagsins strit og leiðar nætur vökur.
Að fjöldans augu aldrei ljóð mín sæi,
mín ætlun var, þótt skræður víða lægi.

En fyrir hvatning vildar-vina minna
eg vinsa fór úr blendnu ljóða moði,
en slíkt er ekki vandalaust að vinna,
þótt víl og kvörtun bæti ei né stoði.
En móti vilja mörgu rúm hér gef eg,
og móti vilja ýmsu kastað hefi' eg.

Eg fæ mér skjól í flokki líka minna,
sem flögra lágt og ei að grunni kafa,
en svimar við að horfa upp til hinna,
sem hátt á mennta tindinn klifrast hafa.
Eg virði þá, en þekki mína galla
í þröngsýninu lágt á neðsta hjalla.

Eg árs og friðar óska löndum mínum.
Og ungling hvern, sem fræðast vill og mannast,
að menntagyðjan beri' á brjóstum sínum. —
Hvert blóm á vori mest er þörf að annast. —
Svo kjarkveik strá ei kulda hretin beygi,
og krepptar sálir færri þjóð vor eigi.

Svo flýr minn ljóðafugl á ykkar náðir.
Hann fá þarf skjól, því oft blés kalt á móti.
Hans rödd er veik og vængjastúfar hrjáðir
af volki löngu heims í ölduróti.
Þó gegnum allt hann sól og sumri unni,
en svartnætti og éljum illa kunni.

## *MINNI ARGYLESVEITAR*

Þú skógar hæðum girta grund,
með gleði skal þess minnast,
er landar sóttu fyrst þinn fund
og fýsti þér að kynnast.
Þá brosti ljúft, með litskreytt föt,
við landnáms manna sjónum,
þín blómrík auðna, bunguð, flöt,
með beltum skógi grónum.

Og hlýtt var þeim um hjarta rót,
er hauðurs unnu gróða.
Sem blómleg, fjáð og broshýr snót,
þeim bauðstu faðminn góða.
Þú gafst þeim kjark í hug og hönd,
er hagsæld myndi flýta.
Þeir tengdu við þig tryggða bönd,
er trautt þá fýsir slíta.

Þú breiddir fóstru faðminn þinn
mót forna Íslands sonum.
Þar byggði hver upp bústað sinn,
er bjargvænt þótti honum.
Þeir vissu, auðs var efna gnótt
hjá ungri fóstru sinni,
og viku hönd til verka skjótt,
að venda skikkju þinni.

Og eftir liðinn ára tug,
má óræk vitni líta
um landnemanna dáð og dug,
þinn dulinn auð að nýta.
Vér göngum á þinn hæsta hól
á heiðum júlí degi,
að litast um þín bænda ból
og breyting dylst oss eigi.

Nú fátt vor augu fyrir ber
af frumbúningi þínum.
Þar akra geimur gróinn er
og girtur varnar línum.
Hver hæð nú líkist eyðiey
á öldufleti grænum
og húsið hvert sem fljóti fley
í friðar kyrrð á sænum.

Þar fjörug golan fer með leik
um fylking hveitistráa,
með gildleg höfuð græn og bleik
og granna leggi háa.
Þau iða líkt og alda kvik,
sem ýmist rís og lægist.
Sá báru dans við brauta strik
sem bakka rendur hægist.

Vor hveitiauðga blómleg byggð,
þér blessuð ársæld skýli,
en forsjá holl og drengskaps dyggð
æ drottni' á hverju býli.
Svo varist hver þann villustig,
er váleg glöp má telja, —
í auðkýfinga þrældóm þig,
sem þjáða ambátt, selja.

Já, kæra Argyle, frjáls og frjó,
í friðar örmum búðu
með glaðvært líf, en gætni þó,
og gróðri mennta hlúðu.
Svo Íslands niðja óðal kært
þú æ með sóma heitir,
á meðan röðulskinið skært
og skúr þér gróða veitir.

## *VONDRA RÓG EI VARAST MÁ*

Vondra róg ei varast má,
varúð þó menn skeyti,
mörg er Gróa málug á
mannorðs þjófa Leiti.

## *HÖFUNDI ÚTHÝST*

Héðan frá þótt hrekjast megum,
heims hvar þjáir vald,
skála háan allir eigum:
uppheims bláa tjald.

## *FERÐBÚINN TIL VESTURHEIMS*

Fyr eg aldrei fann, hvað hörð
fátækt orkað getur.
Hún frá minni móðurjörð
mig í útlegð setur.

Eftir hálfrar aldar töf,
ónýtt starf og mæði,
leita eg mér nú loks að gröf
langt frá ættar svæði.

## *STRANDIÐ*

Knör með sprunginn hætt eg hrekst
heims við klungurfjöru,
á mig drungi dapur leggst
dauðans þungavöru.

## *ER ÞAÐ MÖGULEGT*

Fær minn andi endurbót
æfi hraknings tíðar?
Getur skeð, að reyrs af rót
rísi pálmi síðar?

## *FERÐALAGIÐ*

Minn uxagang nota í veröld eg verð,
en við það ei sálina festi,
eg létti mér upp, þegar lýkur hér ferð,
um ljósheim á vængjuðum hesti.

## Stephan G. Stephansson

---

*ÁRFERÐI Í ALBERTA*

Við förum á skautum og skíðum.
við, skaplettu fjallanna börn!
Og fleygjumst um fannir í hlíðum
og flug-hála svellið á tjörn
í júlí.

Við liggjum í grasinu græna
og góðviðrið þömbum í teig,
við laufspá hjá lundinum væna,
um loft sigla regnskýin fleyg
á þorra.

Hún kann ei, hún Alberta unga,
að aga sinn geðþótta skár,
né storkna í staðviðra drunga,
né stilla um veðranna þrár
í júlí, á þorra.

Hún gerir það bara sem gaman,
að gáskast að sérhverri átt.
Því fléttar hún fimlega saman
sinn fjölbreytta árstíða-þátt
úr júlí, úr þorra, úr þorra, úr júlí.

## *FRÁ NÝJU NÁGRENNI*

Hér, þar sem Red Deer rennur
úr „Rockies“ austanvert,
út milli ása og kvosa
um Alberta-héraðið þvert,

hirðingjar aðsetur hafa
og hjarðir um barð og laut
dreifðar. — Og sumt eru sauðir,
en sumt eru mannýg naut.

Andskotans uppgjafa-þjónar
og embættisleysingjar guðs
hér gaufast, sem Grikkir hjá Leþe,
í gleymsku alls boðorða-suðs.

## *MINNI ALBERTA*

Þú fagra sveit í fjalla arm',
vor fóstran unga, nýja,
sem vermir milt þinn mjúka barm
við morgunsólu hlýja,
með silfurtæru fljótin fríð,
með flöt og kletta-hallir,
og marga græna grenihlíð
við gljáar vetrar-mjallir.

Sem réttir dala-faðminn fram
með fellum, hólum, skörðum
og mörgum hlé-skóg, hlýjum hvamm,
til hælis veðurbörðum.
Með grænna slétta gárótt höf,
sem golur aldrei hræra,

með hundrað vatna heiðblá tröf
og hlíða-læki tæra.

Með náttbjart vor, með norðurljós
á nyrzta jökulhorni,
með hrímið hvítt um rauða rós
á rökum sumarmorgni.
Með vorrjóð, þykkleit þorra-ský,
sem þeysa um sólar-glampa,
unz þýðu-brosin hreyfast hlý
um hrímga vetrar-kampa.

Þú fóstran ung, sem fjöll þig kring,
hjá frelsi og þjóðheill vaktu,
og að þér margan Íslending
í útlegð sinni taktu —
en spenntu lengst þitt fjalla-fang,
með frosti og jökulstáli,
á móti auðvalds yfirgang'
og ofsa-trúar báli.

## *SVEITIN MÍN*

Brávellir, brekkuhöll,
bláfell og klettafjöll
útskorin dölum og drögum.
Espihóll, áin blá,
engiland, móa-flá,
lundar í harðlendis högum.

Hækka upp vestrið við
víðlendis yfir mið
sólundir heiðblárra hæða.
Glaðviðris gróin ró

glóir um sumarskóg,
varmár um víðidal þræða.

Hátt uppi hrika-fjöll
hefjast og blika öll
iðandi í árdegis hilling.
Óskýjuð austan sól
uppljómar dal og hól,
rjóðrar á grástakka gylling.

Sjónfögur sveitin mín,
sól þegar heitast skín
einn með þér gott er að ganga.
Hlær við mér hugsun ný,
hljóðlátt sem vaknar í
sérhverju dalverpi og dranga.

Þykist eg sama sjá
svipinn og þekkja á
framdal og fjallbungu hvelfdri,
þann sem ber móðir mín
mjallhvít, hún systir þín!
Þú ert samt þroskaðri — eldri.

## *GRENI-SKÓGURINN*

Þar sem öllum öðrum trjám
of-lágt þótti að gróa
undir skugga-holtum hám,
hneppt við sorta-flóa
spraztu háa, gilda grön,
grænust allra skóga.

Þér hefir víst á vetrum þrátt
verið kalt á fótum:

Svell við stál-hart, sterkt og blátt
stappa votum rótum,
berja frost úr fagur-lims
fingri og liðamótum.

Varð þér ekki yndis-snautt
útsýnið? — við holtin
ginið fúa-fensins autt,
forar-gleypan soltin.
Yfir brekkan graslaus, grett
gulan teygði út skoltinn.

Samt þú vóxt og varðst svo há,
viðir laufi klæddir
— sem þó vóru ofan á
undir-hleðslum fæddir —
teygja sig þinn topp að sjá,
teinar veður-mæddir.

Þegar náhvít aljörð er,
upp er hríðir rofa:
kræklótt lauf-eik kalin, ber,
króknuð skógar-vofa,
bandar grein sem glentri hönd
grárri af kulda-dofa.

Alein grær þú gaddinn við
greni-skógar hlíðin,
sem þar óhult eigi grið
útlæg sumar-tíðin —
blettur lífs á líki fróns,
lands og vetrar prýðin!

Skugga jarðar út úr ung
algræn fyrst þú smýgur,

gegnum vetrar-veðrin þung
vex og grænni stígur.
Unglegt bar þitt, lim né lit
lætur ei unz þú hnígur.

— Margur grær sem grenitrén
gusti vetrar strokin:
starir í botnlaus fúa-fen
fólks um andann lokin.
Kjálkagulur yfir er
oddborgara hrokinn.

Upp úr skugga og sagga-svörð
sífrjó blöðin greinast,
varmalaust í vetrar-jörð
vonar-rætur leynast.
Bognar aldrei — brotnar í
bylnum stóra seinast.

## *DAGSETUR*

### I.

Sit ég hátt í hlíðar-skeið —
hnígur sól við jökul-breið,
rauðu leiftri roðar hún,
reistum fjalla-kömbum á
ljósra skýja léttan dún.
Litast hlíðin rökkurblá.
Aftanskinsins, skriðljós-kvik,
skína austur spegil-blik.

Sléttan breiða bjarmar öll
borðflöt, við og undan-höll.
Er sem hörfi — ef horft er á —
hún úr sýn í fylgsni djúp,

unz hún skríður læðu-lág
loftsins undir neðsta hjúp,
þar sem skýja skugga-björg
skorðar nóttin há og mörg.

Jökum líkt í lygnum sjá
ljóma hvítir veggir á
húsabæjum nokkru nær,
neistar ótal blika og gljá
út' um sléttu-flæmið fjær:
fægðir gluggar stofum á.
Stjörnu-belti strjálu sett
storðin glitrar hljóð og slétt.

Fyrir litlu létt og greið
leið um þetta sléttu-skeið
fannst mér vera — finn það nú
fótsár eg og móður er,
sporaþung og þreytudrjúg
þessi flata grund varð mér —
ég með unglings augum þá
æfi-braut hef' litið á.

Engan há-dag enn var ég
áfram kominn hálfan veg,
sem að morgni setti mér,
sérhvert kveld var náttstað fjær.
Stór í hilling hæðin hver
hærri sýndist mér og nær,
við hvert fet, sem fram ég sté,
fjarlægðist og niður hné.

Sérhvert takmark, sem mér vannst
seint að ná, mér loksins fannst
þó of lágt og lítils nýtt,
lengra fram eg girntist brátt.

Útsýnið var ekki frítt,
eða of þröngt og sýndi fátt —
hæsta markmið hugsjónar
haft í stiga aðeins var.

II.

Upp' um fjöll er ísfölt gráð,
af er sólar gylling máð.
Raðast belti roða-dimmt
raufað skarir jökla við,
éljum korgað, kulda-grimmt,
kyrrðar-dapurt, þungbúið —
slettir lofts á slétta spjald
slikju-grænum, úfnum fald'.

Fjöllin undir ómlaus, kyr
opna þúsund svartar dyr,
sýna á hverjum sökkvi-dal
sorta-skældan gljúfra-munn,
hlið á mörgum hamra-sal,
hruninn múr og rofinn grunn.
Fannaburstir byggðar hátt
bjarma gegnum húmið grátt.

Lærðirðu hér að lýsa vel
liðna skáld, sem drógst upp Hel?
Léðu fjöll þér litinn sinn
ljósa og dökkva forðum, á
hennar bláu og hvítu kinn,
kveld er aleinn sazt þeim hjá? —
Máð er nafn þitt, myndin skýr
máluð enn í hugum býr.

III.

Austur-sléttan er í kaf
undir skuggans svarta-haf
gjörvöll sokkin — upp úr er
ekki brún af neinni strönd.
Hvergi einstök ey né sker,
enginn viti á nokkra hönd —
hellis-gólf eitt hljótt og svart,
hvelfing loftið stjörnubjart.

Höfuð grátt um gólfið breitt
gægjast þarna sé eg eitt —
vatna-gufa í loftið létt
lindarbakka stigin frá.
Blækyrrt er, svo bein og rétt
brátt hún rís og verður há —
stigin upp um undir-djúp
Úndína í hvítum hjúp.

Á þann stað, sem er hún nú,
ef á morgun gengur þú:
sérðu föl og frostbitin
fögur blóm og græna jurt,
og af rjóðri rósar kinn
roðann allan horfinn burt.
Sérhvern fífil fölnaðan
finnur þú, sem riddarann.

— Nú af hverri lægð og lág
lyftir sér upp þoka grá.
Hlykkjótt gufu-belti breitt
bakkafyllir djúpa á,
kringum háa höfða sneitt
hyrnur nesja og eyrar-tá,
lengist hægt og hækkar æ —
huldu-rák í dimman sæ.

Breikka og tengja rönd við rönd
reykjar-hvel og gufu-bönd.
Saman hefir fært og felt
feldi gráa í eina voð,
yfir dimma velli velt
vef þeim hulið nætur goð —
öll er gengin austurslóð
undir straumlaust þokuflóð.

IV.

„Hvort á eg heldur að halda
í hamarinn svarta inn“,
ellegar ofan í byggðir
þar áður lá vegurinn minn?

Mig skiftir það litlu — mín heimfýsi er hæg —
að húsdyrum hvers sem mig ber.
Eg veit þar er greiðvikni, gestrisni næg
og góðfýsi til handa mér —
en þokan þar niðri er mörgu til meins,
svo manns-sálir þekkjast ei að.
Og rakkarnir gelta þar allir eins
að mér þá geng eg í hlað.

Og dauf yrði vakan og drungalegt flest
fyrir dottandi heimafólk, véglúinn gest.

Þó sofna eg út frá því hálfnauðugt hér,
því hjarta og viðkynning tengt við það er.

— En heldur vil eg þó halda
í hamarinn svarta inn,
en ofan í byggðir aftur,
þar áður lá vegurinn minn.

Eg veit að mig fjallauðnin kærulaust, kalt
til hvíldar í faðm leggur sér,
og það, sem mér kærast var, einstakt og allt,
að eilífu gleymist nú mér.
En þó að eg sofi, rís sólin eins blíð
í sveit minni og þíðir upp kalt,
og það, sem eg unni hjá landi og lýð,
það lifir og vaknar samt allt.

Til hvíldar með hryllingu hugsar ei sá,
sem hjartað og viljann í starfinu á,
sem finnur að dagsins vinna er vönd
með veikluðum kjarki og skjálfandi hönd.

— Svo kýs eg mér heldur að halda
í hamarinn svarta inn,
en nota mér gefinn greiða,
ef gjaldeyrir þrotinn er minn.

Mig varðar það litlu, hvort langt eða skammt
mér leiðin sé ákvörðuð hér!
En hitt er mér kappsmál, að komast það samt,
sem kraftar og tíð leyfa mér.
Sé hvíldin upp-yngjng þess krafts, sem eg á,
og kvaddur til starfa eg verð:
Þér, morgunn, er óhætt að ætla mér þá
ögn örðugri og jafn-lengri ferð.

## „KURLÝ“

*— Gælunafn, hér sama sem: Hrokkinkolla. —*

I.

Sem uppdregið skákborð, svo skipuleg var
in skógrudda, þéttbyggða sveit.
Hvert búandans óðal við alfara veg
í inngirtum, ferhyrndum reit.

Hvert mílu-horn gatnamót, bugalaus braut
— ei brattstígur áss eða gils.
Til hádegis-leytis var helft þeirra lögð,
en hin lá til miðaftans bils.

Af vestræna frelsinu sveitin bar svip,
sem segði það blátt fram og hreint:
Við götuna heimilum, gestur minn, þér —
en gakktu þá hiklaust og beint!
Því stígir þú fet inn á góðbúans garð
þú geldur þess. Við erum enn
á götur og stjórnfrelsi gjafmildast fólk.
— En Guð' sé lof! tollheimtumenn.

— En hlöðurnar dumbrauðu hillti yfir jörð
sem hraunborgir vítt úti um sveit.
Og vorlognið blákembdi víðlendið allt,
og vorsólin stafaði heit;
á húsglugga lýsti úr lundi, sem stóð
í lyfting við rennislétt frón,
og bænum var afdrep gegn illviðra byl
og almennings njósnandi sjón.

En væri frá gættinni garð-hliði lyft
á götunni húsabæ að,
þá opnaðist skraut-trjánna riddara-röð
við rakleið í gló-skúfað hlað.
Þar klifruðu blómvefjur upsunum að
upp and-dyri, tor-færan spöl,
og þrúgnanna viðjur mót vermi-átt dags
sig vöfðu að gluggum og svöl.

Og svo hefði angan frá ilmandi runn'
á aldintré gróandi bent,
þar blómhvítan fjölskreytti grænlaufga grein,
sem glómjöll í sólskini fennt.

En plómu-tréð lang-fegurst, liljunnar blæ
sem lit inn í rósanna brá,
sem frelsið og sakleysið sáttmála gert
og sett hefðu blöðin þess á.

En spjöll vóru manna-verks mörkinn á þeim,
þess mót sást um stofn þeirra og blöð.
— Sjálf náttúran hressir og hrífur mann dýpst,
þó hirði ekki um skorðaða röð.
Að hús-baki stóð þó enn laufskógar leif
frá landnáms-tíð varin og studd.
En kynslóðir tvær höfðu gengið um garð
í gröf áður mörkin varð rudd.

Þar grásilfrað bæki frá riðaðri rót
sig reisti með blaðahvolf vítt,
og mösur í öskugrám, upphleyptum bol
með útskorið laufa-djásn nýtt,
og dimm-leggjuð eikartré dökkgrænu typpt
og djúprætt, með ára-tal hæst.
— Mun óræktin langlífis uppeldis-jörð?
Því aldrei með græðslu það fæst.

En svo tóku kornekrur vorgrónar við
um valllendur strikaðar plóg'.
Sem lykkjaðar tungur í lang-röðum upp
sig laufgaði maísinn hóf.
En engið var blakkast, það blæ á sig tók
af blárauðum græn-smára knapp.
Hvert blað hans, sem opnaði sumar og sól,
var sveimandi býflugum happ.

II.

Eg veit þessi ljóð eru svipur hjá sjón
á sumarsins skáld-mæru list

í sveit þinni og bæ, þar sem, „Kurlý“ mín kær!
eg kynntist þér síðast og fyrst.
Þó bjarmar mér gleggst upp við birtu af þér
sá bærinn og þingháin sú,
ef óbundinn hugur við stundir og stað
er staddur hjá þér eins og nú.

Og þín vegna, „Kurlý“ mín, kvæðið er gert
og kveðið í átthagann sinn!
Þinn skósveinn — eg man það — hvern morgun eg varð,
um miðdegið leikbróðir þinn.
Hvert stríð og hver sigur, hver sætt og hver hvíld
vor sameign og kóngsríki var.
Í heimilis-orustum, uppreisn gegn þér,
eg ótrauður merkið þitt bar.

Hvern aftan, er log-kyntur loftstrauma sjór
stóð lygnast og kófheitti svörð,
sem kvöld hefði brennandi sólgeislann svæft
í svartnættis-fanginu á jörð,
þú namst okkur veraldir vítt yfir sól
og víðbláins stjörnu-hvel öll —
á kné mínu saztu unz heið-lokkað hné
þitt höfuð við draumlanda fjöll.

III.

En náttmyrkrið lengdist — nú læddist við jörð
in lágfleyga desember-sól,
og sólstöðu skuggi yfir landinu lá,
því liðið var haust undir jól.
Öll sáðlöndin úrin og frostsprungin flög,
sem flóðsandar bjarglaus og auð.
Í skammdegis kald-rænu skalf úti á rein
og skrjáfaði kornstöngin dauð.

Í varpanum skrælnaði rósgresis rusl
og ræflar, sem bein kringum gren.
Og ápalda vorfegurð elli-ljót varð,
þeir urðu nú grettustu trén.
Í laufskógnum inni var nálykt og nekt.
— Þú, norðlenzka sumar, ert bezt,
því barrtrén þín vara sem goðalönd græn
á gaddauðnir vetrarins fest.

— Þú stóðst úti í glugganum, „Kurlý" mín kær!
unz hvarf eg og hugðir til mín.
Ið einmana sumarblóm uppi þú varst
ein óbreytt, með sex árin þín.
Þann kaldlýsta haustmorgun höfðum við kvaðst,
þú hrygg — eg með fáyrðaró
úr kveðjunnar eymslum með hangandi hönd
í handsali óljúfu dró.

IV.

Við sáumst ei tíðar — er lækkar á leið
in lágfleyga desember-sól,
þú árlega heimsækir huga minn þó
og heimtar 'ann til þín um jól.
Eg spyr ei til leiðar — neinn vísar mér veg
né velur þar betur en eg.
Þitt hérað er draumland mitt, hús þitt mín spá,
og hugurinn ratar þann veg.

Þú átt kannske í fjölsótta garðinum gröf
við „gleymei" og drúpandi tré —
ið bezta kvað fallvaltast, forlögin þau,
að fegurðin skammlífust sé.
En það sem er ágætast þroskast og fyrst,
og þarf ekki áranna með.
Eg fæst ekki um ranglátt, þó ræzt hafi á þér
sú reglan, sem vel getur skeð.

Þó sætir í dýflissu, dæmd henni var
oft drenglund eins hrein eins og þín.
Allt mannlíf er veglyndi vegleysna fjöld'
með viðganginn langt út úr sýn,
þó afgömul fávizka tyggist um tvær,
sem til sé og völ leiki á —,
ef reyndist ei lygi sú leiðsagan forn,
oss léti margt hægara þá.

Og eins er það sama, þó sjálfsmennsku þræll
þú sért, eins og fjöldinn og eg,
þín snilld breytir hreysum í hallir og skort'
í heimkynni allsnægjuleg.
Því kóngborin sál gerir kimann að sal,
að kastala garðshornið svalt!
— Þó hafin sé dyrgjan á drottningar stól,
tók dáminn af kotinu allt.

Þó frú sértu göfug, og skrýðist í skart,
sá skrúði þér maklega fer,
þú prýðir svo gullið! og demantadjásn
er dýrmætt í hárinu á þér. —

V.

Í gröf þína, „Kurlý“ mín! kveð ég um jól,
í kot þitt, í höll þína inn.
Í fásinni áranna ekki er þér gleymt,
því enn er ég riddarinn þinn.

## „Á FERÐ OG FLUGI"
(*Brot*).

I.

Í lýsing að morgni, er vöknuðum við,
ei vantaði rúmfötin nóg,
því fjúknóttin hafði á flet okkar breitt
eins fets þykkt af dúnmjúkum snjó.
Og forsjónin hafði ei að byrgja sem bezt
inn bænrækna Írann sinn hlífzt,
því yfir hann hafði hún skafið upp skafl
og skeflt á hann fönninni dýpst.
En sár-kalt var loftið, er sólin kom upp,
svo seinfær, og kólguna óð;
það logaði í kverkum, í limunum sveið
og læstist um brjóstið sem glóð.
Í bungóttri fjalfellu af bláhvítri mjöll
var byrgt niðri völlur og gröf,
og hrímþakin trén vóru svipleg að sjá
sem sálir úr helfrosnum skóg;
en móðökkur náttkólgu-hringurinn hár
við heiðloftið svellgráa bar,
það var eins og himininn hengi við jörð
og hefði orðið samfrosta þar.
Í skýlausa hvelfing var skuggaop blátt
svo skímulaust, ginandi, hljótt,
sem loftshliðið opnaðist langt uppi í geim
að ljóslausri gjörauðn og nótt.

II.

Og enn var ei fullbjart og eimlestin kyr —
en eirt þó ei lengur eg gat,
því hálftíma fyr en að fór hún af stað
í farþega-rúminu eg sat.
Og dauflega glóðu í gluggunum ljós
og gatan var tómleg og svöl;

og fólkið mér sýndist enn svefnóralegt
og svipdimmt, og andlitin föl.
En allt hafði landið samt útliti breytt
í asanum, daginn sem leið.
Þann morgun lá sólskinið sofandi í fönn
og svartklædd var Árskógarbreið.
Og lognið og blíðan sér blandaði í loft
og blámaði sléttu og fjöll; —
það var eins og risi frá rólegum draum
úr rekkjunni veröldin öll.
En þegar að hallaði hádegi af,
varð hásuðrið eldskininn sjór.
Og andheita fjallrænan kvæðið sitt kvað,
svo klökknaði stálharður snjór
En fjöll drógu upp vindskýin, hæluð um hlíð
og hnjúkana toppstöguð við,
og suðvestanhlákan á öræfi upp
sást opna sín gullslegnu hlið. —
Það kvöld, áður dagurinn settist í sæ,
var sólbráðið starfinu hætt,
en andvaka stormurinn ólmaðist samt.
svo úti var nauðlega stætt;
um koldimma hánótt hann hefir ei séð,
að hjarnið og svellið var frá —
um miðnætti síðast hann syfjaður varð
og sofnaði uppgefinn þá.

Og svo kom þá birtingin blækyr og svöl
og blakti um dalverpið lágt,
sem starði þar óttist á upprunninn dag
með andlitið náttkuldablátt.
Menn segja, að hann vetur sé sinkur á gull,
en samt hafði nátthélan grá
með silfurvír baldírað barminn á hlíð
inn bjarkgróna, og skógkögra um á.

— En framúrleg sýndist og svipdauf hún jörð,
 því sumarsins blómskrúð var misst.
Sem ríkilát æskuvon rýrnar af því
 að rætast í ellinni fyrst.
Öll fjöll voru gaddhvít og grimmlégust þau,
 sem gnæfðu yfir byggðinni hæst.
— Á jökla þá leggur ið harðasta hjarn,
 sem himninum teygja sig næst.

III.

Eg stóð úti á pallinum vagntengslin við,
 mig viðraði í dragsúgnum einn,
því inni var kvöldloftið kæfandi þungt
 og hver sat og þagði eins og steinn.
Í geiminn og náttmyrkrið eimvagninn út
 flaug óskýra, hlykkjótta braut,
og aldrei var hraði hans harðari en þá;
 hann hentist og sentist og þaut.
En út frá mér strikbeint og stöðvunarlaust
 hver stjarna upp á himninum rann
og vélin spjó eisu við andköfin djúp,
 sem iðaði í loftinu og brann;
en sléttan flaut blækyr og biksvört í kring
 sem barmalaust, öldulaust flóð.
Sem glóðþrunginn Naglfari lestin vor löng
 þann lognsæ af náttskuggum óð.

En svo er ei heldur löng hressing í því,
 en hálfleiðist manni það fljótt,
að streitast við næðinginn, stallbróður sinn,
 og starast í augu við nótt;
og helzt fannst mér stundirnar hægja á sér
 því harðara farið sem var —
í næsta vagn gekk ég svo óboðinn inn,
 að athuga mannlífið þar.

IV.

— Til framandi landa ég bróðurhug ber,
þar brestur á viðkvæmnin ein,
en ættjarðar-böndum mig grípur hver grund,
sem grær kringum Íslendings bein
Eg skil, hví vort heimaland hjartfólgnast er:
öll höppin og ólánið það,
sem ættkvísl þín beið, rifjar upp fyrir þér
hver árhvammur, fjallströnd og vað;
og það er sem holtin sjálf hleypi í mann þrótt,
þar hreystiraun einhver var drýgð;
og svo er sem mold sú sé manni þó skyld,
sem mæðrum og feðrum er vígð.

## *DÍKÓNISSA*

I.

Hún var snauðum von og vissa
viðhjálpar, hún Díkónissa.

---

Eg sá hana á faralds-fæti
flökta milli týndra sauða:
fólksins dugs og dáða-snauða.

Þar sem auðsins yfirlæti
örbirgð hafði rutt um sæti
yztu myrkra út á stræti,
undan glaum og borgar-kæti.

Og úr sínum kór og knæpum
kaupmanns-syndir volaðs-glæpum.

---

Eg sá hana lítilláta
lifa í þröng og eymd, en gleyma
alls-nægtunum öllum heima.
Ekki um sína fást né dreyma
yndisfegurð yfir-máta,
æsku-nautn né lífið káta,
sem hún þurfti ei í að eima.

---

Eg sá hana í hafnir teyma
auðnu og manndóms eftirbáta.

Eg sá hana í borgar-bölsins
botnlaust afgrunn niður stíga,
þangað dýpst sem siðspell síga
undan þunga vonar-völsins.

Til þess fallinn hug að hreysta,
hlúa í ösku að vonar-neista,
og til góðs — úr greipum lasta —
getulausra dyggða að freista.

Ganga í veð um viljann leysta,
vaka, hjúkra, biðja, fasta.

---

Eg sá hana hugga, þjóna,
hæverska og snautt til fara —
morgunstjörnu í meyjaskara,
lánsbarn margra milliónа!

II.

Eg sá hana í hófi snjöllu,
hallardrottning ríkis-sala.

Máttur gullsins glápti úr öllu,
grunni og mótun þaks og svala:
Eins og stirndi á steins og fjala
steypu-lagi og utan-skrauti
myntuð prýðin punds og dala.

Þannig var það úti. Inni,
yfir hverju borði og minni
virtust silfur-tungur tala. —

Heim í föður-húsa bötun
hún var snúin, beint frá glötun.

---

Leið hún um í ljósa-drifi,
líkt og alstirnd vornótt svifi
glað-björt út að óttu skeiði,
yfir mjalla-hreinni heiði.
— Höfðinglegri en tildurs-fljóðin.
Eins og sólar-blær í bifi
blikaði eðalsteina glóðin.

— Þó var eins og ýfði hvergi
oflæti það viður-bjóðinn.

Um hana féll, sem iða af bergi,
úði af silki og rasta-slóðinn.

---

Ég sá elna ættar-mæti
yfir hennar gyllta sóma:
Föðurástar yfirlæti
íbyggnara af hennar blóma,
þessari aldýrð auðfjár-ljóma!

Er hann leit inn dýra skrúða!
fingur hennar hringum-prúða,
hló 'ann við og mælti af kæti:

„Hvar má, dóttir, búnings-bæti
buga að þér, sem komist gæti
fyrir á skraut þitt, fagra brúða“.

Hún leit á hann angur-hýrri:
„Allt af geta fundið sæti
skartgripirnir nokkru nýrri,
ný-tízkaðri og stórum dýrri“ — —.

Þar var auðsén óska-gangan
eftir hennar vild og langan.

III.

Eg var fram að glugga genginn
geispa-sjúkur, út úr hringi
gaspraranna í orða-glingri.

— Hér, á þessu hispurs-þingi,
hafði mál til umsjár engin. —

Næmar greip til geðs, í strenginn:
Blik-rökkvað, sem botn á ósi,
borgarstræti í gervi-ljósi.

Hugði ei um, en horfði á bara
mannasvipi æða í öldum,
eða í humátt þungan trampa.

Undan dökkum fata-földum
fram í veginn blika og stara
andlit, sem þau stæði í steini
storknuð — líkust fílabeini.

Sifelt að og úthjá fara
undir neistum glóðar-lampa
rafljósa, sem gljá og glampa
glærum jökul-hvítu köldum.

---

Hamaður í hlé frá straumnum,
hrökk eg upp úr leiðslu-draumnum.

Þar stóð einhver Hulda hjá mér,
horfin líka út úr glaumnum.

Fasið hennar fann eg á mér.
Ég leit upp, og yrti á hana
ertnislega, að gömlum vana.

Sagðist engan usla gera,
að eins hvílast frá að vera
— til ef ynnist tími hálfur —:
týndrar dóttur alikálfur!

Hina — fyrst þá fýsti ei héðan —
faðir hennar gæti á meðan
leikið við og veizlu-búið — —.

Við að hefði 'ún aftur snúið
væri skylt að gleðja glaða.

Gæfu hennar svo að raða,
að hún gæti ei framar flúið!

---

Flögraði kát-bros rauna-lúið
yfir munninn milda á henni —
móða í augum, skuggi á enni.

IV.

Huldist mér af hennar orðum,
hvað þeir sögðu yfir borðum —
þér er engu um vandara
að eg held — en ráddu bara!
Hérna er efnið hennar svara.

---

„Það skil eg, þess grun mér gerði,
að góðgerðirnar mínar verði
að kými-leik hjá líkum þínum.

Hjá lagssystkinum öllum mínum,
sem nánast vissu, en núna-sjá mig
í hégóms-tildri voða-verða,
sem viljuglega hleð eg á mig,

og æfi að sóa fúsa fá mig
jafn fyrirlitleg heimska skyldi,
sem þetta fitl við glaum og gildi!
sem héðan-af er iðn sem á mig — —
en það varð, af að þrá og reyna,
mitt þrota-ráð og getan eina“.

---

„Varstu í síðsta gleðigildi
gustukanna og kærleiks okkar?

Rausnarmenn og ríkisbokkar,
rétt-trúaðir aðalsflokkar
— þessir stólpar þjóðfélagsins —:
þinglýstu, svo vitnast skyldi,
gæzku sinni og gjafa-mildi —.

Þvílík list er lágt ígildi
loddarans, sem „spilin stokkar“.

---

„Manstu talsmann dýrðar-dagsins
dást að okkar líknar-störfum?
Úrlausninni á aumra þörfum,
uppfyllingu bræðralagsins!

Fannstu hvernig allt var orðað?
Yfirdrepið, við sig skorðað!

Gamla eigingjarna hrósið,
gamla kærleiks villu-ljósið.
Mærðin forna um vott í verki,
viljann undir kristnu merki
gagnstætt skald-lund hinna hjúa,
heiðingjanna, er oss ei trúa“.

---

„Þó eru sama bundin bandi
borgar-gróði og nurl á landi.
Undir sama lagi og loki
leynist ríkis-dyggðahroki.

Örfá þúsund úti í sveitum
eru bænda-státið mesta,
efndirnar á öllum heitum!

Ívitnanir ferða-gesta
dvelja helzt við húsakynni,
hæðar-mörkin fárra álna.
Saman-píndra maura minni,
múraðar grafir dauðra sálna!“

---

„Veiztu að þessi aldarandi,
— æ um kærleiks-verk að manga —
er og verður alls ins ranga
íaukning og viðhaldandi?

Launsnaran í Loka-bandi,
lítilmagnar í sem ganga:
Líf sitt þakka, og lotnir hanga
á þessari ásjá — umvaldandi!“

---

„Svona eru helguð bæði borðin
betls og nautna, öllu megin.

Mammon vor er alhreinn orðinn,
kristindóms og kirkju-þveginn.

Hér er sérhver gjöf til gjalda,
gullinn auð að tvítugfalda,
uppi skertum heiðri halda.

Hraðara í sjóðinn draga
ávaxtendur almenns baga,
í ölmusum ef líf er hamið.

Þetta er í guðs og gróða-laga
skjóli, umbætt erfðasaga
arðvænni en forðum daga,
þegar víg til fjár var framið!

Svo hefur ráðsnilld reikings-alda
ribbaldann til hagnaðs tamið“.

---

„Það er öllum auðvalds-klöfum
efling stór að rausnar-gjöfum —
haldist nauðin, eykst við auðinn,

ekki er kyn þó forsjáll viti
að hag-fjarstæða er hungursdauðinn.

Hitt er, að sérhver gjafa-biti
hækkar sjálfgert sölu-brauðin,
meðan bljúgar betli-hendur
blessa sína tjóngefendur“.

———

„Sjáðu pabba! þræða þanninn
þessa auðs og kærleiks-götu:
Góðmennið og gróðamanninn
guðhrætt flá og taka á mötu!

Elsku pabba! illra menja
erfingjann og trúar-synda.

Afbrot hans er innrætt venja,
uppeldi og kennslu-blinda.

Heiðurs pabba! er vegi velur
vitund sinni beztu eftir.
Grun hjá honum enginn elur
um að þeir ei séu réttir!

Kynslóðanna staða og stéttir
standa á þessu, og dómar settir. —

Álög, álög órjúfandi
eru á því, sem varna að skilja

beztu greind og góðum vilja,
venju-gróinn aldar-andi".

---

„Ég er fyrir löngu lúin.
Liðin bæði von og trúin. —

Ég get ekki orðið bætt við
umvillur — né lygum sterkum
verið önnur hönd. Er hætt við
hukiið þeirra í kærleiks-verkum!"

---

„Vegurinn eini getu-góði
gengur mér, er sá, að vera
eyðsluskepnan gjálífs-gera,
glopran sú sem fleygir pyngjum,
mölur og ryð í rokna-sjóði,
sóunin í dala-dyngjum. —

Lát þér orðnar efndir lynda,
aflausn veit mér bóta-synda!"

---

Heyr þú dóm minn, Díkónissa!
— Dóm minn, nei, ég eftir hlera,
hvað mér segi sjálfs mín vera —:

Síðan þetta varð mér vissa,
hvað þú átt til brunns að bera:
reynslu-sviða í sál þér inni,

heilagt krossmark hygg ég vera
hringa-glys á hendi þinni!

---

Upp úr þagnar-löngu ljóði
logar títt í huga mínum,
veslings, veslings viljinn góði,
vonleysið í augum þínum.

## *SVIPIR Í SKUGGSJÁ HAUSTSINS*

Seztu í hornið hjá mér
haust-stund þessa, góði!
En eg ætla að ljá þér
augun mín: í ljóði.
Og ef augun duga,
út um þrönga skjáinn
oft má horfa úr huga
harma sína í bláinn.

Ekkert áttu að heyra
úti, af rakka gjammi.
Lát ei inn um eyra – –
eldhúss-skvaldrið frammi.
Hugann heima-fjærri,
— hvað sem annað varðar —
gerðu að skemmti-skærri
skuggsjá lofts og jarðar.

Út í breiða-blikið
blámóðunnar fljóttu.
Sé í víðsýn vikið
veru þinni, og njóttu!
Sjáðu í haustsins hljóði,
hvernig aftni miðar,
sem með lita-ljóði
laðar allt til friðar.

Er sem haustið uni
öllu, er hefir bjargast,
þó að mót-vægt muni
margt, sem hlaut að fargast.
Rótt, sem þýðar þakkir
þreytu-manns í augum —
skruggu-byljir blakkir
byltast hvergi á taugum.

Gleymir flissi gjöllu
grózku ofsahlátur.
Bros er yfir öllu,
eins og þerður grátur.
Fjalla-hlíðir húmar,
hillir skörðin tinda.
Hvíta-roði, um rúmar
rekkjur þíðu-vinda.

Breiðar suður-sveitir
silfri og gulli stafar,
skógi í bláfell breytir,
blika Vitazgjafar,
akrar, á upsir settir
aftanhillinganna.
Sólskins svitablettir
sumars landnemanna.

Skín við skógarbekki
skini fextur glampi.
Lýsan af er ekki
akra stýfðum kampi.
Enn er ei ekran tóma
erð, né þessi heiði
hverfð í blaðs og blóma
breiða moldarleiði.

Sem á haugum hljóðum
hrókar gullsins bleika:
trén að gulum glóðum
gyltra blaða leika.
Þegar í stráum stynja
stopul-vinda hviður,
haustfölvingar hrynja
herðar þeirra niður.

Lægri lyngsins gróður
laufum utast þrengir,
fram um raða rjóður
rauða kyndla hengir.
Eins og yzt í borgum,
undir birtu hallið,
lýð frá turn og torgum
týrur benda í svallið.

Inni er ömurlegra,
eggtíð löngu búin,
hreiðrin þrasta og hegra
hanga tóm og flúin.
Glapin ró í runnum.
Roggar ugla á meiðum.
Úlfar átu-munnum
ýlfra, á héraveiðum.

Upp úr runna rönum
— rúst af berum krúnum —
glottir bleikum grönum
grein í móum brúnum,
glæjum laufum gægist
gegnum kræklur visnar,
sem í hrauni sæist
svarðar-tætlur gisnar.

Stöku víði-viður
viðrar holta-glæður,
hrynja af höfði niður
hvítar silki-slæður
— brúðarlín af bari
borið, undir vetur —
og í vinda vari
veizlu að hausti setur.

Grænt í vindhá vetrar
vefa engin slegin,
sinu-brekku betrar,
borið hádags megin,
blóm — sem lágt við ljómar
litla sólskins-vöku.
Sumars-eftir-ómar,
ellikvæðin stöku.

Svo hefir ársins elli
ennþá fingur mjúka,
sem hún fríðast felli
friðarliti á sjúka.
Mjalla-hvítu kransins
krónur þistla skrýðir.
Eins og lýður landsins
líkin bezt hún prýðir.

Létt á logni fljóta,
lágt við grund og hæðir,
spunnir um hnjósk og hnjóta
huldu-silfurs þræðir,
hengja — hvern sem noti
hæl í niðurtjóður —
húsvilt fræ á floti
fyrir næsta gróður.

Áin lygn með löndum
læðist dalinn út um.
Fjara á flúð og söndum.
Fossarnir í mútum
raula í hálfum hljóðum
hikult gömlu lögin.
Hjaðnað hafa úr ljóðum
hamra-bassa slögin.

Skyggir nótt. En nær gljá
njósnar-augu stjarna,
bjartast blika þær frá
blådimmustu þarna!
Ljós og ljóðakliðinn
lúr og blundur slökkva. —
Eitt sinn út í friðinn
allir strengir hrökkva.

## *FJALLIÐ EINBÚI*

Hann Einbúi gnæfir svo langt yfir látt,
að lyngtætlur stara á 'ann hissa
og kjarrviðinn sundlar að klifra svo hátt
og kletta-blóm táfestu missa. —
Þó kalt hljóti nepjan að næða hans tind
svo nakinn, 'ann hopar þó hvergi.
Hann stendur sem hreystinnar heilaga mynd
og hreinskilnin, klöppuð úr bergi.

## Kristinn Stefánsson

---

### *RADDIR*

I.

Nú er húmað yfir öllu —
ekki nokkur stjörnuglampi.
Hátt í reykjar-hvelfing grárri
hangir tungl sem rauður lampi.

Út í vestri yfir sjónhring
enn er skíma á blikudrögum.
O'n að lágum ljóssins bjarma
lafa ský á þokustögum.

Undarlegur ómur svífur
út úr skuggageimi nætur
inn að mínum æðaslögum,
innst við mínar hjartarætur.

Þögnin leiðir enduróminn
inn á milli hugarfjalla,
þar sem út úr einverunni
æskudaga raddir kalla.

Þegar út úr einverunni
aðeins dauðar raddir kalla.
hvarflar andinn orðlaus sjálfur
inn á milli hugarfjalla.

II.

Það var hér að þrjú við sátum,
þegar sólin geislastafi
lagði yfir grænar grundir
gengin nið'r að vesturhafi.

Hér það var sem hlátur léttur,
hreinn og traustur, vonafagur,
birti yfir auga og svari,
okkar hjartna sunnudagur.

Þó var ekki einn veg miðað,
engin tákn né fyrirboðan.
Þá var farin för til landsins
fyrir handan hversdagsskoðan.

Það er þessi eftireymur,
inn á milli hugarfjalla,
sem mér heyrist út úr auðnum
inn í mína sálu kalla.

Út í geiminn, út í myrkrið
ég er að kveða, spyrja' og stari.
Sérhver minning lífræn leikur,
líkt og væri kvik á ari.

## *VEGLJÓST*

Þegar hugans húmgu lönd
hafa leyst sín þokubönd,
vegljós þá er vonum manns
víður heimur sannleikans.

## *VESTANSKIN*

Rauð eru tjöld um Ragna-stól,
roðnar kvöld og vogar,
kveykir í öldum aftansól:
Úði' á földum logar.

## *KURTEISI*

Sátu veizlu sama bekk,
svo það öðrum gleði fékk,
eftir gömlum, góðum sið
guðsmenn tveir og ræddust við.
Sóttu út um allan heim
efniföng að ræðum þeim.

Ára hatur yfir breitt
allt var þar, og talið leitt
að flestu, sem í fjarlægð lá
og fyrir utan sjálfa þá.
Brosin sléttu yfir allt
undanfarið gaman kalt.

Forðast vildu veizluspell,
varúðin að orðum féll —
sveipti þau svo silkimjúk,
sem þau gengju' í rósahjúp.
Ætluðu hver annan þó
úrkasts-mann og sauðaþjóf.

## *MORGUNN OG KVÖLD*

Þeir kölluðu' 'ann uppvöðslu- og ofstopamann,
og alla þá löttu, sem hvatti hann
til sjálfstrausts og samúðaranda.
Þeir köstuðu steinum heim til hans
frá höfuðborg þeirra móðurlands,
og hrópuðu' 'ann föðurlands-fjanda.

Já, svona var birtingin. — Síðla dags
þeir sammála þyrptust til hátíðabrags
í kringum hann, sjötugan karlinn. —
Að kvöldi þeir lutu að leiðinu hans
með lárviðar-sveiginn og blómstur-krans,
því foringi þeirra var fallinn.

## *LYGIN*

Hún telur ekki eftir þó tölti nokkur sporin,
svo tindilfætt í aurnum, þó göngu þyngi forin.
Hvern lagð, er hundstönn sleit úr reifi ráðvendninnar,
hún rekur nið'r um opið á skreppu þrælmennskunnar.
Í hugum margra vekur 'ún hlökkunar-kitlu,
því henni kvað verða svo mikið úr litlu.

## *NÝJA VINNUKONAN*

Um morgna til verks síns af geispunum grett
hún gengur með ólund og dundi.
Á kvöldin hún trítlar svo lipur og létt
á leikhús og templara-fundi.

## *Á STRÖNDU*

Í tunglskini straumgárur titra,
og tindra við hringiðu-sog,
en miðnætur máninn og aldan
slær munarheims blæ yfir vog.

Og geislinn að hrönninni hnígur, —
það hrynja í náttsvalann tár.
Og frammi er dýpra og dimmra —
úr djúpi rís andvarpan sár.

Og hljómur og litur og hreyfing
nú heyja sitt tilveru-stríð,
og framkalla margt, sem er munað,
með myndum frá liðinni tíð.

Og skuggarnir skilja og finnast
og skiftast í sundur á ný.
En stjarna, svo hljóð eins og hjarta,
sig hylur á bak við ský.

## *STEINGRÍMUR*

Við það unghugir Íslands kætast —:
Sem vorsins vængjablak
óður hans heyrist á heiði, er mætast
lækjarniður og lóukvak.

## *NEBÚKADNESAR*

Þú skilur ei, hvað ljóðar loftsins blær,
sem leikur þér um kinn. —
Þín sjón og heyrn er þar sem grasið grær,
góðurinn minn!

## *KANADA*

Kostaland, með gull og græna skóga,
geimur, margra konungsríkja stærð,
skraut þú átt og yndis-lundi nóga,
úthöf blá og fjöllin snævi hærð.

Borgum depluð, ótal ökrum vikuð
ertu, og mörkum beltuð fram að sæ,
ám og fljótum fossahvítum strikuð,
full að lífi' og morgunroða-blæ.

Nægtaland, með efnivið til alda
í allra þjóða bygging, tengsli sterk,
taugar stáls, sem styrkleik þínum valda,
stór og viðfræg þinna handa verk.

Þó er eins og það sé æfinlega
þennan dag, að hugir fjarlægð í
fljúgi inn á öldnu slitrin vega,
út í gegnum blárrar móðu ský.

Stígur fram af rökkri móðs og minna
myndin draumræn hugarfylgsna manns,
bendir út til upphafs-stunda sinna
Íslending' á fornar slóðir hans.

Opnast landsýn undir hvelfing bjarma;
upp á himin ljósabaugur nær.
Innst í brjósti er sem kenni varma
æsku, er vakti horfnra daga blær.

Fóstra, þú sem lýðinn hingað lokkar,
leitarmenn að þínum nægtasjóð,
þú átt aðeins helming ástar okkar,
ekki meira, þótt þú sért oss góð.

Þú munt finna, er komum við að kveldi,
kynnis-minjar — því skal ekki gleymt —
neista hrotna frá þeim arineldi,
er við höfum dyggilegast geymt.

## *ÞOKAN*

Hún þegjandi þrengir sér víða,
og þokan er margvísleg:
Hún liggur í höfum og hugum,
og hvarvetna leiðinleg.

Með fúann í fangi sínu
hún fellur um metnaðs-sjúkt geð,
og hreykir upp hundaþúfum,
og hækkar 'in smæstu peð.

Til huldra heima 'ún rýkur
frá heimspeki' og vanþekking,
og grúfir á vegum og vöðum
með villum og sjónhverfing.

Hún þurkar út ljósið og liti,
sem lífsgleði morgnanna naut.
Á sannleikans leitanda leiðir
hún leggst sem á smalamanns braut.

Og gufandi grámóðu-augu
þá glápa sem suddafult kvöld.
Hún límist um hendi og heilsan,
svo hráslagaleg og köld.

## AFTURFÖR

Mælskan hans var þarflegt þing,
og þjónn hans eini trúi;
en nú er hún uppboðs-auglýsing
á andlegu þrotabúi.

## OKKAR SKYLDI BÚ OG BÆR

Okkar skyldi bú og bær
blái, gljái særinn,
ef þú værir aldan tær,
en eg á hafi blærinn.

Létt með þér í löður-hjúp,
liði' ég yfir voga,
og með þig á ytztu djúp
okkur báðum voga.

Aldrei skyldi okkur meint,
eða dauðinn nærri,
þar sem allt er orðið hreint
öllum ströndum fjærri.

## FIMMTÍU OG ÁTTA

Dags þó hvörfin sjái' ég senn,
samt mér þykir gaman:
Karl og drengur í mér enn
eiga leiki saman.

*ÞORSTEINN ERLINGSSON*

Dóminn horfði ekki í
eða venju-brotið,
en færði eld að öllu því,
sem ónýtt var og rotið.

## *DRÁPSVÖLDIN*

Rifnað er rjáfur drafnar,
rofið er loft og klofið,
falla vígtár um völlu,
vogar og borgir loga.
Eldur og stál um aldir
eyddi ei svo né deyddi.
Fagna því manndráps-magni
morðdjöflar — lausir orðnir.

## *SVARIÐ*

Fréttu um sigur. Fámáll var
faðir allra lýða.
Annar gegndi þá, svo þar
þurfti' ei lengi' að bíða.

Hvæstu byssur barka-digrar
báli sem úr vítis-þró.
„Fyrst og síðast fjöldinn sigrar"
fjandinn æpti' og kalt við hló!

## *FYRIR SKÁL*

*Björns Halldórssonar frá Úlfsstöðum.*

Ei sæmir að ég fari' að syngja við þig
um sorgir, barlóm og vol,
en heldur í kvæði ég klingi við þig,
þú, karl minn, með drengskap og þol. —
Þó laufið í hregg-stormum hrynji,
og hlynurinn gránaður stynji,
er líf samt í limum og bol.

Og kært er þér allt, sem er karlmannlegt,
— þú kynntir þér forntíðar lag —
og allt, sem er sniðugt og snjallmannlegt,
það snertir þig þann dag í dag,
sem allt slíkt þig ungan snart forðum,
því andinn í fastheldnum skorðum
sig gleður við hreystinnar hag.

Og fróður í fornkvæða-stökum
þú finnur þar snillinnar gull,
og hraustur að hornflæða-vökum,
þó hár verði hvítt eins og ull, —
þú situr og sér fram í tímann,
þú sér hvernig fara mun glíman,
og tæmir þitt freyðandi full.

Vér óskum þér gengis, minn góðvinur,
og gleðinni seglfylli' af byr.
Þinn andi' — hann er lífseigur ljóðvinur;
og ljósið um sólkomu-dyr
það fleygir burt frostþoku-skuggum,
þú feykir burt súldinni' og muggum,
sem lá hérna kolsvört og kyr.

Það stormar frá þínum strengjunum,
sem stæltust við frostið og eld.
Þú telst enn með dugandi drengjunum,
þó dragist nú brátt yfir kveld.
Svo óskum vér alls þér hins bezta;
og aldrei lát hönd á þér festa,
né slíta' af þér húðfat og feld.

## *GAMLA HÚSIÐ*

Gamaldags og öllum veðrum urið
ennþá stendur það á sínum grunni,
ellimörkin eins á hlið og gafli,
aldurs-rúnir sem á gömlum kinnum,
þakið gránað áratuga ísing,
undirstaðan skekkt og niður-sigin.

Ennþá leggur geisla inn um glugga
glatt og hlýtt sem fyrir mörgum árum,
ennþá hafa hallir þessar nýju
hvorki dag né sólskin frá því tekið.
Blærinn andar ennþá vorsins kvæðum
inn um dyrnar beint frá suður-heiði.

Sé ég myndir löngu, löngu farnra
lífsins daga, bornar mér úr fjarska.
Sem í draumi' eg dauða vini sjái,
dánir vinir reika þar um slóðir.
Gamla tryggðin, hjarta-hlýjan forna,
helga ró og friðinn um það breiðir.

Letrið enn á legsteinunum gömlu
les ég hér á margra vona gröfum.
Þreytu-sporin, bæði úti' og inni,
ei mér leynast, hvorki' í mold né fjölum.

En um dökka þykknið skorts og skugga
skína geislar margra ljúfra stunda.

Þá var líf og ylur í þeim böndum,
er á milli kunningjanna lágu,
glaðst að litlu, djúpið deyfðar brúað,
dauði og visnun komst ei að í ræðum,
syrgt og tregað, útrétt hjálpar-höndin,
hugur aftur sólskins-birta vona.

Hér var landið autt til vestur-áttar,
út að kvölda roða-slikju-tjöldum.
Logastígar lágrar aftan-sunnu
lágu út frá sólarlagsins dyrum,
þegar jörðu fegins-faðmi vafði
friðar-kyrð og unaðs-veðurblíða.

Nú er grundin fagra' að flagi orðin,
flett er burtu hennar grænu klæðum.
Gróðafíknar háu fórnar-hofin
híma' í kring sem uppi-döguð tröllin:
Grásteins andlit grett með skugga-fyllum
glápa köld og líflaus út í bláinn.

Nú er lautin lögð í aur og horfin,
litli bollinn okkar sólskins-fulli;
— svona stendur menningin 'in mikla
moldug yfir þúsund jarðarförum —,
þar við sátum, sólin þegar rauða
seig í báli nið'r í sléttu-hafið.

Minning geymd og hrörnun halda tengdum
höndum yfir þessum gömlu slóðum.
Draumur dreymdur, hugsun löngu hugsuð
hvarflar enn um þessar fornu stöðvar.

Vestanskinið verpur enn að gluggum
vinar-kveðjum dags og sólarlagsins.

Mér um hjartað hlýnar, þegar geng ég
hjá því hinu gamal-kunna húsi,
finnst þó eins og eigi hvergi heima,
alltaf sé að bíða eftir fari,
hafi kvatt og orðið þarna eftir
af þeim, sem að farnir eru og horfnir!

## *Á SIGLINGU*

Kvöldar um haf og heldur
hrönnin knerri í önnum.
Fjöll eru að rísa' og falla,
fleyið veltur á legi.
Glettingar-bára grettist,
gneyp yfir þiljur steypist,
gnýþung á stokkum gnestur,
gnollra seglin af hrolli.

Eimvélin dæsir, ymur
úfinn boðinn og skrúfan.
Viltur er söngur seltu:
sæhljóð í öllum ljóðum
vinda, og langt til landsins,
langar mig komast þangað.
Unn, þó að kyssa kunni,
kaldrifjuð breytist aldrei.

## *LJÓSBAÐ*

Vetur er nú úr vona-bæ,
vor fyrir sálar-augum.
Nóttina af mér alla' ég þvæ
úti í dagsins laugum.

## *SJÓÐÞURÐ*

Gekk til þurðar gleði-forðinn,
glaumsins tæmd var skál.
Landfastur er ísinn orðinn
í hans kældu-sál.

Fönn er í svipnum, frost í brosi —
frýs það sjálft í hel;
andinn kaldur, úfinn rosi,
orðin hríðar-él.

## *HANN KUNNINGI MINN*

Mjög sjaldan á nábúa dyrnar hann drap,
var dulur í hugsun, en skoðunin föst;
og ekki menn kváðu' hann við alþýðu-skap,
og ærinn það töldu á manni þeim löst,
að hann átti' ei samleið við hugsanir þær
og húsgöngu-fleipur, sem daglengis gekk,
og það, að hann eitt sinn var aflögu-fær,
varð einmitt til þess að hann haturs-menn fékk.

Hann hafði þá stefnu sér marksett og mið,
sem mannúðin ákvað og drengskapur hans.
Ei alþýðu-venjan með eldgamalt snið
né okraraskapur hjá pröngurum lands
með dalinn í lófa og loforða-skrum
gat lagt við hann teyming né komið úr stað,
því tálbrögð og hræsninnar flaður og fum
hann fyrirleit jafnt og hann hataði það.

Og of-stór í vasa hvers embættis-gikks
og of-vaxinn hendi hvers metorða-snáps,

og þungur á sveiflu hvers hagsmuna-hnykks
og handfestu brögðunum varmennsku-táps
hann var; en hann lærði' aldrei tízkunnar tök —
hann talaði óhlífðarlega, þó satt,
þá sjaldan hann mælti, og svörin sín spök
við samfeldar hugsanir ramlega batt.

En seig er hún þrákelknin þumbara-lýðs,
og þaulsæt er öfund á rógburðar-jálk,
og blóðugt er tannafar bítandi níðs,
og brestfeld er dyggðin og tryggðin hjá skálk.
Þeir gerðu' honum örðugt og atvinnu-spell
með illgirnis-rógi. En hvað var að sök?
Það eitt, sem þeim lakast í fyrstunni féll:
hann fýsti' ekki við þá að hafa nein mök.

Svo komst hann í fátækt og leiðindi löng.
Í litlum og afskektum kofa hann bjó
hjá börnum og konunni. Bjargráða-föng
öll búin að mestu, en hjarað var þó
á svolitlum leifum frá liðinni tíð.
Við lífið hann þreyttur og nauðugur hékk,
og hversdagsleg umhyggja, stritið og stríð
varð stælingar-viðauki sérhverjum hlekk.

En nú var hann lagstur í síðasta sinn, —
ég setti mig niður við rúmstokkinn hans.
Ég leitaði' að geisla, sem lagt gæti inn
í lágnættis-rökkrið í hjarta þess manns.
Mig langaði' að hressa þá hugdöpru sál,
og hendinni strauk um hans megruðu kinn.
Ég reyndi að hefja upp huggunar-mál,
því hann, þessi maður, var kunningi minn!

Hve umbreyttur virtist mér hann nú í hug,
því horfið var kunnuga viðmótið burt,

sem átt hafði mikið af dirfsku og dug.
Nú dofið var andlitið, kaldlegt og þurt,
með alvöru þeirri, sem eymdanna deild
og örbirgðar-djúp hann til botns hefði rýnt,
og þó svo á svipinn, sem hugsana-heild
hann hefði' út úr sálunni' í ógáti týnt.

Hann þjáðist ei mikið, en legan varð löng,
og lífsaflið smám saman fjaraði út.
En nógu var honum hver stundar-bið, ströng
í stríði við dauðann og fátækt og sút,
því hugurinn vóg hverja einustu ögn
á æfinnar ferli, sem gerði' honum tjón.
En spurningum horfði við húmið og þögn
sem hafdjúpsins geimur við formannsins sjón.

Ég sögn um hans ástand í byggð mína bar,
og bróður-þel ákvað að létta' honum mein,
og fljóttekin íslenzka viðkvæmnin var,
en vastursöm framkvæmdin, spurul og sein.
Um síðir með það, er til samskota fékkst,
— sú summa mig gladdi, þó væri' ekki stór,
því algert ég hafði' ekki' á biðinni blekkst, —
ég bjó mig í snatri til vegar, og fór.

Á kvöldið var liðið, í námunda nótt,
Við nábleikju tunglsins og rökkursins lit
og það, hversu mér fannst allt myrkleitt og hljótt,
við marrið í hjarninu' og golunnar þyt,
mig greip einhver hryllingur farandi' um frer,
sem flóttamanns beygur ég gizkaði á.
Í lautunum svellanna glitti í gler
sem glápandi draugs-augu köld upp úr snjá.

Um stormnædda auðn, eins og stórbrimað haf,
lá stórfenni vetrarins, heflað og greipt.

og allt var sem tröllriðið, togað í kaf,
úr tindrandi ísing og frost-glerung steypt.
En fátæktar hreysi með hélaðri súð
var hjarnið þó skjólauki, fallið að gafl.
Af hreggviðrum lamið og hvítnað og gnúð
það hallaði sér eins og þreytt upp við skafl.

Ég hvataði för yfir fannirnar beint,
í flýti ég vatt mér í býlið hans inn.
En hjálpin sem oftar kom hér nokkuð seint,
því hér var nú látinn hann kunningi minn.
Við hrímhvítan vegginn á fjalir í frið
í frostköldum dragsúgnum lagður var hann.
En lágt sett og blaktandi líksins við hlið
stóð ljós, er á svo-litlum kertis-stúf brann.

Er kvaddi' ég og síðast þar horfði á hann,
mér harma-leið fjölmargra' í anda var sýnd;
hér dauðinn og skorturinn dagstarf sitt vann.
Nú duft er hann orðinn, en gröfin hans týnd.
En seinfæri mannúðar-votturinn varð
í verzlunar-höndum sem gjald fyrir leg.
Og kofinn er horfinn við brekkunnar barð,
og búið að leggja þar alfara-veg.

## *VETUR*

Vetur flakkar frosta-blár,
fannir slakka velja.
Hríðar-bakki hliðar-grár
hreykir klakki élja.

Setur hnjót í beitar-bann,
bræðir grjótið sorum;

þungur mótar hauður hann
hvítum fóta-sporum.

Bæi skorðar skafla-múr,
skekur storðar-kápu.
Hríðin orða-köld og klúr
kveður á norðan drápu.

## *MYNDIN*

Nú sé ég það andlit eigi hér,
sem áður á kvöldunum brosti við mér
í þessum gamla glugga.
Í sálu mér myndin þess sífelt er:
Ég sé hana jafnan hvert sem ég fer,
í skini jafnt og skugga.

## *VÆNGIR*

Vorið úti og íslenzk þrá
inni' í huga mínum
finn ég vængi unga á
enn í förum sínum.

# E. Wium

### *MINNI ÍSLANDS*

Eyju veit ég eina
undir norðri rísa —
dimmu djúpi frá
— upp í heiði hreina,
hún er kend við ísa,
svipmikil að sjá,
beltuð er hún bláa Atlants sænum,
búin hvert um sumar möttli grænum,
haddur fagur, hreyfður fjalla blænum,
höfuð faldað mjallar dúki vænum.

Hún er ættland okkar
allra, sem hér búa
og mæla íslenzkt mál;
seiðir, laðar, lokkar,
ljúft er þangað snúa
huga, hjarta og sál.
Hennar sakna sumir fram til grafar —
sorgar skuggum það á lífið stafar,
heima hvíla ömmur þeirra og afar,
æðri sem að njóta frelsis gjafar.

Eflaust margir muna
móður hjartað varma,
er þeir áttu þar,
sem þó allvel una

út við kveldsins bjarma,
bak við bláan mar.
Samt er kærri dýrðin heima dala,
hvar dunar foss og ótal lindir hjala,
hvar þeir náðu bernsku aldur ala,
er sem drengir hjörðum voru að smala.

Færri, en fegri raddir
fengjum vér að heyra
ættlands ströndum á,
værum vér þar staddir,
vildum ljá þeim eyra,
hrifi oss hljómur sá.
Margt er til í minninganna heimi,
máske sumir trúlega það geymi,
þó að sæludrauma hér þá dreymi,
daprir skuggar trú' ég um það sveimi.

Syngur sætt hún lóa
sóleyjar um byggðir,
engin af 'enni ber
út um mörk og móa,
margra sefar hryggðir,
létt þá lyftir sér.
Miðlar söngnum milli tveggja landa;
meðan kaldir norðanvindar anda
syngur hún und sólu Vallands stranda,
svásum yfir þöllum gullinbanda.

Fríður fjalla hringur
fagurblár með tindum
sveipast sólarglóð,
þar hann svanur syngur,
siglir undan vindum
með sín ljúfu ljóð.

Þar er, held ég, ærið margt að muna,
miklu fleira en suma kann að gruna,
sem um heila eilífð bezt sér una
inn í þessum kanadiska funa.

Efst á Huldu höllum
hvíla jökla fætur,
er þar útsýn bezt,
sitja á sólar fjöllum
sumars bjartar nætur,
er það yndi mest.
Þá vakir „Samos“ yfir íshafs öldum
ofar hjarans straumi, voða köldum,
glansar roðans gull á báru földum,
geislabrot í loftsins skýja tjöldum.

Farðu hærra, hærra!
hæsta upp á tindinn,
himins heiði mót
lífs er loftið skærra,
ljúfari sjónar myndin,
en kringum fjallsins fót;
allt um kring er eilífð bláskínandi
yfir þínu kæra föðurlandi,
norðurljósa leiftrin síkvikandi,
líka stjörnumergðin óteljandi.

Svona er sögu landið
sumarklæðum búið
fegra en flest að sýn;
geysi vetrar grandið
glæsi-skrúða rúið
hylst í helkalt lín;
því með sumri sólardýrðin þrýtur,
sjónfegurðar enginn framar nýtur,

aldan trylld á öllum ströndum brýtur
ægileg, en voðastormur þýtur.

Sanna á það sögu
sex og fjörutíu
yfir þúsund ár.
Frjáls var hún og fögur,
fólki veitti nýju
allar æðstu þrár.
Rángirninnar undan fjandskap flúin
flóttamenn þar reistu elztu búin,
síðar þó und konungs ánauð knúin,
kristna þar að studdi guðatrúin.

Frægðarljóminn forni
fölnað aldrei getur
ótal alda stig,
ef hinn endurborni
á að skína betur,
hann má herða sig.
Það var gull í gömlu Íslendingum,
geisla-ljóma æ þá slær í kringum,
hvar sem voru, heima eða á þingum,
halda vildu sínum mannvirðingum.

Þjóðernið er þetta:
barna byggðu saman
mestu afreksmenn,
tengdir tóku flétta,
tvíllaust jók það framann,
eimir af slíku enn.
En það spillist, aldir þegar renna,
öðrum stofni má um þetta kenna,
á þjóðlífs arni þrælatýrur brenna,
um þeirra áhrif lengi mætti senna.

Hin forna snilld er farin,
finnst þó margt, sem þaðan
enn er arfur vor.
Þá hvarf sá hetjuskarinn,
hafa gjört oss skaðann
þungbær þrautaspor.
Eina helzt á arfleifð hér ég bendi,
enginn sem að rændi, stal né brenndi,
málið, sem þér móðir og faðir kenndi,
máttu aldrei láta það af hendi.

Gegnum ár og aldir
er sú dýra perlan
arfur árum frá;
vér þá vorum kvaldir,
vissu fáir gerla,
hve dýr var sjóður sá.
Finnst nú hvergi fegra mál í heimi,
fegurð þess ég vona að enginn gleymi,
þó um eilífð enska dýrð hann dreymi
og drottni yfir landsins mikla seimi.

Ef oss ætti að kúga
arfi þeim að glata,
máli missa af —
betra braut að snúa,
beint vér myndum rata
austur Atlantshaf.
Sóleyingar sjálfir myndu fleyta
sonum týndum, heim til föður reita,
alla hjálp og aðstoð fúsir veita,
ef á þeirra manndóm vildum heita.

Eftir rökkur alda
er nú sögð að vera
þjóðin frí og frjáls,

rofin kólgan kalda,
kynlegt því að bera
konungs hlekk um háls. —
En steyptir gripir stökkir eru og brotna
stundum fyr en langir tímar þrotna.
Og ég vona alfrjáls megi drottna
áður leifar konungsvaldsins rotna.

Gegnum allar aldir
óska ég hún lifi
út við norður-átt,
þó stormar stríðir, kaldir,
steypist jörðu yfir,
beri 'ún höfuð hátt.
Guðs af hendi sé hún vígð og varin,
veröld meðan situr lífs við arin,
þar til sekkur sólin hinnzt í marinn,
síðsta stjarna er af himni farin.

# Þorskabítur

### *HIMNAFÖRIN*

Klerkur dó og komst til himins sala
um kvöldið, þegar fólkið var að hátta;
við hinn æðsta vildi fá að tala.
Var það leyft, þó farið væri að nátta.

Fram til dyra fylkir himins skara
fer, því gestinn vill ei láta bíða,
spyr að heiti, hvað hann sé að fara,
hví hann beri mussu svona víða.

Ég er, sagði' hann, alfaðirinn mildi,
einn af þínum dyggu sauðasmölum,
hjörðina sem verja ætíð vildi
vargakjöftum niðri' í jarðardölum.

Og ég held mér allveg tekist hafi
öllum skila', er gæzlu þáðu mína,
oft þó væri ataður með drafi
óguðlegra villutrúar-svína.

En ég þagði' og þolinmóður barðist,
þó að stundum tómur væri maginn;
grimmum úlfum aftan og framan varðist,
unz ég hneig í valinn hérna' um daginn.

Þá um leið ég bergði' á þínu blóði,
bjartan opnast sá ég himnaveginn.

Nú er ég kominn, náðar herrann góði,
nestislaus og rifinn báðumegin.

Þannig okkur launar jarðarlýður
leiðbeining að þínum helgidómi. —
Gat ei varist brosi drottinn blíður,
bráðlega þó sagði' í fullum rómi:

Það er ávallt sama gamla sagan;
sultarvæl og dapur betlikliður.
Hempuna þína hengdu þarna' á snagann;
holað skal þér einhvers staðar niður.

## *HEILRÆÐI*

Þó hafir ei nóg til næsta dags,
þá nöldraðu' ei hót, en éttu strax
með ánægju úr askinum þínum.
Um ókomið hungur hugsa' ei par,
en háttaðu' og lestu bænirnar;
því „sofandi gefur guð sínum".

## *EYJÓLFUR MAGNÚSSON*

*(Ljóstollur).*

Frændi sæll! Ég fékk í dag
fregn, að þú sért dáinn.
Senn er komið sólarlag.
Sé ég út í bláinn.

Langt í burt til baka sýn
birtist mínum anda.
Lífsins ferða forlög þín
fyrir mér opin standa.

Ungur fórstu út í heim,
æsku vonum hlaðinn.
Óðar týndir öllum þeim;
aðrar komu í staðinn.

Allt á ferð og flugi var
fyrir sjónum glöðum.
Oft eru leiðir óhreinar
upp að þroskastöðum.

Enginn varnarorð þér gaf,
eða vinur fylgdi;
eiturblóma bikar af
bergðir meira' en skyldi.

Spilltur vani spjátrungsgjarn
spillti þínum öflum.
Villtra nautna varstu barn,
villtist því með köflum.

Þegar komst í sukk og svall,
sjálfgáts veiktist kraftur;
mörg þér hvefsnishnúta skall;
hnútu sendirðu' aftur.

Léttur í spori' og þanka þauzt
þey lífs undan stinnum,
hófseminnar helgi brauzt
hundrað þúsund sinnum.

Lífs-kjölfargs varst ætíð án;
án þess hætt er fleyi.
Það, sem kalla lýðir lán,
lánað var þér eigi.

Ánægjan þér aldrei brást,
arfur snauðra bezti.
Utan á þér aldrei sást
annað veganesti.

Margan háttinn kvaðstu, kátt,
kátt því lyndi barstu.
Loks þó dátt varð geðið grátt,
grátt því leikinn varstu.

Mörgum beindir braut af stað
barns ófleygum anda.
Smátt þó virti þjóðin það;
þótti á litlu standa.

Hennar vilja hallröng met
hnitmiðunum týna.
Illa vegna löngum lét
ljóstollana sína.

Þönglabökkum þjóðlífs frá
þú hefir tekið feginn
síðsta stökk. og stigið á
ströndina hinumegin.

Þótt þú mjór til menningar
maura virtist sálum,
hver veit nema þú sért þar
þyngri' á metaskálum?

Eftir dauðan ólánsmann
oddborgarar segja:
„Enga köllun átti hann
aðra en lifa' og deyja".

Um það mæla minnst er bezt.
Má þó ekki dylja:
Þeir, sem klifa á köllun mest,
köllun ekki skilja.

*LÍFSFERÐIN*

Líf vort er fleygings ferðastjá
fjölbreytni veginn sléttir,
skyndilega því skiftast hjá
skuggar og sólskinsblettir.
Haldið er fram að feigðarsjá,
fjölga skuggarnir þéttir.
Út í þokuna allir gá,
enda þar lífsins sprettir.
En — það, sem kemur eftir á,
eru nú verri fréttir:
Ef hittum einhverja hnetti þá,
sem hót eru ei betur settir
en jörðin, sem við fórum frá,
og framliðnir apakettir,
sem búnir voru oss að fleka og flá,
fylla þar allar stéttir
og ráða þar lófum og lögum — já,
sem lygi eru rán og prettir —
og draga oss á ný í duft og hrjá —
deyjum svo þar á eftir.
Verðum svo stjörnu nýrri að ná,
sem náhrafnar byggja grettir.
Þar sem að ekkert er að sjá,
æðri sem geyma hnettir.
En óræktarflákar með ýlustrá
eru þar gróðri flettir.
Yzt í horninu heljarkrá,
þar halanum fjandinn slettir.

Ó, herra minn, lát mig þá heldur fá
þann höfga, sem aldrei léttir.

## *TIL ÍSLANDS*

Á vegamótum mararstrauma
eg man þig, kæra feðraland,
þú vagga minna vona-drauma
þó vonir allar færu í strand.

Þá vorsins boði sunnan svífur
og sólin hækkar lofti á,
sú minning ljúfa hug minn hrífur
og hjartans löngun þig að sjá.

Ei hugann geta fjötur fangað,
nein fjarlægð honum villir sýn,
svo óðar kominn eg er þangað,
sem æsku liggja sporin mín.

Þar, lágt hjá bæjarlæknum kæra
eg leggst og feginn þorsta slekk.
og fjalla loftið létta, tæra,
í löngum andarteygum drekk.

Þar lít eg fjöllin — forna vini,
og fagra dali, héruð græn,
er baða sig í sólar skini,
en syngja fuglar morgunbæn.

Þar heyri' eg fljóta' og fossa niðinn
og fjallalæk með skvaldrið sitt,
og hlusta' á ljúfa lofsöngskliðinn,
er lóan flytur minni þitt.

Af fuglum öðrum blíðróm ber hún,
hann berst um heiðar, dal og fjörð,
og forsöngvari enn þinn er hún
við engla vorsins messugjörð.

Já, þannig nýt eg þeirrar gleði,
í þinni dýrð að baða mig.
Því mest er hressing mínu geði
að mega í anda nálgast þig.

Þótt eigi eg heima' í öðru landi
og eyði líkams kröftum hér,
í svefni og vöku er minn andi,
mín ættjörð kærá, samt hjá þér.

Eg hugsa um þig og þína hagi.
hjá þér er allt, sem mér er kært,
og fram að síðsta sólarlagi
eg sakna þín með geðið hrært.

Eg veit, að sé þig aftur eigi,
í útlegð verð að deyja hér,
en vona, er svíf með feigðar-fleyi,
eg fái' að koma við hjá þér.

Og heilsa þér, svo hjartað finni
þá huggun, sem að þráði títt,
að kveðja þig í síðsta sinni
með sonar óskum kærleiksblítt.

## *TIL JÓNS SKÁLDS RUNÓLFSSONAR*

Þú hefur mengi letrað ljóð,
líkt og drengir fleiri.

Þau eru fengur, — þrumuhljóð
þó að enginn heyri.

Leiftrin hljóðu listaþrá
lýsa, er hróður varðar.
Minna ljóðin ljúfar á
lindir móðurjarðar.

Sem að hjala hljótt og blítt
heima í valaranni,
oft er svala þóttu þýtt
þyrstum smalamanni.

Þínar líða ljóðæðar
léttar, blíðugjarnar.
Ekki síður ágætar
eru þýðingarnar.

## *KVIÐLINGAR KÁINS*

Kviðlingana hans Káins snjalla
kvöldið fyrsta las ég alla.
Mikið þótti mér hann spjalla.
Margoft hló ég upp úr þá.
Fagurt galar hann fuglinn sá.
Láta slíka fyndni falla
fáum takast mundi.
Listamaðurinn lengi sér þar undi.

Allt er þar svo létt og liðugt,
leikandi og slétt og sniðugt,
en þó bæði sett og siðugt,
siðprýðinnar gloríá.
Fagurt galar hann fuglinn sá. —

Slípað, en hvergi af sléttum ryðugt,
slyngu lýsir pundi.
Listamaðurinn lengi sér þar undi.

Aldrei verður hann efnisvana,
alltaf nóg í kviðlingana.
Leikur hann sér við hænu og hana,
hunda, ketti og svínin smá.
Fagurt galar hann fuglinn sá.
Hnippir líka í heimskingjana
hugsunar í blundi.
Listamaðurinn lengi sér þar undi.

Flýgur hann yfir fjallabrúnum,
fimur að beita kýmnirúnum;
leggur mál í munn á kúnum,
meinyrtar svo verða þá.
Fagurt galar hann fuglinn sá.
Tekur hann ofan fyrir frúnum
og fríðri mey í lundi.
Listamaðurinn lengi sér þar undi.

Þornuðum hjá lífsins lindum,
— leiðir margt af þjóðarsyndum —
blótar hann þurrum beinagrindum,
Bakkus sem að vilja hrjá.
Fagurt galar hann fuglinn sá.
Skellihlær að skrípa kindum,
þá skvampa á hundasundi.
Listamaðurinn lengi sér þar undi.

# Jón Runólfsson

---

## *SEFÝRUS*

### *EÐA GUÐ VESTANVINDSINS*

Á vorkvöldi síðla eg sveima
  í svífandi blíðviðris ró,
og er þá í dimmunni að dreyma
  um dýrðina handan við sjó.

Við æskunnar uppsprettulindir
  í anda ég svölunar nýt;
og hugarins margþreyðu myndir
  í minninga-speglinum lít.

Frá blómunum andar og angar
  svo ástblítt, en tregandi þrá
ég brenn, því mig lifandi langar
  að lyfta mér sléttunni frá.

Og kvöldbjarminn heiðgullinn hikar
  sem hug mínum vilji hann ná;
og laufið á kvistunum kvikar
  og hvíslast í golunni á.

Í austrinu blástjarna blikar
  sem blaktandi gleymdu-mér-ei,
og aldrei úr horfi hún hvikar
  um hársbreidd að feðranna ey.

Í vestri hann hikar og hikar,
eg held þó hann sigri mig ei.
Í austri hún blikar og blikar
og bendir að feðranna ey.

Þá ómar sem angurblíð harpa
frá æskudalshlíðunum þeim,
og huganum viðkvæmt eg varpa
með vængléttum Sefýrus heim.

Því Sefýrus blævængir blaka
í bláheiðum vornætur geim,
með elskhugum vestursins vaka,
að varpa þeim sárfegnum heim.

Um kvöldgáttir sólar hann svífur
með sólkveðju-brosið í hug,
og kyssandi, hressandi hrífur
hvern hryggðsleginn anda á flug.

Þá yngist upp ættjarðarþráin
í íslenzku brjóstunum hér;
já, margt er á sveimi um sjáinn,
er Sefýrus vestan að ber.

Og austur um ómælisleiðir
sem elskhugi líður hann hljótt
að sjá þar sem sólin sér greiðir
við sæinn á Jónsmessunótt.

Já, þannig til dalanna duldu
svo dularfull heimsókn er gjörð;
hann svífur með hug vorn á huldu
að helgidóm lífs vors á jörð.

Hve ljúft er, ef sár vilja svíða,
með Sefýrus vænglétta þeim
að mega þá lyftast og líða
með langanir hjarta síns heim.

Í dalskautið draumfagra, blíða,
þars' dvöldum vér glaðasta stund
við silfurspil syngjandi hlíða,
með sólskin í barnglaðri lund.

Ef erlendar brautir oss þreyta
á þungsóttri frumskóga braut,
er huganum hægast að leita
sér hvíldar við ættjarðarskaut.

Því fjaðrir hans hafið ei heftir:
á heiðvæng um ljósvakann blá
hann svífur, þótt sitjum vér eftir
með söknuð og ættjarðarþrá. —

Ó, Ísland, vort ættlandið fríða!
vort eigið í hagsæld og þraut.
Guð komi í blænum þeim blíða,
að blessa og frjóvga þitt skaut.

Guð elskunnar blævængjum blaki
að bliðhugar varmanum þeim,
er rís nú að bænanna baki,
og barnið þitt hér sendir heim.

## *ÞEIR SPURÐU — VÉR SVÖRUÐUM*

„Ó, seg oss“, þeir báðu, „hve fleygi fám
vér forðað við þessi sker,

sem grunnsævis aldan ríður rám".
„Róið þér", sögðum vér.

„Ó, seg oss", þeir báðu, „hve seiða má
sorgirnar brjósti úr".
Til svars vér aftur sögðum þá:
„Sofnið þér vænan dúr".

„Ó, seg oss, hve hana sigra má",
þeir sögðu, „er dýrst oss er,
svo varpi hún líf vort ylsól á".
„Elskið þér", sögðum vér.

## *HILLINGAR Á SAHARA*

Fagurtyrnd og fannhvít skín
fyrirheitna borgin mín
handan vötnin blóðlit, breið, —
beina pálmar minni leið.

Þarna' að síðstu, sagði eg þá,
sjá eg takmark lífsins má.
Þarna' er andans hugþreyð höfn
handan þessa blóðgu dröfn.

Ógnir mér ei aftrað fá
endimörkum þeim að ná.
Engin tálman, engin neyð,
ótal pálmar vísa leið.

Skeiðið þreytt til enda er —
eyðimörkin sama hér
glóðheit, skrælþur, skjóllaus, ber;
skefur sand í augu mér.

## *FJÖLMÖRG ER KIRKJUNNAR KREDDA*

Fjölmörg er kirkjunnar kredda
og kenning um líf og hel.
En allt það, sem við á og — vantar
í veröld, er — bræðraþel.

## *AUMINGJA STJANA*

Aumingja Stjana,
aumka ég hana,
að eiga' 'ann svo veilan og vælinn.
Alvaldur kæri,
áttu' ekki snæri,
að hengja helvítis þrælinn?

## *Í MYRKRI*

Hann mætti henni á myrkum stað
og mælti': „Ert þú það, elskan mín?"
„Ekki er nú svo, að það sé það,
það er bara konan þín".

# Jónas A Sigurðsson

*MINNINGARSTEF*
*við afhjúpun minnisvarða séra Jóns Bjarnasonar, dr. theol., 2. ágúst 1917*

Þú fyrstur hér kenndir feðratrú
á feðranna kæru tungu.
Og lagðir á milli landa brú,
hvort lof eða hnjóð menn sungu.
Og fórnaðir öllu að efsta blund
í eldraunastríði þungu.

Sem andlegur klettur, — óskasteinn,
í íslenzku trúarróti
þú stóðst, og það enda stundum einn,
— þó straumar vort landnám brjóti. —
Þér ástvinahendur hafa reist
og helgaðan varða — úr grjóti.

Á bjargi aldanna byggðir þú
sem börn vorrar þjóðar forðum.
Og feðranna varðir tungu og trú
með tállausum föður orðum. —
Við legstað þinn biðja börn þín nú,
að bygging þín standi í skorðum.

Við legurúm þitt á laufgum stað
skal lengi þinn varði standa.
En lengur við njótum lífs þíns að
og leiðsagnar kristins anda. —

Þú reistir þér beztan bautastein
í byggðum sem hjörtum landa.

Þó hvílir þú fjarri feðràreit
og faðmlögum þinnar móður,
þú elskaðir fjall og fjörð og sveit
og fornhelgan andans gróður; — -
hin íslenzka þjóð, þín óskabörn,
og ættjarðar frægð þinn hróður.

Á meðan um fagra fósturjörð
að frjóangar lifna dala,
í byggðum er íslenzk bænagjörð,
og börnin við mæður hjala: —
um lifandi trú á land og Guð
þinn legsteinn mun ávalt tala.

## *VESTUR-ÍSLENDINGAR*

Við komum með trefil og klæddir í ull,
og kunnum ei enskuna' að tala.
Við áttum víst langfæstir góz eða gull,
né gersemar Vesturheims dala. —
Með sauðskinn á fótum og sængurfot heit,
með sjal og með skotthúfu' og poka; —
við fluttum þá útgerð í óbyggða sveit,
og „Enskinn" við báðum að þoka.

Að fötum og útliti' 'inn hérlendi hló,
og hæddist að feðranna tungu.
En haldgóð varð útgerðin íslenzka þó
í eldrauna lífsstarfi þungu. —
Við kunnum ei verkin, við áttum ei auð,
og ekkert í landsmálum skildum.

En Stórbretann sjaldan við báðum um brauð,
því bjargast og menntast við vildum.

En höndin var kreppt eftir hafrót og slátt,
og herðarnar bognar af lúa.
Á sveitinni átt höfðu ofmargir bágt —
og örbirgðin flesta mun kúga, —
en íslenzki farþeginn flutti þó arf
í farangri öreigans vestur:
að hvar sem hann dvaldi við strit eða starf
eða stjórnmál — þá reyndist hann beztur.

Við þriðjungshvörf aldar — með erlendri þjóð,
hinn íslenzka Beina-Hött* sjáið:
Þau hörðustu lífspróf í heimi 'ann stóð,
og hérlenda flimtið er dáið. —
Nú kennir hann málið, sem kunni 'ann ei,
við kirkjum og skólum fékk tekið;
og settist við stýrið, er Stórbretans fley
í strand hafði nálega rekið.

Þó týnist hér íslenzkir treflar og skór,
ei tapast má þjóðernið lýði.
Því munið: Vor andlegi arfur er stór,
og útgerðin haldgóð — í stríði.
Og seljið ei íslenzkar sögur né ljóð
við svikamynt trúðanna slægu;
en varðveitið ómengað ættjarðarblóð,
og íslenzku tunguna frægu.

* Sbr. sögu Hrólfs kraka.

## *JÓLAKVEÐJA*

Kynni eg andans rún að rita,
réði mestu um Frosta þing:
inn í sumar, sól og hita
syngja vildi eg Íslending.

Frostið ógnar, firrist sólin,
friðarskortur þjáir enn. — —
Eindrægninnar andi um jólin
alla vermi kalda menn.

Ef að glatast geislinn, sólin,
guðar nótt á æfiskjá:
Eins og broshýrt barn um jólin
bernskuljósin tendra þá.

Minnstu frænda, feðra, mæðra,
finndu snauðum kærleiksskjól,
þvoðu fætur þinna bræðra —
það er að halda kristin jól.

## *Á MOUNTAIN 1. JÚLÍ 1928*

Hló við skara heldri manna
höfuðsetur landnemanna, —
sólskins gull í grænum lundi,
glitklædd þjóð á hátíð undi. —
Veg, er þreyttra þrúgur tóku,
þúsund bílar hraðan óku.

Íslenzk sveit, í álfu nýrri,
auðguð menning þjóða dýrri, —
vestræn dóttir víkinganna,
vagga margra oddvitanna;

Hliðskjálf víðsýns ættar-andans,
Iðavellir sjálfstæðs landans.

Úthafsbarna byggðin ríka,
blessan hvergi sá ég slíka:
Akrahaf — sem Húnaflói,
háreist býli, vafin skógi.
Og í brekkum blárra fjalla
blessa skólar, kirkjur alla.

Hrjáður, norrænn heimskautslýður
hér á allt, sem nútíð býður.
Eftir hálfa öld í sveitum
auðnin varð að blómareitum,
öreigar að óðalshöldum,
æskan krýnd að lærdóm, völdum.

Hver má feðra telja tárin,
tap og gróða fimmtíu' árin,
bera fætur, blóðgar hendur,
brostin augu' um þessar lendur?
Hvernig hér var barizt, beðið,
bókvit iðkað, sungið, kveðið.

Allar fórnir öreiganna,
elztu og fyrstu landnemanna, —
útlendinga í óbyggðonum, —
aldrei fyrnast dætrum, sonum.
Þeirra fórn og þeirra andi
þjóðnýtur var sveit og landi.

Arfinum frá áum slíkum,
Íslandi og Bandaríkjum:
enginn glati, enginn gleymi
Íslendinga í Vesturheimi.
Úthafs barna byggðin fríða,
blessi' þig faðir allra tíða.

# Jóhann Magnús Bjarnason

### *ÍSLENZKUR SOGUNARKARL Í VESTURHEIMI*

Settu þig niður á saghestinn minn, hann svíkur þig,
vona ég, ei,
því þó hann sé lélegur, lagsmaður góður, þá lýist
hann ekki, það grey.
Það er ég, sem að þreytist, og þola verð; en ég þoli
nú samt ekki neitt,
því kraftur er mér úr kögglum nú, og karlmennsku-
fjörið er eytt.

Í sjötíu ár hef ég seiglazt fram — í sjötíu ár og
fimm —,
og mörg hafa verið mild og björt, — en miklu fleiri
þó dimm;
en svörtust hafa þau verið víst, síðan villtist ég hér
á land,
því hvað hef ég borið úr býtum hér, nema barasta
eymd? — Ekki grand!

Ég hef ráfað með sögina' og saghestinn minn, eins og
sauður um graslausan mó;
ég hef læðzt, eins og þjófur, og skimað og skyggnzt
inn í skot hvert og afvikna kró,
til að vita, hvort sæi ég stokk eða staur, sem stýfa ég
mætti í tvennt,
— en vitaskuld fyrir þóknun þó, sem þessa lands
börn kalla *cent*.

Í brennandi hitanum brenni ég hjó, svo blóð út með
svitanum rann,
en í hörkum á vetrum á fótum ég fraus, — þegar
fáklæddur — hálfur ég brann.

Skjálfandi hendi ég drep æ á dyr, þar sem dálítið
brenni' er að sjá,
og svo byrjar jafnan sú þraut, sem er þyngst: að
— þylja mín bænarorð fá.
Ég kann ekki enskuna, kunningi sæll, en *„kott vúdd
sör“* er mitt hróp;
svo hristi ég sögina', eins hratt og ég get, svo þeir
halda mig argasta glóp.
Og ef þeir nú skilja, hvað á ég við, er eftir að semja
um laun;
ef *„dollar“* ég segi, að *„kott vonn korð“*, er sem kenni
þeir óþverra daun:

Þeir blása og púa, og banda mér frá, unz boð mitt á
við þeirra skap,
því þeir verða að græða, þeir miklu menn, en mitt
er að bíða tap.

Og þrátt hef ég orðið að etja kapp við ítalskan þver-
úðar-durt,
sem býður sig fyrir svo lítil laun, að ég labba verð
jafnan á burt.
Og enginn vill mæla mér orð í vil — nei, enginn vill
sýna mér stoð,
því hærurnar veita ei hagnað neinn, en heldur hið
lægsta boð.

En þó hef ég hitt fyrir hjartagott fólk, — en heldur
fátt er það samt —
sem boðið mér hefir brauð og smjör, — að biðja mér
ekki er tamt.

Sko! frakkann þann arna gaf frúin mér, sem fremst
þarna í strætinu býr,
af manninum hennar ég meina' að hann sé, því mjög
er hann þéttur og hlýr.

Og skenkjarinn hérna mér skó þessa gaf — en það
skrapp fram á varir hans glott,
því fyrirtaks gapi og æringi' hann er, en undur er
hjartað hans gott.

Svo ei má ég segja, að *enginn* sé til, sem aumkvar
mín báglegu kjör;
en bágt er að þiggja', eins og betlikarl, sem bráðum
er lagstur í kör.
Já, þungt er það, segi' eg, að þiggja gjöf, eins og
þurfandi mannfélags-hrak,
fyrir þann, sem að eitt sinn svo efnaður var, að öðr-
um lét skýla sitt þak.

Þú spyr: hvort að engan ég eigi hér vin, eða ærlegan
vandamann neinn.
Nei, frá eru vinir og frændur og börn, svo fáráður
stend ég hér einn.

Ég kom hingað vestur með Katrínu og Björn, en Kata
mín veiktist og dó;
hún þoldi' ekki loftið, svo þurrt og svo kalt — en
þægindi skorti og ró;
í þvottahúsinu' hún þreyttist um of, því þreklítil var
hún og smá,
og betur hneigð fyrir bóklega mennt, — sem bein-
línis var hennar þrá.
Ég unni' henni heitast, því yngst hún var af öllum
börnunum fimm,
og væri' hún á lífi, þá væru mín kjör eins væg og
þau nú eru grimm.

Björg mín var ætíð svo fljótráð og fröm, en fríðleik
hún ljómandi bar.
Og tælandi glaumurinn ginnti' hana fljótt, svo hún
gleymdi, hvers dóttir hún var.
Svo tryllti' hana einn þessi tálfríði sveinn, og tældi'
hana langt á burt;
já, hann stal henni reyndar, sá stásslegi gaur. — Þau
struku, ég veit ekki hvurt.

Átti ég sonu? Svo átti ég víst. — Já, enn þá er minn-
ingin skýr.
Og duglegir menn voru drengirnir mínir — dreng-
irnir mínir þrír.

Menn sögðu, að Björn væri sterkari' en Steinn, sem
sterkari mörgum þó var,
en Rafn hélt þeim báðum, ef rann þeim í skap, svo
ramefldur var hann og snar.
Þá langaði snemma að leita til hafs, — á landi þeir
festu ekki ró;
þeir elskuðu volkið, og veðrin hörð, og voru því
jafnan á sjó.
Og svakaleg mörg þeirra sjóferðin var; en hin síðasta
varð mér of dýr;
þeir drukknuðu, veslings drengirnir mínir — dreng-
irnir mínir þrír.

Ég átt hefi mikið — og oft verið sæll — en allt er
það horfið og misst.
Hér hími' eg, sem stormbarin, afgömul eik, sem
engan á laufgaðan kvist.

## *GRÍMUR FRÁ GRUND*

Austan um haf kom hann Grímur frá Grund;
þeir gáfu' honum land út við *Parry*-sund.
Og þangað um haustið með föng sín hann fór,
þá freðin var jörð og kominn var snjór.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þreklegri sýndist á velli, en hann;
því sterkur var hann og stór.

Hann reisti sér kot, hann ruddi sinn skóg,
og ræktaði garð, þegar leysti snjó;
hann girti sitt land, hann bjó sér braut,
og breytti í engi sérhverri laut.
En enskir sögðu, að engan mann
ötulli hefðu þeir séð, en hann.
Og heiðurs-orðstír hann hlaut.

Og svo liðu árin, að Grímur frá Grund
varð gildur bóndi við *Parry*-sund.
Hann ræktaði garðinn, og ruddi sinn skóg,
hann reri til fiskjar, — og söng og hló.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þvílíka atorku sýndi og hann.
Að laglegu búi hann bjó.

En svo kom þar fár í bæ og borg,
sem breiddi' yfir héraðið trega og sorg;
það kom og til Gríms — í kotið hans inn —
svo konuna missti' hann og drenginn sinn.
En enskir sögðust ei séð hafa mann,
er söknuður beygt hafði meir en hann,
því tíðum var tárvot hans kinn.

Í garðinum tók hann grafir tvær,
með „gleymdu-mér-ei“ hann skreytti þær.

Er sól rann til viðar, hann settist þar,
og sár var sá harmur, er hjartað hans bar.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þögulli væri og gætnari' en hann.
Því varkár maður hann var.

Og grannar hans buðu' honum betri kjör, —
þeir buðu' honum þangað, sem meira var fjör —
þá benti hann grafirnar grænar á,
og gat þess, að seint mundi' hann hverfa þeim frá.
En enskir þóttust ei þekkja mann,
sem þolmeiri og tryggari væri en hann;
þeir vel kváðust vita hans þrá.

Og svo liðu árin, að Grímur frá Grund
varð grár af hærum við *Parry*-sund.
Hann reri til fiskjar, hann ruddi sinn skóg,
og ræktaði garð, þegar leysti snjó.
En enskir sögðust ei séð hafa mann,
um sextugt, með hár eins hvítt og hann.
— Einn sínu búi hann bjó.

En nú eru í garðinum grafir þrjár,
þar grænkar á sumrum víðir smár.
Og enn stendur kotið við lítinn lund
hjá læk, sem að rennur í *Parry*-sund.
Og enskir segjast ei muna mann,
sem meiri staðfestu bar en hann,
— hann íslenzki Grímur frá Grund.

## *SMALADRENGURINN*

Það þyrlast upp úfin skruggu-ský
yfir skógarins grænu rönd,

og logn-aldan kveður svo kaldranaleg
í kyrrðinni' út með strönd.
En gusturinn þýtur í toppum á trjám,
svo titrar hvert lauf á grein;
og út úr myrkviðar-fylgsnum flytzt
svo fárlegt eymdar-vein.

Það heyrist samt ekki til kýr-klukknanna,
þó komið sé undir nótt.
En verði' ekki mjólkað í tæka tíð,
þá tautar húsfreyjan ljótt;
og fari' ekki smalinn strax á stað,
mun stafa' af því hryggð og tár;
— eða komi hann aftur, en kýrnar ei,
þá kemur til vöndurinn sár.

Hver hirðir um hamingjulítinn
og huglausan smalapilt,
tólf vetra gamlan, sem engan á að?
— Hver ærist, þó hann fari villt?
Vill nokkur vægja þeim vesaling,
þegar veikur og kvíðinn hann er?
Er nokkur, sem reynir að ráða bót
á þeim raunum, sem hjartað hans ber?

Hann má ekki kvarta', hann er munaðarlaus,
og marklaust allt hans hjal;
og því, eins og rakki', er hann rekinn á stað
út í rökkrið í myrkviðar-sal.
Svo skellur á veðrið, með skruggu-gný
og skaðræðis eldinga-flug,
með steypiregn og storm, sem vinnur
á sterkustu eikum bug.

Ársólar-geislarnir gylla
ina grænu skógarins rönd,

og sogandi lognaldan suðar
  við sandinn inn við strönd;
hjá hliðinu glamrar í kýr-klukkunum,
  og kátt er um skógar-geim;
en vesalings smalinn, sem engan á að,
  er enn ekki kominn heim.

## *SUMARKVÖLD*

Röðull er nú runninn,
það rökkvar í bjarkanna geim;
en máninn skýzt upp úr skógi
og skimar um Vesturheim.

Logn er á vík og vogi,
í vatninu speglar sig strönd;
en máninn skýzt upp úr skógi
og skyggnist um Vesturlönd.

Náttgalinn kvakar klökkur
í kjarrvið yfir frá;
í fjárbjöllum glymur og glamrar
þeim grænu runnum hjá.

Í eikinni ugla húkir
og ötul til veiðar býst;
hún starir á huglítinn héra,
sem hræddur um runnann skýzt.

Það bærist ei blað á kvisti,
svo blítt er nú og rótt;
en vindaský er í vestri —
ég veit, að það hvessir skjótt.

Í kvöld býr mér kyrð í huga, —
ég kvíði ei neinni þraut, —
en ef til vill hvessir þar einnig
áður en nótt fer á braut.

## *HAUGUR HINS HVÍTA MANNS*

I.

Hár ris í skóginum haugur;
halda þar birkitrén vörð,
og náttuglan veltir þar vöngum
á vorin, þá grænkuð er jörð

Og haugsins við hærri endann
er hellu-bjarg rúnum skráð;
en enginn fær lesið það letur,
því löngu það orðið er máð.

En ljósust er línan hin efsta;
og lærðir það staðhæfa menn:
að „B" merki stafurinn stærsti,
en stafurinn síðasti „n".

Og eir-rauðu mennirnir eiga
sér all-nærri byrgi þar,
og þjóðsögu gamla þeir geyma
um garpinn, sem *heygður* var.

Þar söngva um sól og mána
þeir syngja, og stíga dans,
og segja, að haugurinn heiti:
*„Hölðin 'ins hvíta manns"*.

Og eir-rauðu mennirnir einir
átt hafa söguna þá;

og margoft ljúfun sögð var og sungin
þeim sólugu kofum hjá.

Og þegar við langeld þeir liggja,
og logn er og himininn blár,
þá kveða þeir kvæði mikið
um kappa með gullið hár.

II.

(Þjóðsagan).

Og það var í fyrndinni frægu,
er frjáls var hin eir-rauða þjóð,
og *eldvatnið* enn ekki þekktist,
né árar og kristmunka ljóð.

Þá stýrði hin volduga Vanda
mjög víðlendu ríki um stund:
Það náði frá Hlynviðar-höfða
að hálsum við Cansó-sund.

Og *Epagnit*-hólmann hún átti,
og *Úktakúmkúks*-strönd,
og mörkina miklu við flóann,
og *Meggamakkanna* lönd.

*Algonquins* ættbálkar tíu
árlega færðu' henni korn,
og fimm hundruð bjarndýrafeldi
og fimmtíu elgsdýra-horn.

Vandá bar forkunnar fríðleik,
en fremur var þung hennar brún;
heitara elskað gat enginn,
og enginn var grimmari' en hún.

Og hetjur og höfðingasynir
frá Húron og Lárenz-dal,
komu með fjaðrir og feldi,
og færðu' henni gersema val.

Þeir sungu um vísunda-veiðar,
og vestursins rádýra sæg,
og vötn, þar sem feikn var af fiski
og farfugla-veiði næg.

Þeir sungu um sól og mána
og sumar og vor og haust,
um hönd hennar báðu og hjarta,
en — hvorugt lét Vanda laust.

Eitt síðdegi seint á hausti,
kom siglandi af hafi gnoð,
með borðstokka skaraða skjöldum
og skínandi sigluvoð.

Og eir-rauðu hetjurnar hugðu,
að hér væri sjóskrímsl á ferð,
með vængi og vígtennur glæstar
og volegra sundugga mergð.

Og skeiðinni lagt var að landi —
og lygn var þar höfn og góð —
en fátt mjög var farmönnum kunnugt
um frumskóga landsins og þjóð.

Á land stigu ljóshærðir garpar; —
svo lausir þeir voru við geig.
að langeld á kampi þeir kyntu
það kvöld, þegar sólin hneig.

En bak við bjarkir og runna
nú beið hið eir-rauða lið,
sem vægðar af óvin ei vænti,
og veitti aldrei fjandmönnum grið.

Geigur stóð görpunum rauðu
af gestum svo fölum að sjá;
þeim leizt ei á skálmarnar skyggðu
né skildina' og stálklæðin grá.

Og Vöndu þeir fregn þá færðu, —
og fjölskrúðugt var það mál —
að kynlegir menn væru komnir
og kyntu á ströndinni bál.

Hún kvað: „Ef þeir fara með friði,
þá færið þá hingað í kvöld;
en vilji þeir vinna oss skaða,
þá veitið þeim makleg gjöld".

En frá því ei sagan segir,
hvor sveitin það vakti stríð,
sem *Míkmakar* mest hafa' um kveðið,
og minnzt verður langa tíð.

Um náttmál var byrjað að berjast,
og barist unz dagur rann;
og sjö voru seggir rauðir
um sérhvern hvítan mann.

Og fimmtíu hvítir þar féllu,
en foringinn eftir stóð;
lengi hann vasklega varðist
og valköstu mikla hlóð.

En garpurinn gripinn var höndum
af gildvöxnum köppum tveim;
og loks var hann færður í fjötur
og fluttur til Vöndu heim.

En hún kunni manndáð að meta,
og mælti — og röddin var skær:
„Ei skal á báli þann brenna,
sem berst meðan staðið hann fær“.

Hún gaf honum fjör og frelsi
og fékk honum völdin há;
hún gaf honum hönd sína' og hjarta,
þar höfðingi gerðist hann þá.

ATHUGASEMD. — *Mikmakar* (eða Meggamakkar) eru Indíánarnir í Nýja Skotlandi kallaðir. *Epagnit* = Prince Edward eyjan. *Úktakúmkúk* = Nýfundnaland. — *J. M. B.*

## *IMPROMTU*

Vér förum að verða frægir,
því framfara einkennið berum,
og þykjumst mennirnir mestir,
sem minnstir og veikastir erum.

Mælskumenn erum vér allir,
um alla hluti vér skröfum;
en eitt er þó öllu meira,
að allir vér skáldgáfu höfum.

*Gentlimen:* vel gengur vaggan,
hún veltur á báðar hliðar;
svo verum í vöggunni kyrrir,
og vitum, hvort ekki miðar.

# Kristján N. Júlíus
(K. N.)

## *BOTNLEYSA*

Allt, sem ég hefi' ort og sagt, er einskis virði,
því botninn er suður í Borgarfirði.

## *TVEIR Á FERÐ*

Ég reiði mig á mánann,
því mér hann aldrei brást.
Á mæðu og mótgangs tímum
hann mörgum reyndist skást.
Á heiðu himinhveli
hans heilög ásýnd skín,
ég veit hann verður fullur,
ég veit hann bíður mín.

## *MINNI MJÓLKURMANNA 1883*

Sælt veri fólkið! Fyrirgefið! —
fremur illa liggur á mér.
Harðla fátt ég hefi' að segja,
hinir tóku það bezta frá mér.

Hér er margt af heiðursmönnum,
hópur sveina' og fríðra meyja.
Allir vonast eftir góðu, —
eitthvað má ég til að segja.

Þótt ég segi meining mína,
megið þið heldur ekki reiðast.
Mér eru farin minni kvenna
marg-ítrekuð sárt að leiðast.

Ég vil þó með þessum línum
þeirra virðing hót ei skerða.
En til heiðurs mjólkurmönnum
meina ég þær skuli verða.

Margra heilsa mundi farin,
máske lífið standa' í hættu,
ef að þeir á alla vegu
ei úr nauðþurft vorri bættu.

Þú, sem býr í þurrabúi,
þarft ei hót að vera smeykur,
þeir bera til þín brúsa sína,
bros á þeirra vörum leikur.

Ferðamaður, þótt þig þyrsti,
þarftu dauða sízt að kvíða;
mjólkurbrúsann gamla og góða
á gatnamótum sérðu bíða.

Og þú, sem vinnur baki brotnu
við „brick“ og „mortar“ á hverjum degi,
finnur hvergi, hvergi svölun,
ef kúamjólk þér svalar eigi.

Mér finnst því fyrir mína parta,
við mættum allir, sem hér erum,
óska sem hér eftir fylgir
okkar kæru mjólkurberum:

Bresti þá aldrei bezta fóður,
„bran“ og „shorts“ með öðru fleira.
Flækingskýr á hverjum degi
komi' óboðnar heim til þeirra.

Hlutur enginn hér á jörðu
heiðri þeirra sé til rýrðar.
Allar kýr í öllum heimi
öskri þeim til lofs og dýrðar.

Meðan sól af austurunnum
árla morguns rís í heiði,
blessist þeirra kýr og kálfar,
kúaólán hjá þeim sneiði.

Vorri kæru fósturfoldu
þeir fagran minnisvarða reisi.
Bresti þá aldrei neitt af neinu,
nema skort á mjólkurleysi.

Treysti' ég því, að tíminn leiði
þá tröppu ofar en fyrr þeir stóðu.
Þetta' er lítið meðal margra,
en máske nóg af svona góðu!

Óskum við þeir ætíð verði
okkar þjóð til vegs og sóma.
Svo skulum allir þyrstir þamba
þeirra skál í kúarjóma.

## *ÞJÓÐERNI*

Nú er til vor kominn Kjartan prestur,
kennimaður heima' á Fróni mestur.

Sjaldan hefir hingað komið vestur
hugðnæmari vetursetu-gestur.

Nú er líka hræðslan frá mér flúin,
farin strax að vakna barnatrúin.
En því var ég svo þreyttur oft og lúinn,
að þjóðerninu sýndist hætta búin.

Nú spái' ég því, er þrýtur vetur þenna,
að þjóðerni við höfum til að brenna.
Það verður ekki kvennfólkinu að kenna,
ef karlmennirnir bara þora og nenna.

## ÆFINTÝR Á GÖNGUFÖR

Úr fimmtíu „centa" glasinu ég fengið gat ei nóg,
svo fleygði' ég því á brautina og þagði; —
en tók upp aðra pyttlu og tappa úr henni dró
og tæmdi hana líka' á augabragði.

Mér sortnaði fyrir augum og sýndist komin nótt,
í sál og líkam virtist þrotinn kraftur.
Ég steyptist beint á hausinn, en stóð upp aftur fljótt
og steyptist síðan beint á hausinn aftur.

Svo lá ég eins og skata, unz líða tók á dag,
leit út sem mig enginn vildi finna.
Ég hélt ég væri dauður og hefði fengið slag
og hefði kannske átt að drekka minna.

Þó komst ég samt á fætur og kominn er nú hér,
en kölski gamli missti vænsta sauðinn.
Og loksins hefir sannast á Lazarusi' og mér,
að lífið það er sterkara en dauðinn.

## Í FJÓSINU

Ég heyrði kýrnar hjala
um hljóða aftanstund;
ég held þær hafi verið
að halda „kvennfélagsfund".

Því allir ræddu' í einu
og engin þagað gat,
þær töluðu um allt og alla,
og oftast þó um mat.

„Við erum fullar og feitar,
og fóðrið brestur ei:
Maís og malaðir hafrar
og mikið og kjarngott hey".

„Mig varðar jú ekkert um það
og ekki' er það „business" [illegible]
En heyrðu hérna, Skjalda!
hvenær er talið þitt?"

„Kominn er kveldmatartími, —
hvað skulum við nú fá?"
„Jú, þarna kemur nú K. N.
og kemur með andskotans strá!"

## SÓLSKINIÐ Í DAKOTA

Þegar vetur víkur frá
og veðrið fer að hlýna, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina okkar skína.

Dveljir þú í Dakótá
dag um sláttarleytið,
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á hveitið.

Þegar engið er í ljá
og allt er grasið slegið, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á heyið.

Girnist einhver fisk að fá.
fer hann bara' í lækinn, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á „pike"-inn.

Þegar maður mjólkar, á
morgum lyftast brýnnar, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á kýrnar.

„Alcohol" er hægt að fá,
helzt ef fólk er lasið, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á glasið.

Sig að skreyta sumum hja
sýnist æðsta hvötin, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á fötin.

Viljir þú í guðshús gá
að glæða trúarbrestinn, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á prestinn.

Þó að „centin“ fáist fá,
svo furði sjálfan karlinn, —
þá er fögur sjón að sjá
sólina skína' á „dallinn“.

Ef ég þyrfti þar að fá
í þrautum huggun mína,
vildi' ég fyrr en síðar sjá
sólina hætta' að skína.

Þegar ég er fallinn frá
og fúna' í jörðu beinin,
verður fögur sjón að sjá
sólina skína' á steininn.

## *NÝ VÖGGUVÍSA*

Farðu að sofa, blessað barnið smáa,
brúkaðu ekki minnsta fjandans þráa.
Haltu kjafti! Hlýddu og vertu góður!
Heiðra skaltu föður þinn og móður.

## *UM K. K. PREST ÓLAFSSON OG K. N*

Kristinn prestur, hvar sem fer.
er K. N. meiri;
hann er beztur sjálfum sér —
og svo eru fleiri.

K. N. prestur enginn er —
og engum meiri;
hann er verstur sjálfum sér —
og svo eru fleiri.

## *EFTIRKÖSTIN*

Í lágri bygging buska hjá, —
bak við skólahúsið, —
að minni hyggju mætti sjá
mikið liggja eftir þá.

## *TIL G. FINNBOGASONAR*

Biðja skal þig síðsta sinn:
Svani og bláum fjöllum,
hóli, bala, hálsi og kinn
heilsaðu frá mér öllum.

## *GEFIN EIN AF NÍU*

Nú á Guðni eftir aðeins átta dætur; —
sá hefir nóg sér nægja lætur.

## *TRAUST*

„Enn í trausti elsku þinnar",
auðmjúkur í bæn og trú,
fríða snót með fagrar kinnar,
faðmlög þín ég girnist nú;
og tengdadóttir móður minnar,
máske seinna verðir þú.

## *KVEÐIÐ EFTIR VINNUKONU*

Hún er farin! — Hana skal ei lasta, —
á hana skal ei þungum steini kasta.

Hrærður skal ég hörpu Braga stilla
og heldur tala vel um hana en illa.

Hún er farin! Hennar má ég sakna;
hugljúf er hún! — dauft er nú að vakna.
Meira enginn gerir en hann getur. —
Geri aðrar vinnukonur betur.

## *ER NOKKUÐ HINUMEGIN?*

Á undan mér hofróðan hraðaði för,
í hálsmálið kjóllinn var fleginn;
á bakinu öllu er engin spjör,
en er nokkuð hinumegin?

## *HÉR OG ÞAR*

Niðri á sandi Nástrandar
nepja' er blandin hita.
Hvort að landar þrífast þar —
það má fjandinn vita.

## *MANNI VAR „GEFIÐ Á HANN“*

Lesið hef ég lærdómsstef,
þótt ljót sé skriftin,
og sízt ég efa sannleiks-kraftinn,
að sæll**a** er að gefa en þiggja á kjaftinn.

## *VÍSAÐ ÚR VINNU*

Góður, betri, beztur
burtu voru reknir;
illur, verri, verstur
voru aftur teknir.

## *K. N. LAUNAR ILLT MEÐ GÓÐU*

Einlægt þú talar illa um mig,
aftur ég tala vel um þig.
En það bezta af öllu er.
að enginn trúir þér — né mér.

## *UM PREST*

Einn var þar svo undurmjór
og einskisvirði;
margur hissa horfði og spurði:
Hver er þessi drottins smurði?

## *KRAFTASKÁLD*

Barnatrúin bilar mín,
burt er flúin kæti;
feginn snúa vatni í vín
vildi ég nú, ef gæti.

## *RUSLFISKUR Á ÍSLENDINGADAGINN*

Gleymd er okkar gamla sögueyja,
grafin, staursett, lá mér við að segja.

Enskan hefir alltaf nóg að segja,
íslenzkan má halda kjafti og þegja.

## *ÁGÚST H — —*

Nú heilsa ég heimspeking frægum.
og hneigi mig. — Sæll vert þú —
heiðraði herra Ágúst,
H. — "do you do?"

Við þráum hér syðra að sjá þig
og setjast hjá þér í „bíl"
og hlusta' á þig, herra Ágúst,
H. — „do you feel?"

Það er svo hressandi, heilnæmt,
og heimskuna dæmir í bann,
og hlusta' á þig, herra Ágúst,
H. — lærðan mann.

Þeir, sem að þekkja þig, vita,
þegar að komið er haust
heldur þú heimleiðis, Ágúst
H. — vaðalaust.

## *ERFÐASKRÁIN*

Þegar dauðans hleyp í hyl
og hafið legg á kalda,
feikna auð ég eftir skil
innan tveggja spjalda.

Kýmnis þekku kvæðin smá
kýs ég nú að hreppi

(þau sem ekki þjófar ná)
þeir, sem búa á Kleppi.

## *JÁ, ÞVÍ EKKI ÞAÐ*

Flesta kitlar orð í eyra,
ef eitthvað mergjað finnst,
því vill ekki þjóðin heyra
þá, sem ljúga minnst.

## *VIÐVÖRUN TIL VINA MINNA*

Ef „leirskáldin“ mig láta ekki í friði,
þá lagstur er til hvíldar hinnzta sinn,
og þó þau fegin vildu verða að liði,
það verður til að skerða heiður minn,
þá sezt ég upp í kistu minni og kveð,
og hver, sem vill, þá getur raulað með.

## *TIL FRÚ STEFANÍU GUÐMUNDSDÓTTUR*

Þú komst til að leika, ég kom til að sjá,
sú kvöldstund mér gleymist ei fljótt,
því listin og snilldin þín lýsti mér þá,
eins og leiftur um koldimma nótt.

## *LJÓÐIN MÍN*

Mín eru ljóð ei merkileg,
mínir kæru vinir.
En oft og tíðum yrki ég
öðruvísi en hinir.

## *HAUSTVÍSA*

Aftur hljómar ástar þýða raustin,
unga fólkið giftir sig á haustin:
Margur sveinn í meyjararma flýr,
meðan kolin eru svona dýr.

## *ALDARHÁTTUR*

Það er nú móðins að monta og skruma
og mæla í ljóðum (ég undanskil suma),
og fjöldinn, sem trúir, þau fádæma skelfing,
en fáir, sem ljúga' ekki meira' en um helfing.[1])

## *ÓSJÁLFHÆLNI*

(Ort með innskoti).

Einn er sá, sem áður fyr
orðstír gat sér beztan,
(„Er það Káinn?“ einhver spyr)
— austan hafs og vestan.

## *HLÝJAR „VIÐSKÖKUR“*

(Eins og þar stendur).

Í „sófanum“ sat hún og brosti,
svanhvítur hálsinn var ber,
hundinn við hlið sína kysti,
en höndina rétti að mér.

---

ATHS. — Ég hefi heyrt málfræðinga rífast um það, hvort réttara væri „helfing“ eða „helming“, án þess að komast að nokkurri niðurstoðu. Ef þetta er rangt, verður að vera: fádæma skelming.

## *„DEILAN MIKLA“*

Ég veit að margur segir satt
og sannleikurinn „lifir glatt“.
En hvort að allir elska hann,
þann æruverða heiðursmann,
er eitt af því, sem enginn veit,
og allra sizt i minni sveit.
En þess má geta og það er víst,
að þegjandi votturinn lýgur sízt.
Og „kúnstin“ er nú, hvor þar reynist mestur,
og hvort þú getur logið meira' en prestur.

## *SÁ RÁÐRÍKI*

Af langri reynslu lært ég þetta hef:
að láta drottin ráða meðan ég sef.
En þegar ég vaki, þá vil ég sjálfur ráða,
og þykist geta ráðið fyrir báða.

## *NAFNLAUST*

Það, sem ég gefins þegið hef,
það eru draumar meðan ég sef.
Það forðabúr er fáum læst,
þó fáir draumar hafi rætzt.
Flest hef ég unnið fyrir gýg. —
Fyrirgefið mér ef ég lýg.
En það er skrítnast, að þó er ég enn
í þakklætisskuld við guð og menn.

## *FYRR OG NÚ*

*(Til Einars skálds Hjörleifssonar Kvaran.)*

Herran, sem í „Hades“ býr,
haldinn var í fornöld skýr.
Trúarhita hélt hann við
og hataði allan kristinn frið.
Til hans fóru og fara enn
flest öll skáld og listamenn.
Gert sér hafði 'ann góða von
um gamla Einar Hjörleifsson.

„En illa fór nú fyrir þér,
fleinaþórinn, Andri tér“,
og bogalistin brást þér nú,
því breytt er að verða fólksins trú.
Og aldrei færðu um eilífð hann
Einar skáld og listamann;
og skila aftur skaltu þeim
skáldunum, sem að tókstu heim.

## *—RÆKNI*

Þetta er ekki þjóðrækni
og þaðan af síður guðrækni,
heldur íslenzk heiftrækni
og helvítis bölvuð langrækni.

## *AUGLÝSING*

Eldiviðinn ódýrt sel,
enginn fæst hér slíkur;
ef að bókin brennur vel,
bráðum verð ég ríkur.

Líka frétta fólkið má
fjalla innst í dölum,
eftir þetta er hún hjá
eldiviðarsölum.

## VATN OG VÍN

*Nútíma skáldsaga úr Dakota*

Læknir var til sjúklings sóttur,
sem að þjáði lungnabólga.
Í blóðinu var áköf ólga,
allur horfinn líkams þróttur —
hvað þá ætti helzt að gera
hulið sýndist öllum vera.

„Doktor“ sat og hryggur horfði
hvasst í pilludós á borði.
Síðan komst hann svo að orði:
„Ekkert hefi ég hér að gera;
hér á „Góðtemplari“ að vera,
ábyrgð sem þarf enga að bera“.
Gekk sem vofa frúin fríða,
föl og þreytt að vaka og stríða.
Hjartað leyndi harmi og kvíða.

Grét í hljóði fagra frúin,
friðað gat ei anda trúin.
„Bakkus“ var í felur flúinn,
fannst nú hvergi „Nothing doinn“!!
Ekkert var af engu að taka.
Aftur læknir fór til baka.
Góðkunningjar gamlir vaka
og gefa honum nóg af vatni,
svo honum batni.

## *MINNI GÖMLU WINNIPEG-BÚANNA*

Það var á yngri árum,
þá engin sorg var til,
er flestir áttu ekkert
og allt gekk þeim í vil —
þá byggðist þessi borg,
breið og fögur torg
og broshýs bæjarþil.

Og þá gat mælskan þrifist,
og þá var æskan kát,
og málin rædd, og rifist,
og reyndar einskis svifist,
og margur varð þá mát.

Þeir gleðigígju slógu
og gleðin bjó hjá þeim,
þeir glaðir grétu og hlógu
og glaðir lifðu og dóu
og héldu glaðir heim.

Eg þarf ei því að leyna,
að þó var stundum kalt,
en gleðin gekk um beina,
og guð veit hvað ég meina,
því vonin vermdi allt.

Og einhver hulinn andi
þá yfir vötnum sveif,
sem fékk þeim forðað grandi
og fleyið bar að landi,
en sjaldan seglin reif.

Eg þarf ei nöfn að nefna,
því nöfnin eru geymd,

og þeirra ei þörf að hefna,
né þeim fyrir dóm að stefna,
þó gröf sé margra gleymd.

## *HÁVAÐI*

Og ástandið var ekki gott,
þau áttu fremur bágt;
því hann var „poor“, en hún var „flott“,
þau höfðu hvorki þurt né vott, —
þau höfðu bara hátt.

## *KYNBLÖNDUN*

Ég reikaði aleinn um rennslétta grund
og rakst þar á eldgamla vini
og raulandi stóð þar og rýndi um stund:
jú! rollur af íslenzku kyni;
en djarflegi svipurinn sýndi það bezt,
og svo var ein mórauð á litinn,
og þar voru íslenzku einkennin flest
á eyrunum, fjöðrin og bitinn.

Eins finnst um blönduðu landana líkt,
þeir líkjast í ættirnar báðar;
en herkónga svipurinn hefir þó ríkt,
svo hnarreistir djarflegir snáðar;
og náttúran ein hefir annast það sjálf,
á eyrum er fjöðrin og bitinn,
á lengdina rófan er hér um bil hálf;
svo hafa þeir mórauða litinn.

---

## Magnús Markússon

### *EINAR JÓNSSON MYNDHÖGGVARI*
*frá Galtafelli.*

Frá smalaþúfunni horfði' 'ann hátt
til himins yfir fjöll og velli,
með von og traust og viljans mátt,
þá var hann drengur á Galtafelli.

Í bæn til guðs hann bar sitt mál,
og birtan skein á fjöll og velli,
hann kenndi líf og kraft í sál;
svo kvaddi hann allt á Galtafelli.

Og drenginn leiddi lífsins hönd
við ljós og trú, sem halda velli.
Svo komst hann út í önnur lönd,
sem æskuna dreymdi á Galtafelli.

Í grjóti og málmi sá hann sjóð,
og svo var sköpuð mynd á velli.
Nú horfir með lotning land og þjóð
á listamanninn frá Galtafelli.

En listin, geisli af lífsins sól
slær ljómanum yfir fjöll og velli,
og frægir landið, sem á og ól
hann Einar Jónsson frá Galtafelli.

## *EINAR BENEDIKTSSON SKÁLD*

Garðarseyju glæsimenni,
greppur snjall með þor og fjör;
undir skýru, skörpu enni
skjóta gneistum augu snör.
Er sem Hekla björgin brenni
braga þinna jötun-för.

Vorrar ættar manndóms merki,
myndin greypt í tímans skjöld,
feðra andinn strengja-sterki,
stór um lönd og höfin köld,
frægir enn í vilja og verki
vafurlogum stund og öld.

Geyst um andans geim þú svífur,
gígjan þrumar sterk og há,
eins og þegar elding klýfur
öldur storms um loftin blá.
Lýðsins sál í ljóði hrífur
list þín málsins rótum frá.

Aldrei göfgi gildir týnir
guði vígð um lífsins höf,
æfistarf þitt sjóðinn sýnir,
sem ei byrgir húm né gröf.
djúpir hörpuhljómar þínir,
heillar þjóðar sigurgjöf.

Þinna strengja meginmáttur
manndóm fylli vora sál,
dýrra ljóða lyfti háttur
lífsins yfir glys og tál.
Þar er Íslands æðasláttur —
okkar dýpstá hjartans mál.

## *SUMARDAGURINN FYRSTI*

Þó brautin mín lengist og breytt sé nú hag,
frá bernskunnar tíðum eg man þennan dag,
við systkinin gengum að sjónum,
þá brosti hver alda um blikandi flóð
og bar okkur töfrandi fagnaðar ljóð
með ástríkum unaðar tónum.

Hjá nágrannabörnunum mæltum við mót,
og munhlý var gleðin af einlægri rót,
við sólskin í suðræna blænum.
Hver lækur var óður um unað og frið
og elfurnar streymdu með vondjúpum klið
og svifu með hraða að sænum.

Þar skeljar og kuðungar glóðu sem gull
og gleðin var saklaus og ánægjufull
á ljósríkum bernskunnar bárum.
En framtíðarbrautin var hulin í hjúp
með harmsins og sælunnar örlagadjúp
á flughróðum æfinnar árum.

Og margt hefir sumarið brosað mér blítt
með blikandi skrautið og sólskinið hlýtt,
en aldrei sem ungum þar heima.
Á sérhverju blómi og líðandi lind
skein ljósið og gleðin í helgustu mynd,
hve ljúft er um dag þann að dreyma.

Kom, vonblíða sumar, með sælunnar klið
og syngdu þinn huggandi unað og frið
við söknuðinn, sárin og tárin.
Hver hjalandi lækur og líðandi blær
og lauf, sem við geisla og dögg þína grær,
er óður um bernsku-lífs árin.

## GIMLI

*Minni flutt á Íslendingadaginn 2. ágúst 1913.*

Fornhelga, fríða
fold, sumarblíða,
leikvöllur lýða,
lífsþroska tíða.
Stór faðmar ströndin
straumiðu löndin;
hagsældar höndin
hnýtir þar böndin.

Frjálst er á flæði,
fjölskrúðugt svæði,
gróandi gæði,
gullituð klæði.
Glæst er för gnoða,
græði sem troða,
blikar á boða
búna sólroða.

Brautir til baka
bendir mér staka.
Kennir þar klaka,
kveinstafir vaka.
Fyrst hér þá fundu
frumbyggjar grundu,
örsnauðir undu
örðugri stundu.

Negg vermdi neisti
norrænnar hreysti,
lífsþrautir leysti
lýður og treysti;
þolið og þorið
þungann fékk borið;
vonin um vorið
vígði hvert sporið.

Vor fylgdi vetri,
vaxandi, betri,
sól skein við setri
sögunnar letri.
Hreysi lág hrundu,
höll reis á grundu;
frömuðir fundu
farsæld og undu.

Gróin er grundin,
glóir á lundinn,
búraunum bundin
burt liðin stundin.
Sól skín á sali,
svanna og hali,
syngur loftsvali,
signa blóm dali.

Vinnum til valda,
velli skal halda;
kæfi hið kalda
kærleikans alda.
Dafnar þá dyggðin,
drengskapur, tryggðin,
bærinn og byggðin,
bræðra samhyggðin.

# Sigurður Júl. Jóhannesson

---

*MÚS Í GILDRU*

Innilukt og lamað,
litla dýrið mitt,
ber þú harm í huga
hrætt um lífið þitt.

Milli fjörs og feigðar
flestum ógnar brú, —
ég er lítill líka,
litlu stærri en þú.

Er ei sorg og sæla
sama þér og mér?
sömu lög, sem leyfðu
lífið mér og þér?

Er ei sálin sama,
sama þín og mín?
Sami guð, sem gægist
gegn um augun þín?

Huga mínum heima
heldur ástin mín;
þér er ljúfust líka
litla holan þín.

Þótt þér minni máttur
marki lægri sess,

engin svör þótt eigir,
áttu að gjalda þess?

Huga minn og hjarta
hitar sorgin þín,
þér ég hlýt að þyrma,
þú ert systir mín.

## *KIRKJUFERÐ Á JÓLADAG*

Til kirkjunnar gekk eg og kuldinn beit;
svo kátlega stormur söng
sem lagið í hjarta manns skæri skurð —
ég skildi' ekki hvað hann söng.

Ég vildi' ekki hlusta — hann söng, hann söng —
í sál mína þrengdi sér lag,
sem henni fannst alls ekki heyra til
á hátíð — á jóladag.

Í kirkjuna bráðum kom ég inn;
þar klerkurinn sagði margt;
hann spurði — gaf öllu sjálfur svar,
og svarið var alltaf bjart.

Þó heiminn faðmaði heldimm nótt
og himininn byrgði ský,
á bak við það alltaf sá hann sól —
og sólin var björt og hlý.

Og alstaðar sá hann ást og náð
og alstaðar speki' og vit,
og alstaðar sælu' — í öllu frið
og alstaðar bjartan lit.

Þó menniná kveldi allskyns eymd,
sem óbrigðul vernd og hlíf
var plástur við hverri pínu og kvöl —
sá plástur var eilíft líf.

Í helvíti kannske hefir fæðst
sú hugsun, sem gagntók mig:
að presturinn horfði langt of langt,
en liti' ekki í kring um sig.

En hvað sem um það er — hitt eg veit:
að hungur — ef þess er spurt —
sér leitar að saðning hér í heim,
því hitt er of langt í burt.

Að lokinni messu hélt ég heim —
ég heyrði við kirkjudyr,
að stormurinn söng hið sama lag,
en svæsnara' og hærra' en fyr.

Í leiðslu ég eftir götu gekk,
og gatan var breið og löng,
í hópum stóð fólk með helgisvip —
ég hugsaði um stormsins söng.

Og gatan mín lá um freðna flöt,
þar fenntur til hálfs ég sá
hvar köttur, sem frosið hafði í hel,
á hjarninu kalda lá.

Ég stanzaði — hryggur horfði um stund,
sem hefði mér verið birt,
að bróðir minn liðinn lægi þar,
og líkið af engum hirt.

Ég lagði' af stað aftur. — Litla stund
var leiðin um skógargöng;
ég hugsaði' um ekkert, ég hugsaði' um allt,
en hlustaði' á stormsins söng.

Á fönninni leit ég lítinn fugl,
hann lá þar með brotinn fót
og deyjandi vængjum varnarlaus
hann veifaði himni mót.

Hann tísti — það gekk í gegnum mig
svo grátsárt, um leið og hann dó.
Ég þarf ekki' að hugsa mér helvíti,
því hér er af kvölum nóg.

Mér framundan blasti við önnur auðn,
er enduðu skógargöng,
ég starði út í kaldan stjörnugeim —
og stormurinn ennþá söng.

Og betlari kom á móti mér
svo magur sem beinagrind,
í golunni titruðu tötrar hans —
sú talandi hryggðarmynd!

Hann rétti mér höndina; hún var köld
og hristist sem visið blað,
og glaðlega bauð hann mér gleðileg jól,
í guðs nafni' um eitthvað bað.

Ég ætlaði að tala, en treystist ei,
sem tunguna hefti band.
Svo þetta var sælan! og þetta jól!
og þetta var kristið land!

Frá kirkjunni gekk ég og kuldinn beit,
svo kátlega stormur söng,
sem lagið í hjarta manns skæri skurð —
— nú skildi ég hvað 'hann söng.

## *MINNI HINNA FRAMLIÐNU*

*Flutt á 25. ára afmæli Vatnabyggða 27. júní 1917.*

Þeir drengir, sem tóku hér tjaldstaði fyrst
og telgdu hér súlur og hæla,
þeir kunnu þá arfgengu landnema list
í langstikum jarðir að mæla;
þeir trúðu' ekki á naglskorinn tilverurétt,
né tjóður og markaða bása.
Hér náttúran sýndi þeim búsælan blett
og bjó þeim ei höft eða lása.

Hér ilmandi skóggyðjan andaði sætt
með iðgrænum, kvikandi lokkum;
og fuglarnir sýndust af íslenzkri ætt
í óskelfdum, syngjandi flokkum;
hér sólhýrður vindur í viðunum þaut
með vinlegum, heilsandi orðum;
og fífill og sólev í sérhverri laut
við sjón þeirra brosti' — eins og forðum.

Og landneminn hugsaði: „Hér er mér bent
á heimkynni barnanna minna;
hér íslenzka hamingjan hefir mér sent
það hlutverk, að stríða og vinna;
og hér skal ég vaxta mitt vel geymda pund,
ef vonirnar bregðast mér eigi,
og hér skal ég sofna minn síðasta blund
með sigur að enduðum degi".

Svo hugsuðu allir. — Hvern einasta dag
þeir unnu frá morgni til nætur;
þeir störfuðu' í eining hver öðrum í hag,
þeir áttu' ekki deilur né þrætur.
Og dagbókin þeim var ei þraut eða kross
né þéttskrifuð húgrauna línum.
Að daglaununm fengu þeir kærleik og koss
hjá konum og börnunum sínum.

Þeir hvíldust að kveldi með kyrðsælar brár
og kviðu' ekki neinskonar draugum,
því himininn skýlaus og heiður og blár
þá horfði með vakandi augum
á frumbyggja þreytta. — Hann faðmaði þá
og friðblæju margvafða lét hann
um kofann, sem mynduðu staurar og „strá"
— og stundum af viðkvæmni grét hann.

Nú hvíla þeir sumir í himneskri ró,
sem hér voru fyrstir og mestir;
en áhrif og verk þeirra vara hér þó,
í vitund sér geyma þau flestir.
Ef héðan á þessari heilögu stund
er hugbrú að eilífðarströndum,
þá líða hér svipir á lifenda fund
og lyfta hér signandi höndum.

## *SAGA STJÓRNMÁLAMANNSINS*

Einn á verði ungur stóð hann
yfir heillum fósturlands;
þjóðina *varði* þrælatökum —
þá voru allir féndur hans.

Seinna virðing, fé og frægðir
fann í sporum svikarans,
þjóðina *beitti* þrælatökum —
þá voru allir vinir hans.

# Gísli Jónsson

## *MINNI KANADA*

Land með arma ægivíða, undrasléttur, hrikafjöll, —
til þín hafa kveðið kvæði kraftaskáldin öll.
Því er mér, sem minnstur allra mærðartimbur hjó,
bæði um og ó.

Feginn vildi ég ljóði letra lofstír þinn um alla jörð,
get þó engan beina boðið betri en þakkargjörð:
Eftir fjórðungsaldar fóstur ást er runnin hrein
mér í merg og bein.

Vorra feðra, frænda og barna felur þú í skauti hold;
hafdýpt sælu- og sorgartára sökk í þína mold.
Upp hjá móðu mannlífs spretta minninganna tré —
heilög hjartans vé.

Þú ert hauður æsku og orku — óskabyr hins frjálsa
manns
blæs frá þínum víðavangi — veldi gróandans.
Víðsýn útsýn lands og lagar luktan opnar geim, —
víkkar hugarheim.

Allar þjóðir allrar jarðar eiga grið á þinni slóð.
Niðjar þeirra í eining andans eina kynda glóð.
Af þeim grunni, er aldir renna, undra kynstofn rís,
hraustur, hagur, vís.

Landið fagra, sólskins sæla, sona vorra og dætra
storð,
þinn skal hróður heimi sunginn, hróss og frægðar-
orð —
meðan orð er efni hærra, andinn víðar fer
en vort auga sér.

## *MÓÐURMÁLIÐ*

Er vindur hvín um vog og land,
er ólgar hrönn við hólm og sand,
er ymur foss í fjallaþröng,
er hljómar loft af lóusöng,
er gnötrar ís, er gneistar bál, —
ég heyri hljóm, ég heyri mál,
er ómar hreint og hvelt sem stál:
Það er vort móðurmál.

## *HEILRÆÐI*

Sé þér í mun að vera' athlægi öngvum,
eiga þig sjálfur og skapa þér byr —:
Læs þinni hlust fyrir lofgjörðarsöngvum,
ljúk ekki upp, þótt þeir berji á dyr.

# Jónas Stefánsson
## frá Kaldbak

---

### *HÁTT ER UPP Í HIMININN*

Hátt er upp í himininn!
minn huga sundlar þrátt,
er horfi' ég á þann óraveg,
en á svo sára fátt,
sem hjálpar mér að hefja flug,
þá hinnzta kemur nótt,
því andann vantar vængja dug
og viljann eld í þrótt.

Hátt er upp í himininn!
Ég hefi ei leiðarstein. —
Þeir kaupa hann í kirkjunni
og krossa öll sín mein. —
En hærra er upp í himininn
en halda kirkjumenn.
— Þeim velgja seinna vonbrigðin,
þó vel þeir þrífist enn.

Hátt er upp í himininn!
og heimþráin er treg.
Við könnumst flest við kosti hans,
en kjósum annan veg;
því eftir nítján alda skóla
æðsta meistarans,
blindar heiminn biksvört njóla,
byrgir geisla hans.

Hátt er upp í himininn!
á hersins vígaslóð,
er þjóða valdsins þrælshönd tekur
þúsundunum blóð.
Og menning þreytist mjög að vaka
— margs að gæta þarf. —
Hún veit, að blessuð börnin taka
blóðþorstann í arf.

Hátt er upp í himininn!
þá hamast pólitík,
af undirhyggju og eigingirni
orðin harðla rík.
Og öll þau gögn, sem eiðrof þoldu,
eru í hennar för.
Og af hverjum fingri um foldu
flýgur banvær ör.

Hátt er upp í himininn!
í höllum dollarans.
Hann er að verða einvalds herra
yfir lífi manns,
án hans vonin, ástin, trúin
ekki líta á þig. —
Þeim breytti forðum ferðalúinn
fátæktar á stig.

Hátt er upp í himininn!
sú hæðin ógnar mér.
Og eftir fáa ára tugi
endar vistin hér.
Þá hjálpar aðeins hugsjón andans,
hrein sem ljósvakinn,
hún ber oss upp af brautum vandans
beint í himininn.

# Guttormur J. Guttormsson

---

### *SPÁ*

Eftir þúsund ár er mælt að almenningur
verði orðinn vitfirringur.

Verða kannske — vísindin ei vita um alla —
einstöku með öllum mjalla.

Einangraðir öðlast þeir þá eitthvert bæli —
verður stofnað vitrahæli.

### *BINDINDI*

Þú leyndir þinni skoðun á landsmálum og trú
og lézt ei getið sannfæringar þinnar.
Í bindindi var enginn eins þolgóður og þú
með þagnartappa í flösku hreinskilninnar.

### *SORGLEGT SLYS*

Hann upp í sig bara ætlaði' að skoða,
en ekki að stofna sér í voða,
sem stundum er, nær en ætlað er —
þá brá honum svo að sjá hið ljóta,
varð sjálfrátt að hopa, en missti fóta
og datt o'ní kjaftinn á sjálfum sér.

## *SANDY BAR*

Það var seint á sumarkveldi,
sundrað loft af gný og eldi,
regn í steypistraumum feldi,
stöðuvatn varð hvert mitt far.
Gekk ég hægt í hlé við jaðar
hvítrar espitrjáaraðar,
kom ég loks að lágum tjaldstað
landnemanna ' á Sandy Bar,
tjaldstað hinna löngu liðnu
landnámsmanna á Sandy Bar.

Þögnin felur þeirra heiti.
Þeir voru lagðir hér í bleyti.
Flæddi þá um laut og leiti
lands, við norðan skýjafar.
Andi dauðans yfir straumi
elfar sveif í hverjum draumi,
var þá sem hans vængjaskuggi
vofði yfir Sandy Bar,
skuggabik hans fálkafjaðra
félli yfir Sandy Bar.

Það er hraustum heilsubrestur:
hugboð um að verði gestur
kallið handan, höndum frestur
hlotnist ei, að smíða far,
þá til ferðar yfir álinn
ei er reiðubúin sálin, —
og á nálaroddum voru
iljar manna' á Sandy Bar,
voru á nálum óljóss' ótta
allir menn á Sandy Bar.

Að mér sóttu þeirra þrautir,
þar um espihól og lautir,
fann ég enda brenndar brautir,
beðið hafði dauðinn þar.
Þegar elding loftið lýsti,
leiði margt ég sá, er hýsti
landnámsmanns og landnámskonu
lík — í jörð á Sandy Bar,
menn, sem lífið, launað engu,
létu fyrr á Sandy Bar.

Heimanfarar fyrri tíða
fluttust hingað til að líða,
sigurlaust að lifa, stríða,
leggja í sölur heilsufar,
falla, en þrá að því að stefna,
þetta heit að fullu efna:
meginbraut að marki ryðja
merkta út frá Sandy Bar,
braut til sigurs rakleitt, rétta
ryðja út frá Sandy Bar.

Ég varð eins og álft í sárum,
og mér þótti verða' að tárum
regn af algeims augnahárum —
ofan þaðan grátið var,
reiðarslögin lundinn lustu,
lauftrén öll hin hæstu brustu,
sem þar væru vonir dauðra
veg að ryðja' á Sandy Bar,
ryðja leiðir lífi og heiðri
landnemanna á Sandy Bar.

Vonir dána mikilmagnans
mega færa áfram vagn hans,

verða' að liði, vera gagn hans,
vísa mörgum í hans far.
Rætast þær i heilum huga
hvers eins manns, er vildi duga,
og nú kenndur er við landnám
allt á kring um Sandy Bar,
hefir lagt sér leið að marki
landnemanna á Sandy Bar

Hafin verk og hálfnuð talin
helgast þeim, sem féllu' í valinn.
— Grasnál upp með oddinn kalinn
óx, ef henni leyft það var,
en þess merki í broddi bar hún
bitru frosti stýfð að var hún.
Mér fannst græna grasið kalið
gróa kring um Sandy Bar,
grasið kalið ilma, anga
allt í kring um Sandy Bar.

Ég fann yl í öllum taugum
og mér birti fyrir augum;
vafurloga lagði af haugum
landnámsmanna nærri þar.
Gullið var, sem grófst þar með þeim,
gildir vöðvar — afl var léð þeim —
þeirra allt, sem aldrei getur
orku neytt á Sandy Bar,
það, sem ekki áfram heldur,
er í gröf á Sandy Bar.

Stytti upp, og himinn heiður
hvelfdist stirndur, meginbreiður
eins og vegur valinn, greiður,
var í lofti sunnanfar.

Rofinn eldibrandi bakki
beint í norður var á flakki.
Stjörnubjartur, heiður himinn
hvelfdist yfir Sandy Bar,
himinn, landnám landnemanna,
ljómaði yfir Sandy Bar.

## *KANADA*

Sem gjafvaxta mær, engum manni kær
hún mændi fram á leið,
með villimannsskart og metfé margt
hún mannsins hvíta beið,
með augunum blá um síðir sá,
að siglandi kom hans skip,
og það var sem glans upp af höfði hans
og hátignarblær á hans svip.

Og hæversk og stillt hún var, en villt,
í vináttu föst og heil.
Að var hennar ást svo einlæg sást,
en aldrei hálf né veil,
hún faðmaði hann, sinn hvíta mann,
fann hjörtun saman slá;
hún opnaði barm og hug og hvarm
og heiminn allan sá.

Hann batt henni krans úr kornstanga fans,
en kórónu' úr lárvið sér,
því kóngsson var hann, sem þar kóngsdóttur fann
— þar kóngsríki síðan er.
Þau framleiða auð og blóm og brauð
og brúa dauðans hyl,
og þeirra höll er um víðan völl,
með vorhimins ljós og yl.

Þau ala upp börn sín áframgjörn
með einkunn tigins manns,
en þeirra tryggð er á bjargi byggð
við bræður og móður hans;
sé vopni beitt þau öll eru' eitt,
þau erfðu hetjumóð
úr föðurætt, sem aldrei rætt
skal upp, þó fjari blóð.

Og kær er hún oss sem kærast hnoss
hún Kanada, móðir vor,
og lífsins dyr verða luktar fyr
en liggi á burt vor spor.
Í sókn og vörn það sýnum við börn,
að séum af stofni grein!
Þó greini oss mál, oss sameinar sál,
sem söm er jafnan og ein.

## *SÁL HÚSSINS*

Sál hússins er eldur á arni
og eldur á lampakveik.
Ef farið er rangt með þann fjársjóð,
þá fyllist húsið af reyk,
og gluggarnir sortna af sóti
og syrtir að um rúm;
þó úti álfröðull skíni,
er inni nótt og húm.

Ef út frá arni og lampa
fer afvega hússins sál
og verður ei heft né hamin,
þá hleypur allt í bál;
að sál það allt hefir orðið,
sem æðir gönuskeið;

í blindni hún brennir til ösku
sinn bústað og deyr um leið.

Sál hússins er eldur á arni
og eldur á lampakveik.
Hún hnígur með sínu húsi
og hverfur loks í reyk.
Hvort er hennar ódauðleiki
þá að eins fólginn í því,
að allt af logar eldur,
deyr út og kviknar á ný?

## *GÓÐA NÓTT*

Dúnalogn er allra átta,
allir vindar geims sig nátta,
nú er álfa heims að hátta,
hinnztu geislar slokkna skjótt,
húmsins svarta silkiskýla
sveipar þekjur vorra býla.
upp er jörðin eins og hvíla
öllu búin. — Góða nótt!
Upp til hvíldar öllu búin
er nú jörðin. Góða nótt!

Langþreknðum lýð er kærast
lágt að hvíla, endurnærast,
blunda lengi vel, sem værast
vekja taugum sínum þrótt,
yfir lofts og lagar strauma
líta Eden sinna drauma,
sólarbrautir svífa nauma
sælustundu. — Góða nótt!
Svífa stutta stundu brautir
stjarna og sólna. — Góða nótt!

Tak þú, svefn, í ástararma
alla menn, sem þjást og harma,
legg þinn væng á lukta hvarma,
láttu öllum verða rótt,
leyf þeim, draumur, lengi að njóta
lífsins, sem í vöku brjóta
skipin sín í flök og fljóta
fram hjá öllu. — Góða nótt!
Þeim, sem fram hjá fegurð lífsins
fara í vöku. Góða nótt!

Streym þú, himins stilling, niður,
stattu við, þú næturfriður.
Hugur fellur fram og biður,
funheitt andvarp lyftist hljótt.
Hætti allra sár að svíða,
sólar verði gott að bíða,
þurfi enginn kulda' að kvíða,
komi sólskin. — Góða nótt!
Enginn þurfi að óttast, komi
engill dagsins. Góða nótt!

### *STAKA*

Miklum vanda er eg í
— orðinn fjandi mæðinn —,
get ei andað út af því,
að í mér standa kvæðin.

### *„HVAÐ UNGUR NEMUR SÉR GAMALL TEMUR“*

Það, sem ungum lærist, í elli verður tamt,
orðshátt þann eg vel, því sannan tel hann, —
þeir, sem voru á brjósti, að hrundum hyllast jafnt,
hinir eru gefnir fyrir pelann.

## *HUGSJÓNIN*

Hann berst með hugsjón: að hækka,
með hæð sinni aðra að lækka.
En enginn annar má stækka,
því annars vill munurinn smækka.

## *K. N.*

K. N. eys af brunni birgða,
brautir þeysir allra jarða,
þessi Geysir gamanyrða
Guði reisir minnisvarða.

Þegar K. N. kom til mín,
kærri en vissi nokkur, —
Bildsfells klára kampavín
kunnuga gerði okkur.

Fyndna vísu fram hann bar,
féll mér vel sá lestur.
Inni hjá mér aldrei var
ánægjulegri gestur.

Er sá karl í engu veill,
ekkert hylja klæðin,
þar er merkur, mætur, heill
maður á bak við kvæðin.

Meðal annars eitt eg fann,
enn það finn og slúti:
óverðugur hýsti eg hann,
hann átti' að liggja úti.

Honum lítillætið í
lofa eg því fremur.
— Maður halda þarf á því,
þegar til himins kemur.

Fengur, sem svo fagur er,
frá mér skal ei hremmast,
einkum hefi eg ætlað mér
aldrei að láta' hann skemmast.

Svo eg geti hlegið hress,
hvenær sem mig fýsir,
gamla K. N. good and fresh
geymi eg inni í freezer.

## *ÁRÓRA*

Eldfjallið Morgunn í austri gýs,
eldsúlan gnæfir við háloft.
Rautt eins og bál verður bláloft.
Birtist í skýjunum Áróra dís.

Þoka þú myrkur, því dagur dóms
dýrðlegur upp er að renna.
Nóttin er byrjuð að brenna,
kveður við ljóðstafur lúðurhljóms.

Áróra kallar af himni há
hugsanir manns upp úr gröfum.
Letrar hún leiftrandi stöfum
hugsanir Guðs allan himin á.

## ÍSLENDINGAFLJÓT

Fljótið klýfur fold og merkur háar;
fleygar öldur — dúfur vængjabláar
bera' af frumskóg fréttir, æfiþætti,
fylgja ljósblik þeirra vængjaslætti.
Mörkin kliðar ótal rómum rödduð,
rís hún sumri fædd og laufi hödduð,
mösurviður vestan fljóts, en austan
veikan grunn á björk, en merginn hraustan.

Unz að lauftrén fremstu gátu flotið,
fljótið hefir stækkað, veg sér brotið;
fangi þess af foldu heiman tekin
fundust þau á aðra ströndu rekin.
Kvistir upp þar komu' af föstum rótum,
kenndust þeir af ætta sinna mótum,
— mösurblöðum björkin eigi tjaldar,
bjarkarlaufi mösur eigi faldar.

Tæpt á bökkum bjarkir hafa staðið.
Bjart en tæpt er milli þeirra vaðið.
Norðanstorminn þær hafa' lengi þolað,
þeim hefir fljótið eigi burtu skolað;
hlaðnar snjó og ísing norðuráttar
enn þær njóta sumarlífs og máttar,
jafnt í byl og blíðum enn þær standa
beinar — þessar dætur norðurlanda.

Yfir fljótið haldast þær í hendur,
handabandi saman tengja strendur;
andi blær, þær beggja megin álsins
birta allt með hljómi sama málsins;
lit og svip og sömu lögum háðar
sífellt meðan uppi standa báðar;

sömu lindum laugast þeirra fætur,
landi fastar jafnt eru' þeirra rætur.

Falli önnur, óðar hin mun svigna,
andblær himinrænn um krónur lygna,
þá um beggja háleik hefir lækkað,
höfðum merkur tveim í einu fækkað;
björkin fallna hina til sín togar
— trylldur hylur undir gin og sogar —,
slitni rætur hinnar, berast báðar
burt með straumi, sömu lögum háðar.

Bakka sína bjarkir þessar prýði,
bol þeirra' enginn telgi' í nýj'ı smíði,
enginn særi rót né raski grunni,
renni að þeim vatn úr lífsins brunni!
Andi þeirra ilmi loftið blandi,
áfram renni fljót, en bakkar standi,
sterkar greinar haldist fast í hendur,
handabandi saman tengi strendur!

## *INDÍÁNAHÁTÍÐIN*

Ströndin bleikum barkarkænum
blikar, litaskrauti vefst,
uppi' á bakka, bala grænum
barkartjalda þyrping hefst,
elgsskinn þanið milli meiða
máninn er, sem fagurt skín,
þurra kjötsins blakka breiða
blettur plægður er að sýn.

Eldar braka, blakta, reykja,
ber að vitum hrævadaun;

rakkar líkt og logar sleikja
leifar, nákin beinahraun;
hljóða börn í hengivöggum;
hefja menn sín fálkastél;
konur eigra undir böggum
ennisgjörðum festum vel.

Nú skal mikla hátíð halda,
hlæja líkt og vatnaföll.
Öllu, sem er til að tjalda,
trúðar stíga fram á völl;
þá er eins og versni' í veðri,
verði stjórn á öllu röng,
bumba dimm úr dýraleðri
dunar hátt við villtan söng.

Margir dansa. Allir aðrir
iða' af skógar villisæld;
uppi' á höfðum hristast fjaðrir,
hlæja andlit belgd og skæld;
dansins heiðnu háttalyklar
hita sækja' í falinn eld!
Hver á sínum hækjum spriklar
hálfur, nakinn undir feld'.

Undir hulning fati flettum,
flæmdum út á lífsins sand,
varnað þess að vera réttum
verður þeim að reika' um land,
land, sem þeir ei lengur eiga,
land, sem rændir voru þeir,
land, sem þeir með leyfi mega
líta', en ekki hóti meir.

Hallur steikistaur við loga
stendur, rekinn gegnum hund;

er í skrokkinn skeyti' af boga
skotið, þá er matmálsstund.
Flötum beinum fold er setin;
flátt að mæla sérhver kann;
hvítur rakki, öllum etinn,
á að tákna hvítan mann.

## *FLÓTTINN*

Fuglar hafa lofsöng lokið,
lauf af trjánum fokið,
moldum eys og mæðist blær,
en á stirðri storðu situr
stjörnukrapalitur —
heljarfölnan tunglskinstær.

Mér á hjarta hefir blettur
hvítur verið settur, —
það var úti aleitt, bert.
Eg vil, fyrr en frýs minn andi,
flýja af dauðu landi,
fara burt á braut. En hvert?

Geng eg út á glæran ísinn,
Guð minn, sumardísin
brosir gegnum gluggann sinn:
Gegnum svellsins silfurrúður
sé eg grænan skrúður, —
sumar undir ís eg finn.

Risajurtir lífsvatn laugar,
líf í plöntutaugar
gegnum ísinn sendir sól.
Eg vil fá af skrúði skuggann:

Sko, nú brýt eg gluggann,
held í grænum garði jól.

## *Á BAKKANUM*

Nóttin er tekin að nálgast með tár á bránni,
niður er álfröðull hniginn á bak við skóg,
himinn sokkið hefir til botns í ánni,
horfist í augu við sig eins og maður sem dó.
Þögnin er kyr eins og dauðinn og djúp sem höfin,
draumarnir sofandi vaggast á loftöldufald.
Nóttin er óðum að nálgast, svört eins og gröfin,
niður til grunns er að falla hið dimma tjald.

Hauskúpa mánans með holum augnanna tóftum
horfir um vatn upp úr gröfinni, skinin og bleik,
glottir sem uppdreginn gluggi á andvökunóttum
glitti fyrir utan í skímu, sem föl er og veik.
Djúpt niðri í hyljunum stjörnurnar jafnvel slokna,
stýfðar frá kveikjum með árinnar blikandi hníf.
Skugginn minn hvílir á himninum fallna, sokkna.
Hefir einn draumanna vaknað? Er sofnað mitt líf?

## *LJÓÐMÁL*

Þau ljóðin
með ljúfustu hljóðin,
sem laufsala þjóðin
kann ein,
þau ljóma
í hugum og hljóma,
um himininn óma
frá grein.
Að bíða
er blessað, og hlýða
á brúðsönginn þýða
í dag,
svo yndi
mér leiki í lyndi
og ljóð mitt eg bindi
í skyndi
við laufsala lag.

Að yngja
minn anda og syngja
og ellina hringja
á braut,
eg sezt hér
í sæti, sem bezt er
og sólbliða mest er
og skraut;
að sindrar
allt sé eg, og tindrar
og sorgin ei hindrar
neinn glans.
Æ, þetta
er lífið hið létta
og lífið hið rétta.
Eg flétta
því kvæði og krans.

Hví líðið
þér lýðir allt stríðið?
og ljóðin ei hlýðið
þér á.
Þér vitið,
svo vitt sem er litið,
er vastrið og stritið
að sjá.
Æ, friður
sé oftar með yður!
þess óskar og biður
hver háls,
sem kveður
svo glatt, að hann gleður
þá góðlátt er veður.
Og séður
er fugl, sem er frjáls.

Til glaðra
hann flýr, því til fjaðra
hann finnur, og aðra
hann knýr
og seiðir
á söngvanna leiðir,
þar sólfaðmur breiðir
sig hlýr.
Svo kvaki
með bölið að baki,
með blómálfum vaki
í dag,
hver andi,
sem enn er í landi
og unir ei bandi —
sig vandi
á ljóði við lag.

## *BÖLVUN LÖGMÁLSINS*

Þeim bræðrum, Jakob og Esaú,
var eilífri farsæld heitið,
ef ryddu þeir mörkina, reistu bú,
og ræktuðu nautin og hveitið,
og legðu fyrir' almennings gengi grunn,

svo góðan, að allt hann stæðist;
sem hraunið úr íslenzkum eldfjalls munn,
er ilmsætum gróðri klæðist.

Og það var Esaú mark og mið
að mega þá blessun hljóta
síns blinda föður, því bjóst hann við,
sem bóndi alls góðs að njóta.
Hin nýjustu búnaðarblöð hann las
og bækur — ein þeirra var Atli —
og jörðin hans öll, þar sem ekki var gras,
var erjuð með gufukatli.

Og brátt varð hann loðinn um lófana — það
má lesa í bibliusögum —,
en fótsár, því bíllinn hans fór ekki af stað
á forna sáttmálans dögum;
hann sparaði olíu og annað, sem ber
mann aftur á bak með hraða,
og jafnvel um neftóbak neitaði sér,
og neytti' ekki víns sér til skaða.

En Kobbi var latur og lá inni' í bæ,
á loðnu kiðhafursskinni,
af mörnum og baununum mataðist æ
of mikið, það held eg menn finni!
Vér vitum ei hvar eða hvernig þann mat
hann hreppti, og má það vera,
að hebreska ritið, sem helzt þess gat,
ei hæfði að kanónera.

Hann einn átti björg, þegar bændastétt
í baráttu átti við raunir;
og ósjaldan forráð og frumburðarrétt
hann fékk fyrir þessar baunir.
Og þá var hans matbaun á metum þung,

er maginn í öðrum var hálfur,
þó framleiddi ekki einn einasta pung
á æfinni Kobbi sjálfur.

Að enginn er bróðir annars í leik,
sem oftar það reyndist forðum,
er Esaú vonin um uppskeru sveik,
og ekkert var til á hans borðum.
Þá fagnaði 'ann sínum frumburðarrétt
sem fleiri, og tók við sekknum
með baununum, ef til vill af þeim blett,
er átti hann sjálfur, teknum.

Og sjá, það varð gjörvöllum lýði ljóst.
og loks hinum blinda föður,
að Esaú, fljótur til framkvæmda, bjóst
að fylla á ný sínar hlöður.
Og blessun föðurins blinda var
þá boðin, hans lán, að tryggja.
En Kobbi, með okrinu illræmda þar,
var almenning búinn að styggja.

Ef hinn fær blessun, er hættan á,
að hagbyr verzlunar kyrri;
svo hugsaði Kobbi, í kaupsýslu, þá
er kúnstin að verða fyrri.
Og hrafninn á undan kríunni kemst,
ef klippt er af hennar fjöðrum,
og þess vegna verður fyrst og fremst
allt fiðrið að reyta af öðrum. —

Án blessunar Esaú varð, svo vænn
og vitur, en hinn án æru,
því Jakob, í letingjans kaupskap kænn,
sig klæddi í sauðargæru,
og kvaðst vera bóndinn Esaú,

að útliti svona grófur.
Ó, blindi faðir, þá blessaðir þú
þann bróðurinn, sem var þjófur.

Og allt af skal blómgvast hans verzlun og vald,
án vinnu og líkamans sveita,
og frumburðarréttur hins fátæka gjald
sé fyrir hans bauna að neyta.
Og þrífast hann aleinn af öllum skal,
og einn vera feitur og glaður.
Frá bændum að eilífu blessun stal
sá bauna-verzlunarmaður.

## *DRAUMUR*

Mér þótti eg heyra af hæðum
'inn hljóðlega vængjaþyt,
sem ómar af óortum kvæðum
við einyrkjans daglega strit.

Eg leit upp í loftgeiminn víða,
sem ljómar í draumi bezt,
og sá o'n úr sólhvolfi líða
hinn söngglaða, vængjaða hest.

Það líkist ei dimmum draumi
— nei, draumurinn sá var ljós —
að Pegasus tók eg taumi
og teymdi hann — inn í fjós.

## *ÖRLAGAHÁÐ*

Sjá, annar vildi nú halda heim
úr húsi spillingarinnar

til kæru konunnar sinnar
og opnaði dyrnar með ásetning' þeim.

En hinn kom þjótandi heiman að
frá hreinasta ektamaka
og ætlaði toddý að taka.
Þeir mættust í dyrunum, meira en það —

þeir rákust þar á (með oss öllum sé friður!)
og duttu þar báðir dauðir niður.

## *TRÚ Á SIGUR HINS GÓÐA*

Komir þú í hús þar sem kaffi er ekki á borðum,
kunnirðu' ekki vel við að biðja um það með orðum,
stattu þá hjá frúnni um stund án þess að tala,
strjúktu á henni bakið og þá fer hún að mala.

## *ÁSTARVÍSA*

*(ort undir annars nafni, fyrir borgun).*

Til þín ennþá, elskan mín,
augunum renni eg glaður;
upp eg brenn af ást til þín,
eg er kvennamaður. . .

## *VESTRÆNAR REIÐVÍSUR*

Eimsins þeystist fákur fljótt,
frísaði og reisti makkann.
Feykna hreysti og fjör! Hann þótt
færi geyst, ei sprakk hann.

Eisa flaut við uppheimsskaut,
óljós hraut af sólum,
svignaði braut og bíla laut,
brakaði og þaut í hjólum.

## *BÝFLUGNARÆKTIN*

Hugsjóna minna hunangsflugur
hafði eg um minn lífsins vetur
lokaðar, náttaðar nótt og degi,
niðri í kjallara sálar minnar.

Hunangi var ekki hægt að safna;
helbleik, frosin og visin lágu
hunangsblóm undir heljarfargi
hjarns og fanna um allar jarðir.

Hugsjóna minna hunangsflugur
hlutu að bíða lífsins sumars.
Þær skyldu frjálsar hinn fyrsta vordag
fljúga úr kjallara sálar minnar.

Þær skyldu fá að smakka á smára
smjörefni — hunangsrjóma þykkni;
hunangi lofs og heiðurs safna,
hvernig sem annars á móti blési.

Loks kom vor, en í vetrar hami;
vindar snjóinn af jörðu skófu,
til þess enn betur að geta upp grafið
gróður og fastar að honum sorfið.

Leið og beið unz eg hóf upp hlerann,
hvarf niður stigann og undir gólfið,

til þess að mér yrði ljóst, hvernig liði
lífi í kjallara sálar minnar.

Heyrði eg eyrum svíðandi suðu
-- sönginn í undirheima skýjum;
barst mér fram eins og brennisteinssvæla
bölvunar, hún, þessi eitursuða.

Flugurnar hart nær hungurmorða
hömuðust að mér í sálarmyrkri;
stungu mig, inn í mig eitri spúðu,
öskraði eg eins og brenndur vargur.

— — — — —

Merkin ber meðan æfin endist,
augun sokkin og hálsinn blásinn.
Lifi eg smáður við leiða og örkuml,
líkari hröpuðum engli en manni.

# Þorsteinn Þ. Þorsteinsson

## *VORSÖNGUR*

I.

Sunnan úr ársölum eyglóar vorboðinn flýgur.
Yljandi, hækkandi röðull um bláhiminn stígur.
Baðast í vermilaug fagrahvels fjörvakin jörðin.
Frjóangar jurta og meiða úr læðingi brjótast.
Gullroðnar leika sér bárur um blikandi fjörðinn.
Blærinn og fjólan í ástsælum lífsdraumi njótast.
Vorgyðjan ljúfa um loftið og foldina og sæinn
lífinu heilsar og býður því sólríkan daginn.

Opnið nú gluggana! — Látið þið loftið inn streyma —
lífgandi, hressandi blæ hinna vorþrungnu geima!
Blæjurnar frá, svo að blessandi guðsólin skíni
blómunum fölu, sem eiga í kofunum heima!
Opnið nú hurðir, svo dauðaloft húsanna dvíni!
Drepandi molluna og svæluna hrekið á klakann!
Látið ei draugana lengur um híbýlin sveima! —
Löng var oss nóttin, og þreytandi skammdegisvakan!

Þenjið út brjóstin og lærið þið lífið að þekkja,
lítið upp sjálfir frá klafa og þrælsoki hlekkja.
Inni er myrkrið og andleg og líkamleg megurð.
Úti er ljósið með víðsýni og himneska fegurð.
Inni er dauðinn í höllum og kofum og kirkjum.
Kristur er flúinn úr löggiltum afturhalds virkjum.
Þreytti hann dimman og öfug og misskilin menning:
melétin, brunnin og rangsnúin aldanna kenning.

II.

Nú er hann Kristur þinn kominn til blómanna ungu.
Kominn með ljósengla himneskan, dýrðlegan skara.
Syngur um frelsið til lýðsins á lifandi tungu:
„Lögmál það heyr þú, ó, mannkind! sem eilíft skal
vara:
Guð þinn er kraftur, sem gróðrinum stjórnar og
eykur.
Guðshúsið — kirkjan — er jörðin og sólhvelið bjarta.
Sálmana fuglarnir syngja, en vorblærinn leikur.
Sönnustu ræðuna finnurðu í vakandi hjarta.

„Skoðið þið akursins liljugrös, lágir og háir,
— lærið þið spekina eilífu, stórir og smáir. —
Fegurri en Salómons gulldjásn og skrúði þau skína.
Skrýddu eins dýrðlega húmbeygðu sálina þína.
Sannlega, sannlega segi eg þér táldregni lýður:
syndin er dimman, sem höggorms í myndinni skríður.
Vorið og ljósið er sælunnar engillinn sanni.
Sjáðu hann. þektu hann, trúðu á hann — vertu að
manni.

„Vei yður, grimmlynda valdstjórn, með kúgun og
helsi!
Vei yður, Jehóva þjónar, sem ofsækið frelsi!
Eitruðu nöðrur! Þér höggormar! Hvar eru verkin?
Heimurinn blóðstorkinn sýnir þér kærleikans merkin.
Sólskini vorsins í vetrarins myrkur þér breytið.
Volaða smáið þér, svíkið og fláið og reitið.
Finnst yður hamingja hörmungar bræðranna að
þyngja —
heimskuna í lögum og kristni að stækka og yngja —?

III.

Sólarguð, lífga oss, vek oss af vetrarins drunga!
Vorguð, í faðminn þinn tak þú oss gamla og unga!

Lífsguð, ó, sýn oss hið ljúfasta, fegursta, æðsta!
Látið oss þekkja og skilja hið dýpsta og hæsta! —
Verði oss himininn frelsisins fyrirmynd stærsta.
Fegurð og yndissjón veiti oss blómdísin glæsta.
Hugsun vor djúp eins og hafið, með eldvilja nýjum,
hjörtun eins vonglöð og söngfugl á ármorgni hlýjum.

Lífið er vor, sem að vekur til starfa og hvetur;
vor, sem að breytist í sumar, í haust og í vetur.
Vorið er líf, sem að öllum eitt aðalmark setur:
áfram og hærra, að þekkja og skilja allt betur. — —
Ef að þú lærir hið volduga vormál að skilja,
vernd er það eilíf mót dimmu og næðingi bylja.
Þá áttu í sál þinni himneska vordýrð og vilja,
veturinn kemur þá blíður og fagur sem lilja.

## *ÁFRAM*

Ef veiztu hvað þú vilt — ef anntu heitt
   því verki' er krefst þín hugsjón, stattu þá
   sem bjargið fast, er brýtur straum sér á
og buga lát ei tilraun þína neitt. —
Ef lífi' þínu er til þess einhvers eytt,
   sem örvar, glæðir ljósið samtíð hjá,
   þótt lausa aura' og lönd þú hafir fá,
er lífsgjald þitt í fjelagssjóðinn greitt.
Því skaltu' ei hræðast heimskra manna sköll,
   né héraðsglópsins illmálgt kals og spott.
      Þær dægurflugur suða sig í hel.
En stefndu beint á hugans hæstu fjöll,
   þótt hálfnist ei sú leið, hún ber þess vott,
      ef áfram hélztu, að þú vildir vel.

## *DULDRAUMAR*

Hún gaf sig þér með allri sinni ást
og allri von og trú. En mannleg sál,
— þótt sameign verði' um sérhvert einkamál —
á sérrétt þann, er hyggju margoft brást. —
Hún gaf þér allt? Nei, aldrei öfl þau nást,
sem innst og dýpst í vitund tendra bál..
Því verður stundum reyndin reynslu tál
og rökin hulin skyggja' á þau, sem sjást. —
Hún gaf þér allt sitt þekkta — óþekkt ei,
það enginn getur. Lífið fram það ber
sem árnar gullsand. Neminn í hann nær. —
Þú stóðst þar næst, en verður fjárins fjær,
ef fannstu' ei meira' en gjöf, sem veittist þér.
Þá getur ást þín orðið brottsiglt fley.

## *LEIKMÆRIN*

I.

Fer að höndum fyrsti þáttur;
fólkið situr hægt í ró.
Hljóðfæranna hljómar sláttur;
hjartað grípur söngsins máttur;
bjöllur hringja: gling, glang, gló!

II.

Leikhússtjaldið upp er undið;
yfir sviðið ljóma slær.
Eins og hafi ástvin fundið,
auga sérhvert starir bundið
fjötrum þeim, sem fegurð ljær.
Stormur hljóms í blæ er breyttur;
birtan æðstu fylling nær;
ljósahringur litum skreyttur

logageislum stafar fjær.
Mitt í rafmagns geislaglæðum
glitrar mynd í hvítum slæðum
eins og dís frá himnahæðum,
hrein og björt sem ljós og snær.
Yndislegri en ást í kvæðum
er hún, þessi töframær.
Brosið rauðar vefur varir;
Venus undan brúnum starir,
þar sem stjörnur tindra tvær.
Gengur fram og höfði hneigir,
hnittyrði til fólksins segir;
leikhúss allur heimur hlær.
Leikur hún með liprum fótum
léttan dansinn eftir nótum;
töfrabrögð í trúðleik skjótum
tæpast sjónin gripið fær.
Leikur hún og strengi stillir,
sterkum ómum loftið fyllir; —
þjóð með unaðseimi tryllir
undirspilsins ljúfi blær. —
Leikur kvæði ljóðskáldanna,
ljúflingsgælur bjartálfanna,
syngur lofgjörð sólskríkjanna
sætt og vært í hjörtu manna,
sorg og gleði söngvaranna,
svanaraddir tónlistanna,
ástarlöngun sveins og svanna,
sumarnætur elskendanna. —
Halelúja! Hósíanna!
hljómar meyjar röddin skær.

III.

Eins og sólar báran bjarta
brunar yfir himna sjó,
brýst við jarðar heita hjarta,

hvelfist yfir landið svarta,
þannig flýgur alda ómsins
eyrans til og veitir fró.
Viknar sál við hátign hljómsins;
hugur berst með stormi rómsins
gegnum rökkur regin-tómsins,
ríki nætur, arfleifð hjómsins,
upp að stóli æðsta dómsins,
yfir jörð sem birtu sló, —
þar sem gígjan grét og hló.

IV.

Ljóðin þagna; ljósið deyfist;
leiksal mærin gengur frá.
Enginn strengur hljóðsins hreyfist;
hljómaldan í burtu dreifist.
Ör-stund fellur allt í dá.
Töfrum svæft er sérhvert eyra
sekúndu, en vaknar þá.
Lýður hrópar: Meira, meira!
Meira' að sjá og heyra fleira,
aftur þig að heyra, heyra,
hafsins mær frá djúpum sjá!
Hamslaus óp úr hófi keyra;
hugann blindar skynlaus þrá.
Þúsundirnar þungan klappa;
þúsundirnar fótum stappa,
líkt sem væri Þór að þjappa
þursum að með skalla blá. —
Fram á sviðið svanninn stígur;
Sjafnarlog af augum flýgur. —
Kyrrð er aftur komin á. —
Hálsinn upp frá herðum teygir
hvítan eins og nætursnjá;
tígulega höfði hneigir,
hvelfdu brjóstin út hún sveigir.

Hrifin lotning þjóðin þegir,
þráir meiri gleði að fá.
Ekkert mærin unga segir,
augun fögru þreytu tjá.
Aftur klappar, kallar þjóðin:
Kom og syng oss fögru ljóðin.
Leiktu meir, svo háu hljóðin
hjörtum vorum megi ná. —
Hæversk brosir hringa-Nanna,
hneigir sig til' allra manna,
gengur brott og sveini' og svanna
sendir koss af fingri smá.

V.

Aftans- leikur -blærinn blíður,
bærist yfir jörðu þýður.
Sumarnótt um sólbraut ríður;
sindrar stjörnuvegur blár.
Úti sveimar svanninn fríður,
svefns og værðar ekki bíður.
Meðan henni hrósar lýður,
hniga niður kinnar tár,
tár frá þungum tómleiksstundum,
tár frá liðnum ástafundum,
tár frá bernsku opnum undum, —
æfitárin mörg og sár.
Lífs er sætust löngun flúin,
listin bezta skrauti rúin;
svanninn aleinn syngur lúinn,
syrgjandi með votar brár:

„Tak mig, blái hæðaheimur, —
helgi, mikli næturgeimur!
Hyl mig alvalds örmum þínum,
eilíf-djúpi himnasjár!
Ég er þreytt á þrautum mínum,

þessum heimsku villisýnum. —
Þú ert sannur, himinn hár! —
Seld var leikjum æskan unga,
uppgerð lærð og vanin tunga,
listin hneppt í hlekki þunga, —
höfð til þess að afla fjár, —
líkt og eimvél áfram knúin,
yfir vissan sporveg snúin
eftir því, sem óskar grúinn
æstur, blindur, sálarsmár. —
Öfund meyja, ástlit sveina
ánægju ei skapar neina;
frægðin á ei friðstund eina,
fölnar skjótt sem hjartans þrár.
Fegurð — að eins fis á glæðum,
fyllt og bætt með lit og klæðum,
svipuð tízku svikaslæðum,
sönnum yndisþokka dár.
Allt mitt líf er eintóm stæling,
ástar, vonar, trúar kæling;
ég má hlæja', er hjartað grætur,
hneigja mig við dónans fætur,
syngja' um ást, er sorti nætur
sálu minni boðar fár.
Ytra má ég lífið leika,
litum rjóða vanga bleika;
innri rödd og andvörp sálar
aldrei samt ég dreg á tálar.
Yfir harm, sem allt af bálar,
enginn bursti svikhúð málar.
Ör, sem ber mín öndin veika,
ýfir stöðugt leikur flár. —
Ég er þreytt á þrautum mínum,
þessum heimsku villisýnum.
Þú ert sannur, himinn hár!
Tak mig, tak mig, hæðaheimur,

helgi, mikli næturgeimur!
Hyl mig alvalds örmum þínum,
eilíf-djúpi himnasjár!"

## *DÖGG*

Hin þunga nótt í dag-geims dali líður
og deyr, er röðull gyllir fjallsins brún.
Nú árblær loftsins angar hreinn og þýður
um engi græn og blómum vaxin tún.

Í ótal litum logar dögg á stráum
sem leiftur skært frá egta demantsbaug, —
sem stjörnur titri' og tindri á himni bláum, —
sem tíbrá glitri' í morguns sólarlaug.

Sem meyjar vör af unaðs æsing titrar,
þá ástarkossinn brennir fyrsta sinn, —
sem sælu-blik í sveinsins auga glitrar,
þá svannans vangi snertir heita kinn, —

svo brosa vöknuð blómin gegnum tárin,
þá bikarkrónur opnar geislans skin
og strýkur mjúkri mund um nætursárin
sem mær, er líknar særðum hjartans vin.

Nú gleymist nótt og hugarsorgin svarta,
er sólin lítur kaldrar jarðar til.
Nú vaknar ásthlý von í þreyttu hjarta,
sem vermir andann sælum fagnaðsyl.

Hvert demantsblik er djásn og augans ljómi,
sem dýrðlegt speglar lífsins undrahaf.
Hvert daggartár er drykkur handa blómi,
sem dimma nóttin jörðu þyrstri gaf.

Svo þorsti lífsins, — þörfin eilíf-djúpa
æ þvingar lífið fram á æðri braut
og neyðir andans dögg frá himni' að drjúpa
á dauðþyrst barn, sem felst við myrkurskaut.

Hún knýr fram lind af köldum jarðarsteinum;
hún kallar eld frá björtum guðasal;
hún togar vísi fram úr foldarleynum,
svo finni' hún ljósið bjart, sem skín um dal.

Hver andans gimsteinn sögu sína rekur
til svartrar nætur, þar sem einhver grét.
Hver mannlífsbót, er gilda tíminn tekur,
er tár, sem sorgin þyngsta eftirlét.

Því þegar sálin sárt og lengi grætur,
hún sækir dýpstu speki, líf, til þín. —
Hvert reynslutár, — hver daggardropi nætur
í demant breytist, þegar sólin skín.

## *HVORT SEM LEIÐIN ÞÍN LIGGUR*

Hvort sem leiðin þín liggur
um lönd eða höf,
gefðu sérhverjum sumar
og sólskin að gjöf. —
Klappa blíðlega' á barnskoll,
og brostu þeim mót,
sem að harmana hylja
við hjarta síns rót.

Það er samhygðar sólskin,
sem sæld veitir mest.
Það er lang-fagrast ljósið
og lífsyndið bezt.

Sérhvert sann-kærleiks atlot
og sann-ástarhót
er vort eilífa lífið
og almeina bót.

Hvert sem leiðin þín liggur,
þá líttu æ hýr,
þar sem sárdöpur sorgin
í sinninu býr.
Sérhvert hugtak og handtak
sé hlýlegt og þýtt.
Sérhvert orðtak og andtak
sé ástlegt og blítt.

Það er margt, sem að mæðir
þá mótlætis-sál,
sem allt finnst sér ögri
sem óslíðrað stál.
Hér er heimsauðn svo helköld
sem hafíssins gljá
þeim, sem allslausir æðrast
og engin ráð sjá.

Hvert sem leiðin þín liggur,
þá leggðu þeim ráð,
sem að dauðvona dreymir
um drottins síns náð.
Gef þeim huga þinn heilan,
að hefja sinn þrótt.
Gef þeim söng þinnar sálar,
að syngja burt nótt.

Sérhvert vinarorð vermir
sem vorsólarljós.
Sérhver greiði og góðvild
er gæfunnar rós. —

Hvort sem leiðin þín liggur
um lönd eða höf,
gefðu sérhverjum sumar
og sólskin að gjöf.

*VILHJÁLMUR STEFÁNSSON*

Þótt kunni' eg ei Varðlokk að kveða,
sem kynnir þær náttúrur lands,
er happfróðir söngvarar seiða
til samtíðar spákonuranns,
þá syng ég þig, Vilhjálmur, sjálfan,
fyrst sjálfs er ei kunnáttan nóg,
því þú ert það kjarnbezta kvæði,
sem Kanada' og Ísland til bjó.

Vér möttum í munnmælasögum
hvern manndóm, — ei erfðavöld há,
hvern karlsson og konungsson jafna,
ef kostirnir stóðust þar á.
Vér unnum þeim æfintýrs-sveini,
sem æskunnar starfrækti þrá.
Í fátækraflutningum vestur
var fluttur sá draumur um sjá.

Við Huldá í Hvannrjóðri smáu
og hringgirtu' af Ný-Íslands skóg
í bjálkhýsi frumbyggja fæddist
vor fagnaðsspá — óskrifuð þó —,
vor ósksveinn í æfintýrsdraumum,
sem erfði' alla norðursins von. —
Úr þjóðbroti Þorfinns á ströndum
rís þjóð vorri heimsfrægur son.

Frá skotbakka lista og leikja
á langskipi' í víking þú fórst.
Þín heppni, þinn hugur, þinn þróttur
í Hrafnistu-ættina sórst.
Og byrinn að óskum þú áttir
og örvar, sem leituðu mals.
En ef að þær þrjár gátu' ei orkað,
þá áttirðu steinskeyti karls.

Þú hrímþursa heim hefir sótta
og hálftröll og snædverga gist,
við jötna og bergrisa barist
og borið af öllum með list.
Til útgarða norðurs þú náðir; —
þau nyrztu spor íslenzkur fór,
og þangað þú sigurinn sóttir
og söguna stærri en Þór.

Um norðurhöf frosta og fanna
að Furðuströnd nýrri þig bar.
Með heppninni' hans Leifs fanstu landið
og löndin um élvoga þar.
Þar máske á landnáms að leita
það líf, sem ei ennþá er fætt.
Þá minnast þeir frömuðsins fyrsta,
sem festa þau nöfn sín og ætt.

Úr norðursins leiftrandi ljóma
þú lýsigull þekkingar grófst.
Með mannkynsins merkustu sonum
þú menningarvísindin hófst.
Sem skammdegið norðurljós lýsa,
þú lýsir upp eyðurnar þær,
sem þjóðirnar þekkja á morgun,
en þekkti ei heimur í gær.

Þótt veröldin verkin þín eignist
og Vesturfold orðstírinn þinn,
þín ættmóðir elskar þig heitast
sem óskbarn og frægðarmög sinn.
Og það er oss íslenzkum öllum,
sú ósk, sem í hjarta er fest,
að æfin þín öll verði sigur, —
þig eiga sem lengst og sem bezt.

## *HEIÐIR ERU HEIMAR*

Heiðir eru heimar,
háir loftsalir,
blik á hverri báru.
Vekja vorhljómar
vermsl í sinni.
Leysir ís af öllu.

Uppi í eilífðum
englar syngja
guði sæla sálma,
afi og amma
undir taka
lof um lífsins föður.

Opnar eru dyr
allrar náttúru,
þar und sölum sitja
ljósir ljúflingar,
leyndir augum
eins og andinn holdi.

Brosir barn móður,
bendir mót ljósi,
faðir kvíða kastar.

Sjafni spyr Sjöfn,
sól spyr heim:
— Elskar þú mig eigi?

## *„SALTABRAUÐ FYRIR MIG“*

Við brimnes stígur bylgjan dans
við blik frá maí sól,
og bláminn faðmar fjöllin lands
og fjarlægð lyftir huga manns
í heið frá grænum hól.

Og ilmur fjörgar andardrátt
og ástin mey og svein.
Hjá móður leikur lamb sér kátt
og lóan syngur dátt og hátt
og steindepill á stein.

Með lófann fullan leikinn í
hvert lítið barnið fer.
Þau „geta margs“ og geta' á ný
og græða og tapa' á víxl á því,
en hlæja hvort sem er.

Hver sumardagur sólarskær
er „Saltabrauð fyrir mig“.
Hvert æskustrá, úr urð sem grær
— hver ynging lífs, sem þroska nær,
er hopp á hærra stig.

## *WALT WHITMAN*

Þótt fjöldinn nefni flesta' á undan þér,
og máske aldrei eigi með þér leið,
er önd þín vitur, fyndin, spök og heið.
Þín frelsishugsjón manndóms boðskap ber.
Frá fæðing þinni liðin öldin er.
En „Grasstrá“ þín, sem greru' und þjóðarmeið,
ei geta þrifist fyrir yfirreið
og ærsla-traðki. Enginn blett þinn ver.
Þú Ameríku stærsti andinn ert,
en átt ei hljómsins fagra svanaklið,
né braglist þá, sem kýs sér vissan veg.
Um aldir geymdur uppá hillu' að sért'
en ei í hjarta — máttu hugnast við. —
Hví söngstu ekki sónhátt eins og ég!

## *SÆVARSÖNGVAR*

Mig hungrar í hafsins tóna.
Hver hreimur er næring mín,
er taugarnar friðar og fæðir
sem freyðandi kampavín.

Mín sál verður skinin og skorpin
og skrælnuð og horuð og mjó,
að heyra aldrei hafsins raddir,
því hálf er hún komin úr sjó.

Við sæinn hún frumtón sinn finnur
og friðandi vöggusöng,
sem bergmál, frá al-lífsins öldum,
um aldanna súlnagöng.

Í brimgnýnum bumburnar druna.
Hver bylgja kann nýjan slag.
En raulandi undiraldan
er íslenzkt kvæðalag.

Í töfrandi sævarins samspil —
í syngjandi, freyðandi unn,
ég steypi mér — sekk mér í sönginn,
á samhljómsins dýpsta grunn.

Hver leiktónn þess lífið syngur,
og list þess er eilífðum frá.
Öll hljóðfæri himins og jarðar
kann hafið að leika á.

Því hungrar mig eftir að heyra
þau hafsins sigurmál,
sem Alfaðir kendi Ægi,
þá öllu gaf hann sál.

Ég skil ei — en fögnuðinn finn ég,
er freyða um hjartablóð
þeir al-lífsins úthafssöngvar,
sem eru mín Sólarljóð.

# Einar P. Jónsson

---

### *NÆTURVÍG*

Dóttir Njörva' í drunga-skapi
dökkar lætur síga brýn. —
Stormaflog í fjöllum hvín.
Standa' á öndu urð og stapi,
öldu-drottins klædd í lín.

Örlagabjörgum undir köldum
óspart gerast næturvíg.
Flest eru bjargráð fyrir gíg.
Grimdarhljóð frá Gýmis-öldum
glymja vítt um foldarstíg.

Seglakuggur siglubrotinn
sífelt þokast ströndu nær.
Framan og aftan yfir þvær.
Skipshöfn öll að orku þrotin,
engu lengur stjórnað fær.

Boðar rísa hærra' og hærra,
hamast litla kuggnum á. —
Augnablik eru eftir fá.
Ólag nýtt og annað stærra
eftir skilur fleka smá.

Slotar aðeins ögn í bili. —
Urðarmáni rofs um skjá
lítur sævot líkin á,

rekin upp úr hrannarhyli
hrufluð, þrútin, grett á brá.

Brakar hátt i bjargaþili,
bylgjufjöll jafn hvelfd og há
fyrri ekkert auga sá.
Heillast lík af hranna-spili
og hverfa' á ný í myrkan sjá!

## *TIL ÞORSTEINS ERLINGSSONAR Á FIMMTUGS AFMÆLI HANS*

Hróðrar-jöfur, heill sé þér,
haltu völdum lengi!
Margt að syngja eftir er
á Íslands hörpustrengi.

Ennþá berðu heilan hjör
frá hildarleikum skæðum.
Ódauðleikans afl og fjör
er í þínum kvæðum.

Ég hefi margoft af þeim glaðst
örðugan lífs við róður.
Þökk fyrir allt, sem um þú kvaðst
okkar gömlu móður.

Þeim fannst sjaldan leiðin löng,
ljóðin þín er sungu.
Mýkra enginn áður söng
á okkar feðratungu.

Syngdu vinur, syngdu skært,
syngdu hátt og lengi.

Þú hefir ekki list þá lært
að leika á falska strengi.

## GÍGJULEIKARINN

Hálfrökkur húsið fyllir,
hljómgígja strengja-slök
yzt út í horni hangir,
hélustöm og rök.

Handvana halur aldinn
horfir gripinn á. —
Íslitum brúnum undir
augu stara blá.

Eitt sinn til auðs og frægðar
opinn vegur lá. — —
Stýfð var á manndóms morgni
mundin úlnlið frá.

„Hlustið þið! Gígjan hljómar“,
halur mælti skjótt.
„Séð hefi' ég sextíu árin
sönglaus um dag og nótt“.

„Nú er ég ungur aftur,
andans búinn dug.
Guðirnir gefið hafa
gígjunni tóna flug“.

Hálfmáni bleikur horfir
hrímgan gluggann á.
Ljóðstolin liggur gígja
líki fölvu hjá.

## *UM KVÖLD*

Nú drúpir höfði himinsól
við hafsins bárusæng.
Og einn ég stend og ekkert kemst,
sem örn með brotinn væng.

En þótt mig svellköld bindi bönd
og banni tíðum flug,
ég á samt dýrðleg undralönd
og ástarvor í hug.

Ég sé hvar skugga safnast lið
um sund og dal og hlíð.
Og hinzti geislinn hervæðist
í heilagt frelsisstríð.

Þótt allir skuggar skipi sér
um skálann litla minn,
ég sæki nýjan sólskins-þrótt
í sjálfan himininn.

## *ÁSRÚN*

Jafn kynlega ungmey ei áður ég sá,
en elskað ég gat hana þó;
það hvíldi yfir enni og augnanna hyl
svo undarleg steingjörvings-ró.

Hún virtist mér stundum sem marmara-mynd,
en málið var hvellt eins og stál.
Hver hugsun var köld líkt og hafísa-þök
og hrein eins og frostrósa sál.

## *ÍSLAND*

Enn ertu bæði ung og fríð,
Egils og Snorra móðir.
Leikur um vog og laufga hlið
ljóminn af þinni sögutíð.
Enn eru þínir allir góðir
andlegu sparisjóðir!

Hrein sem norðrið skal hugsun hver
heill þinni yfir vaka.
Þú barst oss kornung á brjóstum þér,
blessaðir það, sem liðið er.
Gafst okkur allt — tókst aldrei til baka, —
um ekkert er þig að saka!

Frjáls skaltu, tigna fóstra mín,
framtíðar-þráðinn spinna.
Djörfustu' og beztu börnin þín
bundu við nafn þitt heitorð sín,
sóttu tápið til sagna þinna —
sæmdina' að stríða' og vinna!

Geymir í helgi hugur vor
heimalands þrastakliðinn.
Fennt er í okkar frumlífs spor. —
Fóstrað í vestri íslenzkt þor,
dreymir títt eftir daginn liðinn
dagbjartra nátta friðinn.

## *VETUR*

Ég finn þig koma úr öllum áttum
með óskapa kyngi af snjó. —
Brimið í þínum bragarháttum

bannar svo mörgum ró, —
frá strengjanna allra innstu þáttum
berst ylur af sumri þó.

Ég sé þig líkklæða lönd og voga
og leggja blómin til, —
heyri frá mjúkum héluboga
hrímvængjað strengjaspil, —
finn sumareðlið slá árdagsloga
um íslenzkan þorrabyl.

Æfintýr mörg við áttum saman
um íslenzkan heiðargeim.
Að kuldahlátrunum henti ég gaman —
fann hlýindi líka í þeim.
Ég leit þig af kjarki ljóma í framan —
leika sverðum tveim.

Flestir kjósa þig feigan, Vetur — —
þeim förlast máske sýn,
og skilja' ei til fulls hið flókna letur —
frostrósa málverk þín.
Ég veit þó, að enginn annar getur
ofið slíkt helgilín.

Þótt mælirðu oft af miklum þjósti,
er máske vott um brá.
Mér heyrist ég kenna í hörkugjósti
hálfdreymda sumarþrá, —
finn jafnt i eldgígs og íssins brjósti
eilífðar-hjartað slá!

## *TIL EINARS SKÁLDS BENEDIKTSSONAR*

Djúpspaki Völundur voldugra ljóða,
vordrauma-spámaður kynstofnsins góða!
Þú hefir leitað um ljósöldu-sæinn
og leitt yfir þjóðina upprisudaginn.

Stundum var fámennt í fylkingum þínum,
fjöldinn á reiki í skoðunum sínum.
En þá varstu' í orði og atgerfi stærstur, —
íslenzki frumtónninn dýpstur og hæstur.

Ungur þú lagðist í andlega víking,
sem útvörður stóðst gagnvart þjóðflokksins sýking,
með arnarins flugmagn og áræði ljónsins, —
með íslenzkan þjóðblæ í sveiflumýkt tónsins.

Fæddur með einkennum umbótamannsins, —
áformin sólvígð í þjónustu landsins.
Hver óður varð lífgróður þjóðinni þinni,
sem þroskast í ófæddu barnanna minni.

Hver vogaði frekar í fjallgöngum andans
og fylgdi jafn djarflega merkisstöng landans?
Með ljóðbrimsins þunga og þrumuguðs máttinn
þú hefir sigurvígt lagið og háttinn.

Nú bíða þín austanhafs ljómandi lendur,
með laufgaðar merkur og fangvíðar strendur. —
Þín æfi var sigur í örlagastraumnum, —
með Ísland í fyrsta og síðasta draumnum.

## *HUGSAÐ TIL ÍSLANDS*

Brennd í eðli Íslendingsins
útsjá breið og vængjastyrk!
Allt frá dögum úti-þingsins
ægiprúð og mikilvirk,
skráði Saga ljósum línum
lífs vors höpp og raunaspor, —
felur þó í faðmi sínum
fegri drauma, stærra vor.

Prýðir norðrið máttug móðir,
mikilúðug, tindaglæst.
Heimalands við helgar glóðir
hafa stærstu vonir rætzt.
Þar á sál vor sínar rætur,
sína draumlífs messugjörð, —
þar sem himinn heiðrar nætur
hvolfist yfir nýrri jörð.

Hyggjufrjáls og heimatrúuð
hefir þjóðin dafnað bezt.
Megingjörðum mannvits brúuð
munu að lokum sundin flest.
Þjóð, sem fæddi Þorgeir spaka,
þyrnibrautir lítils mat, —
heillar aldar Hungurvaka
hennar táp ei bugað gat.

Þó að hrannað haf oss skilji,
hjartað á sín fornu vé.
Þjóðin ein, — vort afl og vilji
ættjörð vorri helgað sé.
Þá mun bjart til hafs og heiða,
hagsæld fylgja lýðsins önn, —

þá mun röstin reginbreiða
reiknast eins og meðalspönn.

Innst í faðmi fjalla þinna
fyrsta bjarmann dags eg leit.
Fyrstu þreytu fóta minna
fann eg til í eyðisveit.
Styrk og mýkt í málsins hljómi
mér til eyrna sérhvað bar, —
hjartslátt guðs í hverju blómi
heyrði eg jafnan skýrast þar.

Landið helga, heiðra morgna,
hjartað geymir svipinn þinn.
Þar mun æskan endurborna
eiga lengsta drauminn sinn.
Þó að bregðist mörgum minni, —
margir kjósi aðrar dyr,
ítaksvon í eilífðinni
eg af hendi seldi fyr.

# Jakobína Johnson

## *REYNSLA*

Eg sá þegar sumarið kvaddi:
það sveipaði þoku-hjúp
um háreista borg og hlíðar.
og hvarf — út í hafsins djúp.

Eg innti þess árla morguns.
hvort ei myndi von um frest;
eg mætti' ekki missa blómin,
sem mér væri í hjarta fest.

Þá andaði svalt frá sjónum,
— á svari varð engin bið:
„Sú rós, sem á reit þér í hjarta,
ei raskast, þó skiljum við".

Svo hvelfdist hinn hvíti hjúpur
um hverfið mitt döggum vætt.
Eg fann, að eg missti mikið,
en meira' er þó stöðugt grætt.

## *VITINN*

Eins og örskot og eld-fögur hugmynd,
er fær uppljómað hugskot sem snöggvast
og þar dreifir úr dimmustu skuggum,
svo að dularfullt málefni glöggvast,

þannig leiftrar þitt eldlega auga,
þegar algleymi náttmyrkurs vefur
allar snasir og grynningar grímu, —
og hinn grunlausi farþegi sefur.

Þegar auga þitt auga því mætir,
sem með öryggi vegleysu þræðir
um hin voldugu höf — og til hafnar
ræðst í húmi, þó úfinn sé græðir,
þá fer stæling um hug hans — og höndin
verður hárviss að stýra hjá voða
þeim, er leiftrið þitt tindrandi, táknar
með sinn töfrandi, vekjandi roða.

En það er ekki einungis glampinn,
og hin örugga hjálp, er hann veitir,
sem minn hug hrífur dýpst, — heldur draumur,
sá er dagrenning kærleikans heitir.
Hvar sem ljós kveikir hönd, til að lýsa
fram hjá lífsháska bróður á vegi,
þar er mannúðin rökkrin að rjúfa,
og mun ríkja á komanda degi!

## VOR

*(Í gömlum aldingarði.)*

Ó, hve vorið yngir
alla þessa stofna!
Fyrir fáum dögum
fannst mér tjaldið rofna
og um sviðið svífa
sólargeislum klæddar
verur, — vorsins andar,
valdi miklu gæddar.

Enginn hávær hljómur
hermir frá því valdi.
Ekkert undraletur
efst á gullnu spjaldi. —
— En það starfar, starfar,
stöðugt daga og nætur.
Ótakmörkuð orkan
ekkert gleymast lætur.

Sást þú gamla garðinn
gliti vorsins búinn?
— Þó að vaki um vetur
vonin mín og trúin,
er mér opinberun
ætíð söm að líta
bogna fauska bera
brúðarskartið hvíta.

Sérhver kló og kvistur
krýnist þúsund sinnum.
Þúsund bjartra blóma
blíða angan finnum
streyma ljúft og lengi, —
— líkt og vorsins blíða
vilji vefja örmum
vonleysi og kvíða.

Vilji vekja af dvala
vitund þá, að leynist
áhrif dýpst og orka,
án þess hávær greinist
lúðra-þytur lýðsins. —
— Lengst um heiminn víða
finni farveg hjartans
fegurð vors og blíða.

## *SPÖRFUGLINN*

Er vetrarins vinda lægði,
og vorblómið fyrsta hló,
þá flaug til mín spakur spörfugl,
og spurði með stakri ró:
„Er húsið þitt laust til leigu,
— svo lítið, en snoturt þó?“

Eg vissi, að vorið spurði.
— „Jú, velkomið, strútur minn.
Því smá-hýsið búið beið þín, —
eg býð þér að skyggnast inn.
— Og svo skalt þú sækja frúna,
og sýna' henni bústaðinn“.

Hann var ekki seinn í svifum,
og svo kom hin gráa frú.
Þau skoðuðu krók og kima,
og kýttu, sem eg og þú.
— Því hún var svo hrein og vandlát,
en — hann vildi draga í bú.

Þó flugu þau sátt og samlynd,
að sækja hin fyrstu strá.
Þau flýttu sér fram og aftur
með fjaðrir og kvisti smá.
Því annirnar að þeim sóktu
og eltu þau til og frá.

En loks komu dýrðar dagar,
með dásamri kyrrð og ró,
er strútur minn stóð á verði,
svo stoltur, en hægur þó.
Og söng um þær sælustundir,
er sólin og vorið bjó.

Þó vorið oss vefji örmum,
þá varir það skamma stund.
Er heyrum vér harðar kröfur,
vér hrökkvum af værum blund,
og sjá, — þar er sumar lífsins,
og sýnir oss gull í mund.

Ef atorku ei oss brestur, —
— og eins var með spörfuglinn.
Eg saknaði söngsins blíða,
og sá út um gluggann minn,
að annirnar aftur sóktu, —
— og ógnuðu' í þetta sinn.

En trúin á tilgang lífsins,
og tryggðin við skylduverk,
er taugin, sem traustast bindur
— sú taug, hún er mjúk og sterk.
Og svo, þó að sönginn þrjóti,
er sálunni reynslan merk.

— — —

Á hausti, er laufblöð hrynja
og hirt eru vetrar föng,
má söngvarinn leita suður
og safna þar dægrin löng.
— Því smáfuglsins eini auður
er efnið í nýjan söng.

### *HUGSAÐ TIL ST. G. ST.*

Næðir norðan gjóstur
Nýja-skóg þinn gegnum.
Tein-rétt trén á hólnum
titra' af hrolli megnum.

Drif-hvít dular-blæja
dáin laufblöð vefur.
— Reitinn út við ána
annast — því þú sefur.

Eigi þú, — en aðeins
andans reiki hjúpur.
Þú munt til vor tala
tiginn jafnt og djúpur,
meðan íslenzk óð-snilld
unað sálu vekur,
— meðan orka' og eldur
efasemdir hrekur.

Þú munt til vor tala
táp-mikill og vitur,
þegar önn og angur
um vorn huga situr.
Þín var reynsla þrungin
þessum sömu tárum
— samt var kvæða-knörr þinn
konungs-fley á bárum!

Hvar sem önd þín unir
útsýn mun til fjalla.
Heið mun sýn til sólar,
sí-græn blöð um hjalla.
Andi alls hins fagra,
er þú gafst í ljóðum,
hyllir dvalar-heim þinn
hugarfylgjum góðum.

Hvar sem önd þín unir,
andrúmsloft mun fyllast
sannleiks-ástar eldi, —
ekkert skrum mun gyllast

aumu yfirskini
andleysis og hroka.
— Aldnar vanans verjur
verða' um set að þoka.

Hvar sem önd þín unir,
ei mun vetur þjaka.
— Vor og sí-blítt sumar
sífellt hjá þér vaka.
— Ótal þúsund þakkir
þigg — frá vina heimi!
— Andvakan er enduð. —
Ár-roðinn þig geymi!

### *SKYLDLEIKI*

Þau ganga sömu götu' og eg, —
en greiðist margt á annan veg.
Þau fylgja oftar eigin vild.
— Eg efast um eg sé þeim skyld.
En er eg lít þau ein um kveld,
með andlit bleik og sveitt, —
mín breytist andúð brátt — og dvín, —
þú bróðir minn — og systir mín,
sjá — eg er einnig þreytt!

Hún man að berast mikið á, —
en man ei jafn-oft börnin smá.
Mér virðist hún sé vandfýsin,
— og varnað þó á ýmsu skyn.
En er hún stendur ein við gröf
sem eik af stormi hrist, —
mín andúð hverfur óðar sýn, —
þú angri mædda systir mín,
sjá — eg hef einnig misst!

Hann virðist bera höfuð hátt, —
með hreystisvör — og viðmót kátt.
Eg væni hann um valdafíkn-fíkn —
og vil hann sýni þjáðum líkn.
En er eg lít hann einan sér,
með örvænting í svip, —
þá brýzt út hróp frá brjósti mér:
Þú bróðir kær — eg líð með þér.
Sjá — eg á sokkið skip!

Þau ganga sömu götu og eg, —
en gleðjast þó á annan veg.
Mér finnst það glit og fánýtt prjál,
sem fögnuð vekur þeim í sál.
En er eg lít þau arni hjá
með yndis-fríðan son, —
þá ann eg þeim af innstu rót,
né efast þá um skyldleik hót.
— Eg á mér einnig von.

## *MINNI ARGYLE*

Á fögrum júní degi, þú fríða kæra sveit.
eg fagna því að minnast þín í ljóði.
Nú er sem drottning vorsins sér helgi hvern þinn reit
og heim til þín unaðsemdum bjóði.

Allt boðar fylling þroskans, það finnst ei sölnað blað,
en fagurt loforð býr á hverjum teigi.
Hin tigna rauða lilja um bústað þenna bað,
og bláklukkan fagnar nýjum degi.

Hér laða sléttir vegir, en alda á ökrum rís,
og óvænt smávötn bliká milli hóla.

Í þéttu skógarkögri er lítill lækur vís.
en leika sér börn í kringum skóla.

Og vinlegt sveitabýli ég veit á hverjum hól,
— ég víða kem, þó enginn sjái sporin, —
því trygglyndari vini ei leit hin sæla sól;
og samfundi þrái ég á vorin.

Með spámannsaugum litu það landnemarnir fyr,
hvert lán og friðsæld bjó í skauti þínu.
Og þess skal ljúft að minnast, þó lokazt hafi dyr;
þeir lifa í mætu starfi sínu.

Því hvað er ytri fegurð, og hvert er auðsins vald
mót höfðingsskap og dyggu hversdags verki?
Það lýsir fram um aldir sem logskært minnisspjald,
og lifi vor sveit! — und slíku merki!

## *MÓÐURLJÓÐ*

Ég hygg eg öðlist aldei frægð
og ekki þeirra gjafa nægð,
sem glitra mest og ginning valda,
þótt gefist lítt, er á skal halda,
því tilveran er aum og auð,
ef andann skortir daglegt brauð.

En sjá, hvað lykst í lófa minn!
Og leyndan mátt ég óðar finn,
er streymir heitt að hjarta mínu
og hrífur það með valdi sínu.
Því litla barnshönd, lof sé þér!
þú lagðir gull við fætur mér!

Mitt auðgar lífs, þess ei ég dyl,
er alla krafta lagði til
að líkna' og hlífa lífi ungu,
og ljúflings orð mér bar á tungu.
Í auðlegð þeirri er ekkert tál,
að elska barn af lífi og sál.

Hver girnist heimsins hylli' og frægð,
sem hefur reynt þá sælugnægð,
er máttug breytir mæðukjörum —
þú móðurnafn á barnsins vörum!
— Á augnabliki einu' eg skil
hin æðstu laun, sem Guð á til.

## *HUGSAÐ Á HEIMLEIÐ*

Hratt svífur fuglinn til hreiðurs,
er húm felur grundu.
Viljinn knýr vængina smáu,
en viðkvæmnin hjartað.
Eins er með hugann á heimleið,
þó hraðlestin bruni.
Flýgur hann fram og til baka
í fjötrunum þreyttur.

Reykurinn dettur í drögin
í dún-léttum slæðum.
Hraðskreið um háfjöll og dali
heimleiðis ber mig
lestin — sem leiðina þræðir
svo liðug í drætti,
þrátt fyrir þyngslin og tengslin
og þrepin og brattann.

Samt finnst mér seinlega vinnast,
og sárlangt að bíða,
þar til ég sé út á sundið,
og sólin í fjarska
kveður í skrautlitum skýjum
hinn skínandi bláma,
vefur svo vestlægust fjöllin
í vinlegum bjarma.

Hratt skríður lestin og hraðar,
— það kallar til vesturs.
Samt finnst mér seinlega vinnast,
unz sé ég hann aftur,
ljúflinginn smáa, er ljósi
á leið mín varpar.
— Finn aftur höfuð hans hjúfra
með hlýju við barm minn.

Gott er hjá góðvinum dvelja
og gestrisni njóta.
Yndi' er að léttfleygu ljóði
og lifandi ræðum.
— Samt mun oft sælast að kveðja,
þá sungið er glaðast.
— Andinn er næmur á ylinn
frá arninum heima.

## *VÖGGULJÓÐ*

Jú, ég hefi áður unnað, en aldrei svona heitt.
Ég veit ei veðrabrigði — og verð ei framar þreytt.
Jú, ég hefi áður unnað, en aldrei svona heitt.

Því ef ég sé hann sofa, með sælufrið um brá,
þá kýs ég alla æfi þann yndisleik að sjá.
— Og vofum virkileikans ég vildi bægja frá.

En aftur, ef hann vakir, og augun, dökk og skær,
með brosi trausts og blíðu allt blessa fjær og nær,
þá langar mig þau lýsi eins lengi og hjartað slær.

Og ef hann leggur arma með ástúð mér um háls,
og mjúkur vangi vermir, — þá vaknar sál mín frjáls
að syngja um ást og yndi — þó oft sé varnað máls.

Og ef hann mælir: Mamma, — þá man ég ekki neitt,
nei, ekkert, sem mér amar, ég er ei vitund þreytt.
Jú, ég hefi áður unnað, en aldrei svona heitt.

## *VIÐ GLUGGANN*

Ég þér á margt að þakka, gamli aldingarður,
á götuhorni stórborgar fjöldi manns þig sér,
en oft hefir mér fundist sem engan mundi gruna
þann unað og þann styrk, sem þín návist færir mér.

Nei, ekki var það „góðskáld“ — og enginn listamaður,
sem eitt sinn gróðursetti þín kræklótt aldintré.
Þau þykja tæpast „valin“ og vantar góða hlynning.
— Þau vaxa rétt sem býður þeim sól og rúm og hlé.

Mér er það lán ei léttvægt að líta þig á vorin,
er langþreytt dvel ég inni við tafsöm hversdagsstörf.
Ég staðnæmist við gluggann — þá streymir til mín fegurð,
og stöðvar hugans útþrá, sem á vorin er svo djörf.

Því hver ein hrufótt smágrein er þakin hvítum
blómum
og þægur ilmur berst mér um opinn gluggann minn.
Svo dreifir blærinn blöðunum út um allan garðinn
sem yndislegri snædrífu', er slæðist til mín inn.

Senn grænkar, — ó, sú unun — því engin fegurð
jafnast
við endurfæðing skógarins, nýútsprungin blöð.
Er glitra þau og titra í geislum morgunsólar,
frá glugganum ég sný mér til starfa minna glöð.

Og þó mér ógni ysinn — þá finnst þó fugl svo djarfur,
að festa sumarbústað í lágu eplatré.
Ég veit þú skýlir ungunum, óræktaði garður,
og ótal dýrmæt hlunnindi lætur þeim í té!

Ég man það lengst, hve ljúft er að líta mánann
gægjast
um limið þétt — er annirnar kveðja sumardag.
Mig dreymir þá sem snöggvast, að eg sé ung að nýju,
og áhyggjurnar breytast í von um glæstan hag.

Á sumrin hylur laufskrúðið lág og rykug býli,
svo leiðu borgar umhverfi gleymi ég um stund. —
Og nú er fokin fegurð — en fuglahópar koma.
Þeir fagna hvíld á langferð, þó heilli suðræn grund.

Jú, þú átt þakkir mínar, gamli aldingarður,
þú glöggvar myndir sýnir af náttúrunnar dýrð.
Ég tel það lán ei léttvægt, sem leyfði mér um glugga
að líta meiri fegurð en orðum verði skýrð.

## *ÍSLENDINGUR SÖGUFRÓÐI*

Þegar minnst er frægra feðra,
fornra kappa minnst í ljóði,
þú ert einatt eftir skilinn
Íslendingur sögufróði.

Haraldur og hirðmenn frægir
hlýddu' á snjalla frásögn þína,
og í gló-vef Íslands sagna
ýmsir kenndu frændur sína.

Kenndu þrek í þrautum stórum,
þroskað vit, er landi stjórnar,
rósamt geð í raunum sárum
röm þá örlög krefjast fórnar.

Þegar íslenzkt efni þrýtur,
og að jóla-veizlu líður,
minnugur á sannar sagnir
sögu konungs fram þú býður.

— — — — —

Skemmtan þín var skærust birta
skammdegis á löngum kvöldum,
blys, er lýsti leiðir fjöldans,
lands vors sól á dimmum öldum.

Hvað mun valda', að huliðs hjálmur
horfins tíma nafn þitt dylur?
Sál þín er þó engum dulin,
íslenzkt mál er nam og skilur.

Hún var það, sem hreysti dáði,
heppin svör og drenglund alla,

örlaganna ýmsu þætti
aldrei lét hún niður falla.

Óf hún úr þeim undra guðvef:
Íslendingsins búning glæstan,
þann, er aðrar þjóðir kenna,
þann, er orðstír gat oss hæstan.

Því er víst, að þjóðin ann þér
þakklætis í söng og ljóði,
— þú ert hennar innsta eðli,
Íslendingur sögufróði.

— — — — —

Andi þinn í álfu nýrri
efni margra sagna finnur.
Þegar íslenzk efni þrýtur,
annan gullinn vef þú spinnur.

Þó að breytt sé hag og háttum,
hlutverk þitt er æ hið sama:
Anda þíns með eldi vinna
Íslendingum sæmd og frama.

## *Á VORDEGI*

Sí-glaði sunnanblær og sól-gyllta haf,
ljúfar eru vonirnar, sem vor-morgun gaf.

Segið mér að sunnan — ég sízt fæ skilið í —
hví er ætíð ógnandi út við hafsbrún ský?

Þýtur blær í blöðum, breytast skýja-drög.
— Dökkir líða skuggar yfir skóginn og lög.

Vind-sog i skógi — — og skruggur — og skúr!
Smáfuglarnir leynast bak við lim-garð og múr.

Þrumugnýr i fjarlægð — þrungið andartak.
Strjálir dropar detta, sem dúfur stígi' á þak.

Rofar fyrir röðli og regnbogi skín. —
Dularfulla, dásama, dýrðlega sýn!

Sí-glaði sunnanblær og sólgyllta haf,
huggið þá, sem hreggviðrið harmsefni gaf!

# Páll Guðmundsson

## *Á SLÉTTUNNI*

Vítt og breitt sem augað eygir
allt í kring er sléttu haf;
vefjast engi og akurteigir
inn í fagurt skógartraf.

Skortir ása, hóla, hjalla,
hvergi nokkur brekka rís.
Kýs þó sonur flúða og fjalla
foss í sína paradís.

Enginn dalur, enginn tindur,
— ekkert, sem að lyftir hug.
Enginn valur, enginn smyrill
yfir borgir hefur flug.

Engin lækja ljóða-harpa
leikur við oss Bragamál.
Engar sagnir frægra feðra
fæða göfga þrá í sál.

Getur Egil eða Snorra
alið þessi flata sveit?
Flezt ei andi arfa vorra
út, í slíkum gróður-reit?

## TIL ÍSLANDS

Eg þrái þig, þú móðir mín,
þú mold, er ósnert grær;
þig fjall, er enginn fótur tróð.
þig foss, er dulur hlær,
þig alda hafs, er hefir greitt
þitt hár inn frjálsi blær.

Þið getið mig þeim fögnuð fyllt.
er fáum sálum gefst;
því það er í mér eitthvað villt,
er æðsta frelsis krefst;
við fjallið á ég eitthvað skylt,
er upp í blámann hefst.

Þú hvika borg, í þinni þröng
eg þrái' inn ljúfa frið,
er fyllist eg við fossa söng,
og finn í hafsins nið,
er brenna vorkvöld björt og löng
og brosir heimur við.

Þú leynda afl, þú landsins sál,
eg leita á fundinn þinn,
því hjá þér eins og barn við brjóst
eg bezta svölun finn.
Eg halla mér að hrauni og teig,
sem huldrar móður kinn.

## Richard Beck

### *PÁSKALILJUR*

Hreinar sem hjarta barnsins,
hvítar sem mjöllin nýjust,
ótroðin efst á tindi,
angandi Páskaliljur.

Hug þær til hæða lyfta,
hreinleikans tákn, og ímynd
upprisu alls, sem lifir;
ilm þær af himni bera.

Nýja þær augum opna
ómælis veröld dýrðar,
sólheima' í sálum manna;
sumars er blær í lofti.

### *ÞEGAR HAUSTAR HEIMA*

Langförlir ljóðaþrestir
leita í hlýrri geima,
klökkvandi söngva kvaki
kveðja þeir fjöllin heima.

Horfa þeim ótal eftir
augu til sala blárra;
útsækinn æsku hugur
óskar sér vængja frárra.

Vorsál, er víðsýn elskar,
vegfara loftsins dáir;
hörð reynist hlekkja vistin
hverjum, sem frelsið þráir.

Fara með fjaðrabliki
fuglar mót hlýrri löndum;
mæna þeim ótal eftir
augu af Norðurströndum.

## *HAUSTMÖRK*

Skóghjartað skelfur og
skrúð er af lund;
Haust þeysir hélugrám
hesti um grund.

Fjólan, sem fegraði
fjallshlíð í maí,
örend og bleik undir
október-snæ.

Hljómköld er vind-harpan;
hratt fljúga ský;
harmþungur hvinurinn
hafinu í.

Floginn er skóg-þröstur;
skyggir á sól;
svartnættið lengist, —
en senn koma jól.

## *ÚTÞRÁ*

Blikar hafið himinblátt;
hnígur sól í vesturátt;
blíðan heyri eg bylgjuslátt,
byrinn er af landi.
Hafmeyjarnar syngja fyrir sandi.

Bát minn leysi eg; burt frá strönd
beini för í draumalönd;
seglin björtu blika þönd;
byrinn er af landi.
Hafmeyjarnar syngja fyrir sandi.

— — — —

Siglt skal nú, þó svigni rá,
særinn ýfist, gefi á;
fyrir handan höfin blá
hallir rísa veit eg;
fyrrum þær í ljúfum draumum leit eg.

Síðan er eg sviftur ró,
svefni ljúfum, hjartafró,
bros í ungum augum dó;
útþrá hugann seiðir
yfir hafið breiða — langar leiðir.

## *KVÖLD*

Vatnið sefur, þess silfur ei hrærist;
silki mánans það draumblæju vefur.
Kyrrðin ríkir, ei blómkróna bærist;
blæhvísl þagnað í lúndinum hefur.

Hljóður söngfugl í hreiður sig grefur,
hvíldar leitar í fangi nætur;
daggprúð blómstur við bjarkarætur
blöðum loka, — jörðin sefur.

## *HEIMHUGUR*

Gefðu mér fáeinar fjaðrir,
að fljúga með þér, blær,
heim yfir hafsjóa breiður,
því hjartað þangað slær.

Dýrðleg sem draumsýn brosir
úr djúpi móður-land;
gott á hún báran bláa,
sem brotnar þar við sand.

Firðir og fjallanna dalir
mér faðminn breiða sinn;
hver fífill, sem fegrar þar grundu,
er fæddur bróðir minn.

# Guttormur J. Guttormsson

## *HRINGURINN*

*Leikur í einum þætti.*

*PERSÓNUR: Yngri sveinninn. — Eldri sveinninn. Faðirinn. — Móðirin.*

*Grenískógur, limið er þakið snjó, greinarnar hafa hnigið undan snjóþyngslunum og drúpa; grennstu trén hafa bognað niður. Djúpur snjór er á jörð. Þetta er um nótt snemma vetrar. — Faðirinn grúfir yfir litlum sprekakesti og margreynir að kveikja á eldspýtum. Eldri sveinninn og yngri sveinninn standa skammt frá honum.*

*YNGRI SVEINNINN:* Mér finnst skyrtan mín vera að frjósa utan um mig.

*ELDRI SVEINNINN:* Pabbi er að kveikja eld. Þér hlýnar við eldinn.

*YNGRI SVEINNINN:* Kuldinn er bitrastur rétt áður en eldurinn kviknar. Mér er ilt af kulda.

*ELDRI SVEINNINN:* Þér batnar við eldinn. — Við getum þítt fötin okkar og þurkað þau á okkur á meðan við hvílum okkur. Svo getum við farið heim, þegar birtir.

*YNGRI SVEINNINN:* Við eigum ekki víst að rata þangað sem við ætlum.

*ELDRI SVEINNINN:* Það sakar ekki, ef við getum haldið eldinum lifandi.

*YNGRI SVEINNINN:* En við erum bjargarlausir.

*ELDRI SVEINNINN:* Mamma hefur brauð handa okkur, þegar við komum heim.

*YNGRI SVEINNINN:* Já, þegar við komum heim. Í hvaða átt er kofinn?

*ELDRI SVEINNINN (horfir til beggja handa — bendir til hægri):* Í þessari átt.

*YNGRI SVEINNINN (bendir til vinstri):* Mér finnst þetta vera suður.

*ELDRI SVEINNINN (bendir til hægri):* Mér finnst þetta vera suður.

*YNGRI SVEINNINN:* Úr hvaða átt komum við?

*ELDRI SVEINNINN (bendir til vinstri):* Úr þessari átt.

*YNGRI SVEINNINN (bendir til hægri):* Nei, við komum úr þessari átt.

*ELDRI SVEINNINN:* Við höfum ef til vill gengið í allar áttir hingað.

*FAÐIRINN (stendur upp):* Nú hefi ég reynt allar eldspýturnar og fleygt þeim. Þær höfðu vöknað eins og við.

*YNGRI SVEINNINN:* Ó!

*ELDRI SVEINNINN:* Við verðum að ganga okkur til hita.

*FAÐIRINN:* Við mundum fara meira afvega.

*YNGRI SVEINNINN:* Við erum hungraðir og uppgefnir.

*ELDRI SVEINNINN:* Ætli að við séum langt frá stígnum, sem liggur heim að kofanum.

*FAÐIRINN:* Við erum sjálfsagt ekki mjög langt frá honum.

*YNGRI SVEINNINN:* Mundum við heyra, ef mamma kallaði þaðan?

*FAÐIRINN:* Okkur mundi verða það á að halda, að við heyrðum ekki, nema hún væri nær.

*YNGRI SVEINNINN:* Ég vildi að mamma fyndi okkur.

*FAÐIRINN:* Ég vildi að guð gæfi að hún færi ekki út frá börnunum. Ég vildi að henni hugkvæmdist ekki að leita að okkur.

*YNGRI SVEINNINN:* Ef hún fyndi okkur, þá mundum við komast heim.

*FAÐIRINN:* Ef hún fyndi okkur, þá —

*Það styrmir; hvín í skóginum; eitt tréð fellur með brestum og braki; fönn hristist niður af trjánum.*

*ELDRI SVEINNINN:* Er þessi skógur á stóru svæði?

*FAÐIRINN:* Ég veit ekki af öðru rjóðri en því, sem er í kring um kofann.

*YNGRI SVEINNINN:* Trén geta fallið á okkur og beinbrotið okkur.

*FAÐIRINN:* Það er hægt að vara sig, þau falla undan vindi.

*YNGRI SVEINNINN:* Hvaðan er vindurinn?

*FAÐIRINN:* Hann hefir snúið sér síðan við fórum af stað.

*ELDRI SVEINNINN:* Vindurinn blæs úr öllum áttum. — En, ef við reyndum að rekja sporin okkar aftur til baka.

*YNGRI SVEINNINN:* Það er svo langt, langt. Ég er svo þreyttur að ég kæmist ekki til baka. Ég kæmist heim, ef mamma fyndi okkur.

*FAÐIRINN:* Vindurinn hefir hrist fönnina niður af trjánum í sporin okkar. Þau eru alstaðar horfin nema hér. Það er eins og við hefðum hvergi verið nema hér. Það er eins og við hefðum orðið til hér.

*ELDRI SVEINNINN:* En ef mamma kæmi, gætum við þá ekki rakið sporin hennar heim?

*FAÐIRINN:* Það fyllast öll spor og hverfa.

*YNGRI SVEINNINN:* Ég heyri eitthvað langt úti í skógi. Það er einhver að leita að okkur.

vin sinn. Þegar hann kemur í bæinn, sér hann, að miklar breytingar hafa átt sér stað, síðan hann fór, svo hann þekkti naumast afstöðuna. Honum dettur þá ósjálfrátt í hug pósthúsið, að það muni vera á sama stað og í sama formi, og að þar mundi hann máske mæta einhverjum, sem geti gefið sér upplýsingar um vin sinn. Þegar hann kemur þangað, verður George fyrsti maðurinn, sem hann sér, og honum til mikillar undrunar, er hann búinn að taka á sig heldri manna útlit og snið. Í sömu svipan mætast augu þeirra og þeir þekkja hvor annan og heilsast alúðlega.

„Hvernig líður þér, Tom?“ segir George. „Mér þykir vænt um að fá að sjá þig aftur. Mér finnst þú vera orðinn talsvert breyttur frá því, sem þú varst. Hvernig hefir þér gengið lífið síðan?“

„Ég hefi tekizt þessa ferð á hendur til að sjá þig, George“, segir Tom, „og fá að vita, hvernig þér líður og hefir liðið, síðan ég fór héðan. Eg álit, að það sé réttmæt krafa af mér, að þú segir mér æfisögu þína fyrst, þar sem ég hefi kostað svo miklu til að fá að heyra hana. Mína sögu skal ég segja þér á eftir. Ertu giftur, George?“

„Já“, svaraði George.

„Og hverja þeirra áttir þú?“

„Það er nú heillöng saga, sem ég hefi að segja þér um það allt“, segir George. „Eins og þú vissir, gengum við út frá því, að við gætum valið úr öllum þeim stúlkum, sem tóku þátt í dans-samkomunum með okkur, og þegar þú fórst með hana Lilly, var ég enn þá vissari í minni sök. En jafnvel þó að mér líkuðu stúlkurnar að mörgu leyti, var ég samt einhvern veginn ekki vel ánægður með nokkra þeirra. Mér fannst það líka vera allt of auð-unnið fyrir mig, að ná hlutskifti úr þeirra flokki. Mér fannst þetta atriði vera svo stórt í lífinu, að ég áleit, að ég ætti endilega að hafa einhverja fyrirhöfn fyrir því, svo afleiðingin varð sú, að ég fór

að líta eftir fleirum en þeim, sem tóku þátt í skemmtunum okkar.

„Þú manst víst eftir stúlkunni, sem vann á pósthúsinu, Tom, — henni Ednu Thomson?“

„Já, ég man eftir henni“, sagði Tom; ég sá hana þar oft. Það var frekar lagleg stelpa, en mér virtist hún fremur köld og ekki aðlaðandi“.

„Hún var það líka“, segir George. „En einmitt þess vegna vaknaði hjá mér sterk löngun til að kynnast henni. En það var hægra sagt en gert; hún var ekki á almannafæri. Á kvöldin sást hún aldrei á ferli. Hún fór hvorki á leikhús eða danssamkomur, svo ekki var hægt að ná þar til hennar. Hún fór í kirkju um hádegismessuna, en ekki á kveldin, svo ekki var þar tækifæri. En svo komst ég loksins að því, að hún gekk á hverjum sunnudegi eftir hádegið út í skemmtigarðinn með systrum sínum og dvaldi þar tvo klukkutíma, og þar var þá eina tækifærið til þess að reyna til að kynnast henni. Eftir að mér kom til hugar að læra að þekkja þessa stúlku, gerði ég mér mörg ómök á pósthúsið og fann upp á ýmsu til að spyrja um, og hagaði vanalega svo til, að hún þyrfti að svara mér. Á þann hátt lét ég hana þekkja nafnið mitt og andlitið á mér. Nú fór ég að taka mér skemmtigöngu á sunnudögum út í lystigarðinn og mætti henni þar oft og ávarpaði hana af allri þeirri kurteisi, sem ég átti til. Hún svaraði mér hæversklega, án þess að gefa mér frekari gaum. En smámsaman, eftir að ég var búinn að sýna henni, að ég lagði engar lykkjur á leið mína, til þess að geta mætt henni, fór hún að verða viðfeldnari. Svo kom að því, að við skiftumst á nokkrum setningum, eins og almennt gerist, um veðrið, náttúrufegurðina, o. s. frv. Þegar ég hélt, að við værum orðin dálítið kunnug, fór ég að spyrja hana um stöðu hennar og hvernig henni líkaði vinnan. „Vel“, segir hún. Hvort hún færi aldrei út úr bænum. „Nei“, sagði hún. Hvort hún færi aldrei

á leikhús eða danssamkomur. „Nei", sagði hún, o. s. frv. Öllum mínum spurningum svaraði hún með einsatkvæðisorðunum „já" og „nei" og var frekar alvarleg. Eg var farinn að hugsa, að það væri ekki greitt aðgöngu, að kynnast þessari stúlku. Hún fór sínar leiðir og tók ekkert tillit til minna ferða. Hún forðaðist ekki að mæta mér, og var æfinlega jafn-kurteis og alvarleg. Það var auðséð, að hún fylgdi einhverri ákveðinni stefnu. En eitt var skrítið með sjálfan mig. Eftir því sem ég sá betur, hvað hún tók lítið tillit til mín, eftir því fór þrá mín meira vaxandi, til þess að ná vinsemd hennar. Nú fór ég að hugsa um, hvaða ráð ég ætti að finna, til þess að geta náð tilgangi mínum. Eg hugsaði það væri bezt, að byrja á þessu vanalega: að bjóða henni á leikhús eða dans, eða í keyrsluferð út á land. Annað hvort mundi hún þiggja það, eða það mundi særa tilfinningar hennar svo, að hún segði meira en já eða nei. Þetta ráð tók ég, og lagði svo eftirfylgjandi spurningar fyrir hana: „Eg hefi heyrt, að það eigi að sýna mjög merkilegan leik á leikhúsinu annað kveld, má ég ekki bjóða þér, Miss Thomson, og systrum þínum að koma með mér þangað? Svo á að verða grímudans á föstudagskvöldið, máske þú vildir heldur koma þangað? Eða máske þú vildir helzt keyra með mér út á land á sunnudaginn? Mér væri mjög mikil ánægja í því, að þú þægir eitthvað af þessum tilboðum mínum, helzt öll. Hvað heldur þú að hún hafi sagt, Tom?"

„Hún hefir líklega sagt, eins og Kristur sagði við freistarann: Vík frá mér, Satan", segir Tom.

„Nei, það gerði hún ekki. Hún sagði aðeins þetta: „Eg þakka þér fyrir boð þín, Mr. Oleson. Eg hvorki vil né get þegið þau". — Ekki ætlar þetta að duga, hugsaði ég; meira má, ef duga skal. Eg sagði því við hana: „Þú segir, Miss Tomson, að þú hvorki viljir né getir þegið tilboð mín. Viltu vera svo góð, að segja mér á-

stæður þínar í báðum þessum tilfellum?" „Það er velkomið", segir hún. „Í fyrsta lagi stendur svo á, að ég geng á kvöldskóla alla virka daga vikunnar, sem ég má ekki vanrækja, af því ég er viss um að þar er gagnlegri þekking fram boðin, en í leikhúsum og danssölum. Ástæðan fyrir því, að ég vil ekki þiggja þau, er: Í fyrsta lagi, að ég hefi ákveðið að forðast allt það, sem menn kalla „flirt" eða daður. Í öðru lagi: ég hefi ákveðið að borga sjálf fyrir nautnir mínar; og í þriðja lagi hefi ég ákveðið að nota tíma minn til að ná heilbrigðri menningu".

„Nú fór mér að hálf-sárna við hana, og spyr hana því ennþá: „Á ég að skilja þetta svo, að þú ætlir þér að fara einförum í lífinu og hafa engan félagsskap við nokkurn mann?" — Hún svaraði þá með tignarlegri alvörugefni — taktu nú eftir, Tom:

„Ég lít svo á, að þú farir dálítið lengra en heiðarlegri kurteisi sæmir, með spurningum þínum og áleitni þinni. Þú hlýtur að vita, að áform mín og framkvæmdir eru mín persónuleg eign; ég ætla sjálf að vera ábyrgðarfull fyrir þeim, og ég ætlast ekki til, að þetta geri þér gott eða illt, skoðað á skynsamlega vísu. Hvaða tilgang þú hefir með áleitni þinni, læt ég mig engu skifta; þú átt hann sjálfur, og nýtur hans eða geldur sjálfur í gegn um afleiðingarnar". — Hún lítur svo á úrið sitt, og segir systrum sínum að koma heim með sér.

„Ég var nú kominn í svoleiðis ástand, að ég vissi varla mitt rjúkandi ráð. Hvílík hrakför, hugsaði ég. Þetta verður þó að hafa einhvern enda, og væri þá ekki bezt, að þetta væri endirinn? En hún sagði: „Skoðað á skynsamlega vísu", og að ég mundi njóta eða gjalda afleiðinganna. Hún líklega álítur aðferð mína óskynsamlega. En hvað mundi hún kalla skynsamlega aðferð? Um það hugsaði ég fram og aftur. Og svo kom aftur spurning sú í huga minn: Hví ertu að elta ólar

við hana, þennan dæmalausa sérvitring, þegar svo margar aðrar mundu telja sér það hina mestu sælu, að gefa þér hönd sína og hjarta? Já, að vísu var nokkuð í þessu. Svo kom aftur rödd: Og þú getur gert einhverja af þeim sæla og orðið sjálfur sæll. En það er of fyrirhafnarlaust, að ná þeirri sælu, hugsaði ég. Og enn kom í huga minn einhver skynsamleg aðferð. Er það mögulegt, að ég geti fundið hana, fundið skynsamlega aðferð? Ég fór nú heim, með allar þessar hugleiðingar í förum mínum. Næstu tvo sunnudaga hagaði ég svo til, að verða ekki á vegi hennar í skemmtigarðinum. Ég veitti henni eftirtekt álengdar og sá ég, að hún gekk ekki neinar ákveðnar leiðir í garðinum. Það, sem hún veitti sérstaka athygli, voru jurtirnar og náttúrufegurðin. Mér sýndist hún skoða hvert nýútsprungið blóm og hverja fölnaða rós. Hún var jafn-kurteis við alla, sem ávörpuðu hana; gerði engan greinarmun í því efni, hvorki körlum né konum. Það er í einu orði sagt: hún fór sinn eigin veg.

„Jafnvel þó ég til þessa hefði farið hrakfarir með tilraunir mínar, þá þótti mér lítilmannlegt að gefast upp, svo ég var alltaf að reyna að finna einhverja skynsamlega aðferð, frá því sjónarmiði, sem hún mundi skilja það. Ég bjóst við, að þar sem hún sjálf var svo hrein og ákveðin, þá væri ekki til nokkurs fyrir mig, að fara neinar krókaleiðir, — eina ráðið mundi vera að koma fram ákveðinn með erindi mitt, og ef það dygði ekki, sá ég engan veg færan

„Næsta sunnudag hagaði ég svo ferð minni, að geta mætt henni strax, þegar hún kæmi inn í skemmtigarðinn, útbúinn með ákveðinn svip og ákveðna framkomu. — „Góðan daginn, Miss Thomson“, sagði ég. „Hvernig líður þér í dag?“ — „Mér líður vel, eins og vant er“, segir hún og um leið sá ég dálítinn glettnissvip í augunum á henni. Nú er hún að hæða mig, hugsaði ég, en lét mér þó hvergi bregða og segi hiklaust við hana:

„Mér skildist, seinast þegar við töluðum saman, að þú hyggist við, að ég hefði einhvern tilgang með því að leitast við að kynnast þér. Þú máske hugsar, að tilgangur minn sé óheiðarlegur, eins og þér þóttu spurningar mínar ókurteisar, jafnvel þó þær væru ekki annað en venjuleg aðferð, til að byrja með kunningsskap við stúlkur. Af því við erum orðin svolítið málkunnug, þá vil ég ekki að við skiljum til fulls eins og sakir stóðu seinast. Þú hefir dæmt framkomu mína gagnvart þér ókurteisa, og nú ætla ég að segja þér tilgang minn til álita og dómsúrskurðar, og segja hann í algerlega hreinskilnu og opinberu formi. Tilgangur minn var og er, að leitast við að kynnast þér, einungis með því markmiði, að fá þig fyrir félaga í gegnum lífið. Með öðrum orðum: fá þig fyrir eiginkonu. Af því ég elska þig, þá spyr ég þig nú í eitt skifti fyrir öll: Viltu verða félagi minn og konan mín?“

„Ég átti nú von á, að hún sýndi kulda og reiðisvip, en mér til mestu undrunar sá ég henni ekki bregða á þann veginn. Hún segir þá við mig:

„Mér líkar hreinskilin og ákveðin framkoma; og í flestum tilfellum má treysta þeim mönnum, sem á þann hátt sýna líferni sitt. En áður en ég svara spurningu þinni, verð ég að leggja fyrir þig nokkrar spurningar, og fá svör frá þér, því þú hefir sjálfur gefið mér ástæðu til að grennslast eftir manngildi þínu. Spurningar mínar eru þá þessar: 1) Hvað hefir þú komizt langt í skólalærdómi? 2) Hefir þú lært nokkurt sérstakt handverk, eða sérstaka fræðigrein, sem þú ætlar að gera að atvinnu þinni? 3) Hefir þú nokkurt áhugamál, sem þú hefir ásett þér að koma í framkvæmd fyrir almennings heill? 4) Hvaða skilning hefir þú á félagsskap þeim, sem þú óskar að ég gangi í með þér? 5) Hvaða skynsamlega ástæðu færir þú fyrir því, að kjósa mig heldur fyrir félaga þinn, heldur en einhverja aðra konu? 6) Hefir þú heitbundizt nokkurri konu? 7)

Hvað er ást eða kærleikur? Þegar þú hefir svarað þessum spurningum, skal ég segja álit mitt um þína spurningu, eða réttara sagt, erindi þitt við mig“.

„Eins og þú skilur, Tom, tóku nú þessar kringumstæður mínar út yfir allt undanfarið, nú var ég kominn laglega í gildruna. Nú voru aðeins tveir vegir fyrir hendi, annað hvort að flýja sem heigull, eða svara öllum þessum spurningum. Mér kom snöggvast til hugar, að það borgaði sig naumast fyrir mig, að fara að þreyta mig á skynsamlegri hugsun, þar sem líkurnar voru svo litlar fyrir því, að ég gæti svarað á þann hátt, sem mundi vekja hjá henni traust til mín; og þó svo ólíklega vildi til, þá hlyti hún að verða mér ofjarl í félagsskapnum. En þá áttaði ég mig á því, að það var óþolandi smán fyrir mig, að láta sjálfstæði ungrar konu yfirbuga sjálfstæði mitt, — og svo gat ég ekki neitað því, að jafnvel þó eg á þeim tíma hálfgert óttaðist hana, þá óx virðing mín fyrir henni og sameiningarþrá við hvert orð, sem hún talaði, og hvert augnatillit, sem hún sendi mér. Mér fannst að ég vera kominn inn í nýjan hugsjónaheim og sá nú lífið í allt öðru ljósi en ég hafði áður gert, og um leið sá ég, að það var undir svörum mínum komið, hvernig áform mitt heppnaðist. Því var áríðandi fyrir mig, að svara eins og henni mundi þóknanlegast. — Ég sagði því við hana: „Jafnvel þó ég byggist ekki við svona lagaðri úrlausn á erindi mínu, ætla ég samt að reyna til að svara spurningum þínum, þó í sem fæstum orðum:

„Fyrsta spurningin: Ég fór aðeins gegnum barnaskóla, 8 stig. 2) Tvö handverk hefi jeg lært, sem eg get gert að atvinnu minni, ef ég þarf á að halda. 3) Ég hefi mörg áhugamál, sem ég vildi gjarnan geta komið í framkvæmd, til heilla fyrir sjálfan mig og aðra. Þar á meðal er útrýming áfengis, jafnrétti manna á öllum svæðum lífsins, og umfram allt, að geta fengið þig fyrir félaga og aðstoð í þessu efni. (Nú brosti hún of-

urlitið). 4) Ég skoða hjónabandið jafnréttisfélag. Ég tek til dæmis, að bæði þú og ég hafa óskertan sinn persónulega rétt. En um leið og við tökum að okkur sameiginlegar skyldur, þá verðum við sem sameiginleg heild að uppfylla þær, með sameinuðum öflum og sameinuðu viti. (Nú sá ég nýjan fegurðarglampa í augum hennar). 5) Ástæðan fyrir því, að ég kýs þig fremur fyrir konu en nokkra aðra, er það, að ég hugsa að það sé fyrir mestu að vinna, þar sem verkið er erfitt, og af því að ég sé, að þú hefir ákveðna lífsstefnu og allt aðra en flestar aðrar stúlkur, og af því ég trúi því, að þessi lífsstefna sé skynsamleg, geri farsælan félagsskap og uppbyggilegt líf. 6) Ég hefi ekki gert tilraun til að ná félagsskap við aðra konu en þig, og þar af leiðandi ekki heitbundízt nokkurri annari. 7) Þá er nú eftir að svara seinustu spurningunni þinni. Ég vildi nú helzt, að þú vildir sjálf leysa mig af hólmi í því efni, af því ég hygg, að ástin sé miklu betur skiljanleg fyrir konueðlið en karlmannsins. En af því ég sagði, að ég elskaði þig, verð ég að gera grein fyrir, hvað það hugtak á að tákna: Það er virðing, aðdáun, traust og innileg þrá til að sameina okkar persónulegu öfl í andlega heild. Nú hefir þú fengið svör mín, Miss Thomson, og nú býst ég við að fá að heyra álit þitt á þeim og um erindi mitt yfir höfuð. En áður en þú afgreiðir mig að þessu leyti, væri mér kært að fá útskýringu þína um ástina".

„Þá segir hún: „Ég lít svo á aðal-uppsprettu ástar eða kærleika, að hún sé andlegt aðdráttarafl og annar aðalhluti skynsemi mannsins. Þó að skynsemin hafi mikla þekkingarstærð, þá notast sú stærð ekki fyrir hina sameiginlegu heild, nema hún hafi samsvarandi stærð af kærleika. Skynsemi, sem að eins hefir þekkingarstærð, er eins og áhrifalaus hlutur, sem hvorki er til gagns eða ógangs. En hafi hún samsvarandi stærð af kærleika, þá er hún lifandi og

starfandi heild, sem viðheldur öllum andlegum hreyfingum meðal manna, viðheldur öllu jafnvægi meðal einstaklinganna, vill láta öllum líða vel og vera jafn fullkomna, góða og göfuga“.

„Viðvíkjandi svörum þínum er það að segja, að ég bjóst ekki við, að þú gæfir jafngóðar úrlausnir eins og þú gerðir, og ætla ég því engar athugasemdir að gera við þær. Og ef þú lifir samkvæmt þeim hugsjónum, sem svörin tákna, þá sé ég enga skynsamlega ástæðu til að hafna félagsskapar-tilboði þínu. Ég álít samt réttast af okkur báðum, að við búum okkur undir eitthvert ákveðið æfistarf í eitt ár, og á þeim tíma getum við fundið út, hvort að samband með okkur muni hafa framtíðarblessun í för með sér. Ég ætla mér að eiga heimili, annaðhvort ein, eða í félagi með manninum mínum, og þess vegna hefi ég ákveðið að ganga á hússtjórnarskóla. Ég býst líka við, að þú hefir ákveðið þér einhverja hagvænlega lífstíðarstöðu. Svo hefi ég ekki meira að segja viðvíkjandi þessu máli, í þetta sinn, nema, að ég er þér þakklát fyrir þína hreinskilni og ákveðnu framkomu. Það er 1. september í dag; 1. maí næsta ár getur þú reynt að líta eftir mér á þessum stað. Á morgun hefi ég ákveðið að fara á skólann og vera þar í vetur“. — Svo rétti hún fram hönd sína í fyrsta sinn og kvaddi mig með einkennilega alúðlegum tignarsvip.

„Þetta varð þá árangurinn af öllu mínu erfiði, hugsaði ég, hvorki já né nei. Hvað skyldi hún annars meina? Líklega að fara og koma aldrei aftur. En svo datt mér í hug: Ef þú lifir samkvæmt svörum þínum, sagði hún, og eitthvað hefir hún meint með því. Ég skal þá lifa samkvæmt þeim, hugsaði ég; ég skal sýna henni og heiminum, að ég er sjálfum mér trúr, og ef hún kemur ekki aftur, þá hefi ég haft rangt álit á henni, og væri þá gott fyrir okkur bæði, að erindi mitt hefði þennan enda“.

„Er þá saga þín búin?“ segir Tom; „kom hún aldrei aftur?“

„Ég fór út í garðinn 1. maí, og þar var hún þá á sama stað, með systrum sínum. Nú erum við búin að vera hjón í þrjú og hálft ár. Hún er reglulega skemmtileg fyrirmyndarkona og elskuleg móðir litla drengsins okkar. Ég hefi spurt hana, hví hún hefði hagað sér svona einkennilega gagnvart mér og öðrum, meðan hún var ógift. Hún sagðist hafa gert það þess vegna, að hún áleit það eina ráðið til þess að geta verndað sakleysi sitt. Ég er nú póstmeistari hér, og hefi að ég vona varanlega atvinnu. Þá er nú mín saga búin, Tom. Segðu mér nú þína“.

„Hún er stutt“, segir Tom. „Ég ætla að segja þér hana í fáum orðum. Ég fór heim með konuna mína, eins og þú vissir, og leigði hús fyrir okkur. Hún kunni ekki húshald, en fylgdi vel tízkunni hvað klæðnað snerti. Ég vann á verksmiðju og hafði gott kaup, en gat ekkert af því sparað. Ég fór með hana á leikhús og aðrar skemmtanir. Samt fannst henni lífið dauflegt, varð óánægð, af því að hún hafði enga skynsamlega hugsjón að lifa fyrir. Barnið okkar var aumingi, og dó tveggja mánaða. Hana langaði út í heiminn aftur, bað um skilnað og ég gaf hann eftir. Og þarna hefir þú mína sögu, George. En allt af var Lilly mín falleg“.

---

# Friðrik J. Bergmann

## *SKÓLABRÆÐUR*

*Saga frá Winnipeg.*

„Hvernig líður þér, landi?“ sagði Sigurður brosandi við Skúla um leið og hann opnaði hurðina að herbergi hans og hratt með henni stól um koll, er stóð í vegi. Á honum héngu föt Skúla, en sjálfur var hann í rúmi og nývaknaður að lesa í morgunblaði „Free Press“.

„Hvernig mér líður? Þú fer líklega nærri um það. Ég hefi sofið og sofið og ekki gjört annað en sofa, síðan á laugadag. Ég er grútsyfjaður enn og gæti sofið heila viku“.

„Það er mátulegt handa þér, þrjóturinn þinn! Þú ert búinn að leggja nógu miklar vökur á þig, þenna síðasta mánuð, bæði á undan prófum og meðan á þeim stóð. Mikið, að nokkur líftóra skuli vera eftir í þér. Þú átt það ekki skilið“.

„En þú hefir safnað ístru síðustu daga, Siggi. Skömm er að þér. Þú hefir ekki tekið þetta nærri þér. Stóð þér á sama, hvernig færi? Heldurðu, að þú hafir slambrast í gegn?“

„Vona það, en veit ekki. Fæ líklega einar tvær stjörnur. Kæri mig kollóttan. Geng þá undir próf að hausti í því,sem ég hefi verið ónýtur í nú. Ég fer ekki að skæla út af því. Þú fær verðlaunin“.

„Ekki veit ég neitt um það. Hugsaði dálitið um það meðan á hríðinni stóð. Einkum á nóttum, þegar

ég ætlaði að sofa, en gat það ekki. En svo lokaði ég augum. Það er dimmt í kollinum á mér, dimmt í kringum mig. Mér er sama um allt. Veit naumast, hvört ég lifi. Þó ég horfi í bók eða blað, veit ég ekkert hvað þar stendur".

Skúli var farinn að klæða sig, hægt og gætilega meðan hann stildraði þessari játning fram. Hann var fríður sýnum, bjartur á brún og brá, viðmótsgóður, en þreytulegur á svip, hár og grannur, augun dökkblá og gáfuleg. Hann var fremur seinn í snúningum, eins og líkamann skorti þá skerpu og fjör, er sálin virtist hafa.

„Flýttu þér í fötin", sagði Sigurður um leið og hann opnaði glugga. „Það er nærri komið hádegi og þú liggur hér enn. Þér er nær að koma með mér út í sólskinið. Veðrið er indælt. Svona dagur er meira virði en þúsund prófdagar, þó maður fengi 1 A í öllu".

Hann leit til Skúla. Fjör og galsi skein honum úr augum. Hann vissi, að hann hafði snortið viðkvæma taug.

„Því trúi eg vel", svaraði Skúli. „Þú ert og verður aldrei annað en sólskinssleikja".

Svo gengu þeir hægt og letilega ofan Portage Avenue. Vagnarnir þutu fram og aftur, og skröltið ómaði í eyrum. Sólskinið var svo bjart, að þeir naumast gátu litið upp. Vel lá á báðum. Allt samtalið var hárfinn skylmingarleikur ertni og kátínu. Báðum fannst lífið mundi verða sigur á endanum. Samt var Sigurður miklu vissari um það en Skúli. Hvernig það gæti orðið, var báðum hulin ráðgáta, einkum Sigurði. Hann trúði því, en vissi um leið, að til þess þurfti kraftaverk. Honum fannst bezt að bíða þess rólegur, að kraftaverkið kæmi og njóta lífsins á meðan. Skúli hafði einhvern óljósan grun um,

að prófleiðin mundi verða bezta leiðin. En hann átti mörg, mörg eftir.

Þegar komið var ofan á Aðalstræti, nam Sigurður staðar fyrir utan dyr á matsöluskála einum alþekktum.

„Við skulum fara inn, Skúli, og fá okkur að eta eins og menn. Karlinn gaf mér fáein cent í morgun. Ég ver þeim eigi betur til annars“.

Þeir gengu inn og settust innst inn í horn. Skúli hafði eigi etið ærlega máltíð lengi, en lifað á snöpum. Hann skuldaði 50 dollara fyrir mat og húsnæði um veturinn. Var hann nú hættur að borða þar sem hann hafði verið og hafði sagzt hafa nóga staði.

Í herberginu fékk hann að vera, þangað til hann færi.

Um allt þetta hafði Sigurður grun, en vildi ekki á það minnast. Hann var sonur efnaðs manns, sem lengi var búinn að vera í Winnipeg, átti erfitt framan af, en hafði nú eignazt gull og græna skóga í orðsins eiginlegu þýðingu, og vildi koma börnum sínum til manns.

„Verður þú heima í sumar, Siggi?“ sagði Skúli, um leið og hann stakk upp í sig gómsætum bita af ilmandi steik, fullri af rauðum safa.

„Nei“, sagði Sigurður og varð fremur daufur við. „Faðir minn ætlar að senda mig vestur á land til einhvers bónda. Hann álitur það hollast. Ég drepst úr leiðindum, það er ég viss um. Hvert ætlar þú?“

„Ég fer ofan að Vatni“, segir Skúli. „Ég ætla að kenna þar í alþýðuskóla í sumar. Eitthvað verð ég að hafast að, til að ná í cent. Annars verður vistin mögur að vetri“.

Þeir stóðu upp frá borðum, saddir og sælir. Skúli var þakklátur. Svona vel hafði hann ekki borðað lengi.

Allan seinni part dags skemmtu þeir sér. Í River Park horfðu þeir á knattleik.

„Því lærir þú ekki knattleik, Skúli?“ sagði Sigurður. „Þeir gera gys að okkur löndunum á skólanum, af því að við kunnum ekki að leika okkur. Maður verður líka hengilmæna fyrir bragðið“.

„Ég hefi engan tíma, og svo langar mig ekki mikið heldur“, svaraði Skúli.

Um kveldið fóru þeir heim til Sigurðar. Það var norður í bæ. Allir voru þá háttaðir, því seint var orðið, nema Björg, elzta systir Sigurðar. Hún beið eftir bróður sínum. Hún var 17 vetra, gekk á *Collegiate*-skólann og hafði staðið sig miklu betur við prófin en Sigurður.

Það var langt síðan Skúli hafði komið í húsið. Þar var allt ríkmannlegt, dúnmjúkir hægindastólar og legubekkir, sem maður sökk niður í og vissi varla af sér.

Skúli tók eftir því, að Björg var orðin fullorðin. Hún var hæglát og glöð, en svo falleg, að hann kom ekki upp orði.

Morguninn eftir fór Sigurður vestur, en Skúli ofan að vatni.

Svo var það einn dag um sumarið, að frí var við skólann hjá Skúla. Von var á fjölmennri skemmtiför Íslendinga í Winnipeg ofan á Strönd. Skúli hugsaði með sér, að eigi gæti hann varið deginum betur en að fara suður þangað og vita, hvort hann fyndi þar ekki einhverja af kunningjum sínum frá Winnipeg.

Hann var nú fjörugri og örari í hreyfingum en um vorið. Vatnsloftið hafði styrkt taugar hans, enda hafði hann úti á vatni verið öllum þeim stundum, sem hann mátti.

„Ég held ég vildi helzt af öllu skríða ofan í vatnið til fiskanna og vera hjá þeim“, hafði hann sagt ein-

hverntíma við fólkið, sem hann átti heima hjá. Því þótti það undarlegt.

Þegar hann kom upp á Strönd eða Winnipeg Beach eins og það er kallað, var þar múgur og margmenni. Ein lestin kom frá Winnipeg eftir aðra, allar troðfullar af fólki. Og svo streymdi fólkið út úr vögnunum eins og fé úr stekk og hellti sér út yfir gangstéttir og vegi með þungar matarkörfur og allskonar malsekki, svo ekki varð snúið hendi né fæti.

Skúli vissi ekki, hvað hann átti af sér að gjöra. Hann ráfaði fram og aftur, varð margra Winnipeg-Íslendinga var, en gaf sig ekki að þeim, því hann sá engan, sem hann langaði til að tala við. Hann dauðsá eftir, að hann hafði farið þetta. Miklu meiri ánægja hefði verið að fara einn út á vatn og vera ekki í neinum troðningi.

Hann settist á bekk niður í fjöru og horfði út á vatnið. Það lá eins og spegill fyrir framan hann og himininn speglaði sig í skauti þess.

Vatnið að tarna, hugsaði Skúli með sér, það er sannkölluð „Konungs skuggsjá".

Fyrir framan ströndina var krökt af bátum. Voru sumt stórir seglbátar með fjölda fólks, sem bágt áttu með að sigla, því gola var nærri því engin. En flest voru það smákænur, sumar með tveimur og sumar með fjórum, er reru í ýmsar áttir, hægt og seint, tilgangslaust, aðeins til að njóta lofts og líðandi stundar.

Þarna var fjöldi Íslendinga, ungra og gamalla, karla, kvenna og barna. Innan um enskuskvaldrið heyrði Skúli íslenzkan hlátur og íslenzka orðgnótt, sem kitlaði hjartað. Ekki bar þar eins mikið á neinum útlendingum og Íslendingum. Þeir kunna að skemmta sér, þegar þeir komast upp á lagið á annað borð.

Allt í einu var komið aftan að bekknum þar sem

Skúli sat og gripið fyrir augu honum. Það var Sigurður og Björg með honum.

„Ég hélt þú værir vestur í landi", sagði Skúli.

Það varð meir en lítill fagnafundur.

Sigurði hafði leiðst. Að sex vikum liðnum hafði hann stungið fötum og farangri niður í ferðakistu og farið heim aftur til Winnipeg. Hann hafði hjálpað til við heyskapinn og þótt það ljómandi gull í fyrstu. Hann hafði fengið blöðrur í lófa, þrimla undir hendur og strengi í sig allan.

En þegar hann lá ofan á heyæki utan af engi og heim að bæ, gleymdust honum strengir og sárir lófar. Svo mikill unaður fannst honum þá lífið. Og þegar ækið var komið alla leið heim að húsum, stóð hann upp og kenndi einkis lúa. Hann kastaði þá heyinu af grindinni svo ört, að bóndi hafði naumast við að koma því fyrir. Þess á milli var hann ekki laus við óyndi.

En svo heyrði hann fólk sífellt vera að tala um eitthvað, sem kæmi á eftir slætti og kallað var *harðvist*. Heyskapurinn væri aðeins leikfang hjá harðvistinni. Þegar harðvist kæmi, yrði nú ekki mikið úr þeim, sem fengið hefðu blöðrur í lófa og strengi í handleggi og bakverk í heyskapnum. Þá hafði Sigurði ekki farið að lítast á blikuna.

Í miklum heilabrotum hafði hann lent út af orðinu harðvist. En dag einn átti hann tal við stúlku frá Winnipeg, sem komið hafði þangað kynnisför til ættfólks síns. Hún talaði við hann á ensku og kallaði það *harvest*. Þá skildi hann í einu vetfangi, hvað harðvist þýddi. Það var uppskeran, hveitisláttúrinn.

Rétt í því hafði komið bréf frá Björgu, systur hans. Hún sagði honum frá öllum þeim skemmtunum, sem nú væri á ferðinni í Winnipeg. Sýningin væri rétt um garð gengin og þá hefði hún og unglingarnir allir verið úti í sýningargarði á hverjum degi. Þá hefði

fjöður og fit verið uppi hjá öllum og hver dagur öðrum dýrlegri.

Svo gengi ekki á öðru en að fara út í lystigarðana á kveldin. *Happyland* væri búið að skíra á íslenzku Munarheima. Þar væri ljósadýrð eins mikil og í nokkurri austurlenzkri æfintýrahöll. Frá fyrirhugaðri för ofan að vatni hafði hún líka sagt honum, og þá ætluðu allir, sem vettlingi gæti valdið.

Þá þoldi Sigurður ekki mátið lengur, en fór. Hann kom öllum á óvart heim, og var ekki laust við, að föður hans þætti miður. Björg skildi þá, að hún hefði heldur átt að skrifa honum eitthvað annað og nagaði sig í handarbökin. En vænt þótti henni um, að Sigurður var kominn, því gott var með þeim.

Þau systkin léku á als oddi. Höfðu skemmt sér alveg frámunalega vel. Björg var í mjallahvítum sumarkjól með sólhlíf ljósleita í hendi og hvíta strigaskó á fótum. En Sigurður vestislaus, í þunnum sumarjakka með breitt leðurbelti um mitti, en langt, gulleitt hálsknýti, sem lafði niður undir belti og Skúli hálföfundaði hann af.

„Hvað gengur að þér, Skúli“, varð Sigurði að orði, „þú ert eitthvað svo alvarlegur. Hefir þú ekki skemmt þér? Því höfum við ekki rekizt á þig áður?“

„Ég ranglaði hér fram og aftur í fjörunni“, anzaði Skúli, „þangað til ég varð hræddur við allan þenna fólkssæg, og óskaði sárt, ég væri kominn heim aftur. Síðan hefi ég setið hér á þessum bekk og verið að láta mig dreyma, ýmist í vöku eða svefni“.

„Við skulum fá okkur bát og fara út á vatn, sagði Sigurður. Það er nógur tími enn.“

Svo settust þeir undir árar, en Björg stýrði. Hún var rjóð í kinnum og dálitið veðurtekin. Það vottaði fyrir freknum á nefi hennar. Aldrei hafði Skúli veitt því eftirtekt fyrr. Það lá undur-vel á henni, en hún talaði ekki alveg eins mikið og hún var vön.

„Leiðist þér ekki þarna norður frá?“ spurði Sigurður. „Er ekki leiðinlegt að vera skólakennari? Ekki mundi ég þar á marga fiska“.

„Það er ekki svo afleitt að vera skólakennari“, sagði Skúli. „Ef að eins væri hægt að fá börnin og unglingana til að *skilja* og láta sér þykja vænt um það, sem verið er að fara með. En þeim hefir ekkert verið sagt. Og stundum hefir verið komið inn hjá þeim allskonar misskilningi“.

„Hvernig er fólkið, — fullorðna fólkið?“ sagði Sigurður.

„Gott fólk“, segir Skúli, en hefir verið útúr, sjaldan eða aldrei átt kost á nokkurri leiðbeining, lesið það, sem til þess hefir borizt of prentuðu máli á íslenzku, sem ýmist hefir afvegaleitt og ruglað, eða þá verið misskilið, svo dómarnir eru allir á ringulreið“.

„Skelfing fellur mér annars illa allur misskilningur og ruglaðir dómar“, hélt Skúli áfram. „Það fer eins og nálstungur um mig allan. Oft þegi ég samt, því ég veit, það er ekki til neins að andæfa, en ég svitna“.

„Ég held mér stæði á sama“, sagði Sigurður og hló. „Ég mundi lofa öllum að hafa skoðanir sínar og hvaða skilning, sem þeim þóknaðist. Og eftir því, sem hann væri skakkari og skældari, skyldi ég betur hlæja“.

„Það get ég ekki“, sagði Skúli. „Mér er það öldungis ómögulegt. Frá því ég var lítill, hefir mig langað svo óumræðilega sárt til að skilja. Og sú löngun hefir einlægt farið vaxandi, eftir því sem ég hefi skilið fleira. Ég hefi aldrei haft mikið gaman af að leika mér eins og aðrir unglingar. Það hefir verið mér betra öllum leikum, að fá eitthvað nýtt að skilja á hverjum degi. Ég er sannfærður um, að það er lífsins stærsta unun og dýrlegasti ávinningur að fá að skilja“.

Skúli hafði talað af tilfinning svo heitri, að roði sást í kinnum hans.

Björg hafði setið hljóð, meðan Skúli talaði, og lagt undir flatt og horft framan í hann og eins og drukkið hvert orð með augum sínum. Henni hafði fundizt eldur brenna úr augum hans.

„Ég held þú getir skilið og haft alla þá unun, sem af þeim skilningi flýtur", sagði Sigurður, „og lofað öðrum að eiga sig. Hvað gjörir það þér til, þó þeir vaði í villu og svíma. Það mætti æra óstöðugan að ætla sér að knésetja hvern mann og fara að kenna honum að skilja".

„Ég þoli ekki að heyra menn misskilja. Á skólanum sker það mig í hjartað, þegar ég heyri kennarann vera að berjast við að koma mönnum í skilning um eitthvað og sömu kórvillurnar og vitlausu svörin koma á hverjum degi, eins og allt hafi verið til einskis. Er það ekki sárgrætilegt?"

„Þá hefir þú víst nokkurum sinnum skorizt í hjarta mín vegna", sagði Sigurður og hló.

„Ég hefi lært eitt þarna á skólanum í sumar", hélt Skúli áfram. „Það er ekki síður unun að koma öðrum til að skilja en skilja sjálfur. Þú ættir að sjá birtuna, sem kemur á andlit unglinganna, þegar þeir komast í skilning um eitthvað. Það hafa verið mínar sælustu stundir".

Björg var farin að horfa niður í kjöltu sér. Það var einhver vandræða svipur kominn á hana. Þótti henni nóg um þetta skilningskraf? Eða vildi hún dylja tilfinningar sínar?

Þau voru komin að landi og settu upp bátinn. Þegar þau gengu eftir fjörunni frá bátnum, sagði Skúli:

„Ég held ég megi fara út í einhverja ofurlitla, afskekkta byggð, grafa mig þar niður, og reyna að koma fólkinu til að skilja".

„Veiztu hvað?" sagði Björg. „Ég hefi verið að lesa

*Shakespeare* upp á síðkastið og ekki hefi ég haft annað eins yndi af nokkuri bók. Þar er svo mikið að skilja. Oft brýt ég heilann lengi og botna ekki í neinu. En svo rennur upp ljós og ég skil. En sú dýrð!“

„Nei, er það satt, Björg, lest þú Shakespeare?“ sagði Skúli.

Sigurði varð litið framan í hann. Einhverjum glampa brá fyrir í auga hans, sem hann hafði aldrei séð áður.

Einhver kallaði á Björgu. Hún rétti Skúla hendina og kvaddi.

Samferðamenn Skúla voru farnir heim, því seint var orðið. Hann mátti til að ganga. Það voru einar átján mílur. En veðrið var gott og hann sagði sér þætti það bezt af öllu að ganga einn.

Sigurður gekk með honum nærri helming leiðar. Áður þeir skildu, sagði Sigurður:

„Þú mátt ekki hætta við skólanám, fyrri en þú ert búinn. Ég skal útvega þér peningalán, ef þú þarft. Hver veit, nema þú gætir komið öllum heimi til að skilja eitthvað, sem ekki hefir áður skilizt, þegar þú ert búinn að skilja nógu mikið sjálfur.

„Og svo gef ég þér hana Björgu, systur mína. Gleggri stelpa er ekki til en hún. Ef þið getið ekki komið fólki til að skilja, er ég illa svikinn!“

„Sólarglampinn, sem verið hafði á vatninu um daginn og Skúli hafði kallað „Konungs skuggsjá“, var í sálum þeirra beggja, er þeir skildu.

---

# J. Magnús Bjarnason

## VESTURFÖRIN[1)]

Það var í átjándu viku sumars að við lögðum af stað frá Íslandi (svo sagði amma mín mér síðar). Skipið, sem við fórum á, hét „María"; það var kaupfar (tvímastrað segiskip) danskt, sem komið hafði með vörur til Liverpóls-verzlunarinnar á Seyðisfirði, og var nú hlaðið ull og saltfiski, sem það átti að losast við í Húll á Englandi. Þar átti það líka að losast við okkur þrjú — afa minn, ömmu mína og mig. Við vorum einu farþegarnir að undantekinni stúlku, sem hét Matthildur, og hún ætlaði til Kaupmannahafnar.

Ég dáðist að þeim kjark og því þreki, sem í afa mínum hefir verið, þegar hann áræddi að fara með okkur til Ameríku, síðla sumars, þegar allra veðra var von, hann og amma mín komin á sextugs aldur, ég táplítill dreng-hnokki, enginn íslenzkur samfylgdarmaður og enginn túlkur. Ferðinni var heitið til þess héraðs í Ameríku, sem kallað er Nýja Skotland *(Nova Scotia)* í ríkinu Kanada. Afi minn vissi að þar ætluðu að setjast að, þá um haustið, nokkrir Íslendingar, sem farið höfðu sumarið fyrir frá Íslandi til Ontarió í Kanada; hann vissi líka að höfuðborgin í Nýja Skotlandi hét Halifax, og hann þóttist vita, að allt, sem nauðsynlegt væri til að geta komizt þangað, væri að kunna að bera fram nafnið Halifax og hafa fimm hundruð ríkisdali til að borga með ferða-

---

1) Úr sögunni „Eiríkur Hansson".

kostnaðinn. Honum fannst það ekki svo mjög ísjárvert, þó hann kynni ekki eitt einasta orð í annari tungu en móðurmáli sínu, þar sem hann hafði enskunáms-bók Halldórs Briems (fyrri útgáfuna) og þar að auki bréf frá sýslumanninum á Seyðisfirði til danska konsúlsins í Húll á Englandi. Hvorttveggja varð honum líka að góðu liði. En það, sem mest var í varið (næst silfur-dölunum), var óbilandi kjarkur og atorka, sem hann var gæddur, sem og einkendi flesta þá Íslendinga, er fluttu til Ameríku þau árin.

Við stigum á skipsfjöl um kvöld. Okkur var strax vísað niður í framstefni skipsins, og þar bjuggum við um okkur, sem bezt við gátum, innanum ullarpoka. En aldrei gleymi ég sagganum, sem þar var, og hinum ógeðfelda daun, sem átti þar heima, og sem æfinlega var tilfinnanlegastur, þegar maður var nýkominn ofan af þilfarinu.

Morguninn eftir létti skipið akkerum. Því gekk seinlega út fjörðinn, því vindur var ekki hagstæður, og við vorum ekki komin út fyrir Dalakjálka fyrr en um sólarlag. Amma mín var strax um morguninn mjög sjóveik, og mér fór að verða flökurt, þegar á daginn leið, og þá bað ég afa minn að fara með okkur í land, og hætta alveg við að fara til Ameríku. En hann var nú samt ekki á því, gamli maðurinn. Hann varð aldrei sjóveikur, og lét ekki hugfallast. Ég var veikur alla nóttina og daginn eftir og nóttina þar á eftir. En úr því fór ég að smá-frískast aftur, og afi minn fór oft með mig upp á þilfarið og ofan í káetu skipstjórans. Matthildur var látin vera í káetunni. Hún fór aldrei á fætur frá því við skildum við Ísland og þangað til við komum til Englands. Hún lá í lokrekkju við káetu-dyrnar, og æfinlega þegar ég kom þar, var Matthildur að borða, og þegar hún var búin að borða, fór hún að selja upp því, sem hún borðaði, og svo fór hún að drekka vatn, sem allt af var við

hendina, og svo hló hún, þegar hún var búin að drekka, og síðan fór hún að borða á ný, og selja upp, og drekka og hlæja. — En alltaf lá hún í lokrekkjunni, með tjaldið dregið frá til hálfs. Þessi Matthildur var á að gizka átján ára gömul, fríð sýnum og vafalaust mjög léttlynd að eðlisfari. Amma mín stóð í þeirri trú, að hún hefði verið trúlofuð skipstjóranum; en ég held samt að amma mín, blessunin, hafi ekkert haft fyrir sér í því, annað en það, að hún (Matthildur) var svo heppin að mega vera í káetu skipstjórans.

Skipverjar voru fjórir: skipstjóri, stýrimaður, háseti og matsveinn. Skipstjórinn var hár maður með mikið skegg (mig minnir það vera jarpt); hann var mjög góður við okkur, og reyndi að gera allt, sem hann gat, til að láta okkur líða vel á leiðinni yfir hafið. Stýrimaðurinn var lítill maður, svartskeggjuður, harðlegur og hvatlegur. Hásetinn var stór vexti, skegglaus, búlduleitur og alltaf brosandi. En bezt man ég eftir matsveininum; hann var hér um bil sautján ára gamall, þreklegur piltur með ljóst hár og rjóðar kinnar, og ég er viss um, að hann hefir ekki haft annað til að bera en það, sem var gott. Hann var alltaf makalaust góður við mig, og gaf mér margt gott að borða, þegar ég var einn hjá honum í matreiðsluklefanum. Hann sýndi mér fjölda af myndum af skipum og bátum, sem ég þóttist vita að hann hefði sjálfur dregið upp með rauðum og gulum og bláum ritblýjum. Mér fannst ég skilja allt, sem hann átti við, og hann virtist skilja mig til fulls; þó talaði ég íslenzku, en hann dönsku. Ég komst strax að því, að hann hét Markús. og síðan hefir mér þótt það nafn fallegt. Ég man það, að Markús var einu sinni að gráta, ég hélt endilega að stýrimaðurinn hefði barið hann. Eftir það var mér aldrei vel við stýrimanninn. Einu sinni sá ég að Markús var haltur, og að umbúðir voru

um annan fótinn á honum; ég þóttist vita, að hann hefði brennt sig á sjóðandi baunum. Enginn sagði mér neitt slíkt, en samt var ég alveg viss um það. — Af þessu veit ég, að börn geta stundum fengið undarlegar hugmyndir um það, sem við ber í kring um þau, og að þau álíta þessar hugmyndir sínar áreiðanlegan sannleika. En þó þau gæti ekki að því, þá eru þessar hugmyndir þeirra byggðar á glöggri og skarpri eftirtekt. Ég hefi iðulega tekið eftir því, síðan ég komst á fullorðins árin, að flest börn leita betur eftir orsökum viðburðanna í daglega lífinu, heldur en flest fullorðna fólkið; en aftur hugsa þau minna um afleiðingar þess, sem við ber í kring um þau. — En áfram með söguna.

Skipið „María" kom með okkur heilu og höldnu til Húll á Englandi. En fullar þrjár vikur var það að því, sökum þess að veður voru jafnan óhagstæð; og svo getur verið að það hafi ekki verið sérlega hraðskreitt.

Húll er mikil borg og víðfræg fyrir hinar miklu skipakvíar sínar og verzlun. Reyndar vissi ég ekkert um það þá. Ég man það einungis, að ég horfði eins og steini lostinn á hinar risavöxnu byggingar og hinn mikla fjölda af skipum, sem ég sá þar. Sum skipin voru svo stór, að okkar skip var eins og lítil róðrarkæna hjá þeim. Sumstaðar lágu masturslaus skip, og á nokkrum þeirra sá ég konur og börn, börn, sem voru berfætt og höfuðfatalaus — drengi í stuttum buxum, og stúlkur á stuttum, ermalausum kjólum. Ég man það, að amma mín lét undrun sína í ljós yfir fátæktinni, sem mundi eiga sér stað hjá þessu fólki, því hún hélt að börnin væru þannig klædd, af því foreldrarnir hefðu ekki efni á að klæða þau öðru vísi. Hvervetna á bryggjunni voru stórir hlaðar af kössum og pokum og ýmsum varningi; alls staðar voru menn á ferð fram og aftur, og vagnar og hestar komu

og fóru; alls staðar var skröllt og hávaði, sem lét mjög illa í eyrum okkar, sem komum frá sveitakyrrðinni á Íslandi; og alls staðar var sá blær á lifandi og dauðu, sem ekki átti við okkur. Ég varð alveg utan við mig af að sjá öll þessi undur, svona allt í einu. Ég skildi ekki í neinu; og allt, sem ég sá, virtist mér í fyrstu renna saman í eina ósundurgreinanlega heild; og öll ópin og köllin, allt skrölltið og tístið og marrið drógst saman í eina ofboðslega hljóðöldu, sem skall að eyrum mér með svo miklum þunga, að mig svimaði, ef ég má svo að orði kveða. En undur fljótt vandist ég við þenna hávaða, unz ég nærri hætti að verða hans var.

Stuttu eftir að búið var að festa skipið við bryggju, kom höfðinglegur maður um borð. Ég vissi að hann var Íslendingur, af því að hann talaði íslenzku við afa minn. Þessi höfðinglegi Íslendingur gerði sér mikið far um að skoða vörurnar, sem skipið kom með; og oft heyrði ég hann spyrja afa minn, hvort ullin væri góð og saltfiskurinn óskemmdur. Þessi maður fór svo með afa mínum til danska konsúlsins, og danski konsúllinn fekk honum bréf, sem hann (afi minn, en ekki konsúllinn) átti að afhenda danska konsúlnum í New York, því þangað áttum við að fara með gufuskipi, sem hét „Kólumbus", og frá New York áttum við svo að fara norður til Halifax. Þegar danski konsúllinn í Húll var búinn að rita bréfið og afhenda afa mínum það, og sömuleiðis búinn að útvega okkur far með „Kólumbusi", þá vorum við flutt í veitingahús, sem var þar nærri sem „Kólumbus" lá við bryggju, og biðum við þar, unz skipið var ferðbúið, sem ekki var fyrr en eftir viku. Hjónin, sem réðu fyrir veitingahúsinu, voru norsk. Ég man bezt eftir þeim af því, að konan var einhver sú stærsta kvennpersóna, sem ég hefi séð, en bóndi hennar var aftur svo lítill vexti, að ég hálfpartinn hélt, að hann væri

drengur tíu eða tólf vetra, með grímu fyrir andlitinu. Það voru mjög fáir gestir á þessu veitingahúsi, meðan við dvöldum þar, en þeir fáu, sem þar voru, töluðu allir norsku, eftir því sem afi minn sagði. Tveir eða þrír voru þar nýkomnir frá Ameríku og ætluðu heim aftur til Noregs; að minnsta kosti. þóttist afi minn skilja svo mikið af tali þeirra. Hann var alltaf að reyna að spyrja þá um Ameríku, og honum skildist að þeir segja, að þar væri nóg gull — alls staðar yfirfljótandi gull, og að allt væri það rautt gull. Þessir menn gáfu afa mínum nokkur staup af víni, sem hann sagði að væri það bezta, sem hann hefði nokkru sinni smakkað, og hann var viss um, að þeir hefðu komið með það frá „Vínlandinu góða".

Meðan við dvöldum þar á veitingahúsinu, var afi minni alla daga á ferð út um borgina, og hafði mig æfinlega með sér; margt nýstárlegt var það, sem við sáum, bæði úti á götunum og eins í búðargluggunum, og margt eplið og peruna keypti hann handa okkur af berfættum drengjum og hrumum kerlingum, sem alls staðar úði og grúði af, sem virtust koma út úr hverju einasta skoti og afkima — jafnvel út úr sjálfum grjótveggjunum, eins og andarnir hans Aladíns. Þvílíkan urmul af aldinasölum hefi ég aldrei séð síðan. Oft urðum við þess varir á þessu ferðalagi okkar um borgina, að sumum þótti við vera of hnýsnir og allt of nærgöngulir; helzt kom það fyrir nærri blómagörðum og verksmiðjum. Og oft lentum við í stökustu vandræði með að rata heim að veitingahúsinu, sem við héldum til á, ekki sízt þegar farið var að rökkva á kvöldin. Það, sem vakti mesta eftirtekt mína á strætunum í Húll, var myndastytta, úr málmi, af manni á hestbaki, sem stóð á gatnamótum, kippkorn frá veitingahúsinu. Ég þreyttist aldrei að horfa á þetta undraverk, sem afi minn sagði að væri það langstærsta „leikfang", sem hann hefði nokkru sinni

séð. Myndastytta þessi var okkur jafnan hinn bezti leiðarvísir, því hvenær sem við sáum hana, vorum við vissir að rata heim.

Svo kom dagurinn, sem „Kólumbus“ lagði af stað til Vesturheims, og kvöldið fyrir fylgdi litli norski gestgjafinn okkur út á skipið, og vísaði okkur inn í mikinn og skrautlegan sal undir þiljum, og svo kvaddi hann okkur þar með mestu virktum.

„Kólumbus“ var mikið gufskip, og var minning gamla Kristófers engan veginn rýrð með því að láta það heita eftir honum. Tveir gríðarmiklir reykháfar voru á skipi þessu, og allmikil bygging var á þiljum uppi, og margir hvítir bátar héngu yfir borðstokkum þess, bátar, sem ég hélt þá endilega að væru hafðir til prýðis. Þrjú voru siglutrén þéttsett rám og reiða. Salurinn, sem okkur var vísað í, var bæði stór og skrautlegur. Borð lágu eftir honum endilöngum og bekkir beggja megin við borðin. Ótal svefnherbergi voru til beggja hliða á sal þessum hinum mikla, og var okkur fengið eitt þeirra til umráða. Þar voru fjögur lítil rúm, og voru tvö þeirra uppi yfir hinum. Þar var og einn kringlóttur gluggi, og var glerið svo þykkt, að ekkert var hægt að greina í gegn um það, en þrátt fyrir það komst þó næg birta inn um það. Við sátum jafnan til borðs með hinum farþegunum, sem byggðu sal þenna. Allir farþegarnir töluðu enska tungu, eftir því sem afi minn gat komizt næst. Hér kom bók Halldórs Briems afa mínum að góðu haldi, þegar við þurftum einhvers sérstaks við. Hann var alltaf með þá bók í höndunum, og var alltaf að leita í orðasafninu, og þegar hann fann orðið, sem við átti í það og það skiftið, þá benti hann einhverjum á það, og æfinlega varð það að tilætluðum notum. Á þenna hátt fengum við margt, sem við annars hefðum orðið að fara á mis. Afi minn hélt ætíð eftir það mjög mikið upp á þá bók, og sagði að hann ætti henni það að

miklu leyti að þakka, að við komumst klaklaust til Halifax.

Við fengum vond veður á Atlantshafinu, og vorí nítján daga frá Húll til New York. Ég man það, að í nokkra daga var allt á tjá og tundri á skipinu. Það brakaði og brast í öllu, allur borðbúnaður var á flugi og ferð, meðan við vorum að borða, og við gátum með naumindum haldið okkur á bekkjunum. Einu sinni kom glugginn inn á okkur, og sjórinn streymdi inn í herbergið; en von bráðar var glugginn settur í aftur. Eitt kvöldið var komið með einn hásetann ofan í borðsalinn; hann hafði orðið fyrir einhverju, sem losnað hafði á þilfarinu í óveðrinu. Ég man hvað mér þótti átakanlegt að heyra veinið í aumingja manninum, en það vein varaði ekki lengi, því hann dó litlu síðar. Daginn eftir slotaði veðrinu; þá voru allir, sem frískir voru, látnir koma upp á þiljur, til að vera viðstaddir útför hins andaða sjómanns. Líkið lá á fjölum, en ekki í líkkistu, og utan um það var vafið stóru flaggi. Fólkið stóð í þyrpingu í kring um það, meðan skipstjórinn talaði nokkur orð. Allir voru mjög daprir að sjá, og nokkrir grétu; sérstaklega man ég eftir einum öldruðum manni, sem grét eins og þegar barn grætur sárast, og ef til vill hefir hann verið faðir hins látna, sem ég held að hafi verið ungur maður. Svo var líkið tekið og látið síga út fyrir borðstokkinn; niður seig það hægt og hægt, niður í hið dimma og djúpa skaut hafsins. Aldan luktist saman yfir líkinu, vindurinn sléttaði yfir hringiðuna, sem myndaðist þar sem það sökk — sléttaði yfir, svo engin merki sæjust, hvar það hvíldi. Og hin mikla Rán tók það í faðm sinn, til að geyma það í innstu fylgsnum hjarta síns um aldur og æfi. En skipið brunaði áfram með fánann í hálfa stöng, áleiðis til hins mikla Vesturheims.

Loksins sáum við Ameríku, eins og bláa rönd út

við sjóndeildarhringinn í vestrinu. Afi minn horfði lengi á þessa bláu rönd, og sagði aftur og aftur: „Vínlandið góða! Leifur heppni!" Nokkrir af skipverjum, sem nærstaddir voru, fóru að skellihlæja og höfðu upp eftir honum orðin, en þó afbökuð.

Svo lentum við loksins við bryggju í New York. Við vorum strax flutt í veitingahús, sem danskur maður, með mikla istru, réði fyrir. Með hjálp hans fann afi minn danska konsúlinn, sem átti heima þar í borginni, og útvegaði hinn síðarnefndi okkur farbréf til Halifax. Og um leið voru allir peningarnir okkar eyddir: síðustu fimm dalirnir fóru fyrir nestið til ferðarinnar, en það entist ekki nálægt því alla leiðina. Við vorum aðeins eina nótt um kyrrt í New York, og kom þar ekkert markvert fyrir okkur, annað en það, að einn gesturinn, sem sat til borðs með okkur um kvöldið, ýtti mér frá borðinu, af því ég hafði tekið sykur úr sykurskálinni á borðinu, með skeiðinni, sem var í bollanum mínum, og hafði þar af leiðandi bleytt sykrið í skálinni. En enginn virtist taka eftir þessu nema hann. Og hafi ég brotið borðreglurnar, þá braut hann þær ekki síður með því að draga stólinn minn frá borðinu, eða svo lít ég *nú* á það mál.

Við stigum aftur á skip í New York, og fórum á land eftir sólarhrings ferð. En hvar við lentum þá, get ég ekki sagt. Ég man það aðeins, að við vörum rifin upp úr fasta-svefni um hánótt, og leidd nokkurn veg í myrkrinu; svo gengum við upp tvær eða þrjár tröppur, og inn í langan og mjóan sal fórum við; þar voru tvær bekkjaraðir eftir endilöngum salnum. Við tókum okkur sæti og biðum þess, sem að höndum bæri. Allt í einu heyrðum við blástur eins og í gufuskipi, og í sama vetfangi fundum við að salurinn, sem við sátum í, var kominn á hreyfingu. Fyrst fór hann hægt, og svo hraðara og hraðara, unz hann virtist hendast áfram óðfluga. Stundum fannst mér hann bruna aft-

er maður, drengir mínir, hann *er* maður. — Lofum honum því að ráða héðan af“.

Menn sáu, að þetta var satt, sem Donald sagði, að það var alveg þýðingarlaust að elta þá úr þessu í því skyni, að reyna að ná dr. Patrik úr höndum Hrómundar. Sumir vildu, að stærsti báturinn væri látinn fara í hámótt á eftir þeim, en aðrir töldu það úr, af þeirri ástæðu, að Hrómundur mundi ekki fara eins varlega, ef hann sæi bát koma á eftir sér. Menn hættu því alveg við að veita þeim eftirför. — En allir þeir sjónaukar, sem til voru í Spry Bay, voru rækilega notaðir þann dag. Og öllum þótti vænt um það, að kona læknisins og bæði börnin hans voru ekki í þorpinu meðan á þessu stóð.

En það er af dr. Patrik að segja: að þegar hann fékk loksins risið upp í bátnum, sá hann, að hann var kominn svo langt frá landi, að engin tiltök voru að hann gæti vaðið í land, þó hann henti sér út úr bátnum — en hann kunni ekki til sunds. — Honum varð það fyrst fyrir, að kalla á hjálp. Hann sá mennina á landi hlaupa til bátanna, og hann hafði um tíma von um, að þeir gætu komið sér til hjálpar, áður en Hrómundur kæmist fyrir nesið. En sú von brást. Hann grúfði sig þá niður í bátinn, las bænir sínar og bjóst við dauðanum á hverri stund — og bað heitt og lengi.

Allt í einu tók hann eftir því, að allmikið af sjó var komið inn í bátinn. Og honum fannst það mundi vera skylda sín, að gera ofurlitla tilraun að bjarga lífinu, með því að taka austurtrogið og fara að ausa. Hann sá, að þeir voru þegar komnir yfir röstina og nokkuð út á sundið, og að veðrið var heldur að lægja, en öldugangurinn var þó enn helzt til of mikill fyrir svo lítinn bát.

Og dr. Patrik tók til að ausa, og var stórvirkur, og fann, að honum óx kjarkur við það. — Við og við leit hann yfir á þóftuna, þar sem heljarmennið sat og

reri upp á líf og dauða. Það marraði í keipunum, það hrikti og brakaði og brast í borðum og þóftum, og árarnar svignuðu, eins og þær væru þá og þegar í þann veginn að brotna. — Það voru alíslenzkar járngreipar, sem héldu um hlummana á árunum þeim. Og átökin voru ákafleg, því maðurinn tók á öllum sínum ógnar kröftum, og reri uppihaldslaust. Hann kreisti saman varirnar og talaði ekki orð, en svitinn bogaði af enninu og rann í lækjum niður andlitið og ofan á bringuna. — Bátnum miðaði lítið við hvert áratog, en honum miðaði þó ögn. Nær og nær eyjunni komust þeir. Uppihaldslaust var róið, og uppihaldslaust var ausið. Að lokum komust þeir í hlé við eyjuna, og þá var stríðið á enda. Og þegar þeir lentu, tók dr. Patrik eftir því, að blóð hafði sprungið undan hverri nögl á fingrum Hrómundar.

Þegar heim kom í kofann, var farið að dimma, en konan var enn lifandi. Dr. Patrik tók nú til verka, og um morguninn var konan úr allri hættu. — Og nú voru þau orðin sjö börnin hans Hrómundar.

Þegar dagaði, var komið gott veður; en um dagmál lenti bátur Hrómundar á ný í Spry Bay. Þá tóku menn eftir því, að dr. Patrik var orðinn hvítur fyrir hærum, alveg eins og áttrætt gamalmenni (eða sú saga gengur að minnsta kosti þar austur við hafið), en gamli Hrómundur var alveg eins og hann átti að sér: rólegur, þögull, kaldur og forneskjulegur; og það sáu menn, að honum þótti verulega vænt um dr. Patrik, og að dr. Patrik var búinn að fyrirgefa honum af öllu hjarta. — — —

En það var hann Donald Gaskell, sem gerði þá uppástungu, að þorpsbúar tækju sig til og byðu Hrómundi gott bjálkahús þar í þorpinu og keyptu handa honum nokkrar ekrur af landi, svo annað eins tilfelli kæmi ekki fyrir aftur; og sýndi hann fram á það, að eyjan væri alveg óhæfur bústaður fyrir hvítan mann

með konu og ungbörn. Menn gerðu góðan róm að tillögu hans. Og fáum vikum síðar var Hrómundur og fjölskylda hans komin alflutt til Spry Bay. Og þar dó Hrómundur fyrir örfáum árum síðan. — Börn hans náðu góðri menntun, og ein dóttir hans giftist elzta syni dr. Patriks.

Og það var hann Donald — sá heljarjötunn, hann Donald Gaskell — það var hann, sem sagði það oft og mörgum sinnum, að eins dæmi mundi það vera, að einn aldraður og næstum mállaus útlendingur hefði gripið fullvaxinn karlmann úr höndunum á stórri sveit háskozkra og írskra manna á bezta skeiði, og hlaupið burt með hann nauðugan um hábjartan daginn.

„En það var maður, sem gerði það, drengir mínir", sagði Donald, „það var *maður!*"

## SVANFRÍÐUR

Um og eftir síðastliðin aldamót las ég allmargar smásögur og ritgerðir eftir höfund, sem nefndist *Eric S. North.* Birtust flestar sögur þessar í ýmsum góðum tímaritum, er út komu í Bandaríkjunum; en þó sá ég fyrir víst tvær þeirra í stórblaði einu, sem gefið var út í Austur-Canada. Ég man, að mér þótti allt, sem ég las eftir þenna höfund, sérlega hugðnæmt og prýðisvel ritað, og virtist mér hann hafa mjög gott vald á ensku máli. En eiginlega vakti það mest athygli mína, að í flestum, ef ekki öllum, sögum þessa höfundar, var meira og minna drepið á norrænar og íslenzkar bókmenntir, og jafnan farið lofsamlegum orðum um hina íslenzku þjóð. — Datt mér fyrst í hug, að höfundurinn væri Norðmaður eða Svíi, og var það nafnið, sérstaklega, sem kom mér til að hugsa það. En

þegar fram liðu stundir, komst ég á þá skoðun, að höfundur þessi væri hreinn og beinn Íslendingur og ritaði undir dularnafni. Virtist mér jafnvel margt í sögum hans benda til þess, að hann væri fæddur og uppalinn á Íslandi, að hann hefði drukkið í sig með móðurmjólkinni allt hið fegursta og bezta, sem til er í þjóðsögum okkar og þulum, og að hann hefði lengi notið íslenzkrar sveitasælu og sumardýrðar. En aldrei báru þó ritverk hans neinn vott um það, að hann hugsaði á íslenzku, né gáfu það til kynna á minnsta hátt, hverrar þjóðar maður hann væri.

Ég tók einskonar ástfóstri við þennan höfund og las af mesta kappi allt, sem ég sá eftir hann. Og eftir því, sem ég las meira af ritum hans, því meira og ákafar langaði mig til að vita einhver deili á honum: langaði til að vita með vissu, hvort hann væri Íslendingur, hvar hann ætti heima og hvernig högum hans væri háttað — langaði til að sjá hann, taka í hönd hans og — þakka honum.

En svo liðu mörg ár, að ég varð engu vísari, hvað þetta snerti. Og að lokum hættu þau blöð og tímarit, er ég las, að birta nokkuð eftir þenna höfund, sem ég hafði svo miklar mætur á. Fór ég að ímynda mér, að hann væri dáinn. Og þótti mér það þó, á hinn bóginn, næsta undarlegt, að þess skyldi ekki vera getið í blöðunum, ef svo góður rithöfundur væri genginn til grafar. En hans var nú hvergi getið, svo ég vissi. Og svo liðu tímar fram.

Í febrúarmánuði 1912 fluttist ég vestur að Kyrrahafi og settist að í Vancouverborg. Þá um vorið las ég það í einu af dagblöðum borgarinnar, að einhver *frú Ethel Swanfrid Norton* ætlaði að flytja fyrirlestur (um bókmenntir Canada-þjóðarinnar) í helztaleikhúsinu í Vancouver að kvöldi þess dags, sem nefndur var. Og var þess jafnframt getið, að frú Norton væri ágætur rithöfundur, og að hún hefði skrifað margar góðar

skáldsögur undir dularnafninu *Eric S. North*. Líka var það tekið fram, að kona þessi væri ekkja og ætti heima í Ontario, en að hún hefði komið til Vancouver til þess að finna systur sína, frú Smiles að nafni, sem heima ætti á hinum svonefndu Shaughnessy-hæðum þar í borginni.

Mér fannst nú ég hafa himin höndum tekið; og þegar hið tiltekna kvöld kom, fór ég í leikhúsið og hlýddi á fyrirlestur frú Norton. Hann var fluttur vel og skörulega, og var unun á að hlýða. Og þó hann væri aðallega um ritverk enskumælandi skáldanna í Canada, þá minntist frú Norton nokkrum sinnum á íslenzkar bókmenntir, einkum þjóðsögurnar, og fór mörgum fögrum orðum um þær, og var auðheyrt, að hún vissi meira um þær sögur en að eins nafnið tómt.

Frú Norton var á að gizka rúmlega þrítug að aldri, fremur lítil vexti, með hrafnsvart hár, en blá augu. Virtist mér henni svipa nokkuð til leikkonunnar heimsfrægu, Sarah Bernhardt, en hennar hafði ég oft heyrt getið og séð mynd af henni í blöðunum. Með frú Norton var ungur maður, hár og forkunnar-fríður sýnum. Hann talaði nokkur orð áður en fyrirlesturinn byrjaði, og eins þegar honum var lokið. En öll framkoma hans í þetta sinn minnti mjög á glæsimennið *Damala* hinn gríska, eiginmann leikkonunnar frakknesku.

Eftir að hafa hlýtt á fyrirlesturinn, þóttist ég vera ennþá vissari en áður um, að þessi uppáhaldsrithöfundur minn (Eric S. North, að öðru nafni: Ethel Swanfrid Norton) væri af íslenzku bergi brotinn, að minnsta kosti í aðra ættina. En til þess að vera alveg viss um það, tók ég það til bragðs, að ég skrifaði frú Norton fáeinar línur (af því að ég vissi utanáskriftina til systur hennar á Shaughnessy-hæðum); sagði ég henni, hversu hrifinn ég væri af sögum hennar; þakkaði ég henni fyrir vinsamleg orð í garð Íslendinga og íslenzkra bókmennta; kvaðst ég lengi hafa haft hugmynd um að

hún væri af íslenzkum ættum, og bað ég hana að láta mig vita, hvort sú hugmynd mín væri rétt eða röng.

Það leið fyrir víst heil vika eða meir, þangað til ég fékk svar frá frú Norton. Og svar hennar var það, að hún bað mig að tala við sig næsta dag, um nónbil, í húsi systur sinnar.

Og næsta dag, eftir hádegið, þegar klukkan var þrjú, var ég kominn í hús það, sem frú Norton hélt til í. Mér var vísað inn í allstórt herbergi, er auðsjáanlega var lesstofa. Frú Norton var þar fyrir og eins ungi maðurinn vöxtulegi og forkunnar-fríði, sem ég sá í leikhúsinu, þegar ég hlýddi á fyirrlesturinn, og áður hefir verið á minnzt.

Frú Norton virtist verða glöð að sjá mig. Hún ávarpaði mig alúðlega (á ensku auðvitað) og bar nafnið mitt fram með næstum því alíslenzkum hreim. Hún nefndi hinn unga mann fyrir mér og sagði, að hann héti *La Farge*, og væri hjartfólginn vinur sinn og velgerðamaður. Þóttist ég vita, að hann væri unnusti hennar, og var eins og mér þætti stórlega fyrir því. Mér gazt einhvern veginn ekki að manninum, þrátt fyrir hinn frábæra fríðleik hans og lýtalausa, karlmannlega vöxt. Hann tók þó kveðju minni mjög kurteislega, rétti mér hönd sína og talaði við mig eins og ég væri bróðir hans.

„Ég þakka þér hjartanlega fyrir bréfið“, sagði frú Norton, þegar við vorum öll sezt og höfðum talað um daginn og veginn nokkur augnablik. „Ég vildi svara því munnlega, og þess vegna bað ég þig að koma hingað til mín“. — Hún leit til herra La Farge, eins og það hefði verið hans vegna, að hún bað mig að finna sig.

„Og nú er ég kominn“, sagði ég, „og ég vona að þú segir mér það, sem mig hefir svo lengi langað til að vita“.

„Og hvað er það annars mér viðvíkjandi, sem þig langar svo mjög til að vita?“ sagði hún og brosti.

„Hvort þú, frú Norton, ert af íslenzku bergi brotin eða ekki".

„Virtist þér þá mér svipa svo mikið til íslenzkra kvenna?"

„Nei, ekki svo mjög í sjón", sagði ég. „Útlit þitt bendir fremur á frakkneskan uppruna en norrænan".

„En hvað kemur þér til að hafa þá hugmynd, að ég sé íslenzk?" — Og hún leit enn á ný til herra La Farge.

„Fyrst og fremst það", svaraði ég, „að þú hefir svo oft og einatt minnzt á íslenzkar bókmenntir í ritum þínum, og talað um þær af þeirri þekkingu og með því eldfjöri, sem sjaldan kemur í ljós í því efni hjá öðrum en sönnum Íslendingum; og svo er hitt, að nafnið þitt *Swanfried*, er að öllum líkindum íslenzkt; og eins mundi margur ætla, að sá, sem ritar undir gervinafninu *Erich S. North* væri af norrænum ættum".

„Gætir þú ekki eins vel ímyndað þér, að herra La Farge væri Íslendingur?" sagði frú Norton brosandi.

„Nei, það mundi mér aldrei hafa dottið í hug", sagði ég hikandi, og virti hinn fríða mann fyrir mér. Og sýndist mér skugga bregða sem snöggvast fyrir á andliti hans, þegar ég sagði þetta, alveg eins og honum hefði mislíkað.

„Ég skal segja þér nokkuð", sagði frú Norton dálítið glettin á svip. „Ég kynntist einu sinni manni, sem hét Abraham Samúelsson. Hann kunni svo vel hebresku, var svo vel að sér í bókmenntum Gyðinga, og talaði um þær svknt og heilagt með svo miklum guðmóði, að fáir stóðu honum þar jafnfætis, og þó var ekki dropi af Gyðinga-blóði í æðum hans".

„Á ég að skilja það þannig, að þrátt fyrir þekking þína á íslenzkum bókmenntum, þá eigir þú samt ekkert skylt við Íslendinga?"

„Já. Ég get fullvissað þig um það, að ég er ekki af norrænum ættum komin, að ég skil ekki íslenzku, og

að ég hefi aldrei íslenzka bók séð, nema eitt kvæða-kver“. — Og frú Norton sagði þetta með dálítlum á-kafa, eins og hún væri að hrinda af sér ákæru.

„Og þó bera rit þín ljósan vott um það“, sagði ég, „að þú veizt að miklum mun meira um þjóðsögurnar íslenzku, heldur en margur, sem fæddur er og uppal-inn á Íslandi. Hvernig gaztu fræðst svo vel um þau efni, án þess að læra íslenzku?“

Frú Norton leit enn einu sinni til herra La Farge, eins og hún vildi að hann svaraði þessari spurningu. En hann þagði eins og steinn og hleypti brúnum.

„Ég skal segja þér sögu“, sagði frú Norton eftir stutta þögn og leit til mín. „Og sagan er svona: — Það var einu sinni stórt námaþorp í brattri fjallshlíð í Klettafjöllunum. Vorið 1879 kom þar snjóflóð mikið um miðja nótt og sópaði burtu vöruhúsi og verzlunar-búð. Flestir vöknuðu við skruðninginn, klæddu sig í snatri og gengu út. Þíða var úti og allhvass vindur og tunglið óð í skýjum. — Menn tóku brátt eftir því, að snjódyngja mikil slútti fram yfir klettastall ofar í fjallinu, og mátti búast við, að hún hlypi fram, þá og þegar og sópaði burtu þjálkakofa, er stóð yzt í þorp-inu á gilbarmi nálægt háum fossi. Í kofanum sváfu þrír ungir málmnemar, og höfðu þeir ekki vaknað, þegar aðal-snjóskriðan hljóp fram. Sáu þeir, sem úti voru (og þeir voru margir), að mönnunum í kofanum væri bráður bani búinn, ef þeir væru ekki vaktir undir eins. — Yfirverkstjórinn í námaþorpinu hét *Ben Red*. Hann var stór og sterkur. Hann stóð yztur í mannþröng-inni, kallaði hásum rómi og sagði: „Hver vill gefa sig fram og hlaupa yfir að kofanum þarna og vekja dreng-ina, sem sofa þar, því annars farast þeir í snjóskrið-unni, sem kemur þar fram innan lítillar stundar?“ — Það var þögn nokkur augnablik. — „Hver vill vera hugrökk hetja og fara og bjarga lífi þriggja góðra drengja?“ sagði Ben Red enn hærra en áður. —

„Farðu sjálfur“, sagði einhver í hópnum. — „Ég á konu og fimm börn“, sagði Ben Red, og það sljákkaði í honum. „Ég á líka fimm börn“, sagði einhver í mannþyrpingunni. „Hver sem hleypur yfir í kofann og vekur mennina, skal fá það vel launað“, sagði Ben Red. — Enn liðu nokkur augnablik svo að enginn gaf sig fram. Allt í einu vatt sér maður út úr mannþrönginni. Það var hár maður grannvaxinn, en hvatlegur á fæti, og hafði barðamikinn hatt á höfði. Hann gekk snúðugt fram hjá verkstjóranum, honum Ben Red, og steig stórum skrefum í áttina til kofans, en hljóp þó ekki við fót. — Menn stóðu á öndinni, því að búast mátti við snjóskriðunni á hverju augnablikinu. — „Hugprúður maður, þetta“, sögðu menn einum rómi, en þeir sögðu það í hálfum hljóðum. — „Hver er hann, þessi?“ sagði Ben Red. En enginn þar gat svarað spurningu hans. Enginn, sem þarna var, þekkti þennan mann. Og enginn þar hafði tekið eftir honum, fyrr en hann lagði af stað í áttina til kofans, er stóð á gilbarminum. — Allt af hvessti meir og meir. Tunglið kom fram undan svörtu skýi, og það varð bjart um fáein augnablik eins og um hádegisbil. Mönnum sýndist snjódyngjan, sem hékk uppi í fjallinu fyrir ofan kofann, hreyfast ofurlítið. Og allir stóðu á öndinni. — Hinn ókunni, hugrakki maður gekk inn í kofann; og rétt á eftir komu þrír menn á nærklæðunum út um dyrnar og hlupu allt hvað fætur toguðu þangað sem mannfjöldinn stóð. Ókunni maðurinn kom á eftir þeim, en fór nú hægara en áður. En ekki var hann fyrr kominn til mannanna en snjódyngjan hljóp fram af klettastallinum. Hún fór með miklum skruðningi niður hlíðina, tók kofann með sér, mölvaði hann í sundur og kastaði brotunum ofan í gilið. — Menn stóðu þegjandi nokkra stund og eins og þrumulostnir. Að lokum rauf Ben Red þögnina. „Þú ókunni, hugrakki maður“, sagði hann, „segðu mér nafn þitt, heimilisfang og þjóðerni,

og innan tuttugu og fjögra klukkustunda skal þér verða að einhverju leyti launuð þessi drengilega framkoma þín". Þá svaraði hetjan ókunna og mælti á góða ensku með útlendum hreim: „Herra verkstjóri, ég legg aldrei líf mitt í hættu í því skyni að ætlast til launa fyrir og kaupa mér lof, og þess vegna varðar hér engan um nafn mitt og heimilisfang. En þjóðerni mínu ber mér ekki að leyna, fyrst ég er um það spurður". — „Ertu Þjóðverji eða Rússi, eða hvað?" spurði Ben Red, og það drafaði í honum eins og drukknum manni. Allir urðu að eftirtekt. — „Ég er", sagði hinn ókunni maður hægt og stillilega, „ég er — *Íslendingur!*" Hann gekk með hægð út úr mannþrönginni og hélt ofan brekkuna. -- Mennirnir horfðu þegjandi á eftir honum og sáu hann hverfa inn í skóginn, sem var þar neðar í hlíðinni. — Vindurinn þaut og tunglið óð í skýjum; en þar sem kofinn stóð áður á gilbarminum, var nú að eins ber og blá klöppin. — Og svo er þessi saga ekki lengri. En það var þessi ókunni Íslendingur, sem stuðlaði að því (óbeinlínis) með hugprýði sinni og göfuglyndi, að ég fékk að vita ýmislegt um Ísland og íslenkar þjóðsagnir".

Frú Norton leit nú brosandi framan í herra La Farge. „Var hann ekki sönn hetja?" sagði hún lágt.

Herra La Farge yppti öxlum.

„Kynntist þú þessum Íslending, frú Norton?" spurði ég.

„Nei, því miður sá ég hann aldrei", svaraði frú Norton.

„Og samt stuðlaði hann að því, að þú kynntir þér íslenzkar bókmenntir?"

„Já, hann stuðlaði að því *óbeinlínis*".

„Og með hvaða hætti gat það orðið?" spurði ég.

„Ég verð að segja þér aðra sögu", sagði hún. „Svoleiðis var, að einn hinna þriggja málmnema, sem Íslendingurinn bjargaði frá bráðum bana, var ættaður

frá Ontario. Hann hét *Robert Allan.* Þetta sama vor hvarf hann heim aftur til átthaga sinna, staðfesti ráð sitt og kvongaðist og settist að nokkru síðar í Toronto. Og ég er elzta barnið hans. — Faðir minn var álitinn að vera mjög sérvitur maður. En hann var jafnframt trölltryggur og hjartanlega þakklátur fyrir allt, sem honum var gott gert. Hann minntist iðulega hins hugprúða Íslendings með innilegum vinarhug og þakklæti. Og það var um hann föður minn eins og Dufferin lávarð, að orðið „Íslendingur“ gat aldrei vakið hjá honum neinar hugsanir í sambandi við hjarn og kulda. — Nokkru áður en faðir minn kvongaðist, settust fáeinir Íslendingar að nálægt Barrie í Ontario. Þangað fór hann stuttu eftir að ég fæddist, til þess að fá sér vinnukonu. Hann kom heim með íslenzka konu, smáa vexti og halta, og hafði hún ungbarn á handleggnum. Hún hafði verið gift hérlendum manni og hafði misst hann fáum mánuðum eftir að þau fóru að búa; og hún átti hér engan að. — „Hún er ekki sterkbyggð og þar að auki hölt“, sagði móðir mín, þegar hún sá íslenzku ekkjuna með ungbarnið. — „Það er dagsatt“, sagði faðir minn; „en Íslendingurinn, sem bjargaði lífi mínu í Klettafjöllunum, hafði styrkan fót og traust hjarta“. — „Og hún hefir ungbarn á höndunum“, sagði móðir mín. — „Það er líka satt“, sagði faðir minn; „en Íslendingurinn, sem lagði líf sitt í hættu fyrir mig, mundi hafa alið upp öll þau munaðarlaus börn, sem til eru á jarðríki, ef hann hefði haft ástæður og tækifæri til þess“. Og faðir minn var nokkuð fastmæltur, þegar hann sagði það. — Foreldrar mínir eignuðust átta börn; og íslenzka ekkjan halta og veikbyggða var þeim öllum eins og bezta móðir. Hún hét Svanfríður, en við systkinin kölluðum hana *Auntie,* og við elskuðum hana af öllu hjarta. Hún var mér hið sama og „*Cummie*“ (Alison Cunningham) varð skáldinu góða, Robert

Louis Stevenson. *Auntie* talaði ensku með mjög útlendum hreim, því að hún var um þrítugt, þegar hún kom til þessa lands, og hafði aldrei inn fyrir skóladyr komið. En enskan hennar hljómaði í eyrum okkar barnanna eins og unaðsríkur hljóðfæraslattur, því að hún sagði okkur *sögur* — sögur, sem voru fagrar, ljúfar og töfrandi, eins og þýðustu vögguljóð; sögur, sem voru hreinar og hollar og hressandi, eins og tærasta berglind; sögur um göfugt og elskulegt huldufólk í glæsilegum hamraborgum, og drengilega útilegumenn í grænum afdölum í bláum fjöllum; sögur um góðar stjúpur og fríðar kóngadætur og hreinhjartaðar hetjur; sögur um hið góða og fagra og sanna, sem ávalt vinnur að lokum sigur á öllu illu. — Ísland varð í huga okkar barnanna að einskonar undralandi fegurðar og allsnægta, þar sem fólkið var goðum líkt — var öllum þjóðum framar að mannkostum, gáfum og líkams atgerfi — konurnar eins og Pallas Aþena og Freyja og karlmennirnir eins og Apolló og Baldur. — Við börnin krupum við kné þessarar elskulegu konu og hlýddum á hana hugfangin kvöld eftir kvöld, árið um kring, og drukkum í okkur allt það bezta, sem til er í íslenzkum þjóðsögum að fornu og nýju; og þó lærðum við ekki eina einustu setningu í íslenzkri tungu. — Foreldrar mínir hlustuðu oft á þessar sögur, þó *Auntie* vissi það ekki. Og faðir minn sagði einu sinni við mig og móður mína: „Það var íslenzkur karlmaður, sem forðaði mér við snjóskriðunni í Klettafjöllunum; en það er íslenzk kona, sem er að bjarga börnum mínum undan bóklegu jökulhlaupi, sem nú er að æða í algleymingi yfir hálfan Vesturheim“. — Og ég held að faðir minn hafi skilið til hlítar merkingu þeirra orða, sem hann notaði“.

Frú Norton leit enn þá brosandi til herra La

Farge, eins og hún væri að leita hans álits, hvað þetta snerti. — Hann kinkaði kolli ofurlítið, en þagði.

„Og nú veiztu, hvernig það atvikaðist, að ég kynntist íslenzkum sögum, og af hverju mér er svo tamt að minnast á þær í ritum mínum“, sagði frá Norton við mig eftir stutta þögn; „og ég vona, að þú sért mér samdóma um það, að það sé allt því að þakka, að hugprúður Íslendingur var staddur í námaþorpinu í Klettafjöllunum vorið 1879“.

„Já“, sagði ég, „þú hefir án efa rétt að mæla. — En má ég spyrja þig að einu enn, frú Norton?“

„Spurðu hvers þú vilt“, sagði hún.

„Hefir þig ekki langað til“, sagði ég, „að ferðast um nýlendur Íslendinga hér í Ameríku? Og hefir þig aldrei langað til að sjá Ísland?“

„Mig hefir oft sár-langað til að sjá Ísland og kynnast Íslendingum, því að ég hefi enga aðra Íslendinga séð en *Auntie* og þig; en ég hefi aldrei þorað að láta það eftir mér“.

„Þorað?“ át ég eftir. „Við hvað ertu þá hrædd, frú Norton?“

„Ég er svo hrædd“, sagði hún, „ég er svo undur hrædd við það — ef ég sé Ísland og kynnist fleiri Íslendingum — að ég fái þá aðra hugmynd um hvort tveggja, að töfra-kastalarnir mínir glæsilegu hrynji til grunna, og að íslenzka þjóðin mín, hin goðum-líka, hverfi með öllu, og að mig geti aldrei dreymt svo dýrðlegan draum aftur. —Eða skilur þú mig?“

„Ég held það“, sagði ég, og ég fann að ég roðnaði í framan.

„Vel og gott“, sagði hún, og það var einkennilegur glampi í augum hennar; „og þá skulum við ekki minnast á það meira“.

Nokkru síðar kvaddi ég frú Norton og herra La

Farge. En þegar ég var kominn fram að strætinu, kallaði frú Norton til mín og sagðist enn hafa nokkuð til að segja mér. Og þegar hún kom til mín, sagði hún í lágum róm:

„Ég gleymdi að segja þér eitt, sem þú hefir sjálfsagt gaman af að vita, og það er það, að hann herra La Farge er sonur hennar *Auntie*".

## KARL LITLI

**Upphaf á óprentaðri sögu.**

Sunnan kom svala,
og sveif inn til dala;
grænt fann hún grasið
um grundir og bala.

Karl litli var fæddur á Íslandi. En þegar hér er komið sögunni, átti hann heima í einni íslenzku nýlendunni í Manitoba. Hann var nú kominn langt á níunda árið, og var búinn að vera tvö ár í skóla.

Það var um vor, að saga þessi gerðist. Ísinn var farinn af vötnunum. Grassléttan mikla sýndist eins og fagurgrænt flauelsklæði. Skógurinn var al-laufgaður, og sunnangolan þaut í toppum trjánna. Í kjarrinu söng þrösturinn á daginn, og **whip-poor-will** um nætur. Froskarnir görguðu og æptu, hver í kapp við annan; og eldflugurnar komu á kreik stuttu eftir sólsetur, kveiktu á töfralömpunum og leituðu um allan skóginn að huldum fjársjóðum. En músarrindillinn og rauðbrystingurinn hugsuðu um ekkert nema það, að búa sér til hreiður, og unnu að því af kappi allan vorlangan daginn. „Ég er fugl barnanna", sagði rauðbrystingurinn, og hann vissi, hvað hann sagði.

Já, það var um vor, að þessi undarlega saga gerðist. Það var í blessaðri vorblíðunni — einn laugardag — eftir hádegið — á milli nóns og miðaftans. Gróðrar-

skúrir höfðu gengið allan daginn frá því um dagmál; var jörðin blaut, og lagði um allt sæta angan af ilmgresinu.

Karl litli gat ekki leikið sér úti þennan dag vegna bleytunnar. En stuttu eftir hádegið fór hann út í lítinn geymslukofa, sem stóð fáa faðma frá íveruhúsinu. Hann fór þangað með smásögu-kver og las af kappi. Og á meðan hann las, lá hann aftur á bak í gamalli vöggu, sem var við gluggann á kofanum. Vaggan var stór og sterk. Hún hafði verið slegin saman úr pílviðarrimlum. Hafði hún oft orðið fyrir miklu hnjaski, einkum eftir að Rúna litla systir Karls var hætt að sofa í henni. Nú var vaggan full af gömlum fötum og strigapokum, svo að það fór undur vel um Karl litla í henni, þó að hann yrði að láta fæturna hanga aftur af fótabríkinni. -- Honum fannst hann hafa meira næði til að lesa þarna í kofanum heldur en inni í húsinu. Hann las og las, þangað til hann var búinn að lesa allar smásögurnar, sem í kverinu voru, þá stakk hann kverinu í treyjuvasa sinn og fór að hugsa um það, sem hann hafði lesið. Og hann lá kyrr í vöggunni. — lá upp í loft — og hafði hendurnar fyrir aftan hnakkann.

Það var sérstaklega ein saga í þessu kveri, sem Karli þótti góð. Hún var um kött, sem hafði bjargað barni frá því að drukkna. Barnið lá í vöggu, og kötturinn lá til fóta þess. Vatnsflóð kom og eyðilagði húsið, þar sem vaggan stóð. Vaggan, með barninu og kettinum, barst ofan strauminn; og var ekki annað sjáanlegt, en að hún færi í kaf þegar minnst varði. En kötturinn stökk allt af út í þá hlið vöggunnar, sem upp vissi í það og það skiftið. Og á þann hátt hélt hann henni frá því að hvolfa, eða svo segir sagan. Loksins komu menn á bát og björguðu barninu og kettinum. Og kom öllum saman um það, að barnið ætti kettinum lífið að launa.

Um þessa sögu hugsaði Karl litli langa stund. Honum fannst, að þessi köttur hafa verið allra mesta hetja.

Hann óskaði að hann ætti svona ágætan kött. Og hann einsetti sér að vera góður við alla ketti — að minnsta kosti að hrekkja þá aldrei. Hann einsetti sér, meira að segja, að hrekkja aldrei nokkurn tíma neina lifandi skepnu. Þannig hafði þessi smásaga um köttinn og barnið mjög góð áhrif á Karl litla. — Sögur um húsdýrin hafa jafnan einkar holla kenningu að flytja börnunum.

Svo hætti Karl allt í einu að hugsa um söguna, og fór að horfa á fjalirnar í ræfrinu á kofanum. Hann tók brátt eftir því, að margir kvistir voru í hverri fjöl; og honum sýndist kvistirnir verða að myndum — kynlegum og afkáralegum myndum — af mönnum og dýrum, en þó helzt mönnum. Myndin á einum kvistinum var alveg eins og afi hans, önnur eins og kennarinn, og hin þriðja eins og vanginn á ömmu hans.

Þegar minnst varði, hurfu allar þessar myndir, og allir kvistirnir, og jafnvel allar fjalirnar líka; og einhver undarleg blágrá móða breiddi sig um allt ræfrið. — Karli litla fannst það samt ekkert undarlegt.

En hvað var þetta? Karli fannst vaggan hreyfast. Hún hreyfðist samt mjög hægt. Það var rétt að eins að hann varð þess var.

Nei, vaggan hreyfðist áreiðanlega. Og það var ekki minnsti efi á því, að einhver stóð við vögguna og lét hana velta til vinstri og til hægri handar. Hún gekk harðara og harðara. Og stundum fór hún næstum um koll. Karli fannst það vera nógu gaman að láta vagga sér svona hart. Og honum fannst það allt vera mjög eðlilegt, að vaggan gekk og að honum var vaggað hart.

Hvaða vitleysa var þetta í honum Var hann að dreyma? Hann var svo sem ekki í vöggu. Það var nú öðru nær. Hann var á **eimlest,** sem fór yfir landið eins og kólfi væri skotið. Hann sat einn sér í mjúku flauelssæti við stóran glugga á aftasta vagninum og horfði út. — Ja, vagga! Ekki nema það þó, að halda að maður

sé í vöggu, þegar eimlestin brunar óðfluga með mann yfir holt og hæðir! — Ja, ekki nema það þó!

Eimlestin fór svo hart, að undrum sætti — fór allt af harðara — *harðara* — *harðara!* — Símastraurarnir skutust fyrir gluggann eins og byssuskot, skutust fyrir gluggann og hurfu á hálfu augnabliki aftur fyrir lestina. Skógarrunnarnir og hólarnir og tjarnirnar og húsin þutu fyrir gluggann — þutu og þeystu og hentust, eins og ólmir og trylltir *bronkó*-folar, og hlupu í felur. Kolareykinn úr gufuvélinni lagði aftur með lestinni, og inn um gluggann með köflum. Það hrikkti í ræfrinu á vagninum, og það marraði í hjólunum. „Stekka-stú, stekka-stú!“ sögðu hjólin, þegar þau runnu yfir samskeytin á járnbrautarteinunum. „Stekka-stú, stekka-stú, stekka, stekka-stú!“ — Karl litli hossaðist í sætinu jafnt og þétt. Hann hafði gaman af því. Sætið var svo dæmalaust mjúkt, það fór svo vel um hann, það var svo margt, sem hann sá út um gluggann, og hraði eimlestarinar var svo ntátúlegur, að honum fannst ekkert komast í samjöfnuð við það. Og svo var þetta skemmtilegá: „Stekka-stú, stekka-stú, stekka, stekka-stú“, sem vagnhjólin voru allt af að segja. Það var í sjálfu sér fegursti hljóðfærasláttur, fannst honum — næstum því eins og í harmóníku, eða jafnvel í munnhörpu — það mátti sem bezt dansa eftir því, ef maður kunni á annað borð að dansa. En — Karl litli kunni ekki að dansa.

„Þetta er logandi gaman!“ sagði Karl við sjálfan sig; „nei, *ljómandi gaman*, ætlaði ég að segja“. Og hann fann, að hann roðnaði í framan, því hann þóttist vita, að það mundi vera ljótt af litlum dreng að segja „*logandi gaman*“, — jafnvel þó enginn maður heyrði hann segja það.

Í þessu kom forstjórinn inn í vagninn. Hann var ákaflega feitur, breiðleitur og skegglaus. Hann var í bláum fötum með gullna hnappa á treyjunni og vest-

inu, og með gylltan borða á húfunni. Hélt hann á einkennilegum silfurtöngum í hægri hendinni og litilli bók í hinni vinstri. Og á bak við hægra eyrað var blár blýant. Hann gekk hægt og gætilega milli sætaraðanna, en nam staðar við hvert sæti, setti hökuna ofan í kragann og rétti höndina eftir farseðlunum. Hvern einasta farseðil merkti hann á einhvern hátt með silfurtöngunum. Sumum seðlunum stakk hann í vasa sinn, og suma rétti hann aftur heila eða hálfa til farþeganna. Úr litlu bókinni, sem hann hélt á, tók hann blöð, skrifaði tölustafi á þau og fékk hverjum farþega eitt þeirra. En ekki voru sömu tölustafirnir á þeim öllum. — Og allir voru sérlega hægir og hljóðir og alvarlegir meðan farstjórinn var að taka á móti farseðlunum.

Loksins kom farstjórinn þangað sem Karl litli sat í mjúka sætinu við gluggann.

„*Ticket!*“ (farbréf), sagði farstjórinn og rétti fram höndina. „Ticket, ticket, ticket!“

Karl litli hafði aldrei hugsað út í það, að hann þyrfti á farseðli að halda.

„Ég hefi ekkert ticket“, sagði Karl.

„Hefirðu ekkert ticket, drengur minn? Hvernig víkur því við?“

„Ég hefi víst gleymt að kaupa það“.

„Þú hefir þá peninga, drengur minn?“

„Ég er hræddur um, að ég eigi ekki einu sinni eitt einasta kopar-cent“, sagði Karl og leitaði í öllum vösum sínum. — Allir vasarnir voru tómir.

„En þú átt þó tungu, drengur minn?“

„Já, það er satt. En ég hélt, að enginn gæti notað tungu fyrir ticket“.

„Það er skrítið“, sagði farstjórinn og hló; „það er skrítið, ef tungan er ekki alveg eins góð og ticket — og jafnvel mikið betri — því að sá fær allt, sem kann að tala; en maður talar með tungunni. — Skilurðu?“

„Ég held að ég skilji“, sagði Karl. En samt var hann

ekki alveg viss um það með sjálfum sér, við hvað farstjórinn átti.

„Ef þú skilur, þá er líka allt gott og blessað. Tungan skal vera þér *ticket*. Og segðu mér nú, hvoru megin landamæranna þú ætlar af lestinni“.

„Landamæranna?“ sagði Karl alveg hissa. „Ég ætla bara að fara til Winnipeg“.

„Til Winnipeg?“ sagði farstjórinn og hló. „Blessaður vertu! Þessi eimlest kemur ekki nærri Winnipeg. Hvaða erindi getum við átt til Winnipeg? — Nú, Winnipeg er bara ofurlítið útkjálkaþorp, sem varla telur fleiri íbúa en í mesta lagi tvö hundruð þúsundir“.

„Kallarðu það smáþorp?“

„Að minnsta kosti er það smáþorp hjá Lundúnaborg“, sagði farstjórinn og setti tunguna út í aðra kinnina.

„En fyrst eimlestin fer ekki til Winnipeg“, sagði Karl, „hvert fer hún þá?“

„Hún fer beint suður á Draumamörk, drengur minn“.

„Er það í Canada?“

„Nei, drengur minn“.

„Þá er það víst í Bandaríkjunum?“

„Draumamörk kæmist ekki fyrir í Bandaríkjunum“.

„Er það þá stærra land en Bandaríkin?“

„Bandaríkin eru að stærð eins og lítill *punktur*, eða *komma*, hjá Draumamörk“.

„Er þá Draumamörk fyrir sunnan Bandaríkin?“

„Já, langt fyrir sunnan þau — langt, *langt*, **langt**!“

„Það er þá bezt að ég fari ekki lengra“, sagði Karl.

„Lengra en hvert?“

„Lengra en hingað“.

„Lestin nemur ekki staðar fyrr en við landamærin“, sagði farstjórinn; „en engir verða þar eftir nema börn, sem misst hafa foreldra sína“.

„Á!“ sagði Karl og leit stórum augum á farstjórann. „Eru þínir foreldrar á lífi, drengur minn?“

„Já; og afi minn og amma eru líka lifandi. Og ég á systur, sem heitir Guðrún, en kölluð Rúna; hún er tveimur árum yngri en ég“.

„Nú, jæja!“ sagði farstjórinn og ræskti sig ofurlítið. „Þá er ekki um annað að gera fyrir þig, en bara að sitja þarna, þangað til lestin er komin alla leið suður á Draumamörk“.

„Er gaman að koma þar?“ spurði Karl.

„Þar er margt að sjá — þar er ótal margt að sjá, sem aldrei sést í íslenzku nýlendunni, og ekki einu sinni í Winnipeg eða Lundúnum. — Hefirðu aldrei heyrt vísuna um köttinn, sem spilaði á fiðlu; og um kúna, sem stökk yfir tunglið; og um hundinn, sem ætlaði að springa af hlátri, af því að kýrin stökk svona hátt; og um silfurdiskinn, sem hljóp í burtu með gullskeiðina. Hefirðu aldrei heyrt vísuna þá?“

„Ég hefi heyrt vísuna, en ég kann hana ekki. Og ekki trúi ég því, að kýr geti stokkið yfir tunglið“.

„En trúir þú því, að hvalurinn geti setið á stól og hesturinn skrifað með penna?“

„Nei, því trúi ég ekki“.

„Þú trúir því samt, þegar þú kemur á Draumamörk, því þar muntu sjá margt undarlegra en það“.

„En ég er svo hræddur um, að ég fái allra mestu ávítur hjá pabba og mömmu, ef ég fer þangað suður í leyfisleysi“.

„Pabbi þinn og mamma verða komin þangað á undan þér, fyrst þau eru lifandi“, sagði farstjórinn og brosti; „þau taka á móti þér á járnbrautarstöðinni um leið og þú stígur ofan úr vagninum. Svo þú þarft engu að kvíða“.

„Verða þau þar líka, hann afi og hún amma og hún Rúna litla systir mín?“

„Auðvitað verða þau þar; og sömuleiðis hún ljósmóðir þín, og fóstra þín, og presturinn, og læknirinn, og kennarinn þinn, og skóla-systkinin þín; og enn-

fremur kötturinn þinn, hundurinn þinn hann Snati, öll gullin þín og bækurnar þínar. Og hvað viltu hafa það meira?"

„En hvernig komst það allt suður á Draumamörk?"

„Nú, það hefir sjálfsagt farið allt saman með eimlestinni, sem fór suður í morgun — allt, nema hún Guðrún systir þín; hún er ugglaust í lestinni, sem er á eftir, því að systir þín er yngri en þú".

„Fyrst það er svona", sagði Karl litli og fann að hann var hinn öruggasti, „þá fer ég alla leið suður á Draumamörk til þess að finna mömmu og pabba".

„Já, nú heyri ég að þú skilur, sagði farstjórinn; „sittu bara kyrr í sætinu og hentu þér ekki út um gluggann. Og mundu það, að fara ekki út úr vagninum, fyrr en lestin nemur staðar fyrir sunnan landamærin — ekki fyrir norðan, heldur sunnan".

Að því mæltu gekk farstjórinn fram að dyrunum, nam þar staðar fáein augnablik, án þess að líta við, og fór síðan yfir í næsta vagn.

Karl litli sat kyrr í mjúka flauels-sætinu og horfði út um gluggann. En hann sá nú ekki alveg eins glöggt og áður, það sem þaut og skauzt og hentist fyrir gluggann, því það var að dimma smátt og smátt úti; og enginn kveikti á lömpunum í vagninum, ekki svo mikið sem einum þeirra. Var það ekki ánalegt, að enginn skyldi kveikja á lömpunum þeim? — Stjörnurnar komu samt í ljós á himninum, hver á eftir annari, þangað til að dagsett var orðið; þá var alstirndur himinn — stjarna við stjörnu um allt heiðblátt loftið. Og stjörnurnar voru líka á fljúgandi ferð, eins og húsin og hólarnir og skógurinn, og þær flugu og þutu fyrir gluggann eins og þéttasta snjódrífa — þutu fyrir gluggann, eins og þéttasta haglél með hraða eldingarinnar, og aftur fyrir lestina.

Eimlestin brunaði áfram með ógnar hraða — brunaði suður, og rann mjúklega eftir fægðum og renni-

sléttum og þráðbeinum járnbrautarteinunum — suður, suður, suður! Í áttina til sólar og sumars! „Tút, tút, tút!“ sagði gufuvélin, sem dró alla vagnalestina. „Tút, tút, tút — púff!“ sagði hún með köflum, og púaði og blés og hvæsti ákaflega, eins og þrekmikill hestur, sem er að frísa í sig móð.

Allt í einu fór eimlestin að hægja ferð sinni. Og þegar minnst varði, rak gufuvélin upp ógurlegt öskur, og beljaði og blés og orgaði ámátlega; það ætlaði næstum að rífa sundur hlustirnar á Karli litla. Skárri var það áfergjan og óhemjuskapurinn! — En eimlestin hægði nú allt af ferð sinni meira og meira — var allt af stöðugt að fara hægara og hægara. „Ding, dong!“ sagði koparklukkan stóra, sem húkti á gufukatlinum eins og froskur á vatnsósa trédrumb. „Ding dong!“ sagði hún óaflátlega. „Ding dong, dong ding, dong ding dong!“ Og nú heyrðist allt af betur og betur þetta skringilega: „Stekka-stú, stekka-stú, stekka, stekka-stú“, þegar hjólin runnu yfir samskeyti járnbrautarteinanna.

Eimlestin nam staðar að síðustu. Hún var komin að landamærunum. Það fóru fáein börn út úr lestinni. Þau voru öll veikluleg og föl og syfjuð — voru svo undur mögur og hnuggin og einmanaleg, að Karl kenndi sárt í brjósti um þau. „Þau eiga sjálfsagt hvorki pabba né mömmu, aumingjarnir“, hugsaði hann. Og honum fannst, að þögnin og kyrrðin, sem kom um leið og þau fóru út, vera óumræðilega óviðkunnanleg. — —

Og eimlestin lagði aftur á stað, og skreið mjúklega með mestu hægð suður yfir landamærin og inn á hið langþreyða, sólríka allsnægtaland, sem kallað var Draumamörk. Og eftir örfá augnablik nam hún (eimlestin) staðar á ný inni í löngum og breiðum og háreistum kristalls skála, sem stóð á iðgrænum völlum rétt fyrir sunnan landamærin.

Nú varð allt bjart og uppljómað, eins og þegar bjart-

ast er á hádegi um Jónsmessuleytið; því að sólin blessuð hellti geislaflóði á hið hvelfda þak kristallsskálans, og allir regnbogalitirnir stigu hringdans á marmaragangstéttum vagnstöðvanna. Hvílík fegurð! Hvílíkur undra-ljómi!

---

# Gunnsteinn Eyjólfsson

## HVERNIG ÉG YFIRBUGAÐI SVEITARRÁÐIÐ

*Saga frá Nýja Íslandi.*

Háttvirtu herrar mínir og frúr!

Ég ætla að byrja sögu þessa á því, að segja yður hver ég er. Ég heiti Jón og er Jónsson. Ég er bóndi hér í Nýja Íslandi á bæ þeim, sem heitir Strympa. Ef ég lifi þangað til miðvikudaginn í átjándu viku sumars, þá verð ég fimmtíu og fimm ára gamall. Ég er fimm fet og sjö þumlungar á hæð á íslenzkum sauðskinnsskóm. Það situr ekki á mér að greina neitt frá atgjörvi mínu eða líkamsburðum, þar sem ég segi sjálfur frá, en ég skal að eins geta þess, að ég þótti með duglegri mönnum, meðan ég var upp á mitt hið bezta. Ég hefi verið heilsugóður alla æfi, L. S. G., nema hvað ég er farinn að þjást af gigt þessi síðustu árin. Hún liggur oftast í lærhnútunni vinstra megin og hleypur upp í öxlina, og vill ekki láta undan, þó ég sé að bera á mig bæði arniku og skonkalýsi.

Ég býst varla við, að þið hafið heyrt mín getið, og þess vegna hefi ég verið svona fjölorður um sjálfan mig. Hér í Nýja Íslandi er sá bölvaður erill af Jónum, að þó ég — eða einhver þeirra — vinni sér eitthvað sérstakt til frægðar, þá festist aldrei sú frægð við hann; því enginn veit, hver Jónanna það er, sem frægðarverkið hafði unnið. Ég skal að eins geta þess, að til aðgreiningar frá öðrum sam-

nöfnum mínum er ég kallaður Jón á Strympu — Jón gamli á Strympu, segja strákarnir, þegar þeir eru að tala. Það væri reyndar rangt af mér að segja, að ég væri alveg óþekktur í hinum menntaða heimi, því nafnið mitt hefir einu sinni birzt á prenti. Það er í Þjóðólfi frá 1872 undir auglýsingu um rauðskjóttan graðfola — mestu þrifaskepnu — sem ég hafði misst og var að auglýsa eftir. Þar stendur nafn mitt og brenimark fullum stöfum: — graðfolinn var reyndar ekki brennimerktur, en mér fannst myndarlegra að auglýsa það samt — Jón Jónsson, Litlu Strympu 20. nóvember. Brennim. Jón J. Ég klippti auglýsinguna með nafninu mínu úr blaðinu, og hefi síðan haft hana fyrir miða í Jónsbók, og er hún við guðspjallið á 16. sunnudag eftir Trinitatis. (Hinn vatnssjúki).

Já, — ég gleymdi nokkru. Ég sem-sé kaupi Lögberg og þar stendur nafnið mitt á prenti á lifrauðum miða framan á blaðinu í hverri viku. Mér þykir vænt um miðana og hefi tekið þá af og haldið þeim saman, og Ásdís mín — það er konan mín — hefir límt þá með grautarlími á allar bækur, sem ég á í eigu minni. Afganginn geymi ég í gömlu pjáturtóbaksdósunum mínum, því ég er alveg hættur að brúka þær, síðan ég fékk pontuna hjá Grími mínum Einarssyni.

Ég gat þess áðan, að konan mín héti Ásdís. Hún er þremur árum eldri en ég, og mesta algervis- og sóma-kona. Hún er hálfdóttir Þorsteins, sem lengi bjó á Yxnaþúfu; sómamaður mesti og búhöldur. Mig hefir allt af furðað, hvers vegna Sunnanfari kemur ekki með mynd af honum, því hann átti afbragðs kú, og lagði saman nytjar tvisvar á ári. Ásdís mín var elzt þeirra systra. Hún var af dönsku kyni, undan afbragðs nauti, og sóttust allir bændur í hreppnum eftir að fá kvígur undan henni. Ég vissi

aldrei, hvernig það atvikaðist, að við Ásdís mín fórum til Ameríku. Hreppstjórinn — mesti dánu- og sóma-maður — lánaði okkur þrjú hundruð krónur sléttar, þegar við fórum, og hefir aldrei gengið eftir þeim síðan.

Okkur Ásdísi minni hefir allt af komið vel saman, enda er gott að lynda við mig. Hafi okkur ætlað að verða sundurorða, þá hefi ég altént slegið undan, því það situr ekki á mér að hafa á móti því, sem hún segir. Ég man ekki eftir, að hún hafi reiðst mér nema einu sinni: Það var fyrir mörgum árum síðan, að ég var nýbúinn að sá korni í blett fyrir austan fjósið — ég var þá ekki búinn að læra þá réttu búskaparaðferð hér — og af því fuglinn var vitlaus í það, þá setti ég upp stóra krossrellu til að fæla hann burt. En hvað skeði? Þegar ég kom heim, þá óð Ásdís mín alveg upp á höfuð á mér með þeim úrhelli-skömmum, að ég gat engu svarað. Hún sagði, að ég hefði sett upp þessa krossrellu til að svívirða sig, því hún Anna á Snyddu hefði sagt, að kjafturinn á henni Ásdísi á Strympu gengi dag og nótt, eins og krossrella, — alveg eins og krossrella, og ef ég ekki tæki hana niður strax, þá skyldi ég ekki bragða mat í heila viku. Það þoldi ég ekki, því maturinn er mér fyrir öllu. (Við erum reyndar farin að verða þurftarminni nú upp á síðkastið, og er það helzt þessi kaffiögn, sem við getum nærzt á). Ég tók krossrelluna niður og braut hana sundur.

Við Ásdís mín erum búin að dvelja hér í Nýja Íslandi í 20 ár. Fyrstu árin var allgott að vera hér, því þá voru engir skattar og engin sveitarstjórn, og ég var búinn að koma mér upp fjórum beljum og nokkrum kindum. Svo átti ég ýmislegt af öðru dóti og laglegan snudda, sem var brúkaður á bæjunum í kring. Móður hans keypti ég af Jóni mínum í Fagrahvammi, ljómandi skepnu og þreifst

ágætlega hjá okkur, enda hirðir Ásdís mín kýr betur en nokkur önnur kona hér í kring, nema hvað sá galli er á henni, að hún er þríspena. Svo vissi ég ekki neitt um neitt, fyrr en um sumarið, að mér var sagt, að við ættum að fara að gjalda til sveitar, eins og heima, handa fátækum og til prests og skrifara. Mér varð það fyrst fyrir að grafast eftir, hvort ekki væri hægt að segja sig til sveitar, eins og heima; en mér var svarað því, að það væri ómögulegt, og ef við ekki borguðum skattinn, þá yrði farið illa með okkur. Svo um haustið sendu þeir herrarnir okkur skattmiða, og það var ekki laust við að ég yrði hræddur. Ég átti nokkur cent útistandandi fyrir lánið á tudda mínum, og fékk þau, og borgaði með þeim skattinn. Við Ásdís mín þorðum ekki annað, því að við kunnum þá ekki lagið á sveitarstjórninni. Næsta ár var skatturinn hærri, og þó borgaði ég hann, með því að selja golsóttu ána mína, og svo stútaði ég nokkrum hænum og lagði inn hjá bræðrum og fékk cent fyrir.

Ég vissi ekki hvernig á því stóð, en á þessum tveimur árum fækkuðu gripirnir hjá okkur talsvert. Hálfa var kálflaus, svo við skárum hana, og eitt af því, sem sveitarstjórnin gerði okkur til bölvunar, var að gefa út lög um, að tarfar mættu ekki ganga lausir, svo ég varð að farga tudda mínum, og var hann orðinn laglegur og feitur, en ég hafði ekki hey til að gefa honum inni. Svo kom þistill í garðinn, og við hættum alveg að sá í hann, því Grímur minn sagði okkur Ásdísi minni, að það gæti ekki sprottið í þistiljörð, og það bezta væri að girða vel í kringum hann, svo hann gæti sprottið í næði, og það gerði ég. Gömlu netin mín urðu ónýt, og ég gat ekki fengið mér önnur ný.

Svo þriðja árið var skatturinn hærri en áður, og efnahagur okkar verri en áður, og þá var það eitt

sinn, þegar við Ásdís mín vorum að drekka kaffi, að hún segir við mig:

„Með hverju ætlarð' að borga skattinn í haust, Jónsi?“

„Ég — ég veit ekki“, sagði ég. „Ég sker hann hrússa og legg hann inn hjá bræðrum upp í skattinn“.

„Og vera svo hrútlaus eftir. Þú heldur líklega, að ærnar fái við sér sjálfar. Það er rétt eftir öðru búskaparlagi þínu. Ég held það væri nær að borga ekki skattinn, eins og hann Grímur gerði í fyrra, og hefir ekki borið á, að hann hafi verið hengdur enn þá“.

„Þeir kann ske taka af okkur beljuna, og selja hana fyrir skattinum“.

„Þú ert asni, Jón; eins og þú hefir allt af verið síðan ég giftist þér. Ég er svo sem ekki hrædd við þá herra, þó þeir reigist upp í hástert. Grímur kom hérna í dag að leita ráða handa kúnni sinni, og lét kálfinum sex vikum fyrir tímann, og segir að sveitarráðið hafi leyft sér að vinna af sér skattinn, því hann geti ekki borgað í brautinni. Og ætli það hefði nú ekki verið nær fyrir þig að gera skurð úr djúpa kerinu, og vinna af þér skattinn ofan fyrir brautina. Það gæti þó farið svo að þú fengir tuggu úr því“.

„Kann ske þeir lofi mér það, ef ég bið þá um það“.

„Ekki, ef þú ert sá heimskingi að borga. Ef þú ekki borgar neitt, þá færðu það, því hvað er af okkur að hafa? Ég held það væri líka nær fyrir okkur að hafa færri gripina, við komumst einhvern veginn af fyrir því, og það verður ekkert tekið af okkur, ef við eigum ekkert til“.

Ég sá ,að þetta var satt. Það sat ekki á mér að vera að hafa á móti því, sem Ásdís mín sagði. Ég borgaði engan skatt það haust, enda nefndi enginn það við mig. Næsta ár kom á mig tvöfaldur skattur, með rentum, og þá var mér ómögulegt að borga,

þó ég hefði viljað. Mér hálflék hugur á að fá skurð úr djúpa kerinu og fram í vatnið, svo ég fór og bað sveitarráðið að lofa mér að vinna af mér skattinn, og sagði þeim frá, hvað bágar væru orðnar ástæður okkar Ásdísar minnar.

Þeir veittu mér það strax, því þeir sáu, að ég gat ekki borgað. Ég gróf tuttugu faðma langan skurð, tveggja feta breiðan og eitt fet á dýpt, og var að því í átta daga. En hörð þótti mér sú vinna, jafnvel þó ég færi mér ekki mjög hart, og ég hugsaði, að ég skyldi ekki láta sveitarráðið fara svo með mig í annað sinn.

Næstu tvö ár borgaði ég ekkert, bæði gat ég það ekki, og svo sá ég ekki til neins að vera að því. Enginn nefndi það á nafn, og Ásdís mín sagði, að það væri guðlaust að vera að borga þann skatt ofan í fjandann á þeim.

Svo safnaðist á okkur þriggja ára skattur; ég held það hafi verið orðnir yfir 20 dollars. Ég var alveg hættur að fást nokkuð um þá skuld, og lét mér standa á sama, þó skattaseðlarnir væru að koma. Þá var það eitt sinn, að ég og Ásdís mín vorum nýkomin af netjum, að Grímur minn Einarsson kom, og meðan hann var að bíða eftir volgum skólpsopa, þá segir hann við mig rétt si sona:

„Heyrðu lapm“, sagði Grímur, „hefir þú heyrt, að sveitarráðið er búið að kjósa prelát til að fara um og taka lögtaki hjá okkur í skattinn?“

Ég var að taka í nefið og varð svo hverft við, að ég missti niður tóbakið, sem ég hafði á handarbakinu. Ásdís mín varð fyrri til svars, — það stendur sjaldan lengi á svörum hjá henni:

„Þar eru þeir lifandi komnir allir saman. Ætla nú að fara að selja undan okkur, eða hvað? En hart þykir mér það, ef þeir leika sér að því að vaða inn í fjósið á Strympu, meðan gamla Ásdís er heil

heilsu og á fjórum fótum. Það er þér, Jón, allt saman að kenna. Þú gazt verið búinn að skera Rindlu, svo þeir gætu ekki tekið hana. Og ef maður á ekkert, þá hafa þeir ekkert að taka. Skuldar þú þeim nokkurn skatt, Grímur?“

„Hja“, — segir Grímur, „ég held ekki, dí hitt í fyrra vann ég hann af mér, og í fyrra gáfu þeir mér hann upp. Jú, ég líklega kem til að skulda þeim skattinn fyrir þetta árið, en, — ég borga hann aldrei“.

Þetta sagði hann íbygginn, og ég vissi að hann meinti það. Grímur er ekki alveg blár innan, og þeir sanna það, að þeir naga aldrei feita hnútu hjá honum.

Svo nokkrum dögum seinna vildi það til, að ég var að fitja í gullaugnanetsgarm, að mér varð litið út um glugga og sé ég hvar hann kemur, svo sem sjálfur tollheimtumaðurinn bersyndugi, eins og guðspjallamaðurinn Sýrak nefnir hann, og vissi ég strax í hvaða erindum hann mundi vera. Ég leit til Ásdísar minnar og segi ég si sona: „Ásdís mín“, segi ég við Ásdísi mína, „nú verður *þú* að verða fyrir svörum, en reyndu að sjá um, að hann hafi ekki Rindlu eða ána, við skulum heldur skera þær og éta“. „Þú hefðir átt að hafa mannrænu í þér að vera búinn að því“, segir Ásdís mín, og svo stendur hún í dyrunum, þegar sá bersyndugi kemur. Slík og þvílík ósköp! Ég vissi fyrir löngu, að Ásdísi minni var liðugt um tungutak, en annan eins mælskustraum hafði ég ekki haft hugmynd um. Orðin — og þau orð — runnu upp úr henni með svo miklum hraða, að skatta-innheimtumaðurinn gat ekki komizt að til að skjóta inn í orði á rönd, hvað þá meira. Og handleggirnir á henni gengu eins og — eins og — ja eins og krossrella, og það þarf ekki að orðlengja það, að hann snautaði burt, og

kom ekki aftur. Ég brosti með sjálfum mér yfir ferð hans. Þeir leika sér ekki að því, þeir herrar, að vaða ofan í Ásdísi mína, þó þeir kann ske haldi það.

Við skárum Rindlu um haustið, og lögðum ketið inn fyrir jólin. Við áttum eina kvígu, sem átti að bera á þorranum, og ég sá, að það var innanskömm í henni, svo hún gat ekki lifað. Ég sá ekki til neins að vera að mæða mig við að hafa tvær kýr; við áttum nógu erfitt án þess.

Ég hefi fengið skattseðil á hverju ári, en ég skeyti þeim aldrei að neinu. Skattskuld mín er nú orðin yfir 40 dollara. Svo um daginn varð ég skrambans smeykur, því ég heyrði sagt, að þeir ætluðu að skera niður alla skuldaþrjóta sveitarinnar á einum fundi, svo ég fór og hitti Þórð minn í Framnesi — frá Keitu í Skagafirði, og segi ég við hann: „Ætl' þú vildir ekki, lapm, fara norður á fundinn og segja mér hvað þeir gera þar, viðvíkjandi mér?"

„Hjú", sagði Þórður og þurkaði sér fyrir neðan nefið á treyjuerminni, „það er velkomið að ég geri það, góur".

Hann fór. Þeir sátu þar á fundi með kollektunni og voru að ráðstafa skuldaþrjótum sveitarinnar. Þegar röðin kom að mér, þá segir hann:

„Jón gamli á Strympu skuldar 41 dollar. Hvað á að gera við hann?"

Þeir litu hver upp á annan, og var eins og hefði verið stungið upp í þá heilum sugfiskshaus.

„Hann Jón á Strympu", sögðu þeir, „það er ekki til neins að gera neitt við hann, nema að strika hann algerlega út úr bókum sveitarinnar. Það er til skammar, að nöfn slíkra manna sjáist þar, og kerling hans eitthvert hið versta skass í allri sveitinni. Við megum þakka fyrir, ef við fáum ekki að vita

betur af þeim síðar, því þau eru alveg hætt nokkuð að bjarga sér“.

Ég kunni mér ekki læti, þegar ég frétti þetta. Satt að segja hafði mér allt af verið hálfórótt út af skattinum. En Ásdís mín sagði, að sér stæði alveg á sama; hún hefði aldrei borgað hann hvort sem var.

Svona þarf maður að hafa það við þessa sveitarbesefa. Maður verður alveg að ganga fram af þeim. Ég skal nú að endingu geta þess, að ég hefi ekki párað þessar línur í þeim tilgangi að verða frægur, eða fá orð á mig sem rithöfundur. En mér fannst það vera kristileg skylda mín að láta meðbræður mína vita, hvaða búskaparaðferð er heppilegust hér í Nýja Íslandi, til þess að geta átt góða daga og losast við þessi sveitar-meinvætti, hún er nefnilega sú: *að eiga ekki neitt og gera ekki neitt.*

Svo nú er ég alveg laus við sveitarráðið. Ég lifi góðu lífi og á einn gullaugnanetsgarm, sem ég legg í vatnið, þegar gott veður er. Gripirnir eru þrír: Búbót Ásdísar minnar, (undan svarta bola Þórðar míns) og Hringur minn og Skakkhyrna. Kindurnar eru fimm, allar út af þeirri golsóttu frá Jóni. Sex hænur eigum við, og einn hana (með tvöföldum kambi) og höfum þau í krubbu fyrir aftan rúmið okkar á bak við stóna. Við lifum ánægð með þetta og kvíðum engu, því Ásdís mín segir, að meðan kaupmaðurinn láni okkur, þá þurfum við ekkert að óttast; en þegar hann hætti því, þá skuli sveitarráðið „fá að vita af okkur betur“, eins og þeir sögðu á fundinum.

Að endingu vil ég þakka yður, mínir hávelbornu herrar og frúr, fyrir að hafa hlustað á sögu mína. Ef þér ætlið yður að setjast að hér neðra, þá munuð þér aldrei iðrast þess, þó þér hagnýtið yður lærdóm þann, sem hún hefir inni að halda.

# Grímur Grímsson

## *„MEIRI ELSKU HEFIR ENGINN“*

Það er til að kenna um elskunnar afl
og af öllu sé kærleikur beztur. —
Það er til að kenna að tefla má tafl,
og tapa — en vera þó mestur.

Fáninn yfir háskólabyggingunum í Middleton var dreginn í hálfa stöng, því formaður skólans var dáinn. Í 15 ár hafði prófessor Frímann setið að völdum sem skólastjóri, virtur af nemendum og viðurkendur af starfsbræðrum sínum, sem höfuð og hjarta skólans. Hann var þjóðkunnur maður og talinn með fremstu menntamönnum landsins.

Allt frá æsku hafði prófessor Frímann verið elju- og starfsmaður mikill. Þegar hann var við skólanám, hafði enginn nemandi borið af honum, — nema einn — einn, sem nú var fyrir löngu öllum mönnum gleymdur. Alla sína daga frá því hann lauk námi hafði próf. Frímann verið kennari, byrjað sem aðstoðar-kennari í stærðfræði við skólann, sem hann lærði í, og verið fám árum síðar gerður yfir-kennari í þeirri grein. Upp frá því fór álit hans dagvaxandi. Hann varð aðal-aðdráttarafl skólans. Kennslubækur samdi hann, sem síðar voru notaðar við marga háskóla, og orðstír hans barst út um allt land. Þegar svo háskólinn var stofnaður í Middleton, var próf. Frímann í einu hljóði kosinn skólastjóri. Hann tók kosningunni og yfirgaf nú skólann, sem hann sjálfur hafði lært í og kennt í um

18 ár. Því að eins lét hann tilleiðast að takast á hendur hina nýju stöðu, að hann sá, að með því móti gæti hann miklu meiru áorkað og orðið betur menntamálum þjóðar sinnar að liði. Eftir 15 ára skólastjórn hans var nú háskólinn í Middleton orðinn lang-fremstur allra háskóla í þeim ríkjum, og var viðurkennt, að mest af öllu væri það prófessor Frímann að þakka.

Og nú var hann fallinn frá eftir langt og fagurt dagsverk, rúmlega sextugur að aldri. Og þess vegna blakti nú fáninn í hálfa stöng og harmur var í skólanum.

Útförin var gerð vegleg og ekkert til sparað, svo hún mætti sæma hinum fræga manni. Allir opinberir staðir og allar sölubúðir borgarinnar voru lokaðar daginn, sem útförin fór fram. Úr öllum áttum komu helztu menn ríkjanna til að vera við jarðarförina, einkum kom saman mikið fjölmenni af lærðum mönnum og háskólalýð víðsvegar að.

Í stærstu kirkju borgarinnar var sorgar-athöfnin haldin. Kirkjan var skrýdd blómum og sveipuð svörtum dúkum. Allir voru veglega búnir og hátíðlegur svipur yfir öllum — öllum nema einum. Það var einn maður í öllum þeim mannfjölda, sem ekki var höfðinglega klæddur. Það var gamall maður, grár og lotinn, skeggvaxinn og síðhærður, stór maður og hraustbyggður. Ennið var hátt og svipurinn lék um ásjónu hans eins og litbylgjur á málverki. Stundum virtist undraverð tign hvíla yfir manninum, stundum óskaplega mikil sorg, en ávallt óbifanleg staðfesta.

Það tóku fyrst fáir eftir þessum gamla manni, nema að því leyti, að mörgum fannst það óviðkunnanlegt, að svona illa búinn karl skyldi komast inn í innsta bekkinn og verða fyrstur til að horfa á líkið, þegar kistan var opnuð. Enginn þekkti hann. Sá eini, sem ef til vill hefði kannazt við hann, var hinn dauði, en dauðir menn geta ekki talað.

En hann óróaði engan, gamli maðurinn í grófgerða

vestræna búninginum. Hann sat rólegur og horfði allt af niður á gólfið, — alltaf þar til presturinn las textann sinn af stólnum. En þetta var textinn: „Meiri elsku hefir enginn en þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína“ (Jóh. 15 : 13). Við þessi orð hrökk gamli maðurinn við- og kvalatitringur fór um andlitstaugar hans. En hann náði sér óðara aftur og sat rólegur, meðan presturinn flutti líkræðuna.

Presturinn var síra Benedikt Lind, mesti mælskumaðurinn í þá daga. Með fögrum orðum lýsti hann því, hvernig frumtónn lífs hins látna merkismanns hefði verið elska til mannanna, hvernig hann hafði útgefið allt líf sitt til að þjóna öðrum. Hann hefði sannarlega gefið líf sitt fyrir vini sína — mennina, og nú væri líka minning hans svo sælurík fyrir alla, er hann þekktu.

Svo var prófessor Frímann grafinn með mikilli viðhöfn. Fjöldi manna stóð yfir moldum hans með klökku hjarta. Svo fór hver heim til sín. En í rökkrinu um kvöldið var gamli, ókunni maðurinn vestan úr fjöllunum aftur kominn út í kirkjugarðinn og leyndist einn við leiðið litla stund. Svo hvarf hann og sást aldrei framar — á þeim stöðvum.

Síðan hefir veglegur minnisvarði verið reistur yfir leiði prófessors Frímanns, og frægur er hann orðinn í sögu landsins. En enginn hefir heyrt getið um gamla manninn, sem kom á leiðið hans, og enginn veit, hvar bein hans liggja. En ef menn þekktu söguna hans, kynni hún að þykja nokkurs virði.

Þess var áður lauslega getið, að á námsárum próf. Frímanns hefði aðeins einn maður skarað fram úr honum við nám — maður, sem þó ekkert hafði orðið úr og gleymzt hafði öllum mönnum. En þessi ungi maður, sem ekkert varð úr, var einmitt gamli maðurinn undarlegi. Hann hét Karl Líndal. Þeir höfðu verið skólabræður og félagar um mörg ár, Pétur Frímann

og Karl Líndal. Þeir voru hvor öðrum samlyndir og samgrónir að vináttu. Þeir unnu hvor öðrum svo, að hvorugur mátti af öðrum sjá, eins og stundum kemur fyrir með æskumenn og eins og var með þá Davíð og Jónatan forðum. Þeir Frímann og Líndal voru bekkjarbræður og báru báðir af bekkjanautum sínum í flestu. Þó var Líndal Frímann fremri í öllum námsgreinum, nema stærðfræði. Það var Frímannns helzta námsgrein. Bókmenntir voru aftur uppáhaldsgrein Líndals. En svo var þó gáfum og viljakrafti Líndals farið, að hann gat sigrað hvern mann, sem þá var í skóla, í hverri grein sem var, ef hann vildi taka sig til.

Aldrei hafði fyr útskrifast úr Kondordia háskóla jafn stór, og sízt jafn velgefinn hópur námsmanna eins og vorið, sem þeir Frímann og Lídal útskrifuðust. Var því keppt mjög um hin efstu sætu og virðingar af stúdentum. Allir töldu víst, að Líndal mundi hljóta efsta sess og hæstu verðlaun. En þegar til þess kom á útmánuðunum um veturinn, að þeir skyldu gefa sig fram, sem keppa vildu um verðlaun og virðingar við burtfararprófið um vorið, furðaði alla á því, að hvorugur þeirra, Líndal né Frímann, gaf sig fram. En þó þeir félagar hefðu ekki talað sig saman um það, furðaði hvorugur sig á hinum, báðir þóttust vita, að hinn vildi ekki keppa, svo þeir skyldu ekki keppa hvor á móti öðrum.

En það var nokkuð annað, sem vakti fyrir báðum, þó hvorugur vissi af öðrum.

Um vorið stóð til að losnaði embætti aðstoðarkennarans í stærðfræði við skólann. Skólastjórnin hafði auglýst það um nýárslevtið um veturinn, að öllum yngri og eldri stúdentum frá skólanum, það er að segja öllum þeim, sem próf höfðu tekið við skólann, skyldi gefinn kostur að keppa um stöðuna. Og skyldi sá kosinn, sem bezt leysti af hendi hið sérstaka próf, sem fyrir var lagt. En það var enginn hægðarleikur að leysa það verk af hendi. Það virtist nærri ókleift fyrir

hvern mann, sem ekki hafði lagt sérstaka stund á stærðfræði við aðra skóla eftir burtfararpróf frá Konkordia-skóla. Skjölum var útbýtt lysthafendum, þar sem verkefni prófsins var skýrt. Fyrst þurfti sá, er sótti, að leysa skriflega úr og sanna mörg erfiðustu dæmi stærðfræðislegra vísinda og í öðru lagi þurfti umsækjandi að semja ritgerð, er lýsti einhverri frumlegri hugsun stærðfræði viðvíkjandi. Það var talið víst, að margir hinna fyrri námsmanna skólans mundu sækja um embættið, því lítill efi var á, að það stóð til bóta og framtíð þess, er embættið hreppti, mundi borgið, eins og líka varð. Lysthafendur áttu að hafa framvísað skjölum sínum daginn eftir að skólanum yrði sagt upp, því um það leyti er öll skólastjórnin á staðnum. Nöfnum allra umsækjenda skyldi leynt og aðeins kunngert nafn þess, er hnossið hlyti.

Það þurfti meir en lítið þrek til þess, að nokkur úr þeim bekk, sem gekk undir próf það vorið, reyndi kennaraprófið, enda datt víst mönnum það almennt ekki í hug, en þó var ekki hægt að hafa á móti því.

Fyrst er að segja frá Frímann. Eins og áður var sagt, skaraði hann fram úr öllum öðrum í stærðfræði, og í þeirri grein treysti hann sér nærri takmarkalaust. Hann sló því þess vegna föstu með sjálfum sér, að sækja um embættið og reyna prófið, en láta engan vita af þeirri fyrirætlan sinni.

En af Lindal er það að segja, að þegar hann um nýárið heyrði, hvað til stóð, og sá opinn veg fyrir einhvern einn mann til embættis og frama, þá sló hann því líka föstu með sjálfum sér, að hann sjálfur og enginn annar skyldi verða sá maður, hvað sem það kostaði. Að sönnu var stærðfræðin ekki hans bezta námsgrein, en hann vissi vel, hvað hann átti undir sér, vissi að hann gat gert hana að sinni grein, og enn þá hafði hann aldrei tapað í nokkru tafli, sem hann vildi vinna. „Og fimm mánuðir“, hugsaði hann, „er langur tími, og ef

bæði er unnið dag og nótt, má mikið læra á fimm mánuðum“.

Það var margt, sem fýsti hann til að reyna að ná stöðunni og — frægðinni. Hann var efnalítill maður og honum duldist ekki, að þá bætti hann hag sinn meir en honum hefði getað hugkvæmzt, ef hann hlyti stöðuna. — Og svo var dóttir skólastjórans. Víst var það spor í þá áttina að standa henni jafnfætis, ef hann yrði kennari. Hver veit nema hann mundi þá einhverntíma komast svo hátt í lífinu, að hann gæti sagt henni allt, sem hann nú dreymdi um í vöku og svefni, sagt henni frá voninni, sem nú ekki þorði að vona.

Og svo afréð hann það, eins og upp á líf og dauða, að sækja um embættið og ná því.

Aldrei hefir maður gengið til verks með meiri alvöru og aldrei hefir maður lagt líf og sál í verk sitt meir en Líndal. Hann safnaði að sér öllum beztu kennslubókum í stærðfræði. Hann reiknaði öll dæmi, og ígrundaði orsakir allra hluta. Hann svaf ekki nema stund og stund. Og því meir sem á undirbúnings-tímann leið, því meiri kraft fann hann í sjálfum sér, og þegar hann tók að rita ritgerðirnar, sem hann ætlaði að leggja fram, fann hann, að hann var orðinn herra lærdómsins. Tíminn leið og verkinu var lokið; og hann vissi með sjálfum sér, að hann mundi hljóta hnossið. Nýtt líf kom í sálu hans. Hann fann sjóðheitt blóðið svella í æðum sér. Hann var í huganum orðinn kennari og hann var kominn svo undur nærri hugsjóninni háu, myndinni kæru: dóttur skólastjórans.

Allir höfðu verið svo önnum kafnir, að búa sig undir burtfararprófið, að enginn veitti því eftirtekt, þó Líndal sæist sjaldan utan herbergis síns. Námsmennirnir höfðu ekki um annað hugsað en prófin, og höfðu slegið slöku við allar skemmtanir og félagsskap. En svo kom dagurinn stóri, sem engum stúdent gleymist, dagurinn, þegar maður útskrifast. Þá var glatt á hjalla. Bekkur-

inn, sem útskrifaðist, gekk fram til að taka við skírteinum sínum, og bæði kennurum og nemendum þótti það undarlega viðhorfa, að hann, sem óneitanlega var langfremstur allra, Karl Líndal, skyldi ekki koma fram fyr en þeir allir voru fram gengnir, sem sérstaka virðingu höfðu hlotið við prófin, en hann hafði ekki keppt um það, og það var allt annað en vonbrigðasvipur á honum. Líndal var hinn kátasti allan daginn. Hann vissi, hver virðing sín biði daginn eftir. Þeir voru saman um stund seint um daginn vinirnir, Líndal og Frímann. Það lá svo vel á Líndal, að hann tók ekki eftir því, að áhyggjusvipur var á félaga sínum. Hann gat naumast stillt sig um að segja Frímann frá, hvað til stæði, en hann sat þó á sér og hló með sjálfum sér yfir tilhugsaninni um það, hversu mikil undrun og gleði Frímanns yrði næsta dag, þegar hann fengi að heyra allt, og að Líndal hefði hlotið kennarastöðuna.

Um kvöldið sat Líndal einn uppi í herbergi sínu og las yfir ritgerðir sínar, sem um morguninn áttu að afhendast prófdómurunum. Honum leið vel. Hann var svo öruggur. Í þessum skjölum var öll sál hans, allt líf hans. Öll tilvera hans var nú komin á pappír og undir þessum pappírsblöðum var það komið, hvort hann eiginlega héldi áfram að vera til eða ekki.

Svo var barið að dyrum. Líndal stakk skjölunum inn í skúffu og sagði „kom inn“ og inn kom Frímann, vinur hans.

Frímann settist niður og nú tók Líndal eftir því, að bæði var þreytusvipur á Frímann og taugaskjálfti. Þeir settust saman við arininn og Frímann sagði Líndal upp alla söguna, sagði honum, að hann hefði undirbúið allt til að reyna á morgun prófið og keppa um kennarastöðuna.

Það var gagn, að þeir höfðu dregið niður í ljósinu, áður en þeir settust við arininn, annars hefði Frímann líklega tekið eftir því, hvernig Líndal brá. Hann roðn-

aði, hann hitnaði og hann storknaði, en sat þó kyrr. Frímann dró svo upp stóran skjalabunka og lagði í hendur Líndals og bað hann að líta yfir þau. Hann sagðist reyndar naumast geta búist við því, að Líndal væri fær um að skilja þau algerlega, þar sem hann hefði ekki sérstaklega lagt fyrir sig stærðfræðina.

Líndal tók við skjölunum eins og í draumi, hann muldraði eitthvað, sem hann sjálfur vissi naumast hvað var. Frímann áleit geðshræringu hans stafa af því, að hann væri svo gagntekinn af hlutdeild í tilfinningum sínum.

„Vertu óhræddur, kunningi", sagði Frímann, eins og til að hughreysta Líndal, „þú skalt sanna það á morgun, að ég verð ekki vinum mínum til skammar; sendu mér skjölin aftur í kvöld með vikadrengnum, þegar þú ert búinn að líta yfir þau".

Og með það fór hann.

Líndal dró upp ljósið og settist við borðið og starði á skjölin. Fyrst gat hann ekkert áttað sig á neinu, sem þar stóð, en svo vaknaði smám saman eftirtektin hjá honum, og svo fór, að hann loks las með mesta áhuga, það vaknaði hjá honum sál vísindamannsins, og hann las og las og hann varð hrifinn af snilld og lærdómi Frímanns. Það leyndi sér ekki, að þetta var meistarastykki. Hann gat ekki annað en farið að bera skjöl Frímanns saman við sín eigin skjöl. Hann gerði sig að óhlutdrægum dómara, og því meir, sem hann bar skjölin saman, því betur fann hann, hve erfitt myndi verða að gera greinarmun á þeim. En svo kom hann loks að einni skýring í skjölum Frímanns á einni reglu viðvíkjandi reikning á fjarlægð stjarna, sem var skökk, og þá þurfti hann ekki lengur vitnanna við. Frímann hlaut að tapa, en hann sjálfur vinna. Hann stökk upp himinglaður, hringdi eftir vikadrengnum og sendi Frímann skjöl hans.

Nú vissi hann með sjálfum sér, að hann hlyti að

vinna hnossið, fyrst hann hafði sigrað jafnvel Frímann. Gleðin var takmarkalaus. Hann tók skjölin sín, vafði þau vandlega saman, og batt borða utan um þau. Svona skyldu þau fara í hendur dómaranna morguninn eftir, og þau skyldu sækja í þeirra hendur virðingu, embætti og að síðustu — hana. Hann strauk skjölin eins og móðir, sem strýkur um lokka barnsins síns, og varla hefir móðir elskað barnið sitt meira en Líndal unni þessu afkvæmi sínu; það var ekki einasta bein af hans beinum, heldur líka sál af hans sál.

En svo allt í einu var sem sverð nísti sálu hans. Það var hugsunin um Frímann. Frímann að tapa! Frímann vinur hans, bróðir hans, sviftast von sinni! Ó, guð komi til! Nei, nei, Frímann má ekki tapa. Svo margfaldaðist í huga hans sú sorg og kvöl og angist, sem yfir Frímann kæmi, ef hann tapaði — og tapaði fyrir sér. Líndal fannst, að hann myndi verða morðingi, ef hann tæki hnossið, framtíðina og lífið frá Frímann.

En yrði hann þá ekki sjálfsmorðingi, ef hann svifti sjálfan sig hnossinu, framtíðinni, lífinu? Hugur hans var svo æstur, að allt varð margfalt stæra en í raun og veru var. Hann gekk friðlaus um gólf. Því meira sem hann hugsaði um málið, því ljósara varð það, að annað hvort yrði hér að framkvæma morð eða sjálfsmorð. Því honum fannst það ómögulega geta orðið nokkurt líf fyrir þann, sem tapaði. Hvor þeirra átti að tapa? „Ef skjölin á borðinu koma fram, vinn ég“, hugsaði Líndal, „og ég hefi séð og lesið Frímanns skjöl, en hann veit ekkert um mig. Myndi Frímann hafa keppt, ef hann hefði vitað af mér? Nei, það hefði hann ekki gert. Frímann á forgönguréttinn. Hann vissi ekkert um mig. Það hvílir á mér einum að ráða fram úr“.

Nei, hann gat ekki, fyrst svona stóð á, sent skjölin sín. Hann gat ekki vegið svona að Frímann vini sínum. Væri það ekki svívirðilegt launvíg? Væri það ekki að stelast að honum og reka hníf í bak honum? Nei,

aldrei, aldrei skyldi hann bregðast vini sínum, aldrei, aldrei svíkja hann.

En var hann ekki gauð og gunga? Er þetta ekki vegur lífsins? „Enginn er annars bróðir í leik“. Hvers vegna skyldi hann víkja út af taflborði lífsins fyrir nokkurum manni? Hafði hann ekki á heiðarlegan hátt unnið taflið? Jú, vissulega. „Frímann sér um sig og ég um mig“.

En ósköp var þetta sárt!

Það var komið fram yfir háttatíma. Hann bjóst til hvílu. Biblían lá á borðinu. Hann hafði aldrei lagt sig svo fyrir, að hann ekki fyrst læsi kafla í biblíunni. Hann hafði vanizt því heima hjá móður sinni. Og þeim vana hafði hann haldið. Oft hafði hann lesið bara af því það var rótgróinn vani, en stundum hafði líka lesturinn hrifið hann og hann hafði beðið til guðs eins og barn. Af vana, vana, sem honum var orðinn eins eðlilegur eins og að hátta, opnaði hann biblíuna. Kveldið áður hafði hann verið að lesa skilnaðarræðu Jesú, og hafði gert blýantsstrik þar, sem hann hætti, líka af vana. Nú leituðu augu hans, einnig af vana, að blýantsstrikinu og blýantsstrikið stóð við þrettánda versið í 15. kap. Jóhannesar guðspjalls. Og hann las: „Meiri elsku hefir enginn en þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína“. Hann las ekki meira. Hann stökk á fætur og féll svo á kné. „Ó, guð minn góður, svo það ert þú, sem skipar mér þetta!“ Hann kraup þarna við rúmið, hvað lengi vissi hann ekki. Loksins lagðist hann upp í rúmið. En hann sofnaði ekki. Stundum var sem hann yrði yfirbugaður af svefninum. En bál hjartans rak svefninn frá honum. Alls konar myndir svifu fyrir augu hans: Frímann háskólakennari. Frímann vonlaus og útskúfaður. Sjálfur hann kosinn í æðstu stöðu. Og hún! Hún var óljós mynd, varla sýnileg, en þó svo skýr. Hvað átti hann að gera?

Undir morguninn sveif á hann svefndúr. En hann

vaknaði, hrökk upp við það, að honum heyrðist einhver segja: „Meiri elsku hefir enginn“. Hann fór ofan úr rúminu. Morgunroði var um austurloftið, glærar glóðir voru enn á arninum. Og á borðinu lágu skjölin hans. „Meiri elsku hefir enginn“ — „meiri elsku hefir enginn“.

Hann tók skjölin, gekk að arninum, andvarpaði og lét þau falla á glóðina. Það þaut upp bál. Hann horfði á það. Það stóð ekki á löngu. Bálið slokknaði, en aska var á glóðinni. Hann stóð og starði, og þar sem hann stóð og starði á ösku vona sinna, þornuðu upp allir brunnar sálar hans, stífluðust allar lindir lífs hans.

Þegar hann loks sneri frá arninum, var það annar maður. — Það var maður, sem misst hafði hæfileikann til að finna til.

Hann lagðist aftur upp í rúmið, og nú sofnaði hann óskaplega fast og svaf langt fram á dag.

Þegar hann hafði klætt sig og kom niður í skólann, komst hann að því, að allur skólalýðurinn var kominn í samkomusalinn, því þar sátu stjórnendur skólans og voru að yfirfara umsóknar- og prófskjöl þeirra, sem sóttu um kennaraembættið, og allir stóðu á öndinni, að fá að vita hvernig færi.

Líndal hafði enga tilhneiging til að fara þangað. Hann fór aftur upp í herbergi sitt og tók til farangur sinn. Hann skrifaði Frímann vini sínum fáeinar línur og sagðist þurfa að hraða sér heim til móður sinnar, og gæti ekki beðið eftir honum. Svo óskaði hann honum til hamingju með nýju stöðuna, sem hann þóttist viss um, að hann næði — sem líka varð raun á. Líndal fór svo burt af skólanum, áður en komið var af samkomunni. Hann fór heim til móður sinnar, en ekki til að ílendast þar. Hann gat ekki unað lengur á sínum gömlu stöðvum. Hann fór eftir fáa daga langt vestur í land. Hann fór um fjöllin og dalina vestur í ókunna landinu. Og hann settist að í einum dalnum milli fjall-

anna. Hann ruddi þar skóg og gróf þar málma. Hendurnar urðu harðar og svartar og hann varð lotinn í herðunum. Hann kom aldrei austur í 33 ár.

Frímann hafði haldið spurnum fyrir vini sínum og þráði lengi að sjá hann. Hann skildi ekkert í hinni skyndilegu burtför hans. En aldrei gat hann spurt hann uppi.

Smám saman sá Líndal fréttablöð og oft las hann þar í útlegð sinni um vegsemd og velgengni Frímanns. Og svo var það einu sinni, að honum barst dagblað, og í því var prentað símskeyti um dauða hins víðfræga prófessors. Og þá rumskaði sála hans, og þá fann hann aftur til. Og svo ferðaðist hann alla leið austur til Middleton til þess að vera við útförina, til þess að sjá hann dauðan, sem hann hafði lagt líf sitt í sölurnar fyrir.

Og þess vegna var hinn einkennilegi gamli maður staddur við útför stórmennisins.

Og þegar Líndal leit lík vinar síns, fylltust aftur brunnar sálar hans og losnuðu stíflur lindanna.

Þess vegna hrökk hann við, þegar presturinn las textann af stólnum. Og þess vegna leyndist hann enn við leiðið í rökkrinu og feldi sitt fyrsta sælutár.

Svo hvarf hann aftur á burt. Hvarf aftur inn í gleymskuna.

Það var til að kenna um elskunnar afl
og af öllu sé kærleikur beztur;
það var til að sýna, að tefla má tafl
og tapa — en vera þó mestur.

# Þorsteinn Þ. Þorsteinsson

## *LILJA SKÁLHOLT*

Lilja Jónsdóttir Skálholt var bæði sanntrúuð og barnslega góð.

Trú hennar færði kirkjan sér í nyt, og bjó til afbragðs safnaðarkonu úr henni, sem unni presti og kirkju af öllu hjarta, og safnaðarsystkinunum eins og sjálfri sér.

En gæðum hennar var misboðið af einum stráknum, sem á vegi hennar varð. Sá hét Pétur Davíðs, og var alræmdur æfintýramaður, auðnulítill, en þó vel af guði gefinn. Hann var aflraunamaður og kunni að nota hnefana flestum mönnum betur, en ákaflega ölkær og sólginn í veðmál og fjárhættuspil. Ódrukkinn var hann prúður í framgöngu, eða gat verið það. Greindur var hann talinn í betra lagi, og allt, sem hann snerti á, lék í höndum hans. Með þessum manni eignaðist hún dreng. Pétur var auðvitað einhverstaðar langt í burtu, þegar Lilja átti barnið á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, enda sá hún hann aldrei eftir það.

En Lilja hefði átt að geta varað sig á honum, því hann fór ekki í neina launkofa með bresti sína. En þegar ástin er annarsvegar, þá veit sá gjörst, sem reynir. Því ástin vill hafa það næst sér, sem henni þykir vænst um, og umber allt, jafnvel þótt trúarlærdómurinn maldi í móinn og siðalærdómurinn sé fokvondur.

Lilja bar kross sinn með stillingu. Hún ásakaði sjálfa sig að vísu og lofaði trúnni og siðferðinu að hefna sín á sér, en ást hennar fyrirgaf Pétri alla meðferðina og meðferðarleysið. Og hún elskaði drenginn sinn eins heitt og nokkur gift kona getur gert.

Stúfinn litla lét hún skíra Gizur, eftir Skálholts-biskupi þeim, sem seldi lærifóður sinn og landsfrelsi í hendur konungsþrælanna. Hún leit samt ekki á hann þeim augum, en skoðaði hann sem mætan forgöngumann þeirrar trúar, sem henni hafði verið kennd og hún unni. Og það mátti hún líka með sanni gera.

Hún hafði verið vinnukona í Skálholti síðasta árið, sem hún var á Íslandi, og þótt lítið væri eftir af fornri dýrð, þá var nafnið samt eigulegt, einkum þegar það gat komið í staðinn fyrir Jónsdóttir, svo hún festi það við heiti sitt og nefndi sig Lilju Skálholt, strax og til Winnipeg kom. Þetta nafn sitt gaf hún Gizuri litla, því þótt Pétur Davíðs væri kristilegt nafn, og Gizur Pétursson Davíðs gæti svo sem sómt sér hvar sem væri, þá fannst henni fara bezt á því að bendla drenginn sem minnst við föður sinn, því annars hlyti nafn hans stöðugt að rifja upp syndir hans og yfirsjón hennar, bæði hjá henni sjálfri og safnaðarkunningjakonum hennar, sem höfðu tekið óvanalega létt á broti hennar, rétt eins og þær skildu og þekktu, hve erfitt hefði verið að standa á móti Pétri.

Þess vegna var drengurinn aldrei kallaður annað en Gizur Skálholt, og seinast gleymdu menn því næstum, að nokkur annar en Lilja móðir hans ætti snefil í honum, enda hafði hún ein allt af honum að segja.

Með dæmafárri sparsemi, sem nú verður fágætari með hverju líðandi ári, hafði hún dregið saman nokkur hundruð dali af kaupi sínu, þessi fáu ár frá því hún kom frá Íslandi og þangað til hún eignaðist Gizur litla. Eitthvað hafði Pétur Davíð ódrýgt það fyrir henni í sparisjóðsbókinni, meðan þau þekktust bezt, en þó ekki meira en svo, að hún gat keypt sér lóð og látið byggja á henni ofurlítið hús með flötu þaki, handa sér og barninu að búa í. Og þar sem lóðir voru í lágu verði þá í Vestur-Winnipeg, timbur ódýrt og verkalaunin ekki

há, þá byggði hún þetta litla heimili sitt næstum skuldlaust.

Eftir það var hún aldrei kölluð annað, manna á milli, en Lilja í „Shantanum“.

Hún vandaði uppeldi sonar síns að öllu leyti eins mikið og þekking hennar náði. Meira er ei sanngjarnt að heimta af neinum, þótt það sé daglega gert.

Hún var drengnum eins góð og nokkur móðir getur verið. En hún bannaði honum margt og mikið. Og lét hann ekkert leika sér með öðrum börnum til þess að fyrirbyggja, að hann lenti í illum solli og lærði ljóta siði. Með því hugðist hún geta varðveitt barnssálina óspillta frá strætavolkinu, svo hún þyrfti aldrei að líta þann dag, sem hún sæi soninn líkjast föðurnum í slarki og slæmu líferni. Ef til vill gat hann líka sótt eitthvað ljótt í hennar ætt, því hún var komin frá Hallbirni hálftrölli, sem var heiðinn sem hundur. Og þeir Borgarfrændur hennar höfðu haft það til að vera ærið uppivöðslumiklir og harðir í horn að taka. Samt lét hún son sinn lesa Eglu, þegar hann hafði aldur til, en notaði sögusagnir hennar mest til að vara drenginn við að feta í fótspor forfeðranna, hvað ófrið og yfirgang snerti.

Drengurinn var frábærlega efnilegur og fjörugur og fyllti hús móður sinnar með hljóðum sínum, þegar hann fékk ekki að fara út á strætið til hinna barnanna að leika sér. En móðirin gaf því engan gaum. Hún varð að vernda jarðneska og eilífa velferð barnsins síns, hvað sem tautaði og raulaði, svo það varð að gera sér að góðu að horfa á hin börnin út um gluggann, því ef því var hleypt út, var einhver litli freistarinn óðar kominn til þess og búinn að lokka það út í sollinn, áður en móðirin hafði litið við.

Lilja gekk í kirkjuna sína á hverjum sunnudegi og stundum tvisvar og hafði Gizur æfinlega með sér. Og frá því hann gat talað sæmilega og hlaupið óstuddur í

kring, lét hún hann stöðugt ganga á sunnudagaskólann. Hún fylgdi honum þangað og sótti hann, þegar skólinn var úti, til þess að vera viss um, að sonur sinn lenti ekki í sollinn. Inni í kirkjunni vissi hún, að honum var óhætt, enda beið hún stundum sjálf þar eftir honum.

Þetta stöðuga eftirlit og ófrelsi gerði drenginn lúpulegan. En hann lærði ótakmarkaða hlýðni við móður sína; sem nú á tímum er afar sjaldgæf.

Eitt af því, sem móðirin innrætti syninum stöðugt, var fyrirgefning og kærleikur til annara manna. Þótt aðrir væru vondir við hann, átti hann samt að vera góður við þá, fyrirgefa þeim og elska þá. Ef strákarnir stríddu honum, átti hann ekki að svara illu til, og þó þeir lumbruðu á honum, átti hann ekki að taka á móti, né bera hönd fyrir höfuð sér.

Þessa meginreglu kristindómsins ætlaði hún sér að gróðursetja í hjarta drengsins, og henni tókst það vonum framar, miðað við það andrúmsloft og umhverfi, sem þau lifðu í.

Þótt Lilja bannaði drengnum umgengni og leiki með þeim börnum, sem hún þekkti ekki, eða þekkti að einhverju misjöfnu, fór því fjarri að hann mætti ekki leika sér eins mikið og hann vildi inni í húsinu, eða í garðinum kringum það. Og hún keypti ýmiskonar leikföng handa honum, meðan hann var lítill, og ýmsa nytsama hluti til líkamsæfinga, þegar hann stækkaði. Vöðvar hans og taugar stæltust því og stækkuðu, þótt hann flygist aldrei á né berðist við aðra drengi, eins og oft á sér stað með drengi. Enda var hann stór og sterkur eftir aldri, skynugur að skilja og leysa úr spurningum og fljótur að læra. Þessir hæfileikar hans komu skjótt í ljós á sunnudagsskólanum, en enn betur þegar hann fór að ganga á barnaskólann. Honum gekk þar ágætlega, en ekki aflaði hann sér vinsælda meðal margra skóladrengjanna, því flestir þeirra litu á hann

sem rolu, sem hvorki kynni né þyrði að berjast, þótt hann væri barinn, né jafna hluta sinn við nokkurn mann. Telpunum fór eins. Þær settust því á hann. Þær álitu hann raggeit og ómenni, þegar hann flýði undan strákunum, eða lét þá skella sér án þess að veita viðnám. Honum varð því ekki mikil ánægja að félagsskap skólabarnanna og eyddi mestum tímanum heima hjá móður sinni, eins og hún raunar bað hann að gera og ætlaðist til að hann gerði. En strákarnir stríddu honum því verr, og léku hann þess grárra, sem hann forðaðist þá meira.

Ekki var móður hans ókunnugt um, hvernig sakir stóðu. Hann hafði of oft komið heim með kúlu eða bláan blett til þess. Og heim að kofanum hennar höfðu hrópin of oft fylgt honum, til þess að hún skildi ei fullvel, að fyrirgefning og umburðarlyndi var ekki skoðað nein glæsimennska hjá uppvaxandi kynslóðinni. Hún skildi nóg í ensku til að skilja flest nöfnin, og þau, sem hún þekkti ekki, vissi hún hér um bil hvað áttu að merkja, sökum hljómsins og látbragðsins, sem þeim fylgdi.

En Lilja var kona, sem breytti ekki um stefnu, þegar hún vissi að hún var á réttum vegi. Hún bað Gizur sinn að gæta sín því betur og reiðast ekki strákunum, þótt þeir létu svona. Þeir væru svo ungir og vitlausir hvort sem væri, að þeir vissu ekki hvað þeir gerðu. Og drengurinn játti þessu af vana, og hefir líklega fundið, að þetta var rétt, þótt það væri ekki almennasta siðareglan. Hann hlýddi umyrðalaust. Það var að eins eitt, sem hann gat ekki gert við: hann reiddist ofurlítið, þegar hann var leikinn verst, en hann var orðinn svo vanur við að láta reiðina sjatna án þess að svala henni, að engir urðu þess varir.

Lilja hafði kviðið fyrir þeim degi, er hún þyrfti að senda son sinn á barnaskólann, og haldið, að áminningar sínar myndu gleymast í ærslalátunum, eins og svo

oft á sér stað. Hún varð því fegnari en frá megi segja, að hún smám saman komst að raun um, að grundvallarreglur sínar gengu sigri hrósandi af hólmi í hverju einvígi og sálareldraun, sem drengurinn hennar varð að heyja. Samt komu þær hugsanastundir, er hún var ekki ugglaus um, að Gizur nyti ekki þeirrar æskugleði og skemmtana, sem ungdómnum gæti verið holl að sumu leyti, og fæst í leikum og samveru jafnaldranna. En þá komu fram í huga hennar freistingar og hættur stórborgalífsins, sem bentu fyrst sem brosandi englar á bannaða ávexti, en urðu, þegar upp komst, að svörtum púkum sektar og hegningar. Hún fór því sínu fram, en reyndi að vera drengnum allt í öllu, og vildi allt fyrir hann gera, sem hún áleit að gæti orðið honum til góðs.

Gizur var fæddur seint í marzmánuði.

Frá því hann mundi eftir, hafði móðir hans haldið upp á afmæli hans, gefið honum eitthvað nýtt og nýtilegt, og haft ofurlítinn glaðning og boðið fáeinum kunningjum daginn þann.

Það var fjórtándi afmælisdagurinn hans, og hann átti að fermast þá um vorið, og útskrifast úr barnaskólanum.

Honum gekk jafn vel að fræðast í kristindóminum og lærdómsgreinum barnaskólans, og presturinn hélt heilmikið upp á hann, engu síður en kennararnir.

Móðirin var fyrir löngu orðin stolt af honum, og áleit hann beztu gjöfina, sem guð hefði getað sent sér, jafnvel þótt hann kæmi ekki undir innsigli hjónabandsins.

Þennan morgun, áður en Gizur fór í skólann, gaf hún honum vönduð föt, sem hann klæddi sig í, og ljómandi fallegt úr í vasann og festi, sem var bæði til sýnis og til að festa það við sig. Hann hafði aldrei fengið eins

dýrmætar afmælisgjafir, og var í sjöunda himni, meðan hann gekk í krapelgnum og hlákunni til skólans.

Lilja hafði í mörgu að snúast þennan dag, þótt hún snerti ekki á saumaskapnum, sem hún annars var vön að stunda frá morgni til kvölds, með þeim árangri, að hún átti ekki einungis litla húsið sitt skuldlaust fyrir löngu, og hafði keypt ágæt húsgögn í það, heldur hélt hún sig og drenginn í bezta lagi, og var svo veitandi, að hún hjálpaði oft þeim, sem þurftu þess með, svo þá munaði það stórum, auk þess sem hún var ætíð boðin og búin að leggja allt í sölurnar fyrir kirkjuna sína, hvort sem það var fé eða vinna, sem æskt var eftir.

Í dag hugsaði hún að eins um það eitt, að baka sem mest og bezt kaffibrauð og tilreiða ýmislegt góðgæti, því hún ætlaði að hafa ofurlítið afmælisgildi heima hjá sér, þegar Gizur kæmi af skólanum, eins og hún var vön við það tækifæri.

Hún hafði lokið öllum undirbúningi, nema að hella kaffinu í bollana. Allt var til. Hún og fáeinar vinkonur hennar úr söfnuðinum sátu saman og biðu. Klukkan var fjórða part eftir fjögur. Gizur hefði átt að vera kominn heim fyrir nokkrum mínútum, ef að vanda léti, ásamt einum íslenzkum skólabróður sínum, Vilhjálmi Haraldssyni Horn, ættuðum af Vestfjörðum, og æfinlega kölluðum Villa. Gizur og hann voru mestu mátar, og hafði Lilja lofað drengnum að bjóða honum heim með sér að gamni sínu.

Villi var tveimur árum yngri en Gizur, en mesti snegluhnokki, snarsnúinn og fylginn sér, sem hafði það úr ættinni að halda meira upp á boð gamlatestamentisins en þess nýja, og galt „auga fyrir auga“ og „tönn fyrir tönn“, en bauð aldrei óslegnu kinnina til höggs, ef búið var að slá hann á hina, og fyrirgaf hvorki sjö sinnum eða sjötíu sinnum, hvað þá heldur þá tölu margfaldaða. Ef honum var skellt, þá fyrirgaf hann ekki fyrr en hann var búinn að skella aftur, og ef hann

var skammaður, þá skammaðist hann aftur, og þegar hann var barinn, þá barði hann aftur, og reyndi að hafa það ekki minna, ef kraftarnir leyfðu.

Eins ólíkir og þeir voru í þessu, drengirnir, þá myndaðist samt einlæg vinátta á milli þeirra. Villi dáðist að langlundargeði Gizurar, því að hann var honum nógu kunnugur til að skilja, að meinleysi hans stafaði hvorki af hræðslu né ræfilsskap, heldur blátt áfram af ótakmarkaðri hlýðni. Þá hlýðni fannst honum hann ekki myndi geta sýnt, þótt gengið yrði næst lífi hans. Og Gizur gat ekki annað en dáðst að hugrekki og dugnaði Villa, sem hopaði aldrei undan um hænufet, þótt óvígur her sækti að honum. Það var víst eitthvað niðurbælt í sál hans, sem langaði ósköpin öll til að vera eins og Villi, en helzt eins og hetjan forna, bóndinn og skáldið, hann frændi hans, sem uppi var fyrir eitthvað þúsund árum síðan, og óskaði sér strax á drengjaárunum að „fara á hring með víkingum“, og „höggva mann og annan“.

Þótt undarlegt kunni að sýnast, þá hafði Lilja ekkert út á það að setja, að drengirnir legðu lag sitt saman. Gizur var eldri og þroskaðri, og því líklegur til að hafa meiri áhrif á Villa heldur en Villi á hann. Ef til vill lifði líka einhver snefill af þúsund ára gömlum víking í henni. Að minnsta kosti hélt hún einkennilega mikið upp á Villa, og gat séð í gegnum fingur við hann; þótt hún vissi að hann lenti oft í margri rimmunni. Auðvitað hefði hún grátið sig þreytta, ef Gizur hennar hefði verið annað eins bardagafífl, því það hefði minnt hana svo átakanlega á hann föður hans, sem hann átti að ólíkjast sem mest. En mestu hefir ef til vill valdið kunningsskapur hennar við móður hans, hana Minervu Þórðardóttur Horn, sem vinirnir kölluðu Mínu, ókunnugir Mrs. Horn, en óvildin og öfundin kallaði sín á milli Mein-Horn.

Minerva var ein þeirra góðkunningja Lilju, sem nú

sátu saman í öðru framherbergi litla hússins hennar og biðu þeirra félaga.

Það fór ljómandi vel um þær allar saman, þar sem þær sátu á ágætis fjaðrastólum og röbbuðu saman um komandi vor, atvinnu karlanna sinna og inntektir frá þeim, og kjólana sína og kristindóminn hjá yngstu kynslóðinni.

Það er svo margs að minnast hjá þeim, sem sjaldan sjást, og þótt fólk hittist oft, þá endist tíminn vanalega ekki til að segja helminginn af því öllu saman, sem þyrfti og ætti að segjast, og hinn helmingurinn gleymist svo alveg við það, að geta ekki komið einu sinni út úr sér fyrri helmingnum, svo að það verður seinast ekki nema tæpur helmingur af helmingnum, sem hægt verður að tala um.

Lilja hafði sett sig niður hjá konunum fyrir stundarkorni, og var rétt í þann veginn að standa á fætur og gá út um gluggann, hvort Gizur kæmi ekki, en á sama augnabliki brotnaði stóra rúðan og inn flaug dálítil snjókúla, sem hafði verið marghnoðuð saman úr hálfbráðinni fönninni, unz hún hafði orðið næstum eins þung og þétt og blýkúla.

Margir hlutir gerðust nú í einu.

Kúlan þaut með þyt miklum gegnum herbergið og klesstist inn í vegginn á móti. Til allrar hamingju hitti hún ekki neitt höfuðið fyrir sér á leið sinni, þótt ærið flygi hún nærri þeim. Saman við kúluhvininn blandaðist brothljóð frá glugganum og rúðubrotunum, sem hrundu niður á gluggakistuna og ofan á gólfið og brotnuðu aftur í smáagnir með nýjum söng. Og inn í þennan skarkala ófust upphrópandi fyrirbænir kvennanna, sem allar höfðu stokkið á fætur eins og þær hefðu séð mús.

Þegar karlmönnum verður bilt við, verður þeim mörgum á að blóta, og bæta þannig gráu ofan á svart. En hver ein og einasta af konunum mælti eitthvað

fallegt af munni fram og bað fyrir sér, þegar ósköpin dundu á.

„Ó, Jesús minn!“ hrópaði Lilja upp yfir sig, og horfði undrandi spurningaraugum til skiftis á gestkomandi konurnar.

„My goodness!“ kallaði Minerva upp og starði út í brotinn gluggann.

„Æ, guð minn góður!“ hljóðaði Sigga á Sargent.

„Gracious!“ æpti Domma á Dominion.

„Almáttugur!“ hvein í Öllu á Alverstone.

En Vigga á Victor sagði bara „Holy Smoke!“

Og svo hlupu þær allar út að glugganum til að sja, hvað um væri að vera.

Á miðju strætinu stóðu þrír drengir, sem hnoðuðu snjókúlur í ákafa, og sóttu að þeim félögum, Gizuri og Villa, af móði miklum. Var skothríðin hin harðasta og þykk sem skæðadrífa. Frá einhverjum þessara þriggja hlaut kúlan að hafa komið, sú er rúðuna braut.

Lilja þekkti að eins einn þeirra, Tom Collins að nafni, sem átti heima spottakorn fyrir sunnan hana í strætinu, og hafði allt af verið ertinn við hana og son hennar. Máske sökum þess að hún leyfði Gizuri aldrei að leika sér við hann; eða hann hefir álitið að „shanta“-fólk ætti ekki betra skilið.

Tom var fullra sextán ára að aldri og lítið eitt stærri en Gizur; en var nú í sama bekk og hann í skólanum, þótt hann byrjaði námið tveimur árum á undan honum. Hann var mesti óróaseggur, áflogagarpur og bardagamaður, en virtist minna hneigður til náms. Hinir drengirnir voru á reki við Gizur.

Tom hafði oft leikið Gizur grátt.

Fyrir fjórum árum hafði það eitt sinn skeð, að Gizur hafði komið skælandi heim til móður sinnar undan honum. Þá hafði Tom ráðizt á hann á leiðinni heim af skólanum og rekið honum rokna högg á kinnina, svo hún var stokkbólgin. Þá hafði Gizur verið æstur og

spurt móður sína, hvort ekki væri réttast að hann tæki barefli með sér næsta dag og lemdi hann með því, ef hann réðist á hann aftur.

Móðirin bað góðan guð að varðveita son sinn frá slíkum óguðlegum hugsunum, og sagði, þá sem endranær, að illt ætti að launast með góðu. Svo bakaði hún ofurlitla köku, sem var samsett af flestu því sælgæti, sem drengjum þykir bezt, og bað Gizur sinn að færa honum kökuna með svohljóðandi orðum:

„Þessa köku sendir móðir mín þér, og segir að ég eigi æfinlega að launa illt með góðu“.

Næsta dag kom Gizur heim aumari en daginn áður, því ómeidda kinnin var nú orðin enn verri útlits, en hin hafði nokkurn tíma orðið.

„Og hver barði þig núna, aumingja Gizur minn?“ spurði móðirin, sár og forviða.

„Tom“, svaraði drengurinn kjökrandi. „Hann sagði mér að flýta mér heim til þín og sækja aðra köku fyrir-seinna höggið“.

En Lilja sendi Tom ekki fleiri kökur, en bað son sinn að forðast hann sem heitan eldinn. En það var hægra sagt en gert.

Strætið, sem Lilja bjó á, var svo vestarlega í Winnipeg, að það var ekki búið að asfalta það, þegar þessi saga gerist. Stóð ávalur leirhryggurinn upp úr miðju þess, en beggja megin við hann voru dældir fylltar krapavatninu, sem hafði ei ennþá fengið framrás í neðanjarðarpípurnar, sem undir strætunum liggja, og allt óþarfa vatn rennur eftir út í á.

Tom Collins var á hnéháum togleðursstígvélum og óð líka elginn upp að hnjám. Varði hann og félagar hans þeim Gizuri veginn heim að húsinu. Hafði Gizur sig lítið í frammi; en tók kúlurnar á lofti og kastaði þeim til Villa, eða hann vék sér undan þeim. Villi þvert á móti barðist af alefli, og kastaði kúlunum eins og berserkur, en hirti ei um, og hafði ei heldur tíma til,

að henda þær á lofti né víkja sér undan þeim, svo hann var allur á að sjá eins og hreyfanleg snjókerling, sem töframáttur fyrstu vorvindanna hefði vakið og magnað og sett í algleyming.

„Þú mölvaðir gluggann, Tom-kötturinn þinn og skemmdarskrímslið“, heyrðu konurnar inn um brotnu rúðuna að Villi sagði um leið og hann kastaði blautum snjónum í stórum kökkum að óvinum sínum, því hann hafði engan tíma lengur til hnoða fönnina í kúlur í öðru eins návígi. Tom og félagar hans voru nú farnir að færa sig upp á gangstéttina og vörðu þeim Gizuri húsið.

„Þú lýgur þessu, íslenzka illfyglið þitt“, heyrðu konurnar að Tom sagði öskrandi á móti. „Þú mölvaðir hana sjálfur, því allt, sem þú snertir, fer í öfuga átt hjá þér og utan hjá, útlendi og útglennti aulabárðurinn þinn“. Svo hló hann storkandi hlátri, rak út úr sér tunguna og glennti sig allan í framan.

Ekki væri rétt frá atburðum skýrt, ef sagt væri að Villi hefði ekki svarað og launað fyrir sig. En hann hafði lítinn umhugsunartíma til að búa það, sem hann ætlaði að segja, í falleg lýsingarorð. Orðin komu því út úr honum óhefluð og í kökkum eins og hálfbráðna, kolgráa fönnin, sem hann henti óspart úr höndum sér í féndur sína.

Konurnar við gluggann hröðuðu sér nú fram í dyrnar til að skakka leikinn. Gekk Lilja út á pallinn og kallaði á þá og bað þá að hætta, en Tom svaraði með því að kasta kúlu, sem hann hélt á í hendinni, í höfuð hennar. Klesstist sumt af henni í hárinu, en meiddi hana lítið, því bardagamaðurinn hafði ei gefið sér tíma til að hnoða hana fast. Sentist afgangurinn í ótal pörtum á hinar konurnar, og ráku þær allar upp óp mikið. Tom skellihló. Og til þess að gera endahnút leiksins sem harðastan og eftirminnilegastan, þá greip hann aftan í Gizur, sem nú reyndi að sæta lagi og komast

upp á pallinn, og áður en nokkrum togum skifti, fleygði hann honum flötum á kaf ofan í elginn og buslaði síðan hróðugur yfir um strætið til félaga sinna, sem þangað voru komnir. Var glatt á hjalla hjá þeim, þegar þeir gengu sigri hrósandi suður strætið.

Villi ætlaði óðar að stökkva á eftir þeim, óefað til að reyna að hefna ófara félaga síns, þótt slíkt væri óðs manns æði, en móðir hans kallaði á hann, svo að það varð ekkert af eftirförinni.

Konurnar hlupu óðara til liðveizlu við Gizur, en hann var skriðinn upp úr pollinum til þeirra, áður en hann þyrfti hjálpar við, og leit út sem hundur af sundi dreginn. Tók móðir hans hann í snatri inn í húsið og lét hann hafa fataskifti. Náði líkami hans sér fljótt eftir hrollinn í krapabaðinu og úrið gekk eftir sem áður, en nýju fötin hans vildu eigi láta huggast þann daginn, og hvorki hann né gestirnir náðu eðlilegri glaðværð sinni, það sem eftir var dagsins, þótt veitingar væru ágætar.

Orsök stríðsins hafði verið sú, eftir því sem Villa sagðist frá, meðan Gizur var að hafa fataskifti, að Tom og félagar hans höfðu farið að kasta snjó í þá, og kallað þá „systurnar“ og „blauða Íslendinga“.

Nafnið „sissy“, sem skrípað er úr enska orðinu „sister“, er stríðnisorð, sem notað er um drengi, sem meinlausir eru, og þykja líkjast meira systrum en bræðrum í fasi. Var nafn þetta fyrir löngu síðan orðið fast við Gizur í skólanum, og eins margir, sem nefndu hann því nafni og skírnarnafninu, sem vildi vöðlast fyrir enskumælandi tungum.

Gizur var orðinn auknefninu svo vanur, að hann lét meiningu þess sem vind um eyrun þjóta. Og eins var í þetta sinn. Hann var að eins að hugsa um, að komast sem fyrst heim til móður sinnar og afmælisgestanna, og gat jafnvel fyrirgefið Tom og félögum hans snjókastið, því hann vissi, að freistingin var mikil að hnoða kúlur og kasta þeim, þegar fönnin var í þess-

um hann. En það var öðru máli að gegna með Villa. Hann hataði „sissy“-nafnið eins og sjálfan ósómann, og þegar fleiri köpuryrði fylgdu því og snjókast í kaupbæti, þá var honum meira en nóg boðið. Hann tók á móti, hvað sem Gizur sagði, og kastaði bæði kúlum og kalsi til baka og reyndi að hafa það ekki minna né meinlausara. Þannig hófst styrjöld sú, sem endaði ekki fyrri en heima við hús Gizurar, á þann hátt sem fyrr er frá sagt.

Það varð mikið umtal um atburð þennan hjá konunum við kaffiborðið. Gizur og Villi hlustuðu á. Aðkomukonurnar vildu láta klekkja á Tom, en Lilja vildi fyrirgefa.

Minerva Horn sagði:

„Ef ég væri þú, góða mín, þá skyldi ég fara heim til foreldra hans og klaga hann svo duglega, að þau yrðu fegin að borga fyllilega fyrir brotið á rúðunni, þó maður sleppi nú alveg meðferðinni á Gizuri litla“.

„En ég er nú svona gerð, að mér fyndist það ekki kristilegt“, svaraði Lilja með hægð.

„Annað væri þá hægt að gera“, mælti Sigga á Sargent, „og það er að klaga hann fyrir lögreglunni, og vita, hvort strákurinn þyrfti ekki að lækka seglin“.

Lilja svaraði:

„Ég hefi lifað í friði hingað til. Sælir eru friðsamir“.

Þá tók Domma á Dominion svo til máls:

„Ó, Lilja! Þú mátt ekki vera svona bókstaflega eftirgefanleg. Strákurinn elzt upp í þessu, og verður verri fyrir það að honum líðst að skemma fyrir fólki“.

„Ekki finnst mér að ég eigi sök á því, né það ætti að reiknast mér til syndar“, mótmælti Lilja.

En Alla á Alverstone andæfði henni:

„Jú, víst yrði það þín sök, Lilja! Og það verður þín sök, góða mín, ef hann Gizur barna, eins efnilegur og hann er, lærir ekki að bera hönd fyrir höfuð sér, og

verður svo mikil gæðarola, að allir óþokkar ganga á honum".

„Þið ætlið þó ekki að fara að kenna mér, að nú á þessum síðustu tímum sé það ljótt að vera vænn og friðsamur maður", mælti Lilja með vaxandi hugarhita og vott um geðshræringarroða i kinnunum. Henni sveið það sárast að Gizur heyrði á þessar samræður. „Þið gefið mér ástæðu til að halda, að kjarni kristindómsins hafi ekki komizt ýkja langt inn i hjörtu ykkar, kæru safnaðarkonur".

Konurnar litu hver til annarar, og það hnussaði í einni eða tveimur yfir þessum getsökum Lilju, en Vigga á Victor tók til máls:

„Þú skilur okkur bara ekki, bezta Lilja mín", mælti hún nokkuð áköf og bar ört á. „Við viljum reyna að vera eins góðar og við getum, án þess þó við viljum láta fara illa með okkur. Ég er viss um að Winnipegborg, miðað við mannfjölda, er ein allra siðferðisbezta borgin í allri Norður-Ameríku, og strang-krístin í ofanálag. Og þó heyrði ég enskan prest segja um daginn, að hann væri viss um, að ef Kristur kæmi hingað nú og prédikaði á sama hátt og hann gerði á Gyðingalandi fyrir nitján öldum siðan, þá yrði hann tekinn fastur, dæmdur sekur og sendur í þrælavinnu vestur í Stony Mountain. — Þarna sérðu nú, góða mín! Það er þó ekki til neins að vera betri en lögin eru í landínu, sem maður býr í. Við verðum öll að sjá okkur farborða, því ekki gera aðrir það. Og guð hjálpar þeim aðeins, sem hjálpar sér sjálfur. Ég ætti að vita það! Og lyttur er sá, sem ekki fylgir landssiðum. Og þess vegna segi ég það, að það er hægt að vera of góður og meinlaus í þessum heimi, og það er hægt að ala börnin sín of vel upp í þessu tilliti. Við þurfum öll að læra að bíta frá okkur. Og þarna hafið þið mína meiningu, og hananú!"

Gestirnir gerðu góðan róm að máli hennar. Hvar stæðu þær nú, þessar konur, i sjálfsvirðingu og al-

menningsáliti, ef þær hefðu ei stöðugt verið á verði að bíta frá sér. Auðvitað launað gott með góðu, þegar það góða var þá gott, en ekki úlfur í sauðargæru, en borgað líka illt með illu. Höfðu þær kannske ekki þurft að bíta frá sér í æskunni, en einkanlega eftir að þær urðu að ungum og gjafvaxta meyjum? Já, og einnig eftir að þær voru giftar. Jafnvel í véum hjónabandsins. Æ, í sjálfum söfnuðinum. Alstaðar. Það var satt — of satt — þetta sem Vigga sagði, þótt hún léti allt fjúka — jafnvel „holy smoke“!

Lilja svaraði fáu, en hélt þó uppi samtalinu með því að malda í móinn. En hún hugsaði þess meira, þegar gestirnir voru farnir. Hún íhugaði það, sem konurnar höfðu sagt, það sem eftir var kvöldsins, og hún vaknaði upp um nóttina og fór að hugsa um það og varð andvaka. Og hún hugsaði um það næsta dag og daginn þar á eftir, og marga komandi daga.

Hafði hún alið Gizur sinn „of vel upp“? Var það, sem hún áleit æðst af öllu, skaðlegt og óframkvæmanlegt, þegar á herti í lífsbaráttunni?

Hún minntist ekki á þessar hugsanir sínar við son sinn, en þær angruðu hana því meira, sem hún gruflaði lengur yfir þeim í einrúmi. Henni lék líka grunur á, að mótmæli þau, sem vinkonur hennar höfðu hafið gegn meinleysi hennar, á afmælinu hans, hefðu grafizt inn í sál hans, svo nú mundi vera vaknaður efi í huga hans um það, hvort það væri æðst af öllu að fyrirgefa skilyrðislaust. Þótt hann hlýddi henni í öllu, þá hlaut hann að hafa hugsað um það, að þarna voru fimm vel metnar safnaðarkonur, sem ekki voru á sama máli og hún, höfðu jafnvel vítt þau mæðgin fyrir aumingjaskapinn, eða meinleysið svonefnda: að láta ganga á sér. Ekkert var því líklegra en honum fyndist, að þær hefðu réttara fyrir sér en móðir hans. Að vísu hafði hann ekki minnzt á þetta við hana, því hann var dulur að eðlisfari, eins og margir Íslendingar. En

þegar smiðurinn, sem setti nýja rúðu í gluggann þeirra, hafði sagt við hann, að „þetta ætti sá að borga, sem brotið hefði“, þá hafði hún heyrt son sinn svara: „Já, hann á fyrir því, að honum væri lúskrað svo um munaði“. — Svona hafði hún aldrei áður heyrt son sinn tala. En hún gat einhvernveginn ekki fengið sig til að tala um þetta við hann. Hún gat ekki gert sér grein fyrir, hversvegna það var. Og verst af öllu þótti henni, að sjálf gat hún ekki að öllu leyti fyrirgefið Tom í hjarta sínu, þótt það liti svo út á yfirborðinu, og hún léti hann afskiftalausan. Hún gat fyrirgefið rúðubrotið af öllu hjarta, en það gekk allt báglegar með kaffæringuna á Gizuri og nýju fötunum í krapinu. Og þegar hann skældi sig framan í þau og kallaði þau ónöfnum, þá ólgaði gremjan í brjósti hennar og henni sveið undan óréttinum. Auðvitað var Tom aðeins drengur og hún taldi sér trú um, að hún hlyti að geta fyrirgefið honum, en um leið, í hvert skifti, gægðist sú ósk upp í huga hennar, að hún þyrfti aldrei framar að líta hann augum. Hann var líka miklu ágengari og ósvífnari eftir að hafa leikið þau svona grátt, án þess að hann þyrfti að óttast minnstu hegningu.

Það var eins og það væri allt saman hvað upp á móti öðru.

Lífsskoðun, sem var næstum æfilöng og nátengd trú hennar, og fjórtán ára gamlar uppeldisreglur, sem hún hafði byggt á bjargi vissunnar, voru farnar að riða til, því bjargið hafði losnað.

Í vandræðum sínum fór hún loksins til prestsins síns, síra Leifs Bessasonar, og sagði honum frá áhyggjum sínum yfir uppeldi sonar síns, og bað hann heilræða.

Presturinn var ljúfmenni og tók henni vel, en var seinn til svars.

„Það er máske oftast nær hægra að kenna heilræðin en halda þau, en að gefa svo holl ráð í uppeldismálum, að þau geti átt alstaðar við, það er meiri vandi en ég

er fær um að leysa", tók prestur loks til máls. „Þó mun lífsreynsla mannanna sýna, að meðalhófið sé farsælast. Sá, sem getur þrætt meðalveginn, gengur aldrei fjarri götu gæfunnar. Jafnvel ástin sjálf, og kærleikurinn, sem er mestur í heimi, geta leitt til lasta, á sinn hátt, eins og hatrið og harðýðgin, ef hófs er ekki gætt. Eilíf eftirlátssemi og sífellt langlundargeð við þá, sem ekki breyta rétt, verður að böli. Hófleg hegning er réttlæti. Ef einhver kæmi hér inn í stofuna og ætlaði að ræna mig, þá reyndi ég að varna honum þess, ef ég gæti. Og ef hann réðist á mig, þá tæki ég á móti og gerði það sem ég gæti. Ég er nú ekki betri maður en þetta, Lilja mín! Og mín skoðun er sú, að ef ég ekki reyndi að verja mig, þá væri ég ekki maður, heldur ræfill".

„En væri það nú að breyta alveg eftir guðsorði, síra Leifur?" spurði Lilja áköf, og néri saman höndunum, þótt hlýtt væri í dagstofu prestsins.

„Já, hreinskilnislega sagt, þá finnst mér það, Lilja mín", svaraði prestur með gætni, og fitlaði óafvitandi við úrkeðjuna sína.

„Ojá! En mér finnst nú samt þetta ekki vera sá sanni fyrirgefningarandi, sem talað er um í guðsorði. Ég hefi líklega ekki skilið hann rétt", svaraði Lilja og andvarpaði.

Síra Leifur mælti:

„Skilningur okkar virðist fara dálítið eftir geðslagi okkar og eðlisfari, þótt guðsorðið sé eitt og það sama. Við skiljum hitt og þetta á okkar eigin hátt, eftir upplagi hvers og eins, virðist mér. Annars situr ekki á mér að andæfa þér í þessu, Lilja mín. Þú hefir breytt eftir beztu samvizku og meira er ekki hægt að heimta. Ég álít, að ekki sé hægt að ætlast til af neinum, að hann sé betri við aðra, en hann vill að aðrir séu við sig. Ef einhver gerir óréttinn óafvitandi, þá er sjálfsagt að fyrirgefa, en geri hann það af yfirlögðu ráði, þá finnst

mér, að hann megi búast við að honum verði mælt í sama mæli“.

„Já, síra Leifur, ég býst við að þetta virðist sanngjarnt. En ég kom nú beinlínis til þess að spyrja þig að, hvort ég muni hafa alið drenginn minn eins vel upp og ég hefði getað“.

„Mér virðist, að þú hafir alið hann mjög samvizkusamlega upp. Hann er góður drengur“.

„En er það rétt af mér að hindra hann frá því að bera hönd fyrir höfuð sér, þegar á hann er ráðist, fyrst þú segist myndir verja þig, ef ætti að gera þér illt?“

Lilja horfði með mikilli eftirtekt á prestinn, meðan hún beið svars. Og henni var svo mikið niðri fyrir, að hún gætti þess tæpast að tala í jafnauðmjúkum tón og hún var vön, þegar hún talaði við síra Leif. Spurningarnar komu næstum óbreyttar af vörum hennar, eins og hún hafði borið þær upp og velt þeim fyrir sjálfri sér á löngum andvökunóttum og á daginn við saumaborðið, nema hvað svör prestsins viku þeim örlítið við. Líklega voru þetta smámunir fyrir alla aðra en hana, en henni var það allt.

Síra Leifur vildi auðsjáanlega ekki særa hana. Hann hugsaði svarið lengi, og þegar hann tók til máls, talaði hann hvert orð svo gætilega, sem vægi hann það á metaskálum kærleikans:

„Æskunni er holt að fá að reyna á krafta sína, sem mest og bezt, og æfa þá og styrkja fyrir lífsbardagann, sem ekki er æfinlega eintómt meinleysi fyrir okkur öllum, eins og þú veizt, Lilja mín. — Uppeldi þitt á drengnum er hrósvert og í alla staði samkvæmt guðsorði. Samt er það hugboð mitt, að drengurinn þinn yrði enn meiri maður, ef hann með öllum þeim góðleik, sem hann á yfir að ráða, yrði einnig karlmenni, sem léti ekki vonda yfirgangsseggi troða sér um tær“.

Lilja fann og skildi hvert stefndi, þótt hógleg væru orðin. Hún var að tapa. Réttur málstaður var að fara

halloka fyrir prestinum hennar. Honum, sem öllum framar átti að skilja dýpsta eðli fyrirgefningarinnar, sem hann hafði svo oft fagurlega minnzt á í ræðum sínum, og í hennar huga var æðsta karlmennskan, eins og hún hafði hugsað sér hana eftir guðsorði. Henni þótti undur vænt um síra Leif. Hann hafði tekið miskunnarhöndum á broti hennar í gamla daga, og hún hafði aldrei getað merkt það á honum, að hann myndi eftir því, auk þá heldur að hann hefði á það minnzt. Og hún hafði einnig fundið það eins og ósjálfrátt, en hvorki heyrt það eður séð, að framkomu hans við hana á þeim árum var það að þakka, að hún naut sömu hylli eftir sem áður af öllum í söfnuðinum. En samt gat hún nú ekki stillt sig um að spyrja prest, þótt hún vissi að spurningin væri í hæsta máta ósanngjörn:

„Á þá máske aldrei að fyrirgefa? Á alltaf að berja; alltaf að hefna sín og hegna, þó skrifað standi, „blessið þá, sem yður bölva, og biðjið fyrir þeim, sem yður rógbera og ofsækja?"

„Lilja! — *Þú* spyr mig að þessu!" mælti prestur þungt og það kenndi sársauka í röddinni.

„Fyrirgefið mér! Ég vissi ekki, hvað ég sagði". Lilja fól höfuðið andartak í höndum sér.

Eftir skamma stund tók prestur til máls:

„Eðli mitt er of norrænt til þess að ég viti ekki ósköp vel, að við getum aldrei fylgt fyrirgefningarkenningunni úti yztu æsar, eins og guðsorð kennir okkur hana, án þess að verða hræsnarar eða aumingjar — líkamlegir eða andlegir aumingjar. Ég elska meinleysið, svo lengi sem það gerir okkur að meiri og betri mönnum, en lengur ekki. — Ef sonur þinn væri orðinn fulltíða maður og gengi með þér úti á götu og einhver vondur maður vildi taka þig frá honum, og fortölur og bænir hefðu ekkert að segja — ætti hann þá að segja við hann: ‚Taktu móður mína, ég fyrirgef þér', og

ganga svo heim til sín? Finnurðú ekki lítilmennskuna í þessu? Eða ef sonur þinn væri kvæntur og eitthvert illmennið ætlaði að ræna hann konunni — ætti hann þá að standa aðgerðalaus hjá, meðan hún væri tekin nauðug frá honum? — Við lifum í illum og góðum heimi. Með því að reyna að vera sjálf góð, gerum við aðra góða. En stundum er svo mikið af illu í kringum okkur, að ekkert nema karlmennskan ein fær sigrað það og afborið. — Þú hefir innrætt syni þínum góða siði, kærleik og bliðlyndi. En hann þarf einnig á karlmennsku að halda. Við erum komin af víkingum, sem kunnu að sameina hreysti og drenglyndi, þrátt fyrir öll manndrápin og ránsferðirnar. Mín skoðun er sú, að drenglyndið sé fegursti kristindómurinn, og hreystin, hugrekkið og karlmennskan, notuð veikum til hlífðar móti óbilgirninni, geti verið og séu sannar dyggðir. — Við megum ekki gleyma því, Lilja mín, að lífið er fyrst og fremst barátta og stríð. Og sá, sem vill berjast hinni góðu baráttunni, og sigra það illa í kringum sig, verður bæði að vera sterkur á líkama og sál. Við erum ekki komin á það stig kærleikans ennþá, að geta sigrað hið illa með endalausu meinleysi og eftirgjöf. Það virðist einmitt magnast mest, þar sem meinleysið og afskiptaleysið ræður ríkjum. Lambinu er ekki óhætt ennþá fyrir ljónum og úlfum og refum, nema lengst inni á vonalöndum framtíðardraumanna.

„Þess vegna, Lilja mín góð", mælti prestur ennfremur, „skaltu reyna að gera son þinn djarft og æðrulaust karlmenni, samfara hinum mörgu góðu kostum, sem þú hefir kappkostað að glæða hjá honum og hann er orðinn svo ríkur af".

Lilja stóð upp til brottferðar. Hún mælti:

„Ég þakka þér innilega fyrir alla hreinskilnina og einlægnina, síra Leifur. En þetta verður mér nokkuð erfitt allt saman — að breyta um stefnu, meina ég. En sökum þess þú veizt, að það verður drengnum til góðs,

þá skal ég reyna, þó ég viti, að það verði nokkuð erfitt. Bara að það verði nú ekki um seinan".

Hún var hnuggin, en síra Leifur svaraði glaðlega og góðlega:

„Það verður ekki um seinan, Lilja mín, og trúðu mér til! Ég er þá slæmur mannþekkjari, ef ekki býr falið hugrekki í syni þínum. Og ef ég á að segja þér alveg eins og mér finnst, þá hefir það reynt meira á karlmennsku drengsins að hlýða þér í því að láta undan öðrum, heldur en ef hann hefði tekið á móti, eins og eðli hans mun vera hneigðast til. — Og nú þiggurðu kaffibolla með okkur hjónunum, og þér verður léttara í skapi, vittu til, þegar þú kemur til mín næst".

Lilja hafði tapað.

Hana hafði grunað, að svona myndi fara — fundið ósjálfrátt, að í efa hennar bjó ósigurinn. Og hún reyndi að bera það vel. Í raun réttri leið henni betur nú, eftir að hafa talað við síra Leif, en meðan hún var í óvissunni. Því nú hafði hún sannfærzt um, að þó uppeldi sitt á drengnum væri hákristilegt, og bezti undirbúningurinn fyrir annað líf, þá myndi það ekki haganlegt í því þjóðfélagi, sem hann átti að starfa í, og líklega óvíðast á þessari syndum seldri jörð.

Bágast átti hún með að koma þessu í tal við drenginn. Hún fyrirvarð sig fyrir að þurfa að viðurkenna, að uppeldisreglum sínum hefði verið í nokkru ábótavant, og svo fannst henni hún gæti tæpast komið orðum að því, í hverju breytingin ætti að vera fólgin.

Hún færði þetta í tal við vinkonu sína, Mrs. Horn. Og Mínerva, sem var glöð við að heyra fréttirnar, var ekki lengi að finna upp á góðu ráði.

„Við skulum láta Villa minn sjá um það. Ég skal tala við hann og svo er það búið. Hann verður sannarlega glaður og sér um afganginn", mælti Mínerva, og Lilja fann, að stórri byrði var létt af herðum sínum.

Það var orð og að sönnu. Villi sá svikalaust um „af-

ganginn". Hann kom á hverju kvöldi heim til Gizurs og æfði hann í að berjast og tuskast, bæði úti og inni, og kenndi honum öll þau fantabrögð, sem hann kunni. Lilja kinkaði kolli og sagði aldrei neitt, en Gizur vissi, hvað klukkan sló. Hann sagði heldur aldrei orð um þetta við hana, en æfði sig við Villa af kappi. Og þar sem hann hafði tíðkað allmikið líkamsæfingar, hafði góða byggingu og var vel sterkur, en Villi tveimur árum yngri en hann, þá leið ekki nema hálfönnur vika, þar til Gizur hafði í öllum höndum við hann. Villi lét það samt ekki á sig bíta, en gladdist miklu fremur sem góður lærimeistari yfir snilli lærisveinsins.

„Nú ferðu bráðum að verða maður á móti Tom", sagði Villi eitt kvöldið. Hann hafði ekki roð við Gizuri.

„Ég vona, að það komi aldrei til þess", svaraði Gizur.

„Komi aldrei til þess!" át Villi forviða eftir honum. „Ætlarðu kanske að láta alla halda, að þú sért hræddur við hann, og leyfa honum og öllum öðrum að kalla þig „sissy"! Ljótasta nafninu í öllum heiminum! Ja, svei! Það er þó ómögulegt! Ég segi þá bara upp kennarastöðunni!"

En Villi sagði samt ekki upp kennslustarfinu. Og fáum dögum seinna eftir skólatíma, þegar einn af bekkjarbræðrum Gizurar kallaði hann „sissy", sagði Gizur honum mjög stillilega, að það væri ekki sitt rétta nafn, og hann kynni betur við að vera nefndur Gizur, eins og hann héti.

Drengurinn varð höggdofa og sama var að segja um hin skólabörnin, sem á þetta hlýddu og þar á meðal var Tom Collins. En Villi Horn stóð álengdar og brosti út undir eyru. Honum fannst það vera hann sjálfur, sem stæði í sporum Gizurar. Ekkert hefði samt orðið úr þessu, ef Tom Collins hefði ekki verið til staðar, því pilturinn var meinleysingi, sem notaði „sissy"-nafnið af vana, en ekki til að ergja Gizur með því. En Tom sá hér stóran leik á borði. Það hafði verið rigning nótt-

ina áður, og var stór pollur þar rétt hjá, sem skólabörnin stóðu. Tom gekk beint framan að Gizuri og mælti í hátíðlegum rómi:

„Annaðhvort viðurkennir þú það hér með opinberlega, að þú heitir og sért „sissy“, og ekkert nema „sissy“, eða ég fleygi þér flötum hérna ofan í tjarnarskólpið“.

Strákarnir ráku upp org mikið og flyktust utan um þá. en stelpurnar gægðust og vildu ekki missa af skemmtuninni. Villi færði sig nær. Brosið var horfið af andlitinu, en á milli augabrúnanna lágu tvær, djúpar hrukkur, sem náðu upp í hársrætur. Gizur stóð hinn rólegasti andspænis Tom, sem í allt sýndist búinn. Allir nema Villi töldu víst, að hann myndi reyna að lauma sér burtu frá vandræðunum, eins og venja hans var, og þeir urðu meira en lítið forviða, er hann mælti hátt og skýrt:

„Ég heiti aðeins Gizur Skálholt!“

Undrunarkliður fór um hópinn, sem vissi, að það var þykk leðja á tjarnarbotninum og skildi, að neitun hans þýddi aukaþvott og aukabað.

„Neitarðu þá að þú sért „sissy“?“ spurði Tom, sem færði sig í vígmannlegar stellingar, með hendurnar til taks.

„Já. Ég neita því nú og héðan í frá og að eilífu!“ hrópaði Gizur og bjó sig undir áhlaupið.

„Þá skaltu fá baðið, heimskinginn þinn!“ orgaði Tom með útrétta arma og ætlaði að hremma Gizur og kasta honum í tjörnina.

En fyrri en Tom næði nokkrum verulegum tökum á honum, hafði Gizur í einni svipan vafið báðum handleggjunum, eins og tveimur stálfjöðrum, utan um háls honum, svo að Tom lá við köfnun, og kom engri vörn fyrir sig. Í skjótri svipan, en þó með hægri, jafnri þyngd, beygði Gizur höfuð hans niður og sneri upp á hálsinn, unz allur líkaminn féll til jarðar á tjarnar-

barminn. Á næsta augnabliki heyrðist skvamp í vatninu. Gizur hafði kastað Tom þangað, sem honum hafði verið hótað að vera fleygt sjálfum.

Yglisvipurinn á Villa var horfinn, og andlitið var fagurt og ljómandi eins og spánnýtt koparcent. Hann þreif húfuna af höfði sér, veifaði henni yfir höfðinu og hrópaði:

„Húrra fyrir sigurvegaranum!
Húrra fyrir víkingnum!
Húrra fyrir Íslendingnum!“

Einstöku drengir tóku undir með Villa, en mestallur hópurinn stóð sem þrumu lostinn og margir göptu af undrun, og gátu ekki annað en glápt orðlausir á hinn nýja Gizur, og svo á Tom, sem nú skreið á fjórum fótum eins og „skynlaus skepna“ í leirnum og leðjunni upp úr pollinum. Í svip hans bjó hvorki heift né hefnd. Ekki ennþá. Hræðsluglampar og undrunarblik skinu úr augum hans, þegar hann skotraði þeim upp á Gizur, mesta meinleysisblóðið í borginni, sem hafði kastað honum sjálfum, Tom Collins, eins og hvolpi á kaf ofan í óþverrann. Ef hann hefði ekki fundið gremjulega til þess, að leirleðjan hélt honum hálf-föstum við botninn og fötin, ötuð og rennandi, límdust eins og flugnapappír við kroppinn, þá hefði hann haldið, að þetta væri bara vitlaus draumur. Og hvorki hann né margir hinna í hópnum gátu í raun réttri trúað þessu fyrr en smám saman seinna meir. Svona fannst þeim það lygilegt, að Gizur hefði snúið Tom niður og hent honum í tjörnina.

Tom gat tæplega hrært sig, þegar upp úr kom. Hann var ekki líklegur til hefnda þann daginn. Allur útataður, eins og hann hefði velt sér upp úr flórnum. Svartur eins og syndin og stirður eins og eldgamall giktarfótur. Já, Tom hafði farið illa út úr því. Það var þó satt. En máske Tom hafi átt það skilið. Hann þurfti ekki að vera að slettast upp á Gizur — þurfti hann?

En hann Gizur! — Hvað var að verða úr drengnum? Hann var þó sannarlega engin „sissy“ lengur. Já, hann var karl en ekki kona, og hafði rekið af sér bleyðuorðið, sem sannri hetju sæmdi: — hægt og rólega og yfirlætislaust og með þeirri festu og stillingu, sem fer vel hverju göfugu ungmenni. Nú var hann alvarlegur á svipinn og mælti ekki orð frá munni.

Gizur hafði á einu augnabliki getið sér þann orðstír og hlotið það nafn, sem góðum dreng og vöskum víkingi sómdi. Villi tók undir handlegg hans og leiddi hann alla leið heim. Hann þurfti engan að því að spyrja, hverjum frægð Gizurar var að þakka. Hann vissi það sjálfur.

Ekki minntist Gizur á neitt við móður sína. En daginn eftir sagði Mrs. Horn henni upp alla sögu, eins og Villa hafði sagzt frá, og hann kunni að gera átvikin söguleg, þótt ungur væri. Móðirin hlýddi á með athygli og gladdist — þrátt fyrir allt og allt. Þetta var hennar sonur! Já, Lilja fann til stolts og fagnaðar í hjarta sínu. Æ, ekki var hún nú betri en það!

Tom Collin hafði hægt um sig fyrstu dagana á eftir. En ekki leið á löngu þar til Villi frétti eftir honum, að Gizur hefði átt að vinna sig með svikum. Hálstakið, sem Gizur hefði snúið sig niður á, væru hrein og bein svik — ólög en ekkert bragð, og engum ærlegum dreng né heiðarlegu tuski samboðið. Villi vissi, að þessi orðasveimur gat ekki rýrt frægð Gizurar í neinu. Ekkert nema ósigur gat tekið hana frá honum. Og „sissy“-nafnið var algerlega losnað við hann og mundi aldrei festast við hann aftur. En það var annað, sem sögunni fylgdi: Tom hafði haft í heitingum að berjast með hnefunum við Gizur upp á líf og dauða. Þá gæti hann ekki notað hálsbragðið, né nein önnur svik. Og þá skyldi heimurinn fá að sjá og heyra, að Gizur væri ekkert annað en tuska, sem væri einskis nýt, eins og hann hefði alltaf verið.

Villi þekkti Tom svo vel, að hann vissi, að hann myndi ekki láta sitja við orðin tóm. Og hann vissi einnig, að Tom kunni að beita hnefunum flestum drengjum betur, og hafði látið margan á þeim kenna. Auðvitað var Villi búinn að kenna Gizuri mikið, en samt — Tom var eldri og stærri og hafði margra ára æfingu að baki sér, en Gizur aðeins fáeinar vikur. Það gat varla góðri lukku stýrt. Villi hafði lært af þeim, sem voru honum eldri og sterkari. Ofurefli stælti hann. Gizur þyrfti að æfa sig við sterkari mann og æfðari en hann var sjálfur. Þá fyrst var hægt að gera sér skynsamlega von um sigur. En það kostaði Villa mikla sjálfsafneitun að komast að þessari niðurstöðu. Ef hann útvegaði Gizuri annan kennara, varð hann að leggja niður lærimeistara-nafnbótina, og sleppa að minnsta kosti hálfum heiðrinum. Honum sveið það sárt. En vinátta hans við Gizur varð sviðanum yfirsterkari. Og sama kvöldið og honum datt þetta í hug kom hann með Hjálmar bróður sinn með sér, og lét hann taka við stjórninni á Gizuri að mestu leyti, þótt hann auðvitað væri í og með í öllu. Hjálmar var átján ára gamall. Stiltari en Villi, en líkur honum í mörgu og ágætur bardagamaður. Tók Gizur skjótt framförum í hnefaleikslistinni, og sagði Villi eftir vikutíma, að nú myndi Tom ekki koma að tómum kofunum, þar sem Gizur væri, og áleit þá jafningja, þegar öll kurl kæmu til grafar.

Tom hafði látið þau mæðgin í friði, síðan hann fékk baðið hjá Gizuri. Hann gekk fram hjá húsi þeirra og þeim sjálfum, án þess að líta við, eins og hann vildi segja: „Aldrei þekkta eg ykkur“.

Það voru komin hlýindi í veðrið. Snjórinn horfinn fyrir nokkru, og strætin og húsagarðarnir orðin þur og þokkaleg. Seinni part laugardags eins voru þeir Gizur og Villi að æfa sig við að berjast í bakgarðinum hjá Lilju og höfðu hnefaleikaravöttu á höndum. Tom Collins gekk eftir gangstéttinni með öðrum dreng, og

sá, hvað þeir félagar höfðust að í bakgarðinum. Hann gekk til þeirra snúðugur og mælti:

„Þú átt svolitið hjá mér, Gizur, fyrir fjandans hálstakið og svikin seinast. Ég býð þér einvígi með berum hnefum, sem skal halda áfram, unz annarhvor liggur eins og sveskja. Og er nú fyrir þig að duga eða drepast“.

Gizur tók þegjandi af sér vöttuna og bardaginn byrjaði.

Lilja, sem var inni í húsinu, hafði tekið eftir því, að gengið var fram hjá hliðarglugganum, og þóttist kannast við annan drenginn, og gekk út í bakdyrnar, og sá strax hvers kyns var.

Fyrst var hún komin á flugstig með að kalla á drengina eða hlaupa til þeirra og biðja þá að hætta. Auðvitað var það það eina rétta. Og ef þeir ekki vildu gegna strax, þá að kasta yfir þá rekkjuvoðum og ábreiðum. Og ef þeir byrjuðu aftur, þá að sækja fulla fötu af vatni, og skvetta því yfir þá, eins og Guðmundur góði lét gera við hundana, sem flugust mest á við kirkjuna á Völlum í Svarfaðardal. Að vísu vígði biskupsefnið vatnið og blessaði yfir hundana, enda skömmuðust þeir sín og flýðu, en eintómt vatnið gat líka verið að liði, og hafði oft orðið það.

Hún vissi raunar, að einskis af þessu myndi þurfa með, því Gizur myndi gegna henni strax. En við hik það, sem á hann myndi koma, gæti Tom barið hann óviðbúinn og hálfdrepið hann. Og myndi svo ef til vill þar ofan í kaupið bera honum bleyðiorð á bak. Hún hætti því við milligönguna, en horfði á einvígið með mikilli eftirtekt. Hún var æst, en hún missti ekki sjónar af einni einustu hreyfingu, sem drengirnir gerðu.

Tom var hærri og handleggjalengri og virtist heldur veita betur. Hann sótti líka á eins og sá, sem þykist viss um vinninginn, og vill ná honum sem fyrst.

Lilja var hissa á sjálfri sér, að hún skyldi þola að

horfa á þetta barsmíði — þessa illsku í mannshjartanu, sem leitaði fram í hendur og handleggi — já, allan líkamann, til þess að vinna öðrum mein, en sjálfum sér fánýtrar frægðar. Og þetta var drengurinn hennar. Augasteinninn, yndið og eftirlætið hennar að fljúgast á í illu! Nei, verra en það — að berjast með hnefunum upp á líf og dauða! Hvernig gat hún liðið þetta? En hvað gat hún gert? Hún hafði einmitt fundið það á sér, að það myndi draga að þessu, þegar fyrirgefningunni ótakmörkuðu var sleppt. Hún fann það svo sem, að hún var að missa drenginn sinn út í heiminn; hún vissi bara ekki hve langt. Aðeins að presturinn væri nú kominn, svo hann sæi, hvað af því hlytist að hætta að fyrirgefa. Æjá, og kunningjakonur hennar líka, sem hún bauð í afmælisveizluna. Þær voru svo sem ekki betri en síra Leifur. En öll vildu þau þó henni vel. Um það efaðist hún ekki. En allt gæti þó farið vel, ef Gizur væri svolítið stærri og sterkari. Því það var hann, sem mátti til með að vinna. Hann hafði þó að minnsta kosti góðan málstað. Það var eiginlega eina huggunin hennar, þegar út í þetta var komið. Eiginlega ætti guð að láta hann vinna — í því var réttlæti hans fólgið.

En hvað var nú þetta?

Lilju hitnaði um hjartaræturnar. Gizur hafði gefið mótstöðumanni sínum svo vel útilátið kjaftshögg, að hann hörfaði frá og sýndist riða á fótunum nokkur augnablik. Hún heyrði Villa hrópa húrra og kalla á Gizur og segja honum að gefa Tom fleiri högg svona dugleg, áður en hann næði sér aftur. En Gizur var hægðin sjálf og beið þess rólegur, að Tom yrði fær um að sækja aftur. Það var auðséð, að hann vildi ekki níðast á Tom. Móðurinni þótti vænt um. Hvernig sem leikar færu, þá gat hún verið stolt af syni sínum, því hann hafði sýnt göfugmennsku, sem fátíð er, þegar barist er í illu.

En það var þó ekki þetta, sem gerði hana agndofa, heldur hvernig Gizur hafði farið að því að gefa höggið. Gæta högg legið í blóðinu? Þetta högg minnti hana á svo margt, sem átti að vera gleymt. Hún hafði einu sinni áður séð fullorðinn mann gefa svo högg — aðeins miklu kraftmeira — já, og fleiri en eitt. Hreyfingarnar og stellingarnar nákvæmlega þær sömu. Hvort hún mundi það, dróttinn dýri! Þrjú högg, hvert á eftir öðru eins og klukkuslög, og þrír menn lágu. Og öll höggin voru gefin í hennar þágu, og aðeins vegna þess, að Pétur, sem var svolítið hýr, hélt, að hún hefði verið móðguð af þessum mönnum.

Svona mikill riddari var Pétur! Og hann sveikst ekki að þeim heldur. Hann sagði þeim að vera viðbúnum að verja sig.

Ekki var nú Pétur verri en það.

Æ, syndsamlega góði, gamli Pétur!

Hún var svo sem ekki að hugsa um hann Pétur. Augu hennar og athygli voru fest á bardagamönnunum ungu. Aðeins í djúpvitund hennar — lengst neðan úr lygnum sæ minninganna, bólaði á honum, því högg sonar hennar hafði skotið honum upp á yfirborðið eitt augnablik. En hann sökk jafnskjótt aftur, eins og dauðskotinn selur, niður á mararbotn gleymskunnar, sem geymir að síðustu flestar sögur lífsins.

Drengirnir berjast áfram. Tom sækir ákaflega að Gizuri, en hann ver sig og er snarsnúinn eins og skopparakringla. Báðir eru þeir orðnir sveittir og móðir. Sóknin linast af hendi Tom, og aftur kemur Gizur þessu einkennilega höggi á mótstöðumanninn, sem minnir Lilju á hann, sem á að vera gleymdur. Nú er höggið sýnu meira en áður, eða Tom er orðinn veikari fyrir, því það kastar honum langt til og hann rasar og fellur, og Villi kallar húrra. En Tom stendur fljótt á fætur og hristir höfuðið. Hann er hvorki kveif né

kveita. Ef til vill er hann bezta mannsefni, eins og göldustu folarnir verða oft að mestu gæðingunum.

Lilja er farin að kenna í brjóst um Tom. Þetta er þó ekki nema unglingur. En hann er að berjast á móti syni hennar, sem er ennþá yngri — aðeins blessað óferml barn!

Það eru ósköp að sjá þá. Þeir eru eins og úfnir hrafnsungar og hafa skyrturnar brettar upp fyrir olnboga. Tom bítur á jaxlinn og berst með hamremi. Gizur er lipur sem köttur. Þegar Tom hægir á sér, kemur Gizur á hann einu af sínum miklu höggum, sem Lilja kannast svo vel við, og Tom steypist til jarðar og liggur eins og skata.

Guð almáttugur! Er drengurinn dauður? Hún ann Gizuri meira en eigin lífi, en samt vildi hún heldur sjá hann dauðan, en hann hefði orðið öðrum að bana.

Hún hleypur til þeirra.

„Er hann rotaður, eða — eða — hann er þó ekki dauður?“ spyr hún hálfsnöktandi.

Villi hafði kallað þrefallt húrra, þegar Tom féll. Hann dossar bara við því sem Lilja spyr að, en horfir með aðdáun á Gizur, sem svarar móður sinni rólega:

„Þú þarft ekkert að óttast, mamma. Hann er ekki einu sinni rotaður. Hann er að standa á fætur“.

Drengurinn, sem var með Tom, hjálpaði honum til að standa á fætur. Það sér ekki mikið á andliti hans nema í kringum hægra augað. Þar bólar á bláleitum hring. Gizur er dálítið flumbraður í framan, en ekkert meiddur að öðru leyti. Tom snýr sér að Gizuri og segir:

„Þú ert snjallari en ég hélt að þú værir“. Hann hristir sig og ber sig borginmannlega, og bætir svo brosandi við: „Þú ert engin „sissy“ lengur, Gizur“.

„Fyrirgefðu mér, Tom“, segir Gizur.

Tom svarar:

„Ég hefi víst lítið að fyrirgefa. Sökin mun alltaf

hafa verið mín megin. Það er ég, sem á að biðja þig fyrirgefningar".

Lilja hlýddi á forviða og fagnandi. Svo þetta eru þeirra ær og kýr drengjanna! Margir og undarlegir vegir gátu legið til sættanna og fyrirgefningarinnar.

Og Gizur spyr:

„Getum við ekki verið vinir, Tom? Hérna er höndin!"

„Hér er mín líka", svarar Tom, og svo takast þeir í hendur, og Villi tekur líka í höndina á Tom. Og pilturinn, sem var með honum, tók einnig í hönd Gizurs og Villa.

Svona getur æskan jafnað sakir sínar.

En nú gengur Lilja til Tom og klappar á úfinn kollinn og réttir fram höndina. Hann tekur þétt í hana, en drýpur höfði og snýr sér undan eins og hann skammist sín.

„Komdu inn og þvoðu þér í framan. Þið Gizur þurfið þess báðir", hvíslaði hún að honum. Hann hikar við en kinkar svo kolli. Og allur hópurinn heldur inn í húsið.

Og þegar Tom og Gizur eru búnir að baða andlit sín og smyrja þau smyrslum, setjast allir drengirnir við ábreitt borðstofuborðið í fjörugum samræðum og gæða sér á ávöxtum, sætakökum og súkkulaði.

Lilja lítur brosandi yfir hópinn.

Hafði hún sigrað eða hafði hún beðið ósigur?

## *FRÁ FYRRI DÖGUM*

Í gamla daga, þegar Norðvesturland Canada var að byggjast, og verið var að leggja járnbrautirnar yfir þvert og endilangt landið, var oft lítið um atvinnu í bæjum og borgum. Svo var einnig í Winnipeg. Leitaði fjöldi daglaunamanna þaðan um sumartímann út

á landsbyggðina, og stórfuðu margir þeirra við járnbrautargerðina.

Íslendingarnir voru þá nýlega seztir að í landinu, og fluttust árlega hópar af þeim vestur. Voru þeir mjög fátækir á þeim árum, eins og raunar meginþorri þeirra, sem annara þjóða, er þann dag í dag. Höfðu flestir nóg með sig, en þó mun hjálpsemin þá hafa verið almennari en nú í Winnipeg, eftir því sem sögur segja. Hurfu margir þeirra úr borginni til fjárafla, þótt þeir yrðu að fara frá fjölskyldum sínum mörg hundruð mílur vegar, og skilja börn sín og konur eftir, meira í umsjá guðs og góðra nágranna, en með þeirri meðvitund, að nægilegt væri til búsins lagt. Auðvitað var margt ódýrt á þeim árum, en gjaldmiðillinn var þá líka dýr og kostaði ærið erfiði, svo hvert centið var oft borgað með ótal svitadropum.

Gríma Árdal átti heima í Íslendingahverfinu í Winnipeg. Hún var heilsulítil ekkja og átti mörg börn. Elzti sonur hennar var 16 vetra og hét Kári. Fékk hann ekkert að starfa í Winnipeg, en þar sem hann var stór og duglegur, og vildi feginn verða bláfátækri móður sinni að liði, lét hún það eftir honum, að hann færi í járnbrautarvinnuna, og munaði minnstu að hann fengi sama kaup og þeir, sem fullorðnir voru. Hafði Kári farið burtu snemma um vorið, og átti móðir hans ekki von á honum fyrri en seint um haustið.

Maður Grímu, Þórður Jónsson frá Árdölum, var dáinn fyrir ári síðan, en þá voru lífsábyrgðir ekki eins tíðar og nú, og lét hann svo Grímu sama sem ekkert eftir sig, nema börnin og orðstír ráðvands manns.

Bróður hafði Þórður átt, sem Þorsteinn hét og flutt hafði vestur um haf á undan Þórði. Fór hann til Bandaríkjanna og hafði kallað sig eða verið kallaður Stoney Dal. Hafði enginn Íslendingur spurt til hans í meira en tíu ár. Hafði Þorsteinn haft meira gaman af mörgu öðru en stritvinnu. Hafði hann komizt upp í

fjórða bekk latínuskólans í Reykjavík, en orðið að hætta sökum fjárskorts og óreglu. Brátt eftir að hann kom til Ameríku, sögðu menn, að hann hefði lagt lag sitt við útfarna duflara og ekkert annað gert en spila peningaspil, einkum pókerspil, þegar síðast fréttist til hans. Var því ekki að furða, þó allir Íslendingar teldu hann af, því á þeim árum var skammbyssan og rýtingurinn alltaf til taks, ef eitthvað bar á milli, og oft spilað á þeim stöðum, sem lögreglan þekkti lítið til, eða kærði sig um að vera í-að-staðaldri, en stórborgirnar seinar að sakna ókunnra útlendinga, sem hverfa þegjandi og möglunarlaust út í eilífðina.

Kári var vestur í Klettafjöllum við lagningu Kyrrahafsbrautarinnar kanadisku (C. P. R.), sem samtengdi Kanada frá hafi til hafs, um þrjú þúsund mílna veg, sjöunda nóvember, átján hundruð áttatíu og fimm, þegar síðasti járnnaglinn var rekinn í Craigellachie af Donald Smith (Strathcona lávarði), til að festa seinasta járnteininn, sem lagður var í þessa miklu braut. Í fjórtán ár höfðu hugir og hendur sameinast við þetta mikla starf. Ellefu mismunandi leiðir höfðu verið mældar út með mikilli þolinmæði, yfir Klettafjöllin, aðeins til að geta notað þá beztu, þó allar væru mældar fyrir gýg. En Kanada borgaði C. P. R. (Sípíar) margfalt og þúsundfalt alla fyrirhöfnina, og geldur því félagi enn þá skatt sinn í gulli sínu og grænum skógum.

Misjafnlega góðir menn og hreinlátir er sagt að sumstaðar hafi verið saman komnir þarna vestur í fjöllunum og firnindunum. En ef nútíminn gæfi sér tíma til að líta undir tízkufarfa sinn ok kurteisisgljákvoður, þá yrði svipurinn ekki hreinni nú en þá, og hreinlætið yrði víst svipað, ef hirðing og aðbúnaður væri sá sami.

Margir verkamannanna áttu engin heimili, nema „Vestrið vilta“, sem nú var verið að temja. Þeir söfnuðu saman daglaunum sínum hálf og heil árin. Svo

skruppu þeir einn góðan veðurdag til einhvers þorpsins, sem var að myndast, fóru þar á viku- og hálfsmánaðar „túr“, og komu aftur til baka tómhentir og tröllriðnir, og fóru aftur að vinna og byrja að safna á nýjan leik, fyrir nýjan „túr“. Aðrir söfnuðu aldrei neinu. Þeir eyddu laununum jafnóðum í vín og spil. En sumir söfnuðu til elliáranna og ókomna tímans, og eyddu ei meira en brýnasta nauðsyn krafði.

Fjöldinn samt sem áður, sem vann við lagningu og eftirlit brautarinnar, voru heimilisfeður og fjölskyldumenn héðan og þaðan, sem þurftu fyrir einhverjum að sjá að einhverju leyti, og eyddu engu í óþarfa, en spöruðu allt við sig til að geta lagt það upp til styrktar heimili sínu, ættmönnum og ástmönnum. En enginn varð ríkur, né gat gert aðra ríka af kaupinu. Það voru vanalega borgaðir tveir dalir á dag við lagningu brautarinnar, en ekki nema einn og fjórði hluti dals til þeirra, sem litu eftir og lagfærðu þá spottana, sem búnir voru. Og þegar búið var að borga fjóra dali fyrir fæðið um vikuna, þá kom skarð í kaupið, og reyndu því sumir að fæða sig sjálfir, en það var hálfgert neyðarúrræði og uppgáfust flestir á því.

Kári var búinn að draga saman hátt á annað hundrað dali. Hann hafði aldrei eytt einu centi í óþarfa, og hlakkaði til eins og barn, sem hann raunar var, að komast heim til móður sinnar og færa henni peningana, og sjá systkini sín og aðra kunningja. Hann taldi vikurnar með áfergju. Nú var aðeins ein vika eftir, unz hann legði af stað. Hann hafði unnið eins og berserkur, miðað við aldur sinn. Útiveran og æskuyngingin eru fljótar að bæta fyrir ofþreytuna, þegar reglubundinn og nægur hvíldartími fæst við enda hvers dagsverks. Hann sá móður sína í anda staulast með veikum burðum til ensku kvennanna, til að þvo þvottinn og gólfin fyrir þær og hreinsa hús þeirra hátt og lágt, meðan systkini hans veltu sér í uppgjafa flíkum, sem ensku

konurnar gáfu, um leirstrætið og leirgarðinn, sem var fyrir framan og allt í kringum litla og lága timburskúrinn, sem faðir þeirra sæli hafði hrófað upp yfir höfuðin á þeim, seinasta árið sem hann lifði.

Í hvert skifti, sem Kára datt heimför sín í hug, eftir að hann hafði safnað 100 dölum í peningum, og siga fór á seinni hluta útlegðar hans, sá hann móður sína faðma sig að sér og klappa sér og kyssa fyrir peningana, sem hann færði henni. Því hún átti að fá þá alla. Hann ætlaði ekki að eyða einu centi handa sjálfum sér af kaupinu. Aðeins örlítið fyrir góðgæti handa systkinum sínum, svo fögnuðurinn yrði sem fullkomnastur. Hlý unaðaralda sonarkærleikans fór í gegnum sál hans, og snart undur ljúflega taugar hans og tilfinningar, í hvert sinn sem hugsun þessi sveif honum fyrir innri sjónir. Hann vissi, hve móðir sín myndi verða innilega glöð, og hve ástúðlega hún myndi þakka sér, stóra og duglega drengnum hennar, þegar hann kæmi heim til hennar utan úr óbyggðunum með hendur fullar fjár. Eða þá systkinin hans! Hvort það yrði nú ekki handagangur í öskjunni þá! Öll í kringum hann hlæjandi og hoppandi til að skoða hann hátt og lágt, æfintýramanninn.

Þannig skapar háleitur ásetningur heilan unaðssemdaheim í mannssálinni, löngu áður en góðverkið birtist í veröld framkvæmdanna.Og allar þessar fögru og göfugu hugsanir léttu óendanlega mikið hvert átakið og aflraunina, sem þessi óharðnaði unglingur þurfti að vinna í miskunnarlítilli starfssveit þaulæfðra verkamanna, sem á þeim árum þekktu lítið til samúðar hver með öðrum, sem öflug samtök seinni áranna hafa töluvert vakið og gert þá sanngjarnari og félagslyndari.

Í hópi þeim, sem Kári var niðurkominn, var pókerspil allmikið tíðkað á kvöldin eftir hættutíma. Aðalfrumkvöðull þess var vistarstjóri einn. Sá hét Jim Dal-

ton og var álitinn afar slunginn peningaspilari. Fór hann úr einum hópnum í annan og spilaði oft heilar nætur. Og er upp var staðið, hafði hann vanalega klófest alla þá peninga, er samspilamenn hans höfðu handbæra, og stundum ávísanir á ófenginn arð ókominna vinnudaga. Hafði allt sumarkaup margra verkamannanna runnið í vasa hans. En svona var áhættan laðandi. Þó mennirnir bölvuðu honum í sand og ösku, þá urðu þeir þó færri, sem stóðust freistinguna að reyna sig við hann.

Einn Íslendingur vann í sömu deild og Kári. Það var aldraður meinleysismaður, og var hann Kára heldur vel. Hann hét Gunnlaugur Sigurðsson með Íslendingum, en George Simpson, þegar hann bjó með enskumælandi fólki. Og þar sem hann vann næstum allt af með kanadiskum mönnum, festust seinni nöfnin meira við hann, og trúði hann því fast og stöðugt sjálfur. að þau væru hárrétt þýðing af íslenzku nöfnunum.

George hafði kennt Kára að spila póker, þegar þeim leiddist á kvöldin. En í stað peninga notuðu þeir eldspítur, sem George hafði allt af á reiðum höndum, því hann reykti mikið. En aldrei spilaði George upp á peninga, þótt hann hefði gaman af spilinu, þegar það var spilað í meinleysi, eins og hann kallaði það. Hafði hann eitt sinn, er hann var nýlega kominn til landsins, spilað það í alvöru, og alvaran orðið honum dýrkeypt gaman, því að lokum hafði hann staðið uppi í línbrókum einum fata, peningalaus, úrlaus, hattlaus, skólaus og pípulaus — og pípuleysið hafði honum þótt verst. Það eina, sem ekki hafði verið af honum reytt, var höfuðverkurinn um daginn, þegar upp var staðið eftir viðstöðulausa sólarhrings spilamennsku og whiskydrykkju. Þá voru spilin orðin að tuggu, og botninn brotinn úr brennivínskagganum, svo ekkert leyndist eftir í lögginni. En öllu luku þeir þó ekki úr kagganum, því eftir voru nokkur ferhyrnt stykki af heldur

lélegu munntóbaki, sem höfðu verið negld við botninn af vínbruggurunum, svo hið unga vín þeirra fengi aldnari keim og virðingarverðara bragð. En George sór sig upp á það, að það hefði verið uppidagaður kosningarkútur, sem þeir hefðu drukkið úr.

Kári hafði aldrei spilað upp á peninga, en stundum horft á þá, sem spiluðu. En til þess að saga þessi verði sannleikanum samkvæm, og ekkert nema sannleikurinn sagður, eins og í öllum góðum Íslendingasögum, þá verður ekki komizt hjá því að geta þess, að hann hefði verið vel til með að reyna sig við þá og græða af þeim nokkur hundruð dali. Tvöfalda að minnsta kosti upphæð þá, sem hann ætlaði að færa Grímu móður sinni. En kviðinn fyrir því, að hann kynni að missa eitthvað af því, sem hann var búinn að draga saman með súrum sveita, hafði ennþá orðið óvissri ábatavon og spilalöngun yfirsterkari. Enda mátti George ekki heyra slíkt nefnt á nafn, en að honum gaf Kári sig mest.

Kvöld eitt, þremur dögum áður en Kári ætlaði að leggja af stað heimleiðis, kom Jim Dalton að máli við hann, og kvaðst vilja gleðja hann svolítið, íslenzka unglinginn, ættaðan norðan úr hafsauga, áður en hann hyrfi alfarinn frá þeim úr fjöllunum, og gaf honum og fáeinum öðrum í staupinu, en þó í hófi, enda vildi Kári lítið drekka, þótt hann kynni ekki við að neita algerlega. En áfengið varð samt til þess, að þegar Jim talaði að því, að nú ætti hann að reyna lukkuna að gamni sínu, og vita hvort hann gæti ekki nælt sér í fáeina aukadali, en hætta strax, ef heppnin yrði honum mótsnúin, þá var varúð Kára ofurseld áhættunni. George var ekki viðstaddur og gat því ekki aftrað honum. En sjálfum fannst Kára ekki vera hundrað í hættunni. Hann gæti hætt strax, ef hann sæi, að hann ætlaði að tapa, eins og Jim hafði sagt, svo móðir hans þyrfti ei mikils að sakna. Og ef hann græddi: Húrra fyrir Land-

anum! Þá skyldi móðir hans fá það allt saman, eins og það legði sig.

Svo var farið að spila. En Kári tapaði ekki. Hann græddi. Einn, tvo, þrjá, fjóra, fimm, tíu, tuttugu, þrjátíu, fjörutíu, fimmtíu dali. Hann var í sjöunda himni. Nú væri honum óhætt að spila. Hann átti fyrir því, þó hann tapaði. Honum kom ekki til hugar að hætta. Það væri víst ekki heldur sanngjarnt að gefa ekki samspilamönnum sínum tækifæri. Ekki væri það riddaralegt af Íslendingi. En nú fór hann að tapa, og það tálgaðist af honum eins fljótt og það hafði að honum oltið. Þeir hurfu, einn, tveir þrír, fjórir, fimm, tíu, tuttugu, þrjátíu, fjörutíu; og fimmtíu dalir. Nú vissi hann, að hann átti að hætta. En hann gat það ekki, og tapið hélt áfram: fimm, tuttugu, fimmtíu og—hundrað. Hundrað dalir tapaðir! Hann varð að ná þeim aftur, hvað sem það kostaði, en það tókst ekki. Hann tapaði öllu, sem hann hafði — aleigunni hennar móður sinnar. Enginn vildi lána honum, og þá var sjálfhætt. Vor- og sumarkaupinu öllu eytt á örlítill stundu. Hann sjálfur, móðirin og systkinin máttu nú allslaus horfa fram á harðan og heljarlangan Manítóbaveturinn. Hann herti sig að láta ekki spilabræður sína sjá geðshræringu sína og tár, sem læddust fram í augun, stóð þegjandi upp og skjögraði heim í bálkinn sinn. Þar grúfði hann sig niður í sárustu örvæntingu, og grét lengi vonlausum gráti. Honum fannst hann hafa drýgt svo stóran glæp, að hvorki móðir hans né guð almáttugur gætu nokkurntíma fyrirgefið honum. Hann gat engan beðið fyrirgefningar misgerða sinna, en ófyrirgefin iðrun er örvænting. Allar bjargir voru bannaðar. Hann gat að vísu komist kostnaðarlaust heim til sín, sem verkamaður járnbrautarfélagsins, en að koma allslaus heim í allsleysið hjá móður sinni, eftir alla þessa mánuði, gat hann ekki hugsað til. Og nú fór veturinn í hönd.

Kári var ekki mönnum sinnandi, og svo voru líka

fáir, sem um hann sinntu, nema George, sem reyndi að vísu að hughreysta hann, en bölvaði honum samt fyrir vitleysuna og Jim fyrir illmennskuna. Raunar voru það fleiri en George, sem þótti leikur sá, er Jim hafði leikið þenna fátæka ungling, helzt til grár. En Jim hafði yfir þeim að segja, og samtök engin með þeim, svo að hverjum einum þótti það hyggilegast, sökum eigin hagsmuna, að láta ekki á neinu bera. Margir þeirra höfðu líka farið sömu för í hendur hans, þótt allir væru þeir fullvaxnir menn, nema Kári.

Næsta kvöld bar ókunnan ferðalang að tjaldstað þeirrar deildar, er Kári og George voru í. Hann var miðaldra maður í sjón að sjá og bar poka á baki. Hann var í verkamannabúningi, bláum strigabuxum, svartri milliskyrtu og hafði sterka leðurskó á fótum. Hirðingjahatt bar hann á höfði. Hann kvaðst heita Mr. Thorndale, og bað um greiða og fá að liggja einhversstaðar inni um nóttina. Sagðist hann vera lengi búinn að vinna við járnbrautarlagningu fyrir félag þetta mörg hundruð mílur vestur af þessum stað, og vera nú á leiðinni í smábæ einn, sem hann nefndi, austan við fjöllin, til þess að hafa þar vetrarsetu og hvíla sín lúin bein.

Ekkert belti bar ferðamaðurinn, og ekki var sýnilegt, að hann bæri nokkurt vopn. En þegar þessi saga gerðist, var það ekki fátítt, að ferðalangar bæru hníf og skammbyssur í beltum sínum, einkum ef þeir báru á sér peninga, þótt mjög séu flestar sögurnar frá „Vestrinu villta“ orðum auknar, sem nú eru sagðar og sýndar í tímaritum og kvikmyndum.

Drykkjarílát úr leðri bar hann á vinstri hlið, í leðuról, sem lá yfir hægri öxlina, eins og þeir, sem verða að fara langar leiðir yfir eyðimerkur og vatnslausa landfláka, og í milliskyrtuvasanum hægra megin sást á mikinn silfurkross, sem var festur á breiðu silkibandi, sem lá upp um hálsinn. Var auðséð, að ferða-

maðurinn kaus heldur að láta krossinn hvíla í vasanum en leika lausan framan á brjóstinu. Annars var kross þessi það eina, sem var einkennilegt við manninn, og hjúpaði hann í óvanalegu ljósi í hugum þeirra, sem sáu hann.

Jim Dalton varð þess skjótt áskynja, að hér myndi vera feitan gölt að flá, og spurði gestinn, hvort hann hefði ekki meiri skemmtun af að koma í nokkur spil, en hafast ekkert að til gamans.

Gesturinn lét lítið yfir spilakunnáttu sinni, og kvaðst vanari að hafa þyngra handa á milli en bréfsnepla. Þótt sumum verkamönnum sýndust hendur hans ekki neitt lúalegar né veðurbitnar, eins og hendur þeirra verða, sem erfiða í Kanada undir beru lofti.

Loks eftir langa eftirgangsmuni drógst hann á að spila við Jim, og mæltu þeir sér mót að koma þar, sem spila átti, að hálftíma liðnum.

George hafði hlustað á viðræður þeirra, og með því honum leizt heldur vel á ókunna manninn, en svall gremja í sinni til vistarstjórans, sökum meðferðar hans á Kára, þá tók hann gestinn tali, svo lítið bar á, og ráðleggur honum að hætta ei peningum sínum í fjárhættuspil við Jim. Segir hann honum margar sögur máli sínu til stuðnings og sönnunar, og síðast söguna af Kára.

Aðkomumaðurinn virtist láta sér standa á sama um allar spilasögurnar, unz að Kára kom. Þegar hann heyrði sögu hans, varð sem hann yrði allur að eintómri eftirtekt. George furðaði sig ekki á því. Honum fannst sagan þess virði, að henni væri veitt athygli.

„Og drengurinn er bláfátækur, segirðu?“ spurði ferðamaðurinn.

„Hann á bara ræflana, sem hann stendur í“.

„Og hvað á móðir hans mörg börn í Winnipeg?“

„Fjögur. Kári það fimmta“.

„Og þú sagðir, að móðirin væri allslaus ekkja?“

„Já“.

„Og hvað er langt síðan maður þessarar Mrs. Árdal dó?“

George svaraði því eins nákvæmlega og hann vissi.

„Og hver voru fyrri nöfn þessara hjóna? — Þau eru líklega einkennileg eins og Árdals-nafnið, sem er mjög útlendingslegt“.

George sagði honum nöfnin, og það með, að þjóðernið væri íslenzkt.

Gesturinn virtist sökkva sér niður í djúpar hugsanir. George áleit, að hann væri að hugsa upp ráð til þess að sleppa með hægu móti við að þurfa að spila við Jim Dalton, þegar hann var búinn að heyra, hversu mikill viðsjálsgripur hann var. En þegar gesturinn tók til máls, benti það þó ekki á að svo væri.

„Það hlýtur að vera leiðinlegt að vera Íslendingur innan um hérlenda menn“, mælti hann. — „Eru þeir ekki álitnir ósköp villtir og siðlitlir?“ Og aðkomumaðurinn horfði einkennilegum spurningaraugum framan í George.

„Ójú, ekki vantar það. En hér er ekki gruflað svo mikið út í þjóðernið, ef nafnið er þýtt á góða ensku, svo það sé þægilegt til framburðar“, mælti George og var sigurhreimur í röddinni.

Gesturinn leit hvasst á hann, eins og hann væri að skyggnast eftir, hvað honum byggi í brjósti. En augnaráð hans varð strax mildara, þegar svipur George sýndi ekkert annað en sjálfsánægju, sem setti viðfeldið bros á andlitið.

„Einmitt það. Svo Íslendingar skifta þá um nöfn, eftir þessu að dæma?“

„Já, ég held það nú, svona sumir hverjir. Ekki var ég skírður George, og enginn af ætt minni verið kallaður Simpson fyrr en ég“.

„Svo þú ert þá Íslendingur?“ Það bjó engin undrun í spurningunni.

„Jú, jú. Þarna hefirðu einn siðleysingjann frammi fyrir þér. Eg heiti á íslenzku Gunnlaugur Sigurðsson, fullu nafni, skal ég segja þér".

„Það er ljótt nafn og langt. En ekki ertu hræðilegur á að líta", svaraði gesturinn og brosti.

„Við erum vanalega það sem við sýnumst, Íslendingarnir", mælti George drýgindalegur.

„En sýnist þið þó ekki heldur smámannlegir, þegar þið eruð búnir að hola ykkur niður í hólana og grafa ykkur inn í ísinn og undir steinana?" spurði hinn og glotti góðmannlega.

„Það er bláber lygi. Allt saman haugalygi. Þeir eru ekki betri bjálkakofarnir og leirhreysin hérna en torfbæirnir á Íslandi. Svo mikið get ég sagt þér, Mr. Thorndale", svaraði George ákafur.

„Því get ég svo sem vel trúað. Ég sagði bara eins og ég hafði heyrt. Persónulega get ég öllu góðu um ykkur trúað, Íslendinga, nema þið eruð líklega ekki heppnir í spilum".

Gesturinn var glettinn, en George var ekki á því að láta það síðast nefnda sannast á Íslendingum.

„Ég heyrði þó getið um einn, fyrir mörgum árum, sem græddi þúsund dali á einni nóttu suður í St. Louis".

„Manstu hvað hann hét?" spurði aðkomumaður með mikilli eftirtekt.

„Jú. Hann var föðurbróðir hans Kára hérna og hét Þorsteinn Dal. Mesti æfintýramaður, en dauður nú. Hefir líklega verið drepinn í Bandaríkjunum".

„Það er nú ekkert ólíklegt, að hann hafi fengið að snýta rauðu, hafi hann grætt margar nætur eins og þú segir frá", svaraði gesturinn alvarlegur, og tók silfurkrossinn eins og ósjálfrátt upp úr vasanum á dökku skyrtunni. Strauk um hann með hægri hendinni hugsandi, en fitlaði við vatnshylkið með vinstri hendi. Mr. Thorndale hlaut að hafa kippt í ógáti í krossinn, því

silkibandið spratt í sundur á hálsi hans. Var það fest saman með fjaðralás úr silfri, sem virtist opna sig, ef í það var tekið. Lokaði gesturinn því í snatri upp um hálsinn, og stakk krossinum aftur í vasa sinn. George hafði horft með mikilli eftirtekt á krossinn, sem sýndist vera frá átta til tíu þumlungar á lengd.

„Þú munt vera kaþólskur, fyrst þú ber þetta framan á þér?“ spurði George, og fannst þetta atvik gefa sér fulla heimild til að grenslast eftir, hvernig á krossinum stæði.

„Ekki er svo“, svaraði ókunni maðurinn blátt áfram. „En krossinn er samt gjöf frá munk nokkrum, sem ég frelsaði eitt sinn úr dauðans greipum á mjög einkennilegan hátt. Hann gaf mér vatnshylkið líka, og lét það um mælt, að svo lengi sem ég bæri hvorttveggja á réttan hátt, þá mundi mig ekki saka. Hann meinti það víst þannig, að ég ætti aldrei að drekka það, sem sterkara væri en vatn, og hversu vel sem ég treysti öðrum, þá ætti ég að treysta krossinum bezt“.

„Ætli hann hafi ekki heldur hugsað sem svo, að þegar þú hefir ekkert annað betra að drekka, þá væri þó betra að hafa vatnið heldur en ekkert“, mælti George, sem ætíð þótti blávatnið bragðlaust og saðsemdarlítið.

„Líklega er þetta rétt hjá þér, að hann hafi gefið mér drykkjarhylkið til að nota það, ef í nauðirnar ræki. Mér þykir að minnsta kosti vænt um báða gripina og skil þá aldrei við mig“.

Í þessu bar Kára að. Hann var dapur og rauðeygður af gráti. Það var eins og æskumátturinn hefði yfirgefið hann á einni nóttu. Hvenær sem maðurinn missir trúna á sjálfan sig, verður hann gamall. Kári þjáðist ekki einungis sem sá maður, sem steypir sjálfum sér í glötun, heldur sem sá, sem ástvini sína dregur einnig með sér ofan í eymdina og líður kvalir þeirra allra. Nú þegar vonin var horfin um að geta bjargað móður

sinni og systkinunum frá óumræðilegri örbirgð og basli, og glaðar hugsanir gátu ei lengur lyft undir starf hans, varð verkið honum svo þungt, að honum fannst hann myndi vanmegnast. Það var eins og allur lúinn, frá því um vorið að hann byrjaði, hefði leynzt einhversstaðar í líkama hans, og læddist nú allt í einu upp á herðar honum og ætlaði að slíga hann niður með margra vætta þyngd.

George kynnti Kára ferðamanninum, sem horfði lengi á drenginn og heilsaði honum hlýlega. Svo tók Mr. Thorndale til máls:

„Félagi þinn hefir sagt mér, að þig langi til að komast heim til þín sem fyrst, en þú sért peningalaus. Viltu taka saman pjönkur þínar í kvöld og vera tilbúinn að koma með mér snemma í fyrramálið, ef ég lofast til að sjá um, að þú getir á stuttum tíma náð í fjárupphæð, sem geti orðið þér að liði?“

Kári horfði með opnum munni á aðkomumanninn. Undrun hans var mikil, en annars leizt honum vel á gestinn. Þetta loforð af alókendum manni var svo mikil gæfuvon í örvæntingu hans, að það líktist meira kraftaverkum verndarandanna í Þúsund og einni nótt, en raunveruleik hversdagskuldans í daglega lífinu. En hvernig sem allt færi, fannst honum hann hafa engu að tapa héðan af, hvernig sem allt ylti og hvað sem tæki við. Hér var honum dvölin kvöl og heimkoman ómöguleg. Hann þakkaði þess vegna boðið og tók því, án þess að spyrja einnar einustu spurningar, enda áleit hann, að eigi væri til þess ætlast.

Þá spurði ferðamaðurinn Kára, hvar hann svæfi, og sýndi hann honum það.

Að því búnu þakkaði Mr. Thorndale George fyrir viðvörunina og sagði, að hún myndi koma að góðum notum. En sem hann hafði kvatt þá félaga, hélt hann þangað, sem þeir Jim Dalton höfðu mælt sér mót.

George sagði Kára, að andinn sjálfur mætti vita,

hvað undir þessu loforði ferðalangsins kynni að búa. Hann hefði hvorki botn né enda í því. En vel litist sér á manninn, þótt ei myndi hann allur þar sem hann væri séður. En silfurkrossinn benti á, að maðurinn væri annaðhvort stærsti guðsmaður eða þá hundheiðinn falsari — en góður maður gæti hann verið, hvort heldur sem væri.

Áður en þeir félagar lögðust til hvíldar, hét Kári George því, að skrifa honum fréttirnar, þegar til Winnipeg kæmi, og George sagði, að ekki skyldi standa á sér að svara bréfinu.

Morguninn eftir, góðri stundu fyrir venjulegan fótaferðartíma, kom Mr. Thorndale að vekja Kára, en þess þurfti ekki með. Vonin og vonleysið höfðu togast svo sterklega á í hugsun hans, að svefninum var ekki til neins að reyna að komast þar nálægt alla nóttina.

Eftir örfáar mínútur voru þeir lagðir af stað til næstu vagnstöðva. Kári tók eftir því, að förunautur hans bar skeinur í andliti og á höndum. Hann var viss um, að hvorttveggja hafði verið heilt kvöldið áður, en honum fannst það of nærgöngult að spyrja um orsökina. Hann vissi ekki einu sinni, hvort þeir Jim Dalton hefðu spilað saman um nóttina eða ekki, en helzt fannst honum það líklegast, að svo myndi hafa verið, þrátt fyrir viðvörun George félaga síns, og af því myndi missmíðið stafa, því hann hafði vitað til þess, að stundum endaði skemmtunin í blóðugum hnefaleik og jafnvel í vopnaviðskiftum, þó það væri fátíðara.

Förunautur Kára var þögull fyrsta sprettinn. En er þeir höfðu gengið tímakorn, tók hann að spyrja Kára um eigin hagi, og spurði svo nákvæmlega um föður hans, móður og systkini, að Kári undraðist stórum, að ókunnugur maður skyldi hafa ánægju af að frétta slíkt.

Spottakorn frá stöðinni staðnæmdist Mr. Thorndale, og settust þeir Kári niður.

„Nú fer ég ekki lengra með þér, Kári minn, því

mínir vegir liggja ekki eftir þessari braut, þótt þeir liggi oft yfir hána", mælti ferðamaðurinn á íslenzkri tungu, en Kári rak upp stór augu af undrun.

„Nei! Þú ert þá landi!" hrópaði hann frá sér numinn.

„Það var ég að minnsta kosti einu sinni. En ég hefi góðar fréttir að færa þér — betri en loforð það var, sem ég gat gefið þér í gærkvöldi. Ég náði peningunum þínum frá Jim Dalton í nótt. Ég segi *þínum*, og mundu það, því hann var þjófur að þeim. Enginn peningaspilari, nema hann sé þjófur að upplagi, getur haft geð í sér að tæla aleigu óreynds sextán ára gamals drengs út úr honum, í eins ójöfnum leik. Þess vegna þarftu ekki að þakka mér peningana. Þeir eru ekki frá mér. Það eina, sem þú mátt þakka mér fyrir, er það, að ég náði þeim af óþokkanum".

Svo taldi hann tvö hundruð dali í lófa Kára, sem grét og hló í einu af gleði, en færðist samt undan að taka við peningunum, þar sem þeir væru í raun og veru gjöf, sem hann gæti ekki þegið.

Förunautur hans byrsti sig.

„Viðurkennirðu þá, að það hafi verið rétt af Jim Dalton að tæla þessa peninga út úr þér?"

„Nei, það dettur mér ekki í hug að segja".

„Já, ég hugsaði það. Og ef faðir þinn væri lifandi nú og sæi þig svikinn og rændan á þennan hátt, myndi hann ekki hafa heimtað peningana til baka af þeim, sem hafði þá af þér?"

„Jú. Ég gæti trúað því, að hann hefði gert það".

„En því gat ég þá ekki gert það?"

„Af því þú ert mér vandalaus, og ég get ekki þegið peninga frá þér, án þess að vinna fyrir þeim, því þótt þú ynnir þá af Jim, þá er það þinn gróði en ekki minn".

„Gott og vel! Þú segist mundir hafa tekið við peningunum, ef faðir þinn hefði náð þeim. Er þér þá nokkur fróun í að vita það, þrákálfurinn litli, að það

er ekki þér vandalus maður, sem er að skila þér peningunum þínum aftur, heldur Þorsteinn Dal, föðurbróðir þinn".

Kári varð orðlaus af undrandi fögnuði. Hann faðmaði föðurbróður sinn að sér, og neitaði ei lengur að taka á móti peningunum. Svo spurði hann næstum feimnislega:

„En því gengurðu ekki undir þínu nafni, kæri föðurbróðir?"

„Farðu þér nú hægt, drengur minn. Það er ekki annað nafn, ef þú gáir vel að. Betri þýðing að minnsta kosti en á nafninu hans Gunnlaugs þíns, sem varð að George. Fyrsti stafurinn í Þorsteinn er þó áreiðanlega íslenzkt Þorn, og Thorn á ensku, og dal veiztu að er sama og dale. En annars ræði ég aldrei um nafn mitt eða nöfn. Það er annað, sem mig langar til að tala um við þig, þessa stuttu stund þangað til við skiljum, því ólíklegt er að við sjáumst framar á lífsleiðinni. Viltu lofa mér því skilyrðislaust og án allra undantekninga, að spila aldrei upp á peninga? Áhættulöngunin liggur í ættinni, — liggur líklega í öllum ættum, en ef hún er aldrei iðkuð, þá smádofnar hún, unz hús hverfur með öllu. En þeir, sem einu sinni gerast ginningarfífl hennar um lengri tíma, verða ofurseldir henni æfilangt. Ég veit hvað ég tala um. Faðir þinn hjálpaði mér eitt sinn heima á Íslandi, langt fram yfir það, sem bræður eru vanir að gera. Ég veit, að hann ætlaðist ekki til launa, en mér væri það ósegjanleg ánægja, ef ég gæti átt þá vissu í syndum seldri sál minni, að sonur hans yrði ekki það flak á þjóðarsænum hérna, sem mér finnst að ég sé, og þá fynndist mér ég hafa grynnt á skuld minni við hann. Þess vegna vil ég biðja þig, Kári minn, í nafni trúar þinnar, drengskapar þíns og þjóðernis þíns, að gefa mér hátíðlegt loforð um, að þú aldrei framar snertir á peningaspili, hvorki í smáum né stórum stíl".

„Ég lofa því", svaraði drengurinn alvarlega, með

tár í augum, en föðurbróðir hans tók þétt í hönd hans, og leit andartak undan, til þess að hylja geðshræringu sína. Svo tók hann lítinn böggul upp úr vasa sínum, sem hann rétti Kára og mælti:

„Þennan pakka bið ég þig að færa móður þinni, ásamt kveðju minni. En eitt bið ég þig og hana að muna: að ég óska þess, að hvorki þú né hún minnist á það við nokkurn mann, að það hafi verið ég, sem þú hittir. Mér hæfir bezt að halda áfram að vera dauður í minningu landa minna, eins og ég virðist vera, og eins og ég er í raun og sannleika öllu félagi þeirra fyrir löngu síðan. En ýmsa hérlenda menn, eins og t. d. að taka Jim Dalton, varðar ekkert um að vita, að ég sé Íslendingur, og þess vegna máttu ekki láta Gunnlaug kunningja þinn vita annað en að ég sé þér ókunnugur, þótt ég skilaði þér dölunum, sem Jim tók frá þér í ójöfnum leik. Mér finnst þú þurfir ekki að skammast þín fyrir að segja, að þú tækir á móti þeim af manni, sem vildi bæta upp óréttindi, og var áður búinn að lofa þér hjálp sinni. Gunnlaugur skilur þetta að minnsta kosti, og ég held allir nema þú“.

Skömmu eftir þetta kvöddust þeir frændurnir. Mr. Thorndale hvarf bráðlega sjónum, en Kári hélt áfram beina leið heim til móður sinnar í Winnipeg, og sagði henni upp alla söguna. Varð meiri fögnuður en frá verði sagt, í litla skúrnum, þegar Kári kom heim, og færði móður sinni peningana og gaf systkinum sínum gott í munninn. Og þegar Gríma opnaði böggulinn frá Mr. Thorndale, kom það í ljós, að í honum voru þúsund dalir í gulli, silfri og bankaseðlum. Snerist heimkomufögnuður Kára upp í stórhátíð, og kofinn þeirra varð að traustri borg vonar og áhyggjuleysis.

Nokkrum dögum eftir heimkomu sína skrifaði Kári bréf til George Simpson, eins og hann hafði lofað honum, og sagði honum allar þær fréttir, sem hann mátti segja.

Eftir nokkrar vikur fékk hann svohljóðandi bréf frá kunningja sínum:

Staddur í C. P. R. Kampi
í Klettafjöllum.

Mr. Kári Ardal,
Winnipeg, Man.

Góði vin!

Alúðarheilsan. Ætíð sæll.

Fáar eru fréttir að segja þér, nema ég þakka þér kærlega fyrir bréfið þitt, langt og fréttamikið. Það gladdi mig innilega að heyra, hve lukkulega ferð þín tókst, eins að Gunna frænka mín Sikkhúsdóttir á Ross skyldi ná í annan eins mann og Jóa Pálsson á Nena, eins og hún virtist þó vera komin illa í Enskinn, fyrir manna sjónum. En Gunna er bæði smart og kjút, þó hún sé frænka mín.

Allt gengur hér sinn vana gang, eins og þú þekkir til. Mér líður þetta svipað. Heilsan góð og allt af þyngist buddan, Þ. s. G. Ég ætla ekki að koma til Winnipeg fyrri en ég hefi þúsund dali, en almáttugur má vita, hve nær það verður. En mikið fjandi varstu heppinn, Kári, skal ég segja þér, að hitta svona ærlegan karl eins og hann Mr. Thorndale. Þetta sagði ég allt af. Það er ekki víst, að allir hefðu leikið það eftir honum. En Jimmi segir nú samt, að hann sé sá mesti hel-- prakkari, sem stígi niður tveim fótum á þessa jörð. Ja, það er nú saga að segja frá því. Auðvitað hefi ég ekki nema frásögn Jimma um þetta. Máske Mr. Thorndale hafi sagt þér sína sögu, en máske hann hafi nú ekki gert það samt.

Nú, það er nú eins og þú manst, að þá margvaraði ég Mr. Thorndale við að spila við annan eins svikahrapp og Jimma, og sagði honum söguna af þér, sem varð þér til láns. Og hann tók því öllu vel. Já, ég held það nú svo sem. Og mér kom ekki til hugar, að hann færi að spila við hann, eins og ég var þó búinn að lesa yfir

honum. En Jimmi hélt, að þetta væri einhver dauðans vometa-skepna og viðvanings-græningja-rola, sem yrði fláð á fáeinum mínútum, og gengi svo þegjandi burt og gréti beisklega, eins og þar stendur. En þar skriplaði hann nú á skötu, eins og sá gamli forðum daga.

Já, ég skal bara segja þér, að Jimmi var ljótur undir brúnina morguninn eftir að þið voruð farnir. Ekki samt af því að þið voruð farnir, heldur af því, að þessi fjandans karl, eins og hann nú líka kvað að, hefði náð af sér yfir tvö þúsund dölum um nóttina. Það hefir kannske ekki verið svona mikið, en Jimmi sór sig um, að Mr. Thorndale hefði klófest alla sína peninga, illa og góða, og hefir hann líklega meint með því, bæði þá peninga, sem hann hefir náð í spilum frá öðrum, og líka unnið fyrir, og hlýtur það að vera meira en smáræði.

Og veiztu svo bara hvað, hérna Kári, skal ég segja þér! Það hefir víst orðið eitthvað róstusamt hjá þeim upp á síðkastið, því bæði var Jimmi allur blár og flumbraður, og svo segir hann og sver sig um það, að silfurkrossinn, sem Mr. Thorndale ber í silkihálsbandinu, hafi verið rýtingur. Hugsaðu þér bara, Kári. Krossinn rýtingur! Efri partur hans handfang, en neðri hlutinn slíður utan um stinghnífinn, sem hægt var að draga úr slíðrum á augabragði. En það er nú svo sem ekki allt búið með þessu, maður lifandi! Ja, því segi ég það! Lengi skal manninn reyna. Nei, ó ekki. Það var ekki allt búið með það. Jimmi sór sig til skrattans, ef það væri ekki heilagur sannleikur, að drykkjarflaskan hans úr leðrinu, sem var næstum sakleysislegri en krossinn, fyrir manna sjónum, hafi ekkert annað verið en haglega útbúið leðurhylki utan um tvær skammbyssur. Þurfti ekki annað en styðja á fjöður í hylkinu, þá opnaðist það, og marghleypurnar lágu þar hlaðnar og handhægar.

Eitthvað hefir gengið á, skal ég segja þér, úr því Mr.

Thorndale þurfti á hvorutveggja að halda, krossinum og flöskunni — hérna rýtingnum og skammbyssunni, ætlaði ég að segja. Jimmi sagði okkur ekkert um viðureign þeirra, en hann sagði, að sjálfur — eins og hann líka kvað nú á — mætti treysta þessum flökkurum, þótt þeir virtust vopnlausir og nógu meinleysislegir, því hann sagði, að þessi náungi mundi aldrei hafa unnið ærlegt handarvik, heldur farið svona um og spilað upp á peninga, því aldrei á sinni lífsfæddri æfi sagðist hann hafa þekkt annan eins spilara og aðra eins sjálfstjórn og undra-heppni, og hefði hann þó þekkt þá marga magnaða, æfintýramennina í ríkjum Jónatans frænda.

Við hérna erum alveg vissir um það, að þegar Jimmi var búinn að tapa svona miklu, þá hefir hann ætlað að sýna Mr. Thorndale í tvo heimana, og hræða hann með valdi og vopnum til að skila aftur peningunum, því hann hefir sjálfsagt álitið hann vopnlausan. Thorndale þá ekki seinn á sér, skal ég segja þér, að sýna honum verri hliðina á krossinum og vatnsflöskunni.

Þetta bréf er nú orðið lengra en flest þau bréf, sem ég hefi skrifað um æfina, að undanteknum fáeinum bréfum til Íslands, sem ég skrifaði fyrst eftir að ég kom hingað, en er nú löngu hættur. Svo ég ætla nú að slá botninn í það og bið þig að fyrirgefa klórið. Ég hefi svo engu við þetta að bæta, nema að Jimma var þetta mátulegt fyrir meðferðina á þér og fleirum. Það er lækkaður í honum rostinn núna. Og ég segi bara eins og ég hefi sagt, að Mr. Thorndale er ærlegur karl, hvað sem aðrir segja.

Með ósk um góða líðan og kærri kveðju til þín og þinna. Og vertu svo blessaður og sæll.

Það mælir þinn einlægur og ónýtur vin,

George Simpson

(fyrrum Gunnlaugur Sigurðsson)."

# VERNDARGRIPURINN

Við sátum fjórir í kring um eikarborðið á dúnmjúkum stólunum með ölglösin fyrir framan okkur og veittum hver öðrum á víxl.

Önnur hringferðin var að byrja, sem þýddi, að glösin höfðu verið fyllt í fimmta skiftið. En þau voru lítil, svo lesandinn þarf ekkert að óttast. Og ölið var sérlega gott, handan frá Evrópu, og við drukkum hægt, eins og sannir hófsemdarmenn. Úti var brennandi hiti, en inni svalur drykkurinn og rafveifan, sem kældi okkur.

Þeir, sem í stofunni sátu, voru Friðbjörn Hallgrímsson og Rútur Lambason, frá smábæ einum í Manitoba, en Hörður Njálsson og ég, sem heiti Sigurður og er Sigurðsson, áttum heima í Winnipeg.

Ég og Hörður vorum gamlir kunningjar Rúts, en höfðum að eins séð Friðbirni bregða fyrir á ferðalagi í borginni.

Samtalið barst fyrst að vættum og verndarenglum. Svo leiddist það að trúnni á helga menn og helga dóma, og seinast fórum við að rabba um allskonar töfra- og verndargripi.

„Verndargripirnir týndu tölunni, eftir því sem trúin á þá dvínar. Hjátrúin og þekkingarleysið sköpuðu þá, héldu gildi þeirra við lýði og gerðu öll kraftaverkin“, mælti Friðbjörn Hallgrímsson.

„Ó, ekki er ég nú viss um það að öllu leyti“, svaraði Hörður Njálsson. „Verndargripirnir virðast geta komið okkur að liði enn þann dag í dag, þegar okkur grunar sízt“.

„Hefir þú nokkurn tíma orðið sjálfur fyrir svoleiðis?“ spurði ég, því ég þekkti Hörð að því að geta sagt greinilega frá. Og ekkert er eins skemmtilegt, þegar maður er við skál, eins og að mega hlusta sem í draumi á skemmtilegar frásagnir.

„Ó-nei. Ekki er nú svo vel. En ég þekkti einu sinni stúlku, sem dálítið skrítið kom fyrir, svona lagað“.

„Ja, ef það er saga, þá blessaður komdu með hana upp á gamlan kunningsskap. Það yrði ekki sú fyrsta, sem þú hefir skemmt okkur með um dagana“, mælti Rútur, hallaði sér að Herði og klappaði honum á öxlina.

„Ég held það sé nú meira gaman, að við skröfum bara saman, eins og við höfum gert. Það er nú eiginlega ekki saga, heldur bara svona lítið atvik. En það sannar samt mitt mál í tilliti til þess sem við vorum að tala um“.

„Í hamingjubænum segðu okkur það þá, og ég skal kasta vantrú minni út í yztu myrkur“, mælti Friðbjörn fjörlega og kinkaði kolli til Harðar. Hann sat beint á móti honum við borðið.

„Samþykkt í einu hljóði!“ kallaði ég upp og hringdi á þjóninn að fylla glösin og færa okkur góða vindla.

Við þurftum ekki að dekstra Hörð lengur. Hann hóf upp frásögn sína:

Það skeði um vortíma, fáum árum eftir aldamótin, nitján hundruð, að há og grönn íslenzk stúlka var á gangi heimleiðis af dansleik, sem Norðurlandabúar héldu á einni danshöllinni, í miðri Winnipegborg.

Danssalsdyrnar stóðu öllum þjóðum veraldarinnar opnar. Karlmenn borguðu ofurlítinn inngangseyri, en kvenfólkið ekkert. Þar var því allt af nóg af fegra kyninu, þótt fjöldinn af piltunum kæmu þangað slyppir.

Dansmeyjar þær, sem engan höfðu dansmanninn, mæltu sér einhversstaðar mót, og komu þangað tvær og þrjár og fjórar í hóp. En sjaldnast urðu hópar þeirra jafn stórir, þegar heim var haldið, því einhver tómhenti pilturinn hafði þá fengið loforð einhverrar stúlkunnar til samfylgdar af dansinum, og „sá hana heim“, eins og Íslendingar í Winnipeg kalla það.

Íslenzka stúlkan, Día Norberg, var ekki einsömul á gangi þessa yndisblíðu vornótt. Hún hafði farið á dansinn með þremur stallsystrum sínum og kynnzt Mr. Fred Hall sérstaklega vel á dansinum, og nú var hann að fylgja henni heim til sín, þangað sem hún leigði í einlyftu húsi vestur á Sléttunum, sem nú eru löngu settar strætum og húsaröðum. Ein af stallsystrum hennar hafði hlotið annan fylgdarmann, en hinar tvær urðu víst að fara heim eins og þær komu.

Hörður dreypti á bjórnum og þagði andartak. Mér hafði orðið litið framan í Friðbjörn Hallgrímsson, þegar sögumaður nefndi nafn stúlkunnar og mannsins, og séð hann skifta litum eitt augnablik, og horfa hvasst á Hörð. Svo var sem hann kinkaði kolli við sjálfan sig, en sögumaður hélt áfram.

Þetta var annað árið, sem Día dvaldi í Kanada. Hún kunni því lítið í ensku ennþá, en bjargaðist þó vel af með það litla, sem hún kunni. En hún dansaði svo vel og kom svo ágætlega fyrir sjónir, að allir karlmennirnir vildu vitlausir við hana dansa, svo færri fengu en þráðu. Hún var líka allt af á fartinni og þótti það víst ekki heldur ónýtt.

Día var tvítug að aldri og mesta blómarós. Hún hafði farið frá Íslandi skömmu eftir dauða móður sinnar, sem hún hafði allt af dvalið hjá.

Móðir hennar hafði ekki verið gift, en eignast Díu í fárra mínútna gáleysi, eins og hún sjálf komst að orði, og var faðirinn norskur skipstjóri, sem rak síldarveiðar við Íslandsstrendur einn sumartíma. Fyrr eða síðar hafði móðir hennar ekki verið við karlmann kennd. Hún sagði Díu, að þetta hefðu verið álög á ættinni — einhver órjúfanleg, óskiljanleg forlög, sem standa dulin, en ögrandi, á lífsleið einstaklingsins og hleypa engum fram hjá, fyrri en sigurinn er þeirra megin. Eitt var víst: Það hafði farið svipað fyrir ömmu Díu. Hún hafði átt móður hennar með dönskum kaupmanni,

sem dvaldi að eins eitt sumar á Íslandi. Hún hafði heldur aldrei gifzt. En einkennilegast var þó, að langamma hennar hafði lent í því sama. Barnsfaðir hennar hafði verið „Flandri“ — skipstjóri á fiskiskútu.

„Allt er þegar þrennt er, barnið mitt“, hafði móðir Díu sagt við hana. „Ólánið skeður ekki í fjórða sinn“. Samt sem áður gerði hún allt, sem í hennar valdi stóð, að innræta dóttur sinni siðsemi og skírlífi, ásamt hæfilegum ótta við alla karlmenn, en sérstaklega varaði hún hana við yfirgangi útlendinganna, sem orðið höfðu henni og hennar kyni svo einkar nærgöngulir, að um þá mátti með sanni segja, að þeir hefðu lagzt á ættina eins og einhver óláns sending.

„Andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt“, hafði hún margoft brýnt fyrir dótturinni, þegar hún komst á legg — eins og hún skildi þá setningu bezt. En það, sem móðirin hafði haldið mest upp á úr guðsorði, voru þessi orð úr bæninni beztu og mestu, sem mönnunum hefir verið kennd: ‚Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu‘. Auðvitað skildi hún þessi orð á sinn hátt, eins og hætt er við að flestir geri. Og auðvitað kenndi hún dótturinni að hugsa um þau á þann hátt, sem hún lagði meiningu í þau, eins og foreldrar og kennarar vanalega gera, þó það verði stundum á tvo vegi, ef tveir segja til. En móðirin var eini kennarinn og því ekki um tvennan skilning að ræða.

Hún unni þessum orðum svo mikið, að hún fekk dóttur sína til þess að sauma þau með silki í klæði, eitt vorið þegar Día hafði komið heim til hennar úr vetrarvist, þar sem hún lærði hannyrðir og bókleg fræði sem aðalgreinar, en dansinn sem aukagrein, sem ekki stóð á fræðigreinaskránni og móðirin vissi ekkert um. Móðirin fekk smið til þess að setja þetta í svolitla eikarumgerð með gleri yfir og hengdi svo útsaumsmyndina uppi yfir rúmi þeirra mæðgna. Og þar hékk hún, þar til móðirin lézt skömmu síðar. Þessum sama sið hélt

Día, sem flutti myndina í kistunni sinni með sér frá Íslandi til Kanada. Flest annað, sem hún hafði útsaumað heima, hafði verið gefið eða selt eða glatazt einhvern veginn. En þessi útsaumsmynd var vel geymd yfir höfðalaginu hennar, og henni þótti ekki einungis vænt um orðin, sem á henni stóðu, heldur líka um handbragðið, sem á henni var, sem minnti hana á, að hún kunni að sauma fegra og fínna en ólukkans strigann, sem hún handlék sérhvern virkan dag, þar sem hún hafði unnið, síðan hún kom að heiman.

Margt undur-hýrt og minningaríkt augað hafði Díu áskotnazt frá íslenzkum piltum og fleirum, síðan vestur kom, því kvenlegri fegurð er veitt eftirtekt, hvar sem hún birtist. En hún lét sér hægt. Hafði áfengiskennda ánægju af aðdáendunum, og kitlaði bara undan öfundaraugum hinna stúlknanna.

Þótt vinnan væri nokkuð þung, þá var Día svo ung og hraust, að hún fann ekki til lúa að loknu dagsverki, og kvöldin voru oft yndislega full af saklausum en smellnum æfintýrum.

Auðvitað ætlaði hún að gifta sig — svona einhverntíma; en meginþorri ungra pilta, íslenzkra, á þeim árum, hafði lítið annað að bjóða kærustum sínum en ástina, fátæktina og heimilissnúningana óendanlegu — bannsett bjástrið og baksið, sem sjaldnast linnti, þótt fátæktin minnkaði og ástin yrði að fornmenjagrip.

Hún kærði sig því ekki um að skifta um stöðu strax, heldur njóta frelsisins ofurlítið lengur, og var því ólofuð og frjáls eins og fuglinn, þar sem hún gekk um nóttina frá dansinum, leidd af Mr. Fred Hall, sem engin stúlka á dansinum virtist þekkja neitt, en allar sýndust vilja ganga með, eins og Vatnsdalsmeyjar með Ingólfi Þorsteinssyni.

Þær, sem voru góðar í ensku máli, höfðu sagzt heyra útlendingshreim, þegar hann talaði það mál. En þær bættu því við, að enskan í munni hans yrði bara miklu

fallegri fyrir það. Hann gat gert sig skiljanlegan á sænsk-dönsku blendingi. Og þar sem Día gat fleytt sér dálítið í þeim málum, þá notuðu þau það í stað ensk-unnar. Enginn vissi hverrar þjóðar hann var, en ófeimnum pilti, sem spurði hann að því, svaraði hann, að hann væri alheimsborgari, sem ætti enga sérstaka ættjörð né móðurmál, þótt enskan væri sér tömust og Ameríka kærust.

Þetta hafði verið fyrsta laugardagskvöldið, sem hann hafði komið á dansinn. Hann kynnti sig sjálfur og var ekki lengi að því. Og á þessu eina kvöldi hafði hann lagt fleiri kvenhugi undir vald sitt, en nokkur þeirra, sem dansana hafði stöðugt sótt, viku eftir viku. Hann var karlmannlegur á vöxt, en þó spengilegur. Fölur var hann í andliti með hrafnsvart hár og dökkjörp augu, sem geymdu í sér þau undra-leiftur, sem gátu ylað og lífgað og brennt og drepið, eftir því, hvernig eigandinn beitti þeim.

Fred hafði sýnt Díu óvanalega mikla eftirtekt og dansað við hana meira en nokkra af hinum stúlkunum. Og hún var í sjöunda himni. Hún vissi, að hún var öfunduð. Fred dansaði líka ágætlega. Bar sig eins og fæddur hermaður, en brokkaði ekki um gólfið eins og hastur, skaflajárnaður hestur, eins og sumum ljóshærðu piltunum hætti við að gera, þegar þeir völsuðu um danssalinn.

Löngu áður en dansinn hætti, hafði hann boðið henni að fylgja henni heim, og hún þáð það. Þótt einhver varúð innst í sál hennar hefði viljað neita, þá stóð hún máttlaus andspænis biðjandi augum hans, sem brenndu sig inn í sál hennar með ómótstæðilegu afli.

Henni fannst hann að vísu óvanalega ástleitinn, þegar hann dansaði við hana, en honum fór það svo vel, og hann gerði það með þeirri leikni og lægni, að henni var algerlega ómögulegt að reiðast honum. Og þegar hann horfði inn í augu hennar, gat hún ekkert hugsað.

Það var það skrítnasta. Það var eins og hann tæki huga hennar burtu og fyllti óskipað rúm hans með trylldu tilfinningamagni, sem blossaði um hana alla og brann í taugunum.

Þótti henni vænt um hann? Hún vissi það ekki. Mundi hann elska hana? Hún gat ekki svarað því. Hann hafði leitt hana alla leið heim á þann hátt, að hún hvíldi að hálfu leyti í faðmi hans, án þess að hún mælti eitt orð á móti því. Og henni hafði liðið brennandi vel. Hún gat ekki hugsað og reyndi það ekki. Önnur sterkari öfl réðu.

Mundi hann kveðja hana við hurðina, með þéttu, löngu handabandi? Eða kyssa hana? Nei, ekki kyssa hana. Það mátti ekki ske. Og þó hafði hún óljósan grun um, að hún hefði ekki mátt til að hindra það, né losa sig úr faðmi hans, ef hann spennti hana örmum. Hélt hann ekki einmitt núna hendinni utan um hana? Hún fann til þess með sælublandinni hræðslu, að hún var algerlega á valdi þessa töfrandi manns, og óskir hans voru hennar óskir. Það var engu líkara en hugsanir hans yrðu að hennar hugsunum — rétt eins og hún væri hjól, sem snerist fyrir aflgjafa hans.

Vornóttin var yndislega björt og hlý, og léttur sunnanblærinn flutti angandi ilman að vitum þeirra, frá nýgræðingnum, sem var að byrja að spretta. Día fann með sjálfri sér, að ef fylgdarmaður hennar bæði hana að ganga með sér um göturnar, alla nóttina, þá gerði hún það. Og ef hann bæði hana að sitja hjá sér á einhverri gangstéttinni alla nóttina, þá myndi hún gera það líka. En Fred hafði hvorugt í huga.

Þegar þau komu upp á pallinn fyrir framan smáhýsi það, sem hún leigði í, bað hann hana um lykilinn að útidyrahurðinni, svo hann gæti opnað fyrir hana. Hún hlýddi, og um leið og hann lauk upp hurðinni, gekk hann orðalaust inn í forstofuna, með Díu við hlið sér, eins og þetta væri sjálfsögð kurteisi. Herbergið, sem

hún leigði, sneri fram að götunni, og hurðin fyrir því, sem ekki var læst, en hallað aftur, var ekki nema örfá fet frá útihurðinni. Día hafði sagt Fred, að þetta væri herbergið sitt, og benti honum á framgluggann, þegar þau gengu heim að húsinu, og það virtist sem hann væri kunnur herbergjaskipun þessara smáhýsa, sem flest voru byggð með sama fyrirkomulaginu á þeim árum, því hann var kominn inn í herbergið með hana, áður en hún vissi af, og eins hljóðlega og köttur hefði gengið um. Hann hallaði aftur hurðinni fyrst, en eftir andartak lét hann hana fallast hljóðlaust að stöfum og læsti með lykli, sem stóð í skránni. Svo fór hann úr frakkanum, og hjálpaði Díu að taka af sér kápuna, og að því búnu tók hann stúlkuna í faðm sinn og kyssti hana lengi — lengi.

Það var ekki kveikt á olíulampanum, sem stóð á kommóðunni, svo það var myrkt inni. Rennigluggatjaldið var dregið niður og huldi allan gluggann, nema ofurlitla þverrifu neðst, sem myndaðist við það, að brotinn uppgjafa hárkambur varnaði tjaldinu að komast alla leið niður að gluggakistunni, en hjálpaði vorloftinu að streyma inn í herbergið.

„Þú ert dýrðlegasta vormyndin“, sagði Fred og lyfti Díu mjúklega upp með sterkum örmum og vafði hana svo enn fastara að sér.

„Elsku — elsku — elsku —“, brauzt fram af vörum hennar, þar sem hún lá með lokuðum augum í faðmi hans, hugsunarlaus og viljalaus eins og hálfsofandi ungbarn, sem gert er gælur við. Hann hafði ekki beðið hana um hönd hennar og hjarta og hvorki minnzt á trúlofun né eiginorð við hana. Samt fann hún, að hún var algerlega á valdi þessa manns og gat ekki einu sinni óskað sér að losna undan því.

Hægt og rólega settist hann með hana á stólinn við rúmið. Og hún hvíldi við brjóst hans, eins og hún væri þreytt og lítið barn, sem ætti að fara að sofa. Hvorugt

mælti orð frá munni, en andardráttur hennar varð snöggur og djúpur.

Það var engu líkara en Día væri sofnuð, og hann lyfti henni upp í rúmið. En um leið og hann rétti sig upp frá því starfi, kom hann með höfuðið við útsaumuðu myndina, sem Día hafði hengt á títuprjón, sem stungið var inn í gipsvegginn, og hékk myndin ekki hærra en það, að hægt var að seilast til hennar úr rúminu, án þess að rísa upp. Annaðhvort lyftist snúran, sem myndin var fest með, upp af títuprjónshausnum, eða títuprjónninn var ekki vel festur í veggnum, því myndin skall niður, og kom glerið við hvítmálaða rúmgaflinn, sem steyptur var úr járni, og brotnaði glerið með miklum brestum. Duttu sum brotin ofan á gólfið og gerðu skarkala, en myndin datt af rúmgaflinum ofan yfir höfuðið á Díu og gerði allt í einu: hræddi hana, meiddi og vakti hana. Það var líkast því sem hún vaknaði með andfælum eftir afar óþægilegan draum. Hún rak upp hljóð, greip myndina tveim höndum, lagði hana að brjósti sér og grét beisklega. Á sama augnabliki og myndin snerti hana, þá mundi hún til sjálfrar sinnar, og á sama augnabliki hvarf hið dularfulla, ástríðuríka vald, sem Fred hafði náð yfir henni. Silkistafirnir stóðu bjartari fyrir hugskotssjónum hennar, þarna í myrkrinu, en þótt öll heimsins ljós hefðu skinið á myndina. Og hún sá sjálfa sig í líkingarfullri sannleiksskuggsjá, sem sýndi hana í mynd vesalings fiðrildis, sem flaug mitt í sólskini lífsgleðinnar í dulinn en ógurlegan köngurlóarvef einhvers glæframanns. Og nú beið köngurlóin að eins eftir því að stökkva á hana og sjúga úr henni blóðið, þar sem hún lá fjötruð og föst í vefnum.

„Eigi leið þú oss í freistni,
heldur frelsa oss frá illu“.

Hún tautaði orðin í ekkakenndum rómi, hálf hátt fyrir munni sér. Á þessari örstuttu angursstund aftur-

hvarfsins, flaug liðin æfi henni fyrir sjónir. Hún sá og heyrði móðurina látnu, bendandi, aðvarandi, ávítandi og biðjandi fyrir barninu sínu — henni sjálfri. Og það var ekki að eins móðirin, sem birtist henni í þessari svipmynd hugsananna, heldur einnig amman og langamman, hver með sitt útlendingsólánið við hlið sér. Og hér lá hún, sú fjórða í röðinni, í rúminu, með fjórða útlendingsólánið frammi fyrir sér, og „fárra mínútna gáleysi“ fram undan sér.

Fred varð bilt við, þegar myndin datt niður og orsakaði hávaðann. Hann hafði grun um, að eitthvað af heimilisfólkinu myndi sofa í næsta herbergi, og ef það vaknaði við einhvern ovanalegan skarkala, var ekki að vita, nema það kynni að fara að grennslast eftir, hvað um væri að vera. En þegar grátinn setti að Díu, hélt hann fyrst, að myndin hefði meitt hana. Hann grúfði sig niður að henni, og spurði hana blíðlega, hvort hún hefði meitt sig, en bað hana í öllum hamingjunnar bænum að vera hljóða, og spurði, hvort nokkur hætta væri á, að fólkið færi að grennslast eftir, hvað hávaðanum ylli.

Hann átti auðsjáanlega von á hlýjum orðum og atlotum, því hann lagði vangann fast að kinn hennar, en honum til mikillar undrunar hnipraði hún sig frá honum upp í horn, eins og eiturormur hefði bitið hana. — Hún hélt enn á myndinni með báðum höndum, og í stað svars, hóf hún hana á loft og barði henni í höfuð honum af öllu afli, án þess að hugsa nokkuð um, að glerbrotin, sem sum voru eftir í umgerðinni, gætu meitt hann.

Fred varð svo illt við, að hann hrökklaðist hálf æjandi fram á gólfið.

„Ef þú ekki ferð á auga-lifandi-bili burtu og út, þá skal ég æpa svo hátt, að hjónin komi hingað undir eins“.

Fred hlustaði agndofa á þessi dómsorð, sem frá rúminu komu. Á dauða sínum gat hann átt von, en

ekki þessu. Hvað gat hafa vakið hana? Hvaða undravald var það, sem hér varð honum yfirsterkara? Svarið hefir hann líklega seint fundið. En Fred var enginn heimskingi. Hann fann og vissi, að hann hafði tapað nær því sigruðum leik, og tapið gæti orðið honum því skaðlegra, sem hann dveldist lengur, því hann heyrði umgang í næsta herbergi. Hann greip hattinn, yfirhöfnina og treyjuna, og var horfinn á sömu mínútu út úr herberginu, án þess að kveðja, og Día heyrði þegar hann lét aftur á eftir sér framhurðina og gekk út á gangstéttina.

Día gekk fram að útidyrahurðinni og lokaði henni, en hallaði að eins aftur herbergishurð sinni, kveikti á lampanum, fleygði sér upp í rúmið, breiddi ofan á sig og þrýsti brotnu myndinni að brjósti sér.

„Blessaður verndargripurinn minn! — og þó — og þó —", sagði hún upphátt við myndina. Svo setti að henni skjálftakenndan grát, og tómleikinn lagðist yfir hana eins og niðdimm þoka.

Rétt á eftir var barið á hurðina ósköp hægt, svo voru dyrnar opnaðar í hálfa gátt. Það var konan í húsinu, að spyrja Díu um, hvort nokkuð væri að.

Día gerði lítið úr því. Sagðist hafa ætlað að hátta án þess að kveikja, og komið við myndina sína og brotið hana, en orðið mikið um það og talað við sjálfa sig, því sér þætti svo undur og skelfing vænt um hana.

Lét húsmóðirin það gott heita og hvarf úr gættinni.

Día sá Fred aldrei síðan, og stallsystur hennar sögðu við hana í skopi, að hann hefði víst fengið nóg af því að fylgja henni heim, því hann sást aldrei í danshöllinni eftir þetta, og enginn vissi meira um hann að segja.

Día hætti að sækja dansana. Hún trúlofaðist íslenzkum pilti seinna um vorið, fluttist með honum út í einn smábæ hér í fylkinu, og giftist honum um haustið.

En verndargripurinn var ekki hengdur upp í svefn-

herbergi þeirra hjónanna. Hans þurfti þar eigi með. Ég hefi frétt, að hann hafi verið settur inn í stássstofuna, og hangi þar enn í dag.

Sagan var á enda. Við klingdum glösum við Hörð, þökkuðum honum fyrir, og drukkum í botn.

„Hefirðu nú ekki sannfærzt?“ spurði ég Friðbjörn. Hann var svo skrítinn á svipinn, að ég er viss um, að ég gleymi því aldrei, hvernig hann leit út.

„Ó-nei, því miður ekki. En þetta er tilvalin skáldsaga“, mælti hann og kímdi einkennilega.

„Skáldsaga!“ át Hörður eftir honum, hrópandi og undrandi, og ég sá strax, að honum þótti. „Það þykir mér þó fjandi hart, þar sem ég var í sama húsinu og stúlkan, og konan, sem hún var hjá, var móðir mín!“ bætti hann við.

„Ég átti með þessu við verndargripinn“, svaraði Friðbjörn hægur.

„Nú — þú þykist vita mikið, lagsi! En við móðir mín og ég, og sumir fleiri, sem þessu voru kunnugir, hugsa ég þó að viti betur. Og þetta er líka í fyrsta skifti, þegar ég hefi sagt sögu, sem ég hefi verið vændur um lygi“, mælti Hörður og var ygldur á brúnina.

„‚Einu sinni verður allt fyrst‘, stendur þar. „Og þetta er máske í fyrsta skifti líka, sem þú segir sögu um mann, sem sjálfur er viðstaddur og hlýðir á“, svaraði Friðbjörn hálf-brosandi, en þó með hálfkæringi.

Rúti brá ekkert, en ég starði forviða á Friðbjörn, og Hörður bókstaflega glápti á hann gapandi af undrun. Loksins stundi Hörður upp:

„Ertu að reyna að gera gabb að mér, eða, eða ertu kannske? — Nei, það er ómögulegt“.

„‚Og víst er það skrítið, en samt er það satt‘,“ söng Friðbjörn kíminn. „Jú, það er mögulegt. Ég er Fred Hall, hrappurinn og flagarinn, sem þú varst að lýsa áðan. Og það sem bezt er, Día er konan mín, eins og hann

Rútur þarna veit. Og hann veit líka, að ég kallaði mig Fred Hall, þegar ég var strákur suður í Bandaríkjum, og hér um bil alveg búinn að týna niður íslenzkunni, sem blessuð konan mín hefir bezt kennt mér síðan".

Hörður varð að engu í stólnum. Hann sökk ofan í hann. Og meðan Friðbjörn talaði, sýndist mér hann vera að bera höndina fyrir höfuðið, eins og hann ætti von á höggi. Hann gat víst ekkert sagt. Hann steinþagði. Ég þorði ekkert að segja, því ég gat engin orð fundið, sem áttu vel við kringumstæðurnar. Þá stóð Rútur upp, hringdi eftir bjór, en sagði við okkur alla:

„Friðbjörn er gæða drengur og Día er indæl kona".

„Þökk fyrir, sveitungi sæll! Og skál, drengir góðir!" mælti Friðbjörn. „En viðvíkjandi verndargripnum þínum, Hörður skáld, þá er það að segja, sem þér mun sorglegt þykja. Hann varð ekki að liði þessa nótt, þótt hann bryti sig í mola. Ég kom aftur, þegar móðir þín var sofnuð. En það máttu eiga, að vel kannt þú að yrkja í eyður sannleikans".

Hörður tæmdi glasið sitt. Hann var að ná sér aftur og mælti:

„Mér er nú sama, hvort þú komst aftur eða ekki. Það hefir samt verið verndargripnum að þakka, að Día lenti hjá þér, en ekki neinum útlendingnum".

Friðbjörn varð fyrst skrítinn á svipinn, en svo svaraði hann alvarlega:

„Ja, hver veit? Máske þú hafir þarna einmitt rétt fyrir þér".

„Ja, svo er það þá líka verndargripurinn, sem sigraði", mælti Hörður. Og þar sem enginn varð til að andmæla honum, þá var útrætt um það mál, en drukkin ný skál.

# ÚR »SÖGUM VESTURFARANS«

(Valdir kaflar.)

I.

Ég var vel til fara, þegar ég kom frá Íslandi. Ég var með mórauðan trefil um hálsinn, í mórauðri treyju, mórauðu vesti og mórauðum buxum, með mórauða stormhúfu, í mórauðum sokkum og með móðropótta selskinnsskó á fótunum. Voru öll þessi föt tætt heima hjá mér úr ullinni af mórauðri á, sem foreldrar mínir gáfu mér í tannfé, þegar hún var lamb, en ég barn. Var hún afbragðs skepna, forustuær og þó mjólkurmikil. En skórnir voru af sel, sem hefði getað lifað lengur, ef faðir minn hefði ekki skutlað hann á páskadagsmorguninn, sama árið og ég fæddist. Sneri hárið út og gljáði á það eins og gömlu hollenzku silkiklútana, sem móðir mín átti, en brúkaði aldrei, nema þegar hún var til altaris. En auk þessara fata hafði ég afar mikið hár, sem féll í bylgjum og stóð út í loftið eins og englavængir og skýldi vel kollinum á mér. En það var ekki mórautt eins og allt hitt, heldur ljósgult á litinn. Var það töluvert meira fyrirferðar en á nokkrum tónsnillingi, sem ég hefi séð myndina af. Tímdi ég ekki að láta skella það af mér, þótt ærið væri það heitt á höfðinu, því það fór mér svo vel.

Mórauði trefillinn minn var mesta gersemin af öllum fötunum. Hann prjónaði hún Stína, kærastan mín, réttum mánuði áður en hún sveik mig og trúlofaðist Möðruvalla-kandídatinum. Voru bláir og rauðir bekkir til endanna, en köguriun grænn og gulur. Var saumað með krossspori í annan endann: „Til Bjarts“, en í hinn „Frá Stínu“, svo enginn villtist á honum og tæki hann fyrir sinn trefil. Er það sá langfallegasti trefill, sem ég hafði séð, þó ég segi sjálfur frá. Drógust báðir endarnir við jörðina, þó ég þrívefði honum um hálsinn.

Svona var hann langur og mikið í hann spunnið. En þannig lagaða trefla brúkuðu að eins heldri menn um hálsinn í minni sveit í þann tíð. En það fór illa fyrir aumingja treflinum mínum, þegar hann kom til Ameríku. Hefði hann aldrei átt að fara þangað vestur, fremur en ýmislegt annað, sem óhöppin hafa haft að leiksoppi sínum hér.

Á öðrum verudegi mínum á innflytjendahúsinu, neyddist ég til að taka trefilinn minn af mér, sökum þessa óskaplega hita. Skildi ég hann eftir í húsinu í mesta grandleysi og fór út í blessaða blíðuna til að skoða mig um í borginni, ásamt einum þessara tíu, sem verið hafði með mér í hópnum að heiman. Sá hét Grímur Grímsson, ókvæntur maður eins og ég, og tíu árum eldri, en tuttugu sinnum veraldarreyndari. Hann var þriggja manna maki að burðum og fílhraustur. Ei var hann nema góður meðalmaður á hæð, en afskaplega þrekvaxinn. Hann var rauðbirkinn og freknóttur og bauð svipur andlitsins af sér góðan þokka. Hægur var hann í lund, en þó glettinn, og þybbaðist fast fyrir, ef á hann var leitað, og við vín gat hann orðið ör og harðhendur, en vinföng þóttu honum góð. Oftast var hann í grárri, íslenzkri prjónapeysu, en átti samt ágæt spariföt úr ensku efni, sem hann hafði til messuferða, því hann var maður kirkjuækinn eins og ég. Hann hafði verið fimm ár í siglingum og gat skilið og talað fáein einsatkvæðisorð í ensku, og þótti mér því ekki ónýtt að vera með honum. Röltum við mest eftir Aðalstrætinu, horfðum í búðargluggana og gengum svo þess á milli inn á veitingahús og drukkum bjór úr háum kristalsglösum, sem voru eins og kanna með handarhaldi. Kostaði hvert glas tíu cent og voru það góð kaup í þessum hita. Vorum við fljótir að velja þá veitingastofuna úr, sem stærst hafði glösin, og drukkum alls ekki þar sem glösin voru lítið stærri en fingur-

bjargir. En Grími þótti víst bjórinn daufur á bragðið, því hann bað veitingamanninn um „stick“ út í sitt, en ég vildi ekkert saman við bjórinn. Kom veitingamaðurinn með flösku og hellti úr henni dálitlum sopa í glasið hjá Grími og þóttist ég vita, að það væri brennivín. Fekk hann þetta „stick“ í hvert einasta glas, en heldur sýndist mér veitingamaðurinn draga úr sopanum, eftir því sem Grímur bað oftar um það, og undraði mig það ekki, því ekki borgaði hann meira fyrir hvert glas en ég. Hafði hann orð á því við mig, þegar hann var orðinn ofurlítið kenndur af þessari brennivínsbjórblöndu, en ég bara sæthreifur, að honum þætti hann nízkur, þessi. Og í næsta skifti, þegar við fengum okkur glas, drakk Grímur gott kaffibollaborð á glasið, áður en hann bað um þetta „stick“ sitt. Veitingamaðurinn hellti pennadropa út í, en í því greip Grímur um stútinn á flöskunni og hallaði henni í hendi hans ofan að glasinu, unz það var fullt. Greip síðan glasið í hendingskasti og tæmdi í botn, áður en hinn hafði áttað sig. Þá smjattaði hann og það drundi niðri í honum af ánægjunni. Hann strauk magann af sýnilegri vellíðan, en sú stund varð stutt. Veitingamaðurinn, sem var mikill maður að vallarsýn, með kafloðinn háls og hendur, þreif af sér svuntuna með bölvi og formælingum, eins og ég skildi síðar þetta ljóta enska ragn, sem tvinnar saman máttarvöld himna og heljar í eina bendu, og er ólíkt óhreinna en hið hreystilega blót íslenzkunnar. Ætlaði hann að slá Grím hnefahögg í höfuðið, yfir veitingaborðið. En það var eins og Grímur væri eldri en tvævetur. Hann stakk sér eins og örskot niður með borðinu og missti höggið hans. En hann var ekki lengi að rísa upp aftur, karlinn, og áður en ég gæti gert mér grein fyrir því, sem gerðist, hafði hann náð tökum á veitingamanninum, hafið hann yfir borðið og bar hann eins og fis fram gólfið og út um hliðardyrnar.

Um þessar mundir var víða verið að grafa hina miklu og djúpu skólprennuskurði í Winnipeg. Gistihús þetta stóð á götuhorni austan megin Aðalstrætisins, og var einn af þessum skurðum nýgrafinn við hlið þess, á strætinu, sem sneri í austur frá Aðalstrætinu. Var ekki búið að setja pípurnar í botn hans og stóð hann þarna opinn og geigvænlegur eins og Grýlugil og svarðargrafir á Íslandi.

Hliðardyrnar á veitingastofunni vissu að þessum mikla skurði. Hvort Grímur hefir verið búinn að veita þessu athygli, skal ég láta ósagt, en þó grunaði mig það um leið og ég þaut út á eftir þeim, og allur skarinn, sem í veitingastofunni hafði verið, stökkvandi á eftir. Veitingamaðurinn, sem iðaði eins og ánamaðkur í höndunum á Grími, hafði ei enn rekið upp bops, en þegar hann sá, að Grímur stefndi með sig að skurðinum, kallaði hann þrisvar sinnum á hjálp, og eru það einhver þau hæstu neyðarköll, sem ég hefi heyrt á æfi minni, og minntu mig á sögurnar, sem ég hafði heyrt um náhljóðin heima, enda þusti fjöldi fólks, sem var á gangi eftir Aðalstrætinu, inn á hliðarstrætið til að vita, hvað á gengi, og kom rétt mátulega ásamt gestunum úr veitingakránni til að sjá Grím kasta honum biðjandi og blótandi ofan í forina á skurðbotninum. Ég var þarna nógu lengi til að sjá hann standa á fætur leirugan frá hvirfli til ilja, svo lítið mun hann meiðzt hafa, enda mun Grímur ekki hafa til þess ætlazt.

Ég get ekki neitað því, að ég vorkenndi þessum lifandi leirhnaus og þótti Grímur nokkuð harðleikinn. Samt vissi ég, að þetta var leikur Gríms, en ekki illmennska. Og eftir því, sem ég þekkti hann síðar, veit ég nú með vissu, að hann hefði borgað umyrðalaust og hlæjandi það verð, sem veitingamaðurinn hefði sett upp fyrir þetta vel útilátna „stick" hans, sem hann skammtaði sér sjálfur, ef veitingamaðurinn hefði haft vit á að taka glettni hans í góðu.

Enginn í mannþrönginni skifti sér af okkur, en við heyrðum blásið í lögregluþjóns pípur tvisvar uppi á Aðalstrætishorninu, og vorum við að bræða það með okkur á íslenzku, hvert bezt mundi að halda til að forða okkur. Vildi Grímur, að ég héldi strax norður á innflytjendahúsið, því enginn mundi stöðva mig, ef ég væri einn á ferð, þar sem ég hefði engan þátt tekið í verknaðinum. En ég vildi ekki yfirgefa Grím, þó ég raunar vissi vel, að ég yrði honum meira til farartálma en léttis. Þá allt í einu stendur hjá okkur blámaður, ungur og gervilegur og þokkalega búinn, og segir við okkur í lágum, en skýrum róm, og á furðu góðri íslenzku:

„Komið með mér, Íslendingar".

Ég skal ekkert segja um það, hvernig Grími varð við, en ég var nærri skollinn flatur. Mér hefði ekki orðið meira bilt við, unglingnum, þó andi úr Þúsund og einni nótt hefði allt í einu staðið yfir mér og ávarpað mig á íslenzku, þegar ég var að lesa þær sögur heima á uppvaxtarárunum. Þetta var unglingslegur svertingi, á að gizka átján ára, en þó nokkrum þumlungum hærri en ég. Hann var vel vaxinn og að öllu hinn myndarlegasti. Á svarta húðina sló ljósgulri slikju, sem hreinræktaðir blámenn hafa aldrei. Og munnurinn og nasirnar voru nettari, og andlitsfallið allt fríðara, en óblandaðra Afríkumanna.

„Flýtið ykkur, Íslendingar, og komið með mér strax! Lögregluþjónarnir eru að koma!"

Íslenzkan lét óumræðilega vel í eyrum mínum, þótt frá svörtu andliti kæmi. Ég leit við í áttina, sem hann horfði. Þrír stórir menn, allir klæddir bláum einkennisbúningi laganna, komu fyrir hornið og ruddust um fast í mannþrönginni. Ég stappaði niður fótunum, sem oft hafa runnið með hugrekki mitt í gönur, og vildi vitlaus hlaupa, en Grímur fór sér að engu óðslega, virtist hugsi og aðgætti allt, þótt kenndur væri. Var helzt að

sjá sem hann væri enginn viðvaningur í smásnerrum.

„Hvert ætlarðu að fara með okkur, blessaður Surturinn?“ spurði hann og horfði framan í svertingjann, og var rómurinn ekki alveg laus við tortryggni, og fór það sýnilega ekki fram hjá hinum.

„Ykkur er óhætt að treysta mér, Íslendingar. Ég ætla að fara með ykkur heim í húsið mitt þarna. Þetta brúna hérna austur á götunni með gulu skífunum“, svaraði hann og benti á hús nokkurt austur á strætinu.

„Ég treysti þér“, sagði Grímur, „og ég mun þekkja húsið aftur og kem á eftir ykkur annan veg, sem erfiðara verður fyrir þá að rekja heim að húsinu en beint eftir strætinu. En þeir vilja víst endilega finna mig, þessir lögregluþjónar, og það er bezt þeir fái það. En það er ekki nauðsynlegt þeir sjái ykkur hér í kring um mig. Farðu nú strax heim til þín og taktu þenna pilt með þér, en hlaupið ekki. Ef ég kæmi með ykkur, myndi fólkið benda lögregluþjónunum á mig og þeir kæmu á eftir og fynndu húsið strax, eða næði okkur áður. Ég kem á eftir“.

Svertinginn hlýddi. Ég líka, en þó hálf-nauðugur. Ég vildi hlaupa með Grími, en ekki frá honum. Allra augu hvíldu á Grími og tók enginn eftir okkur, þegar við gengum burtu. Svertinginn fór samt ekki strax heim til sín, heldur í leyni þar rétt hjá, þar sem mannsöfnuðurinn sá okkur ekki, en við gátum séð allt, sem fram fór. Þetta skifti engum togum. Lögregluþjónarnir þrír voru komnir eftir fáeinar sekúndur. Þeir horfðu ofan í skurðinn, þar sem verið var að reyna að drasla veitingamanninum upp úr. En þegar fólkið benti á Grím, sem gekk í hægðum sínum eftir skurðbakkanum, og var auðþekktur á gráu peysunni sinni, þá gengu þeir allir þrír til hans og ætluðu að taka hann höndum. Býst ég við, að þeir hafi ekki átt von á mót-

stöðu og ætlað að leiða hann burtu með góðu. Við gátum ekki séð nákvæmlega viðureign þeirra, og hugsa ég, að engum í hópnum hafi heldur tekizt það, því hún skeði fljótar en orð fá lýst. En eftir því, sem mér sýndist bezt, brá Grímur þeim fyrsta, sem að honum kom, með fætinum, svo hann hrökk af bakkanum og ofan í skurðinn. Öðrum hratt hann með höndunum sömu leið. Þann þriðja hóf hann í loft upp og steypti honum niður til starfsbræðra sinna. Eitt er víst, að hann var ekki lengur en fjórða part úr mínútu að kasta þeim öllum þremur ofan í skurðinn. En eftir það beið Grímur ekki boðanna. Var hann horfinn úr augsýn með það sama. Varð eftirförin slælega rekin af fólkinu, sem stóð þarna fyrir forvitnis sakir, og langaði víst ekkert að lenda í höndunum á þessum handsnara karli, enda drógu lögregluþjónarnir alla þess athygli að sér, þar sem þeir byltust um á skurðbotninum. Hygg ég, að þeir hafi samt ekki beðið um hjálp til að komast upp úr, heldur farið upp á herðarnar hver á öðrum og komizt þannig úr vandræðunum. En eftir því sem veitingamaðurinn leit út, þá finnst mér líklegast, að þeir hafi ekki viljað láta sjá sig á strætum úti svo leiruga, en orðið að fara heim á lögreglustöðvarnar til að skifta um föt, og má nærri geta, að það hefir seinkað leitinni, og nýir menn að öllum líkindum í henni, sem aldrei höfðu Grím séð.

Svertinginn gekk heim til sín með mér og dáðist hann mikið að kröftum Gríms og snarræði, og það gerði ég sannarlega líka, en notaði þó tímann til að spyrja hann að því, hvernig á því stæði, að hann talaði íslenzku, kolsvartur maðurinn. Svaraði hann því einu, að það fengi ég bráðum að vita.

Í húsi svertingjans voru ei aðrir heima en systir hans og móðir. Var systirin yngri en hann og eins dökk, en talaði fullt svo góða íslenzku. Móðirin var hvít á hör-

und og ljós á hár. Leyndi það sér ekki, að hún var fædd og uppalin á Íslandi, enda sagði hún mér það, en gat hvorki um ætt sína né hvaðan hún væri af landinu. Hafði hún gifzt svertingja skömmu eftir að hún kom að heiman og átt þessi tvö börn með honum og kennt þeim íslenzku. Ekki sagðist hún taka neinn þátt í íslenzku félagslífi, og væri þjóðsystkinum sínum ókunnugt um hagi sína. Bjó hún enn með manni sínum, þegar þetta var, og var hann ekki kominn heim úr vinnunni, því klukkan var ekki nema fjögur. Var konan fámælt um hagi sína, og heyrðist mér á henni, að ekki kærði hún sig um að eg hefði orð á því, að ég hefði hitt sig. En vel kvað hún son sinn hafa gert í því að liðsinna okkur. Kom ég aldrei síðar til hennar, og veit ekkert, hvað af þeim hefir orðið.

Eftir nokkra stund rak Grímur höfuðið inn úr dyrunum. Var hann þá snöggklæddur orðinn og bar peysuna samanvöðlaða í handarkrikanum. Sagðist hann vita, að fólk þekkti sig síður, ef hann væri peysulaus. Sást nú ekki á honum frekar en hann hefði aldrei smakkað neitt. Ekkert kvaðst hann hafa séð til lögreglunnar og enginn veitt sér eftirför, enda hefði hann svo marga króka farið, að erfitt myndi að rekja spor sín. Fekk hann mér lykilinn að kistunni sinni og bað mig blessaðan að hlaupa norður á innflytjendahús og ná sparifötunum sínum upp úr henni, ásamt fallegum, svörtum, hörðum hatti og nýjum stígvélaskóm. Sagðist hann viss um, að enginn þekkti sig, þegar hann væri kominn í sparifötin, nema ef vera skyldi veitingamaðurinn, en þar inn kvaðst hann ei ætla að koma í bráðina. Gerði ég sem hann bað, og hitti þá frænda hans neðan úr Selkirk, sem beið eftir honum á innflytjendahúsinu, og ætlaði að taka hann heim með sér um kvöldið. Sagði ég honum að bíða og fór með fötin, og varð Grímur eins og nýsleginn túskildingur í skrúðanum.

Kvöddum við konuna og börnin með virktum og

þökkuðum drengnum vinsemd sína og liðveizlu. Heyrði ég, að Grímur gat þess, að hann hefði fáa þekkt af hörundshvítu unglingunum, sem íslenzku tala, er farið hefðu að leggja sig í hættu þá, sem hann gerði til hjálpar al-ókunnugum og illa klæddum emigröntum, sem hann kunni engin deili á. Gladdi hann drenginn eitthvað, því Grímur hafði nóg af peningum og lumaði bæði á dönsku og ensku gulli. Báðum við þau öll vel að lifa. En oft hefi ég hugsað um það í einrúmi, síðan ég sá þessi íslenzku blámannasystkin, hvort heldur það muni eiga að liggja fyrir Íslendingum í framtíðinni, að verða að öllum þjóðum, eða allar þjóðir eigi eftir að verða að þeim.

Við héldum heim til innflytjendahússins hinir sperttustu, og það lá óumræðilega vel á Grími, rétt eins og hann hefði eignazt allan heiminn þennan dag og hefði verið gerður að konungi hans þetta kvöld. Fór hann til Selkirk með frænda sínum. Skildum við með kærleikum og mæltum til vináttu með okkur. En ekki hefði ég verið svona kátur þá, ef ég hefði vitað, hvaða sjón mundi mæta mér eftir fáeinar mínútur.

Ég fór nú að svipast eftir treflinum mínum, sem ég hafði skilið eftir í grandleysi í innflytjendahúsinu, þegað ég fór í bjórförina frægu þá um daginn með Grími Grímssyni. En þá var trefillinn horfinn þaðan, sem ég hafði lagt hann. Saknaði ég þar vinar í stað og varð ekki um sel.. Æddi ég út og suður og þvert og endilangt um allt innflytjendahúsið, unz ég hitti trefilinn hangandi á stórum járnkrók neðan í loftinu. Gladdist ég mikið, en varð samt hvimsa, því hann var þarna ekki alveg tómur, né einn síns liðs, eins og ég hafði við hann skilið, því neðan úr honum hangir hálfdauður, alskeggjaður emigranti, sem hafði lent í missætti við konuna sína út af tveimur tengdamæðrum þeirra hjona, þar á innflytjendahúsinu, og gripið trefilinn

minn traustataki til að stytta sér stundir með og losna við allt þetta kvenfólk.

Ég varð svo aldeilis hlessa, að ég glápti bara með opinn munninn á þessa hrikalegu sjón fyrir ofan mig, og hreyfði hvorki legg né lið til að frelsa vesalings trefilinn, og hefi ég haft ónotalegt samvizkubit af því löngum síðan. En allt í einu komu þar einhverjir glánar á harða spretti, með álnar-langan borðhníf í hendinni. Og þeir voru nú ekki lengi að hugsa sig um, þeir karlar. Áður en ég hefði getað talið upp í einn, voru þeir búnir að bregða hnífnum á trefilinn minn, og skera hann sundur í tvennt eins og sauðskepnu. En útlendingurinn hlassaðist niður á gólfið og lá þar eins og skata hjá trefilspörtunum, en ekki dauður þó, því það var svo dæmalaust mjúkt bandið í treflinum — bezta þelið af Móru — að það var ómögulegt að drepa sig í honum. Eins og líka spuninn og prjónið var nú á honum hjá Stínu minni! En það vissi þessi mæðumaður ekki, en hefir víst haldið í ofboðinu, að þetta væri algengur dónatrefill, illhærður eins og svín og harður sem óbarinn biskup. Mér gramdist óttalega, þegar ég sá þá skera trefilinn, og ég fann til sama stingsins í hjartanu og þegar Móra móðir hans var skorin. Svona fór þá seinasti tryggðapanturinn frá Stínu minni — því mín var hún einu sinni — þó hún sviki mig. Ég þóttist sjá á niðurskurðarmönnunum, að þeir mundu hérlendingar vera. Reyndi ég fyrst með góðu, og svo illu, að gera þeim það skiljanlegt, að ég ætti trefilinn, og þeir hefðu ekki átt með að ónýta hann svona. Talaði ég ýmist á íslenzku eða hrærigraut úr norsku, dönsku, sænsku og færeyisku, en þeir skildu ekkert, því ensku gat ég ekki talað. Elti ég þá lengi og vildi klekkja á þeim, ef ég gæti, en þeir skóku höfuðin framan í mig eins og ég væri hálfviti og görguðu eins og hrafnar yfir hrossskrokk. Sá ég loksins, en um seinan samt, að þetta mundi ekkert hafa upp á sig, og sneri til baka til að

taka trefilspartana mína til handargagns. En viti menn. Hafði þá ekki kona skeggjaða karlsins, sem nu var komin á rölt, labbað þarna inn, á meðan ég var að þvæla við hérlendingana á alþjóðamálinu, og hnuplað báðum trefilspörtunum! Var hún komin burt sína leið, og hefi ég aldrei séð gamla, góða og kæra trefilinn minn síðan, og lét ég þó auglýsa eftir honum í Heimskringlu og Lögbergi, og borgaði líka fyrir það.

Löngu síðar heyrði ég þess getið, að trefill, lifandi eftirlíking þess, sem ég átti, hefði verið seldur á uppboði hjá Gyðingum norður í bæ fyrir tuttugu og fimm cent, sem er tæp króna á Íslandi. Var trefill þessi í tvennu lagi og bar litur og lengd nákvæmlega saman við minn, svo ég er ekki í neinum vafa um, að þar hafi Stínu-gripurinn minn verið á ferðinni. Hafði útlend kona hreppt hann, sem kunni að meta ullina og tóskapinn, og sagzt ætla að klippa hann niður í barnsrýjur, af því hann væri svo mjúkur fyrir botninn á börnunum. Efast ég ekki um, að hann hefir unnið verk sinnar köllunar ágæta vel. En raunalegur endi alls þess bezta íslenzka er það þó, að leggjast undir botninn á því, sem hér er fyrir. Og sannarlega veit ég, að trefillinn minn hefir hugsað hærra, í höndunum á Stínu forðum daga.

## II.

Mig langaði ósköpin öll til að læra ensku. Maður, sem kann ekki mál landsins, sem hann dvelur í, og getur hvorki gert sig skiljanlegan né skilið aðra, er lítið betur staddur en húsdýrin. Ef þau eru skynlausar skepnur, sem ég trúi alls ekki, þá verða þeir menn það engu síður, bæði í sínum og annara augum, sem geta ei tekið á móti annara hugsunum og ekki túlkað sínar eigin.

Ég talaði um þessa námslöngun mína við Jón Hermann, og sagði hann mér, að fljótasta aðferðin og ó-

dýrasta að læra að tala ensku væri sú, að vinna hjá hérlendum mönnum úti í sveit, þar sem aldrei heyrðist annað en enska. Féllst ég á þetta og útvegaði hann mér vinnu fyrir aðgerðir hérlends kunningja síns hja bónda nokkrum, sem bjó tæpa göngu-dagleið fyrir utan borgina. Sótti karl mig keyrandi og fór ég með honum eftir tíu daga veru á borðingshúsinu. Var fátt talað á leiðinni, og sýndist mér á honum, að hann áliti mig golgrænan andlega. En fatalega var ég í rauðröndóttri milliskyrtu. Leizt mér svona rétt í meðallagi á hann, og honum líklega á mig.

Karl var ríkur og átti fallega konu en ekkert barn. Hafði hann margar jarðir undir, en á þeim árum voru ei húsakynnin ávalt sniðin eftir efnunum. Fjósið hans var hátt og tígulegt, byggt úr timbri og málað blóðrautt eins og teinarnir í skyrtunni minni. Íbúðarhúsið var bjálkakumbaldi mikill, eða loggahús, eins og við Vínlendingarnir köllum það. Karl hafði fleiri vinnumenn en mig, og að haustinu var mér sagt, að hann hefði oft marga menn. Gaf hann okkur æfinlega bláhvíta skilvindumjólkina á málum og réði kona hans þar engu um, en svínin fengu nýmjólkina óskilda. Voru þau líka mjög hænd að honum, og rumdu og hrinu upp á hann eins og föður sinn, en vinnumennirnir bölvuðu karli, því hann var vinnuharður með afbrigðum, enda reyndu þeir líka að svíkjast um allt, sem þeir þorðu og gátu, en ég hafði aldrei lært þá augnaþjónustu og kunni ekki brellur þeirra eins nýkominn til landsins og ég var. Vann ég því jafnt og stöðugt, hvort sem karlinn sá til mín eða ekki.

Konan var norsk og nýlega komin að heiman til Kanada, en karlinn hygg ég hafa komið sunnan úr Bandaríkjum, en verið af írskum ættum. Hafði þeirri norsku leiðst að vera í vinnumennsku og gifzt karlin-

um til fjár, en ekki feginleika, að því er mér sýndist. Var hún eina veran á heimilinu, fyrir utan blessaðar skepnurnar, sem skildi mig dálítið. — Notaði ég grautarþekkingu mína í Norðurlandamálunum — einkum dönsku — og talaði við hana á dansk-íslenzku, en hún við mig á nýnorsku ofan úr Guðbrandsdölum. Varð okkur þetta báðum til mikilla nota. Karl kunni ekki nema enskuna og var það hans mesta mein að heyra okkur mæla á þá tungu, sem hann skildi ekki. Bölvaði hann svo hátt yfir samræðum okkar, að við heyrðum ekkert af því, sem við sögðum hvort við annað. Stíaði hann okkur sundur sem hann gat, en við vorum ung og brostum því betur hvort til annars, þegar hann sá ekki til, og hafði hann ekki ábata af því. Sá ég, að sú norska hafði gaman af mér, og þó ég gæti ekki gleymt Stínu, fannst mér ég þó mega tala við stúlkur, eins og lesarinn ætti líklega að geta skilið.

Þá sjaldan tími var til, sagði hún mér sögur frá Noregi og kannaðist ég við margt, því ég hafði lesið meira en margan grunar, er þetta les. En hún var víst lítið lesin, því þegar ég fór að segja henni frá Íslandi vissi hún minna en ekkert. En ég sagði henni, að meiri hluti Íslendinga væri upprunalega runninn frá Noregi, og væri ég einn þeirra, því ég er kominn af Hallbirni hálftrölli. Ælaði hún fyrst ekki að trúa mér og hélt, að Íslendingar hefðu komið frá Norðurpólnum, en þegar hún bar saman háralit okkar, er var alveg jafn gulhvítur á báðum, þá trúði hún ætterninu og kallaði mig Norðmann og þjóðbróður sinn upp frá því. Kunni ég því bæði vel og illa. En oft hefi ég nagað mig í handarbökin síðan fyrir þessa lausmælgi mína við ókunnuga konu, því ef til vill er það nokkuð mér að kenna, að á annað hundrað milj. fólks í Bandaríkjum Ameríku og Kanada trúa því nú fast og stöðugt, að Norðmenn hafi gert allt það, sem fornsögurnar okkar segja, að Íslendingarnir

hafi gert, og verður betur frá þessu sagt áður en langt um líður.

Ég var furðu fljótur að komast upp á sveitavinnuna, enda hefi ég lengst af verið álitinn skarpari til líkamans en sálarinnar. Gekk mér létt að stjórna hestunum, þótt léleg væri hún, enskan, sem ég talaði við þá. Komst ég strax upp á að setja ekki öfug aktygin á þá og mátu þeir mig meira fyrir bragðið og voru mér hinir auðsveipustu við akuryrkjustörfin. Barði ég þá aldrei, en klappaði þeim oft og lét þá að mestu ráða vinnuaðferðinni og verkahraðanum, því þeir voru þaulvanir, en ég viðvaningur. Höfðu þeir oft vit fyrir mér. Tóku þeir við mig ástfóstri og hneggjuðu til mín kvölds og morguns og um miðjan dag. Kembdi ég þeim og greiddi á málum og var karl vel ánægður með útlit þeirra, en sjálfan sá ég hann aldrei bera kamb í höfuð sér. Er ég þó viss um, að sú norska hefði metið það við hann, því hún kunni vel að meta hárprýði og dáðist oft að hárlúfunni á mér, sem ekki var heldur á hverju strái.

Verst þótti mér að mjólka. Samt varð ég brátt furðu fljótur að hreyta kýrnar, enda voru þær allar góðar við mig og seldu mér allt, sem í þeim var, nema ein kýrin, stór og merkileg með sig, af dönsku kyni. Duttu mér allt af í hug einokunarkaupmennirnir á Íslandi, þegar við áttumst við. Og eitt sinn brauzt ættardramb hennar út í fullum mæli. Fyrst sló hún mig í augað með halanum, og meðan ég hélt með hendinni fyrir það, sparkaði hún hálffullri mjólkurfötunni svo einkennilega upp á við, að hún hvolfdist yfir höfuð mér, og er það sú hvítasta demba, sem ég hefi orðið gegndrepa í. En með því ég vissi, að hún gerði þetta meir af vitleysu en illgirni, reiddist ég ekki mikið og barði hana ekki, enda er mér ekki eiginlegt að lumbra á mönnum né málleysingjum og ber fjarska sjaldan. Samt hugsaði ég henni þegjandi þörfina, að venja hana af þessum

drambsömu keipum hennar. Tók ég nú snærið góða og batt hala hennar upp í háa eik, svo hann stóð beint upp í loftið. En sem hún leit aftur fyrir sig og sá hala sinn í þessum stellingum, skammaðist hún sín svo mikið, að hún féll a kné og leit til mín grátbiðjandi augum. En ég lét hana finna, hver herrann væri, sem hefði bæði tögl og hagldir, og mjólkaði hana með köldu blóði svona með halann upp í loftið, og baulaði hún þó ákaft og baðst vægðar. Leysti ég ekki halann niður fyrri en ég hafði mjólkað hana og varð hún lausninni svo fegin, að hún skreið til mín á hnjánum og sleikti hendur mínar. Var hún hverju málinu betri við mig eftir þetta og leit upp til mín. Hefi ég oft síðan um það hugsað, að giftusamlegar hefði farið, ef forfeður mínir hefðu getað auðmýkt dönsku kaupmennina á þennan hátt, þegar þeir sýndu þeim drýldni og yfirgang hérna á árunum.

Leiðinlegt þótti mér að mjólka, og löðurmannlegt verk er það íslenzkum karlmanni. Þó eru kýrnar göfug hressing og heilsusamleg tilbreyting hverjum þeim, sem hefir þjappazt lengi í margmenni og mollulofti borganna.

Tvö herbergi undir súð voru uppi á lofti í bjálkahúsinu. Sváfu hjónin í framherberginu, en ég í því aftara. Stundum svaf einhver vinnumannanna í herberginu hjá mér, en aldrei í sama rúmi, því það var ekki breiðara en stór kista og komst leikandi í heilu lagi í gegnum flestar dyr. Var það ekkert ólíkt slagbekkjunum heima, en var þó loklaust og eiginlega ekki annað en ómerkilegur fjalakassi með hjólfæti undir hverju horni.

Strax og ég kom til bóndans, varð ég var einhverrar óvanalegrar óværðar í rúminu. En ég var hraustur á þeim árum og svaf fast. Samt hafði ég ekki lengi verið þar, er ég fór að taka eftir rauðum skellum hingað og

þangað á kroppnum á mér á morgnana, þegar ég reis úr rekkju. Þótti mér þetta ljótur hörundslitur, og fór jafnvel að halda, að Ameríka ætlaði sér ekki að verða lengi að breyta mér í Rauðskinna, sem er frummaður hennar svo langt sem við þekkjum. og réttur eigandi allrar Vesturálfunnar, eftir því sem mér hefir allt af fundizt.

Eitt kvöldið var ákaflega heitt og mollulegt, þegar við fórum að sofa. Um hánóttina vaknaði ég, aldrei þessu vanur, við það, að mér fannst ég vera bitinn svo hroðalega alstaðar um kroppinn, að ég gólaði af kvölum, og stökk upp úr rúminu. Það svaf verkamaður á flatsæng á gólfinu. Vaknaði hann við vondan draum og hélt ég væri orðinn súrrandi vitlaus. Ég reif mig allan og hamaðist, en hann blaðraði við mig ensku, sem varð mér að litlu gagni. Allt í einu kveikir hann á eldspýtu, og sá ég þá, að við vorum ekki einsamlir í herberginu, því í rúminu mínu og upp um kalkþvegna bjálkaveggina skriðu, hlupu, stukku og dönsuðu mesti sægur af rauðjörpum skorkvikindum, ekkert svona óáþekk þessum vanalegu og algengu færilúsum heima, sem lifa á blessuðum sauðskepnunum og kvöldu Móru mína oft og illa.

Svefnfélagi minn kveikti á annari eldspýtu og hrópaði þrisvar: „Bed-bugs!" með ofurlitlu millibili, svo ég tæki sem bezt eftir orðunum, enda hefir mér nafnið ei úr minni liðið. Síðan hefi ég komizt að því, að réttast myndi að kalla pöddur þessar beðlýs eða beðbíti, sökum þess þær gera allar herferðir sínar í rúmin, og hafa þar fyrir sér manna dæmin. En oftast eru beðlýs þessar nefndar veggjalýs. Nefnir Geir þær svo, af því þær fela sig flestar í veggjum á daginn, en Vínlendingar af því þeim hefir orðið starsýnna á þær á veggjunum en í rúminu.

Mér leið illa. Félagi minn hló að mér og buldraði

ósköpin öll við mig. Heyrði ég, að hann nefndi oft emigrant og bedd-böggs, og þóttist því skilja, að hann væri að reyna að láta mig skilja, að þær sæktu mest á nýgræningja, eins og sektin á saklausu sveitastúlkurnar, þegar þær stíga í fyrsta sinn á skipsfjöl. Eða mér datt nú þetta svona í hug, af því sem hann sagði. Heimurinn er fullur af beðbítum, dýrbítum, mannbítum og kvenbítum. Og auðvitað þurfa þeir allir á einhverju að lifa. Annars skildi ég á þeim enska, að beðlúsunum mundi þykja þessir blóðríku Íslendingar, nýkomnir að heiman, beztir á bragðið. En maður vendist þeim smám saman og þær manni, unz samkomulagið yrði gott.

Svo hallaði hann sér aftur niður í fletið, sýnilega glaður yfir því, að vitfirring mín var ekki af verri toga spunnin. Lagði hann sig svo til svefns og benti mér að gera það sama. Gerði ég það og svaf vært til morguns, en þá voru allar veggjalýs horfnar. Hefi ég komizt að því síðan, að þær hafa stuttan vinnutíma — bara part úr lágnættinu, hætta starfi sínu fyrir allar aldir, og fara þá að hvíla sig í skotum sínum.

Það fór eins og sá enski hafði spáð. Ég vandist smám saman við bitin og upphlaupin og tók þetta eins og hverja aðra mæðu, sem forsjónin sendir og ei verður umflúin. Svaf ég flestar nætur eins og steinn. Það er ekki til mikils að kippa sér upp við allt, þegar maður er kominn til Ameríku, enda eru það flest hetjur eða hrossabrestir, er hingað hafa flutt, sem skilja eftir skælurnar heima, en stíga hér hlæjandi á land.

Ekki minnkuðu hitarnir. Flúði herbergisnautur minn út á fjóshlöðuloft til annara vinnumanna, því honum fannst þar svalara. En mér fannst það ekki samboðið íslenzkri baðstofu- virðing minni að fylgja honum út á heyloftið, því í hlöðunum heima í minni sveit sváfu ei aðrir en umrenningar og endemis-

menn. Samt átti það nú fyrir mér að liggja, að kanna refilstigu útihúsa bændabýlanna, þegar ég síðar fór í þreskinguna. En það er önnur saga. Svaf ég áfram einn í herberginu á nóttunni og vann eins og hestur á daginn, en sveittist allan sólarhringinn. Gaf ég beðbítunum langt nef, en þeir létu ekki að sér hæða, þeir smáskrattar. Léku þeir á mig og gerðu sér dælt við mig, af því ég var emigranti, og verður að segja hverja sögu eins og hún gengur, þótt tvísýnn verði af henni heiðurinn.

Þegar ég hafði verið þarna um þrjár vikur, fór húsbóndinn einn laugardag til Winnipeg. Keyrði hann á léttivagni sínum og beitti King hlaupagapanum fyrir. Veður var afar heitt þenna dag, og kom steypidemba um kvöldið með þrumum og eldingum. Ég var ekki kominn heim, þegar rigningin skall á, og varð hundvotur allur inn að skinni, eins og Hjálmar Tuddi í sýrukeraldinu. Og eins og skjálftinn kom í hann, svo setti líka ónotalega að mér, því ég hafði unnið baki brotnu um daginn og allt af verið í einu kófi eins og Siggi sveitti. En við skúrina miklu kólnaði veðrið að mun og kom hrollur í mig, sem ég gat ekki haft úr mér með nokkru móti. Hristist ég allur, þegar heim kom, svo tennurnar glömruðu í munni mér, eins og íslenzkar þorskkvarnir í veltandi pjáturbauk. Varð hávaðinn sem í dönskum hrossabresti, og fældist ég næstum sjálfur.

Síðan ég stækkaði og fór að fá vit, hefi ég aldrei haft trú á því, að vera vitundarlaus af góðu víntári, ef einhver slys koma upp á. Geymdi ég hálfa rommflösku í suðvesturhorninu á koffortinu mínu og tók hana upp með skjálfandi hendi, sem hjálp í viðlögum. Flýtti ég mér að afklæðast hverri spjör, og saknaði þess mikið, að hafa ekki vinnukonu til þess að taka í sokkana mína og buxurnar, eins og gert var

heima í sveitinni, og jafnvel í Reykjavík líka, þegar svo stóð á. Bað ég konuna um brennheitt sykurvatn og sagði henni til hvers ég ætlaði að nota það. Var hún svo hugulsöm, að setja kanel út í það, sem mér þykir allra krydda beztur, og settur var æfinlega út á töðugjaldagrautinn heima. Varð þetta afbragðs púns. Drakk ég þetta, þegar ég kom niður undir, þangað til mér hægðist, en þá var líka farið að lækka í flöskunni. Helli ég nú því seinasta úr henni í glasið og heita vatninu úr könnunni saman við. Varð það fullt glas. Drakk ég bara gúlsopa, en ætlaði að geyma hitt til fyrramálsins. Leið mér vel og lagðist út af og sofnaði eins og steinn. Þá var íslenzka úrið mitt, með fallega máluðu Sviss-rósinni á skífunni, eitthvað um að vera tíu.

Allt í einu vakna ég við hlunk á borðinu. Mér varð það ósjálfrátt að grípa til glassins, sem á því stóð, en komst þó ekki nálægt því með hendinni fyrir einhverri iðandi kös. Kveikti ég þá ljós. Klukkan var tólf. Ég hafði sofið í tvo tíma. Við ljósið sá ég, mér til mikillar skelfingar, hvers kyns var. Beðbítirnir eða veggjalýsnar, sem svo eru oft nefndar, stóðu hver upp á annari, eins og keilumyndað fjall upp af borðinu — allar að reyna að ná sér í púnstár. Létu sumar þeirra hreint eins og hálfvitar, en aldrei vissi ég, hvort það voru þær, sem ekki höfðu náð sér í neitt, eða hinar, sem höfðu fengið sér of mikið. Hvernig þær hafa kollvarpað glasinu, get ég ekki sagt um, þó ég þykist vita, að það hafi í einhverjum ósköpum skeð. En þá hafa þær verið búnar að tæma það í lögg, því hvergi sást deigur dropi nokkurs staðar. En nú reiddist ég fyrir alvöru. Mér hefði aldrei getað komið til hugar, ef ég hefði ekki séð það sjálfur, að svona lítil og auvirðileg kvikindi gætu bæði verið þjófótt og drykkfeld. Þótti mér þeim flest til lista

lagt af verra tæinu, en hugsaði þó með mér, að þær skyldu samt geta sagt frændum sínum næsta dag, að einu sinni hefðu þær fyrirhitt einhuga Íslending. Ég tók bláu strigabuxurnar mínar með brjóstspeldinu og axlaböndunum, sem ég hafði keypt í Winnipeg fyrir utanhafnarbuxur og enn voru sæmilega blautar, og bjó til úr þeim vönd, sem ég tvíhendi, og hýddi þær með svo duglega, að sumar lágu eftir örendar á borðinu og gólfinu, en hinar urðu fegnar að flýja. Hætti ég ekki hýðingunni fyrr en hver einasta var annaðhvort horfin eða í hel slegin. Lagði ég mig svo aftur til svefns, því ekki var til neins að harma hið horfna vín, og sofnaði ég sætt og fast.

Fyrst hefi ég líklega sofið draumlaust, en brátt var ég fluttur inn á yndislegustu draumalönd, og hefi ég aldrei séð aðra eins dýrð á Íslandi né í Ameríku. Ég þóttist hvíla í konunglegum vagni, á svæflum og sessum úr æðardúni með húðþykkum baldéruðum silkiverum. Allur þótti mér vagninn smíðaður úr hvítagulli með miklu útflúri og list. Voru í hann greyptir hvítir og svartir demantar, og gulir, rauðir, grænir og bláir gimsteinar, sem ég kannaðist við með nafni úr Þúsund og einni nótt, sem ég stalst í að lesa heima, þegar ég átti að vaka yfir vellinum og bera af. Lagði ljómann yfir mig frá eðalsteinum þessum eins og geislabaug um dýrlings höfuð. Rann vagninn gegnum himnesk súlnagöng og aldingarða með eimreiðarhraða, á fjórum sólnahjólum, og hrukku neistarnir af eldhjólunum eins og stjörnuhrap. En aflið, sem mig áfram dró, voru margar legíónir fljúgandi smá-engla. Voru vængjatök þeirra eins og þeytispjald og hvein við í loftinu af indælum ómum, en ég var sælli en nokkur konungssonur, og er ég viss um, að það hefir verið tilkomumikil sjón að sjá mig tilsýndar.

Allt í einu þykist ég vita, að ég sé að fara í gegnum

Paradísarhliðið. Hugsaði ég gott til glóðarinnar að skoða æskustöðvar forföður míns og okkar allra. En það lánið átti samt ekki fyrir mér að liggja og varð gleði mín endaslepp þá sem oftar, því rétt í því að ég er kominn inn úr hliðinu, þykir mér englarnir reka vagninn á eitthvað stórt og mikið, annaðhvort af einhverri óvarkárni eða óumflýjanlegum forlögum, sem er oftast talið það sama. Gat ég mér þess til, að það hefði verið annarhvor stofnanna gömlu trjánna: lífsins eða skilningsins, eða þá skrokkurinn af höggorminum, sem legið hefði þar í reiðuleysi. En orsökina fekk ég aldrei að vita, því ég vaknaði með andfælum frá þessum yndisfríða draumi við háan hvell og harðan hristing. Hefi ég sjaldan orðið eins raunalega undrandi á æti minni og ég varð, þegar ég lauk upp augunum og sá hvar ég var, og heyrði hljóma í eyrum mínum skerandi angistaróp.

Rúmið mitt var komið með mig alla leið út úr sínu og mínu herbergi. Og ekki nóg með það, heldur hafði það flutzt á einhvern óskiljanlegan hátt út um dyrnar og inn í hjónaherbergið, þar sem norska maddaman svaf nú einsömul í fjarveru bónda síns. Þar hafði það rekizt á rúm hennar, með braki og brestum, eins og hafskip á borgarjaka, og vakið okkur bæði. Þá rak hún upp hljóðið mikla, því á dauða sínum gat hún átt von, en ekki á þessari sendingu.

Það hefði nú kannske einhverjum orðið undarlega ónotalegt innanbrjósts eins og mér, að vera þarna kominn af óskiljanlegum orsökum og horfa framan í konuna, sem skalf af taugaóstyrk, þangað til hún kveikti ljós og sá hver ég var. Þá hvarf frá henni skjálftinn að vísu, en hún varð langtum stærra spurningarmerki í framan en nokkru skáldsöguandliti hefir verið lýst.

Ég fór að myndast við að standa upp, en þá gáði ég að því, hve skelfilega, afskaplega fatalítill eg hefði hátt-

að ofan í rúmið. En ekki minnkaði spurnar-ásjóna hennar við að sjá mig, þegar ég reis upp. Þreif ég brekánið úr rúminu og sveiflaði því utan um mig eins og forfeðurnir fíkjuviðarlaufunum. Tók ég nú að líta betur í kring um mig og horfði seinast ofan á gólfið. Og sjá! Þar kom það! Þarna marseruðu miljónirnar aftur til baka heim til sín, sem komizt höfðu í púnsið mitt í gærkvöldi og sýndist mér þær sumar groggaðar enn. Þóttist ég nú sjá í hendi mér, hvernig í öllu lá: Meðan rommgleðin ríkti í brjóstum þeirra, höfðu þær hafizt samtaka að hefna sín á mér fyrir flengingunа og helstrýkinguna, sem ég gaf þeim með blautum strigabuxunum, og komið sér saman um að ýta mér í beddanum á hjólunum þangað sem verst gegndi. En að þær hefðu horft út um gluggann, til að velja akkúrat tímann til þess, þegar bóndi kæmi heim — það vissi ég ekki fyrri en seinna. En þið hefðuð átt að sjá baksvipinn á þeim, þegar þær völsuðu út eftir afrekið! Það var alveg kostulegt, hvað þær gátu borið sig mannalega, og ég sá ekki betur en allur hópurinn stöðvaðist í dyrunum og liti til baka glottandi á mig, eins og þær væru að hælast um, hvernig hið ameríska hrekkjavit sitt hefði getað leikið á íslenzka sakleysið.

Ég var ekkert forviða á því, að þær gætu rennt rúminu þessa stuttu leið, því margar hendur vinna létt verk, og svo er afl litlu skorkvikindanna margfalt sinnum meira, hlutfallslega, en okkar stærri dýranna. En að þeim öllum skyldi hugkvæmast að verða samtaka með þennan flutning minn — og það þegar þær voru ölvaðar og hefðu helzt átt að fara að fljúgast á sín á milli —, það er það, sem ég get aldrei skilið, og stafar það ef til vill af því, að ég er Íslendingur, því aldrei hefðum við getað orðið svona samtaka — ekki einu sinni á Íslendingadegi eða Þjóðræknisþingi.

Ég var alveg ráðalaus þarna í rúminu, og vissi ekkert, hvernig ég ætti helzt að snúa mér. Sú norska virtist ekki lengur hrædd. Hún slökkti ljósið og ég heyrði ekki betur en það skríkti í henni. Gat ég ekki láð henni það, því afstaða mín var grátbrosleg. Veit ég ekkert, hvað ég hefði til bragðs tekið, ef hjálpin hefði ekki borizt til okkar á mjög óvæntan og eftirminnilegan hátt, því rétt sem ég er að hugsa um vandræði mín og kaldhæðni atvikanna, heyrum við, að bóndi þrammar upp stigann og gengur inn í herbergið til okkar, og breiddi konan upp fyrir höfuð, þegar karlinn kom inn, en ég stóð upp í rúminu eins og merkikerti. Það var farið að lýsa af óttu, en þó þóttist ég sjá á karlinum, að honum þætti hafa illilega fjölgað í svefnherbergi konu sinnar. Stóð ég eins og saklaust lamb frammi fyrir grimmum slátraraí, og reyndi af veikum mætti að gera honum skiljanlegt, með bendingum og ensk-íslenzkum orðum, hvaða herjans grikk skrambans beðbitirnir hans hefðu gert mér, og eiginlega leikið á okkur bæði, eða jafnvel öll. En áður en ég gat bent til hálfs og sagt fjórðapartinn af því, sem ég þurfti að segja, sá ég hann færa sig saman í kuðung og hoppa og láta illa með hendurnar.

„Ætlarðu að slá mig?" sagði ég, en í því barði hann hann mig svo þrælslega á munninn, að ég riðaði við, en skall þó ekki eins og í borðstofunni hjá Bellu, því þetta högg var sjálfsagt fjórðungi léttara en hjá Chris Goodison, enda var karlinn hálfgerður skröggur samanborinn við hann. Náði ég mér á sama augnabliki og sá, að hann vildi ekki neitt gott við mig eiga, en bjó sig undir að rétta mér annað kjaftshögg. Kastaði ég þá af mér brekáninu yfir haus hans og brá honum íslenzkan hælkrók, eins og ég stóð. Skall hann kylliflatur á gólfið og ýtti ég honum með berum fætinum undir rúmið á meðan ég kvaddi konuna, sem gægzt hafði undan sængurfötunum, þegar karlinn féll. Var hún sú eina, sem ég kvaddi í flaustrinu, og var mér þó orðið vel við suma

hestana og kýrnar og köttinn og hundinn. Stökk ég á harðaspretti inn á herbergi mitt og greip allt það af fötunum mínum, sem ég náði í, og annað dót mitt, og hljóp með það í fanginu niður stigann og út. Elti bóndi mig með byssu, en byssur hata ég eins og hundarnir og Björn heitinn Snorrason. Flúði ég sem fætur toguðu út í skógarbelti og leyndist þar. Fann karl mig aldrei. Sá ég mér ekki til neins að snúa heim aftur, eins og komið var, og þótti mér þó slæmt að skilja svona við kaupið mitt í óvinahöndum. Klæddi ég mig þarna í skógarrunnanum, og gekk um daginn inn til Winnipeg og settist aftur að á borðingshúsinu hjá Bellu. Sagði ég Jóni Hermann upp alla söguna, og þótti honum gæfa mín minni en gervileikinn.

Aldrei fékk ég eitt cent fyrir vinnuna, bitið né kjaftshöggið. Svona fóru nú fyrstu vinnupeningarnir mínir í henni Ameríku. Var ég óheppnari að þessu leyti, en flestir aðrir vesturfarar. En mikil var reynsla mín, og hún verður aldrei metin til peninga. Lítið hafði ég samt lært í enskunni í þessari ferð. Var það bæði að kenna þeirri norsku og því, hversu tíminn var stuttur á sveitaheimilinu.

Jón Hermann fór samt með mig til lögmanns, strax og ég kom, og túlkaði sögu mína. Þótti honum saga mín svo lygileg, að ekki myndi nokkur dómari í landinu, sem fengist til að trúa henni, ef karlinum yrði stefnt og málið kæmi fyrir rétt. Sagðist hann bezt geta trúað því, að einhver af vinnumönnum karlsins, sem hefði langað í púns, hefði fært rúmið með mig sofandi af skömmum sínum.

Í öðru lagi hefði karl getað verið kominn heim og leikið þennan leik sjálfur, til að losna við mig án þess að borga mér, og launa mér þannig fyrir, að ég talaði á annarlegum tungum við konu hans.

Í þriðja lagi kom hann með þá skammarlegu uppá-

stungu, að hugsast gæti, að það hefði verið sú norska, sem hefði gert það að gamni sínu, að aka rúminu þetta.

Þá reiddist ég, og er það ekki í fyrsta sinn, sem ég hefi reiðst lögmönnum fyrir það, hvað þeir hugsa ljótt og öðrum illt. Skammaði ég hann, en Jón Hermann vildi ekki þýða það fyrir mig og sagði ég mundi þurfa að borga honum nóg fyrir þetta viðtal fyrir það, og varð það að sannmæli.

„En veggjalýsnar?" spurði ég all-hvassleitur.

„O, þær hafa auðvitað verið í kofanum. En þessar, sem þú sást seinast um kvöldið og nóttina, gætu hafa komið úr romminu", svaraði hann kankvíslega og deplaði augunum framan í mig, eins og hann vildi gefa mér það til kynna, að hann vissi sjálfur af eigin reynd, um hvað hann væri að tala.

Eitt sagði lögmaðurinn seinast allra orða, það, að þótt ég gæti látið karlinn borga mér þessa fáu dali, sem ég átti hjá honum, þá gæti karlinn látið mig borga sér þá upphæð hundraðfalda fyrir að hafa verið inni í svefnherbergi konu hans um hánótt.

Bað ég þá Jón að fara að kveðja hann, en segja honum ekki, hvar ég ætti heima, ef ske kynni að karlinn rækist til hans og spyrði að mér. Hefi ég oft tekið eftir því með fleiri en mig, að þeir, sem hafa beztu og hreinustu samvizkuna, geyma oft þyngsta óttann í brjósti, sökum öfugstreymis atvikanna.

Eigi hefi ég séð írska karlinn kaþólska síðan nóttina góðu, og ekki beðbítina, svo að orð sé á gerandi. En það sagði Jón Hermann mér tveim árum seinna, að norska konan hefði fengið löglegan skilnað frá bónda sínum ári eftir að ég var hjá þeim. Og hvort sem það hefir verið af því, að hann barði mig í herbergi hennar eða af öðrum ástæðum, þá er mér það fullkomin vissa, að það hefir verið hefnd á hann fyrir að vera vondur við

mig, því hvort sem það segist á því eða ekki, eftir lögum, að berja nýkominn Íslending í Ameríku, þá er það óláns barsmíði, sem hefnir sín sjálf. Hefi ég þá óbilandi trú, að guð hafi ekki verið að tjarga í okkur lífinu, Íslendinga, í gegnum allar alda-hörmungarnar, sem hefðu drepið hverja meðal-þjóð eða gert hana aftur að dýrum, ef hann ætlaði okkur ekki hærra hlutverk en það, að láta hérlendinga berja okkur karlmennina og gera stúlkurnar okkar að útungunarvélum sínum.

Frá þeirri norsku frétti ég það, að hún hefði farið suður í Bandaríki, og gengið þar á skóla. Hefði hún brátt orðið kvenfrelsiskona og skrifað margar bækur um leiðinlega karla, sem færu seinast sjálfir í svínin. Seinna hafði hún samt snúið körlunum upp í háleist og farið að skrifa um landafundi Norðmanna í bandarísk tímarit. Sá ég og las sumar af greinum hennar. Ræðir hún mikið um norsku nýlendurnar á Íslandi, Grænlandi og Vínlandi og Svalbarðsfund þeirra, og þá samlanda sína Leif og Þorfinn og Snorra og Guðbrand Vigfússon. Hygg ég, að henni hafi líkað svo vel við mig, að hún unni öllum Íslendingum síðan og vilji þess vegna gera þá alla að bræðrum sínum. En síðan hefir rignt yfir hana heiðurskrossum heiman frá Noregi, og mun ei langt líða, unz skólabækur þar birta útdrætti hennar úr norskum sögum, er Norðmenn rituðu fyrir löngu síðan á Íslandi, og við, Íslendingar, eignuðum okkur einu sinni.

---

# Jóhannes P. Pálsson

---

## *ÁLFUR Á BORG*

### I.

Helgi studdi olnbogunum á borðið og hvíldi höfuðið í höndum sér. Það var með öllu úr honum stolið, að vorprófin voru í nánd, að Cæsar hafði barizt við Galla, að latnesk skrudda lá á borðinu rétt við nefið á honum. Glugginn var opinn og Helgi einblíndi út um hann niður á götuna, eða öllu heldur út í bláinn. Nöldur og skvaldur borgarinnar glapti hugsunina; en vorgolan teygði mjúkan arminn inn um gluggann og strauk blíðlega um vanga og enni. Þetta var sönn hvíld, að eiga heima í hringiðu lífsins, en láta þó ekki berast fyrir straumnum. Vera með í leik lífsins, en þó áhorfandi. Sjá lífið iða og sprikla á götunni, og þykja jafnvænt um allt og alla.

En eitthvað, sem fyrir augun bar, var að vekja Helga af þessum dvala. Hann nuddaði augun og beindi þeim að stórum og sterklegum bóndamanni, sem hafði gengið upp og ofan hinumegin á götunni, og margsinnis aðgætt húsnúmerin. Maðurinn bar langan snærisvafinn stranga undir hendinni.

Álfur á Borg kominn til borgarinnar. Það var þó ómögulegt! Jú, víst var svo. Þessar herðar — og skeggið — gátu ekki svikið lit.

Helgi stökk upp frá borðinu, hentist niður stigann og yfir götuna eins og kólfi væri skotið. „Álfur, Álfur! Komdu margblessaður og velkominn til borgarinnar“.

„Ja, komdu sæll, Helgi minn, og nú þykir mér

vænt um að sjá þig. Ég var að leita að húsnúmerinu þínu, en hefi verið skökku megin í götunni". Og Álfur brosti. En þegar Álfur brosti, urðu stóru, bláu augun hans barmafull af gleði, sem lýsti upp allt andlitið, yzt út á hnjúka kinnbeinanna og yfir alla skeggbreiðuna — út á axlir og niður undir mitti. Svo strauk hann skeggið, og alvaran skyggði að. Það var ekki eitt ský, sem dró fyrir sólina, heldur gægðist sólin út á milli skýjanna. Þannig brosti Álfur á Borg.

„Blessaður karlinn. Komdu upp í kompuna mína og leystu ofan af skjóðunni. Hvernig líður ykkur öllum í Mörk? Og á hvaða ferð ertu? Og hvað er í stranganum þeim arna?" Spurningarnar hrukku af vörum Helga, eins og höggspænir frá exi skógarmannsins.

Þegar upp í herbergi Helga kom, leit Álfur í kringum sig og reisti strangann upp við vegginn í einu horninu.

Helgi hélt áfram að spyrja, þó hann fengi ekkert svar. — „Ætlarðu ekki að segja mér neitt í fréttum?"

„Það verður nú víst minna um það, ef þú heldur svona áfram að spyrja. Ég ber ekki nógu ört á. Það er komið sama kastið á allt og alla. Allir þurfa að vera á fleygiferð, og þó þið tyllið ykkur niður augnablik, þá gengur túlinn eins og vindrella í vestanroki".

Helgi hló.

„Ég er annars kominn til að biðja þig bónar, Helgi minn. Þarf að tala við hérlendan mann hér í borginni; en, eins og þú veizt, kann ég ekki ensku. Viltu túlka fyrir mig?"

„Já, sjálfsagt og guðvelkomið! Þú átt það meira en skilið af mér".

„Það veit ég nú ekki. Enda get ég þóknast þér eitthvað fyrir það".

„Nei, víst ekki. Ég er ekki búinn að gleyma, hvað þið Þórunn voruð mér góð, þegar ég var umkomulaus emigranti. Jú, ég skal víst túlka fyrir þig — það er að segja. ef þú ætlar ekki að segja landstjóranum til syndanna“.

„Ó-nei. En ég þarf að hafa tal af manni, sem líklega hefir meiri völd en landstjórinn“.

Helga varð ekki um sel. Álfur spaugaði aldrei. Svo var hann orðlagður um alla Merkurnýlenduna fyrir stórbokkaskap og sérvizku. Hann var utan við flestan félagsskap byggðarbúa, og enginn kosningasnati hafði í eitt sinn eða annað getað unnið bug á hans eigin sannfæringu. Svo var karl ættfróður vel, og rakti ætt sína til Egils á Borg, og fannst nokkuð til; að vera út af svo vænum manni kominn. Þess utan var hann kvæntur menntaðri konu af einni af beztu ættum Íslands. Hafði hann numið hana á burt úr heimahúsum og horfið með hana til Vesturheims. Ekki vissi Helgi til að Álfur raupaði af þessu, en hitt þótti honum líklegt, að hann fylgdi fast áformi sínu, hvað sem það kynni að vera. Nei, það var ekki við lambið að leika sér.

„Það er forseti járnbrautarfélagsins, sem ég á erindi við“, sagði Álfur og strauk skeggið.

„En hvernig í dauðanum getur þér dottið í hug, að hann hlusti á þig og okkar líka, þegar heilar nefndir þurfa að bíða dögunum saman og sæta lagi til þess að ná tali af honum?“

„Það skal ég segja þér, drengur minn. Þetta er nú víst í tólfta skiftið, sem kveifarnar úr Mörk senda nefnd til þess að biðja um járnbraut inn í nýlenduna. Þeir eru að slæpast hér núna í borginni og hafa mælt sér mót með Þorbirni klukkan tvö á morgun. Við förum inn með nefndinni, og þá get ég talað við Þorbjörn“.

„En Mr. Thorburn, eða Þorbjörn, eins og þú nefnir hann, er hárviss að reka okkur út“.

Álfur horfði fast og rólega á Helga og strauk skeggið. „Nei, það gerir hann ekki. Ég hygg hann reyni það ekki“.

„En hvaða erindi áttu annars við Mr. Thorburn?“

„Ég ætla að mælast til þess, að hann láti leggja brautarstúf út í nýlenduna okkar“.

„Og er það ekki það, sem nefndin ætlar sér að fara fram á við hann?“

„Jú, jú! Og gerir það líklega á sama hátt og fyrr. Þingmaðurinn okkar rausar eitthvað um dugnað frumbýlinganna, auðsuppsprettur vatns og skóga, réttmætar kröfur og fleira, sem þægilegt er að vaða elginn um, án þess að koma með nýta hugsun. Ég segi þér satt, drengur minn, að stórmenni af norrænum ættum, eins og Þorbjörn er, er fyrir löngu leiður á þessum skrípaleik. Hann tekur ekki meira mark á þessum vaðli en tunglið, þegar hundarnir gelta að því“.

„En Mr. Thorburn er skozkur að ætt“. Helgi mátti ekki gefast upp við svo búið. Hann varð að koma vitinu fyrir Álf.

„Já, hann er ættaður af norðurströnd Skotlands. Þar lentu víkingar í fornöld og sumir þeirra settust þar að. Enda er ættarnafn hans nóg sönnun fyrir ætt hans og uppruna. Svo eru líkindi til þess, að norrænt víkingablóð renni í æðum þess manns, sem leggur í aðra heimsálfu, umkomulaus unglingur, og ryður sér braut upp í einn æðsta valdasess landsins“.

„En ég hefi allt af haldið, að þú kærðir þig ekkert um að járnbraut yrði lögð út í Mörk. Og sumir Merkurbúar bera kala til þín fyrir bragðið“.

„O, ég kæri mig ekki svo mikið um brautina, drengur minn. En mér leiðist, að byggðarmenn okkar skuli ár eftir ár eyða tíma og fé í það, að færa stórmenn-

um þessa lands heim sanninn um, að þeir séu ómenni og aular, sem krjúpa árlega í bæn fyrir þessum Þorbirni og taka tvíræð svör hans sem véfrétt, og gera sig ánægða með allt saman. Einhver þarf að binda enda á þessa smán, og mig langar til að reyna það".

„Æltarðu þá að fá Mr. Thorburn til að lofa því, að brautin verði aldrei byggð?"

„Já; eða hitt, að hann láti byggja hana bráðlega. Yngri mönnunum veitir víst ekki af því. Þeir þykjast nú ekki lengur menn, nema þeir sitji eins og kararkerling við vinnu sína, og eins ef þeir þurfa að bregða sér bæjarleið".

Helgi var orðinn daufur í bragði og sár, sá eftir að hafa lofað Álfi að túlka mál hans.

„Þú líklega fyrirverður þig fyrir að láta Þorbjörn sjá þig með mér, Helgi minn". Og það var þýður hryggðarblær í röddinni. „En þú myndir líklega ekki bera kinnroða fyrir að vera einn af nefndarmönnunum. Þetta kemur til af því, að þú kannt enn ekki að meta rétt gildi hlutanna. Þessir nefndarmenn okkar verða á morgun frammi fyrir Þorbirni eins og þorskar á þurru landi. Vittu til. Þeir iða eins og ánamaðkar innan í billegu sparituskunum sínum. og finnst heiður í því, að koma sem beiningamenn fram fyrir höfðingjann. Þorbjörn er maður eins og ég, Helgi". Og nú fór Álfur að verða fastmæltari. „Hann hefir verið sjálfum sér trúr og vakað yfir manndómi sínum, sem hann tók í arf frá forfeðrunum. Hann hefir aldrei reynt að sýnast annað en hann er, og aldrei látið gjálfur og gjamm kjaftaska og málaskúma hræra í huga sínum. — Heldurðu ég þekki ekki norrænt eðli? Heldurðu að Þorbjörn þekki það ekki?"

Karl var nú staðinn upp og horfði góðlátlega á unglinginn, sem var orðinn blóðrjóður út undir eyru. Þannig stóð Álfur stundarkorn grafkyrr í sömu sporum. Hann gat verið steinlíkneski eða fjall. Eða það

fannst Helga. Þessi ógnar jötunn var magnaður einhverjum kynja krafti. . . .

„Hvað segir þú, Helgi minn?“

Helgi var augnablik að átta sig. „Já, já, Álfur. Ég skal koma með þér til Þorbjarnar. Það er heiður fyrir mig, en ekki skömm. Og þetta er í fyrsta sinni á æfinni, sem ég hefi verið viss um, að það er gott að vera Íslendingur“. Það brá regnglampa fyrir í augum unglingsins. En augu Álfs fylltust snöggvast gleðinni, og skeggið ljómaði eins og úfinn útsjór undir miðnætursólinni.

II.

Klukkan var að verða tvö, þegar þeir félagar gengu inn í biðstofuna. Helgi, grannvaxið snyrtimenni á borgarvísu; Álfur, stór og mikilúðlegur, þokkalega en hversdagslega til fara, með langan sívalning undir hendinni. Það var hálfskrítið að sjá karl með strangann, en Helgi fékkst ekkert um það. Álfur varð að hafa það allt eins og honum sýndist. Þeir köstuðu kveðju á sveitunga sína, sem sátu þar fyrir — nefndarmennina prúðbúna og hæverska. Þar var líka íslenzki þingmaðurinn, sjálfkjörinn foringi nefndarinnar. Hann hnyklaði brýnnar og spurði þann, sem næstur honum sat, hvort Álfur á Borg væri í nefndinni. Í þessu opnuðust dyrnar að skrifstofu Mr. Thorburns, og þjónn hans bað nefndarmenn að ganga inn. Álfur og Helgi drógu sig í hlé, en smeygðu sér inn áður en hurðin féll í lás.

Þingmaður nefndi nöfn nefndarmanna jafnóðum og þeir komu inn; en Mr. Thorburn heilsaði þeim með handabandi, og var hinn alúðlegasti. En þegar þeir Álfur og Helgi ráku lestina, kom hik á þingmanninn.

„*How do you do?*“ sagði Mr. Thorburn og tók þétt í hönd Álfs.

„Kondu sæll, Þorbjörn“, sagði Álfur á íslenzku.

„Hvað sagðirðu að þessi jötunn héti?“ spurði Mr. Thorburn þingmanninn.

„Þetta er Álfur á Borg“, sagði Helgi. „Hann var að heilsa þér á íslenzku“.

Það fór ónota hrollur um nefndarmenn.

„Mikið bölvað hneyksli“, hugsaði þingmaðurinn. En upphátt sagði hann: „Þetta er ekki nefndarmaður. Hann er staddur hér í bænum og fylgist með byggðarmönnum sínum“.

„Það er sjáanlegt, að hann er staddur hér í bænum“, sagði Mr. Thorburn og brosti. „En nú skal ég hlusta á mál ykkar“.

Álfur rambaði út í horn og Helgi á eftir. Þar stóðu þeir á meðan þingmaðurinn flutti erindi nefndarinnar. Þar stóð Álfur eins og steinstytta og studdist fram áströngul sinn.

Helga fannst Álfur hafa lýst athöfninni býsna vel daginn áður, og hafði karl þó aldrei verið í járnbrautarnefnd. En hann vissi sínu viti.

Mr. Thorburn hlustaði á þingmanninn með mestu athygli, en augu hans hvörfluðu oft til Álfs, þar sem hann stóð úti í horni á skrifstofunni.

Þegar tölumaður hafði lokið máli sínu, varð stundar þögn. Þá reis Mr. Thorburn úr sæti. Hældi nýlendubúum fyrir dugnað sinn og nefndarmönnum fyrir framtakssemi þeirra. Hann kvað kröfur þeirra sanngjarnar og lofaðist til að bera þær fram fyrir framkvæmdastjórn félagsins. Félagið hlyti að taka þær til alvarlegrar umhugsunar. Þingmaðurinn skyldi fá skriflegt svar innan mánaðar. Svo opnaði Mr. Thorburn dyrnar.

„Ég ætlaði að fá að tala við þig nokkur orð, Þorbjörn“, sagði Álfur og teygði úr sér, en Helgi sneri orðum hans á ensku.

Nefndarmenn flýttu sér út. — Bölvaður karlinn að gera Íslendingum þessa hneisu!

„Bíddu við eitt augnablik“, sagði Mr. Thorburn og leit til Helga. Og svo kvaddi hann nefndarmenn og þingmann með handabandi, og læsti síðan dyrunum.

Á meðan þessu fór fram, hafði Álfur leyst snærið utan af stranganum, ofið það í hönk og stakk því nú í treyjuvasann.

„Svona nú“, sagði Mr. Thorburn og vék talinu að Helga. „Nú á gamli maðurinn orðið. Láttu hann tala og túlkaðu fyrir mig. Ég ætti annars að bjóða ykkur sæti, en þessi risi er allt annað en þreytulegur“. Og enn brosti Mr. Thorburn. En Helgi þýddi orðin fyrir Álfi.

Álfur fletti sundur stranganum, og kom þá í ljós, að í honum var heimaofin gólfábreiða með stórum bjarnarfeldi í miðju, en jaðrar og horn fagurlega útsaumuð. Svo tók karl til máls: „Það var siður forfeðra okkar, Þorbjörn, höfðingjanna, þegar þeir sóttu hver annan heim, að skiftast á gjöfum til minnis um samfundi þeirra. Og vil ég biðja þig að þiggja af mér þennan grip, til minnis um að menn og konur byggi Merkurnýlenduna. Þessi feldur er af bjarndýri, sem ég vann sjálfur, og ég hygg, að þú finnir hvorki á því kúlugat né gildruáverka. Konan mín, sem Þórunn heitir, óf dúkinn og saumaði í hann myndir af sumum þeim atburðum í frumbýlingslífi nýlendunnar, sem lengst verða okkur eldri mönnunum í minni. Nú treysti ég höfðingsskap þínum, Þorbjörn, til þess að þú látir mig ekki bera þennan böggul heim aftur. Skal ég og hafa það til marks um stórlæti þitt, sem smámennin mundu kalla lítillæti, að þiggir þú af mér þessa gjöf, munir þú vera of mikill maður til þess, að gefa þeim tvírætt svar, sem spyr þig í einlægni“. Álfur þagði augnablik og horfði fast á Mr. Thorburn, en sagði svo:

„Ætlar félag þitt að leggja braut út í Mörk? Og ef svo er, hvenær?“

Mr. Thorburn hafði setið hljóður og alvarlegur með augun á Álfi, meðan hann talaði. Nú stóð hann upp frá skrifborðinu og gekk til þeirra Álfs og Helga. Hann tók ábreiðuna af Álfi, skoðaði hana vandlega, og vék sér að Helga. „Segðu þessum norræna höfðingja, að ég þakki honum komuna. Segðu honum, að það gleðji mig að sjá víking stíga fram úr fornöldinni, yfir þúsund ár, og koma til fundar við mig. Segðu honum, að ég muni heimsækja hann innan tveggja ára, og að ég leggi aldrei í langferð nema í privat lestarvagni. Og segðu honum, að til þess að vera viss um, að ég gleymi ekki þessu loforði, ætli ég mér að leggja gólfdúk þennan framan við rúmið mitt, og að ég þakki honum og konu hans góða gjöf“.

## III.

Tæpum tveim árum síðar var mikill mannfagnaður í Mörk. Hin langþráða járnbraut var loks komin inn í nýlenduna. Þorpið var enn í smíðum, en þó fékkst þar allstór skáli til veizluhalds. Það gerði hátíðarhaldið enn þá dýrðlegra, að Mr. Thorburn, forseti járnbrautarfélagsins, hafði komið í privat lestarvagni, og var að sjálfsögðu aðalheiðursgesturinn. Þar næst þingmaðurinn og svo sveitarráðsmenn, og gamlir járnbrautarnefndarmenn.

Ræður voru haldnar undir borðum, og gengu þær mest út á að lofa ötulleika byggðarbúa, dugnað þingmannsins og mannkosti Mr. Thorburns. Þá var einnig vikið að íhaldssemi og sérvizku þeirra, sem létu sig engu skifta um framför nýlendunnar. Vissu menn, að hér var átt við Álf á Borg og hans nóta, og þótti mælt að maklegleikum. — Álfur var ekki í veizlunni og var hans lítt saknað, þar til Mr. Thorburn spurði eftir honum. En þegar hann varð þess vís, að Álfur sat

heima, bað hann að afsaka sig, leigði sér ökumann og ók heim að Borg.

## *ÁSA Í SÓLHEIMUM*

Fyrir þremur árum hafði sérfræðingur gert holdskurð, við innvortis meinsemd, á Ásu, konu séra Héðins í Sólheimum. Hafði hann sagt presti, að ekki hefði hann komizt fyrir meinið, og að það mundi taka sig upp aftur, en þá yrði ekkert að gert. Nú lá Ása fyrir dauðanum; og þó að presturinn hefði kallað sérfræðinginn til að skoða sjúklinginn, vissi hann, að engin von var um bata. Þessi ágæti læknir var nú að athuga sjúkdóm Ásu; og á meðan hafðist presturinn við inni á skrifstofu sinni.

Séra Héðinn sat við skrifborðið sitt, og grúfði andlitið í örmum sér. Hann var úrvinda af þreytu og harmi. Einu sinni enn reyndi hann að nálgast drottin sinn og frelsara í bæninni, en fekk enga bænheyrslu, náði engu sambandi við ríki himnanna. Þetta féll honum því þyngra, sem hann hafði áður verið bænheitur og daglega bergt af lifandi vatni bænarinnar — notið hinnar svimandi sælu, er hinn sanntrúaði einn þekkir.

Í seinni tíð var eins og drottinn himnanna hefði lokað dýrðarsölum sínum fyrir séra Héðni; einmitt þegar honum lá mest á, meðan konan hans elskuleg lá banaleguna.

Hann reyndi á allar lundir að nálgast guð. Hann ávarpaði himnaföðurinn margvíslega. Hann reyndi gamlar bænir, sem móðir hans hafði kennt honum, þegar hann var barn. Hann hafði upp fegurstu sálmvers, sem hann kunni. En allt bar að sama brunni. Óðar en hann varði var hugur hans hlaupinn til baka

aftur í tímann; og talfærin ein tautuðu bænarorðin, dauð og köld. Hugurinn var magnlaus og hjartað kalt. Einhver dauðans þreyta og lífsleiðindi beygðu nú þennan dygga þjón drottins. Við þetta bættist svo grunur sá, er séra Héðinn hafði alið í seinni tíð: að guð mundi einhverntíma hegna sér fyrir að giftast þeirri konu, sem nú lægi innan skamms kaldur nár. Því Ása var skynsemistrúar. Og það vissi séra Héðinn áður en hann gekk að eiga hana. En með því að giftast henni, efaðist hann ekki um, að hann fengi snúið henni til hinnar einu sönnu, lifandi trúar. Og um leið og hann hafði þakkað guði sínum fyrir að gefa sér slíka konu, lofaðist hann til, að færa honum sál hennar, fulla trúnaðartrausts og auðmýktar í ótta drottins. Þetta loforð hafði honum ekki tekizt að efna. Ekki fannst honum þó sökin liggja beinlínis hjá sér. Hversu oft hafði hann ekki beðið guð að breyta hugarfari hennar? Og hversu oft hafði hann ekki, með ástúð og kristilegri þolinmæði, talað um þetta við Ásu? En tvennt var það, sem hann hafði óljósa hugmynd um að kæmi í bága við áform hans í þessum efnum: sannfæring hans um, að þó Ása tæki trú, yrði hún engan veginn betri, elskulegri né indælli kona en hún var: og, að í hvert skifti sem hann ræddi trúmál við hana, fannst honum trúarvissan lamast hjá sjálfum sér. Af þesu réði hann, að hann væri siðferðilega eða trúarlega hugleysingi, hefði brugðizt drottni sínum og frelsara, vegna konu-ástar.

Það var líka í samræmi við þessar átölur samvizkunnar, að nú, þegar hann átti að sjá á bak þessari konu, sem hann elskaði meir en allt annað í heiminum, var það helzta hugfró hans, að rifja upp endurminningar, frá því fyrsta hann sá hana og fram á þann dag, sem lagði hana á banabeðinn. Þarna átti hann heilt konungsríki af ást og unaði. . . .

„Almáttugi, eilífi guð og faðir! Vertu mér syndugum líknsamur“. ....

Hann sá hana í fyrsta skifti í danssalnum. (Það eitt hefði átt að vera honum nægileg viðvörun). Þá var hann nýútskrifaður og nýbúinn að taka við söfnuðinum. Hann þurfti að hafa tal af manni, sem sat inni í salnum; og var ekki fyrr kominn inn úr dyrunum, en hann leit beint framan í það fegursta stúlkuandlit, sem hann hafði séð á lífsleiðinni. Og hún brosti til hans yfir breiða karlmannsöxl. Séra Héðinn stóð grafkyrr og agndofa. Sýnin hvarf; en nokkur augnablik fylgdi hann með augunum glókollinum á ungum og yndislegum líkama, sem leið áfram eins og draumsýn, unz hún hvarf í hringiðu fjöldans. Þá áttaði hann sig, kom auga á þann, sem hann átti erindi við, og tyllti sér niður á bekkinn hjá honum. Ekki var það nauðsynlegt fyrir prestinn, að staldra við, þó hann skiftist á nokkrum orðum við manninn; en hann fór þó úr yfirhöfninni og ræddi margt við sessunaut sinn, sem ekki kom erindinu við. Eftir hverju beið hann? Öðru brosi frá ljóshærðu stúlkunni? Hún virtist örlát á þau, en þau voru ekki fyrir hann. Eftir nokkra stund varð ys nokkur fram við dyrnar. Maður hafði komið að utan, og sá hvergi í hann fyrir dúðum og hrími. Dansfólkið flykktist um hann, og hljóðfærin duttu í logn. Einhver kallaði: „Ása, Ása!“ Og glóhærða dansmærin tróð sér fram að dyrunum, talaði nokkur orð við dúðumanninn, brá sér þangað, sem loðúlpan hennar hékk, og sveiflaði sér í hana. Svo steytti hún hnefann hlægjandi til þeirra, sem léku fyrir dansinum: „Því haldið þið ekki áfram, letingjarnir ykkar?“ Þeir byrjuðu glymjandi danslag, og Ása dansaði fram gólfið. Á þeirri leið greip hún inn í hending úr laginu og söng skærum gleðirómi orðin: „Gleð þig við lífið!“ Svo var hún horfin út í vetrarnóttina.

Það var eins og sólin hyrfi af himninum á heiðum vordegi. Eða það fannst séra Héðni. „Hver er hún?“ spurði hann ósjálfrátt.

„Áttu við stúlkuna, sem fór út?“ spurði sá, er sat hjá presti.

„Já“.

„Það er hún Ása Ármann. Hún var sótt til hans Péturs postula — hans Péturs Sandfells. Hann er víst kominn að því að skilja við, karltetrið“.

„En því er hann kallaður Pétur postuli?“ spurði prestur og kímdi.

„Hann fékk það nafn, þegar hann fór að prédika. Karlinn varð allt í einu mesta trúarhetja og hefir verið undarlegur síðan. Læknirinn segir, að sjúkdómurinn hafi byrjað um líkt leyti og afturhvarf hans, eða eins og hann kemst sjálfur að orði: afturhvarf andans og afturför holdsins urðu samferða í Pétri gamla“.

„En hvar á hann heima?“

„Síðan þetta kom fyrir karlinn, hefir hann hafzt við í kofa, tvær mílur fyrir sunnan bæinn, og væri fyrir löngu dauður, ef nágrannar hans hefðu ekki haldið í honum líftórunni“.

Séra Héðinn fór í yfirhöfn sína og hélt heim. Honum fannst það undarlegt, að ung og fögur stúlka var sótt inn á dansleik til þess að þjónusta Pétur postula, en hann, sjálfur presturinn — — —. „En guði sé lof, að hún er í þjónstu frelsarans!“

Þetta var fyrsta viðkynning hans af Ásu .... og nú var hún að deyja. ....

„Drottinn guð, himneski faðir! Sendu mér geisla þinnar eilífu dýrðar til að rjúfa þetta dauðans myrkur, einn lítinn geisla þinnar eilífu dýrðar, frá uppsprettu ljóssins“ — og hugur séra Hèðins hvarflaði

frá bæninni, til endurminninganna — það var blitt og bjart júníkvöld.

Rannveig gamla, sem sá um líkamlega velferð prestsins, var komin í rúmið, en hann sat úti á svölunum á prestsetrinu, og naut kyrrðar og fegurðar sumarnæturinnar. Hugur hans var hjá Ásu. Annars hélt hann sig þar langdvölum; því mynd hennar gægðist oft fram í huga prestsins, og það stundum þegar sízt skyldi. En hvernig sem trúarskoðanir hennar kunnu að vera, var hún í þjónustu drottins í kvöld, eins og svo oft endrarnær. Hann vissi, að hún hafði setið allan seinnipart dagsins hjá Katrínu gömlu í Kotinu. Þangað hafði séra Héðinn aldrei komið. Kerling hafði forboðið það. En læknirinn hafði gefið honum nokkra hugmynd um andlegt og líkamlegt ástand Katrínar. Og nú sat Ása inni í daunillu og hálfdimmu kofhrófinu, til þess að létta undir krossbyrði einstæðingsins, og lækka öldurót hrelldrar sálar. Og hvernig mátti þetta ske, þar sem Ásu skorti hina sönnu; lifandi trú? Var það ekki heilög skylda hans, að leiða Ásu til drottins? Var það ekki ábyrgðarhluti fyrir hann, að sitja hjá og láta dagana og, ef til vill, árin líða, án þess að gera alvarlega tilraun til þess, að koma þessari ungu og óspilltu sál inn í samfélag heilagra? .... Hann gerði skjóta ákvörðun. Eftir stutta og innilega bæn stóð hann á fætur og tók götuna, sem lá í áttina til kotsins.

Þorpið var ekki stórt, og þótt kotið stæði í útjaðri þess, var prestur kominn þangað eftir nokkrar mínútur. Hann nam staðar við dyrnar og hlustaði. Hurðin stóð í hálfa gátt. Séra Héðni fannst rödd Ásu eins og vorblærinn, en skrækrómur Katrínar líkur vetrarnæðingi. Hann hikaði. .... Hvaða erindi átti hann inn í kofann? ....

*Vorblærinn:* Já, Katrín mín, svona er lífið —

ærslafullt, undarlegt, af því við skiljum það ekki — enn þá.

*Haustnæðingurinn:* Skiljum það ekki? Ég skil þetta núna skratti vel. En til hvers er mér það?

*Vorblærinn:* Þú hefir lært þetta. Mannfélagið hefir lært þetta, eða lesið upp. Lífinu hefir lærzt dýrmæt lexia.

*Vetrarnæðingurinn:* En hvern déskotann hefi ég upp úr því, annað en kvalirnar og kaunin?

*Vorblærinn:* Þú og ég erum ekki stærri í elfu lífsins en tveir vatnsdropar í hafinu. En það eru vatnsdropar, sem fleyta stórum skipum, það eru vatnsdropar, sem sólin kallar úr hafinu og myndar ský úr. Svo taka loftstraumarnir skýin, kæla þau og hressa og blessa jörðina með þeim. Við líðum ofurlítið, og lífið lærir ofurlítið; en lífinu vinnst ögn, af því við erum til. Þykir þér ekki vænt um, að geta lagt ögn til — hjálpað Alföður í þessu mikla verki hans, sem við vorum að tala um áðan?

*Vetrarnæðingurinn:* Það er ekki ólíklegt, að einhver læri af mér! Nú vildi ég, að ég gæti hlegið, Ása min.

*Vorblærinn:* Já, þú ert lífsins barn. Þau hlæja að hættunni, þrautunum og sjálfum dauðanum. Þau finna, að þetta er allt líf.

*Vetrarnæðingurinn:* Þau hlæja líka að syndinni.

*Vorblærinn:* Við tölum ekki um hana, Katrín min. Ef þú vilt, skal ég biðja séra Héðinn að koma til þín. Hann kann að tala um syndina, en ég kann það ekki.

*Vetrarnæðingurinn:* Nei. Svei öllum prestum. Sá fyrsti varð seinna prestur.

*Vorblærinn:* Séra Héðinn er góður maður. Hann litur sínum augum á lífið, og við okkar. Ef þú vilt —

*Vetrarnæðingurinn:* Nei, fari það bölvað. En syndin er til, Ása min.

*Vorblærinn:* Já, líklega. En ég kalla hana heimsku. Að þú drýgðir það, sem þú kallar synd, kom ekki til af því, að þú þekkir einhvern djöful í helvíti, sem þú varst svo bálskotinn í, að þú vildir endilega þægjast honum eitthvað. Þú varst að eins fáfróð og grunnhyggin. Vitið tók ekki í taumana með tilfinningunum, og því fór sem fór. En það er betra að falla, eins og það er kallað, í sakleysi sínu, en standa, af hræðslu við helvíti. Á því lærist lífinu eitthvað. Þú hefir verið í skóla lífsins og ert nú kennari.

*Vetrarnæðingurinn:* Ég kennari — hæ, hæ!

*Vorblærinn;* Heldurðu ég læri ekkert af þér. Einu sinni varst þú ung og lagleg, Katrín mín, eins og ég. Heldurðu að líf þitt sé einskis virði, eftir að þú hefir sagt mér sögu þína? Og þú sjálf, Katrín mín, — varstu ekki einu sinni barn, sem kunni að leika sér, og varstu ekki ung stúlka, sem drakk í botn bikar lífsins, og skilur þú ekki svo margt og margt nú? Nei. Lífið er blessað og gott — eillíf áframhaldandi breyting.

*Vetrarnæðingurinn:* En ég er hrædd við dauðann, Àsa mín. Lífið er kannske ekki eins bölvað eins og ég hélt, en dauðinn!

*Vorblærinn:* Dauðinn er einn þáttur í lífi okkar, eða breyting, eins og til dæmis þegar við fæðumst. Þú hefir þó líklega ekki verið hrædd við að fæðast?

*Vetrarnæðingurinn:* Hrædd við að fæðast? — hæ, hæ! Ég vissi ekkert af mér.

*Vorblærinn:* Og þú veizt ekkert af þér meðan þú ert að deyja. Og þú þarft ekkert að kvíða fyrir því. Þú skalt bara liggja grafkyr og kvíðalaus; því í dauðanum, eins og alla æfi þína, hvílir þú í faðmi lífsins.

*Vetrarnæðingurinn:* En er þá ekkert annað líf?

*Vorblærinn:* Nei. Lífið er eitt. Það er ekki slitið sundur í tvö eða fleiri parta.

*Vetrarnæðingurinn:* En hvað tekur við eftir dauðann?

*Vorblærinn:* Lífið sér um það. Geturðu ekki treyst Alföður, sem vakti þig í faðmi lífsins.

*Vetrarnæðingurinn:* Jú, ég held það, Ása mín. Þú ert hjá mér í faðmi lífsins, eins og þú kallar það; og allir góðir menn og konur eru þar innan um okkur, syndaselina; það fer líklega allt saman vel á endanum.

*Vorblærinn:* Já, Katrín mín. — Allt vel. ....

.... Hvað átti presturinn að gera í Kotinu? Hann hélt heim til sín .... undarleg manneskja var þessi Ása. .... Svo djörf og gáfuð. .... Ef henni yrði að eins snúið, til hinnar sönnu, lifandi trúar; ef hún yrði konan hans! ....

Nú var Ása elsku-blessuð konan hans, og lá við dauðann. ....

„Drottinn minn og guð minn! Kenndu mér að lifa eftir þínum vilja, því að þú ert minn guð“. .... Þá reikaði hugurinn inn í kóngsríkið sitt. — Tunglið brá bleikum glampa á fölva haustsins, og kvöldblærinn hvíslaði skilnaðarkveðju sumarsins, að trjánum, sem enn stóðu keik í litskrúði sínu. Prestinum fannst friður drottins hvíla yfir jörðunni þetta kvöld. Á göngu sinni mætti hann Ásu, og mæltist til þess, að hún gengi með mér spölkorn út fyrir þorpið.

„Æ já“, sagði Ása. „Kvöldið er svo kyrrt og blítt. Við skulum hlusta á kveðju-andvörp sumarsins“.

„Og hugsa um upprisu náttúrunnar að vori“, bætti presturinn við.

„Ef við hugsum um upprisu, þá dettur okkur dauðinn í hug. Þessi orð eru of ákveðin. Þau tákna *þetta líf* og *annað líf*. Þau tákna *upphaf* og *endi*, svona allt í einu og upp úr þurru“.

„En sagðir þú ekki, að sumarið væri að kveðja?“

„Jú, séra Héðinn. Við kveðjumst í kvöld, en ég vona, að það tákni ekki dauða og upprisu". Og hlátur Ásu flaug út í kvöldkyrrðina, eins og söngfuglahópur.

„Það vona ég líka; þó enginn viti daga sinna tal".

„Sem betur fer", skaut Ása inn í.

„Já, sem betur fer", endurtók prestur. „Þess vegna ættu allir að vera viðbúnir, hvenær sem kallið kemur. Þess vegna ætti enginn okkar að láta svo dag líða, að hann komi ekki í bæn fram fyrir hásæti guðs".

„Eða geri ekki lífið bjartara og sælla, sjálfum sér eða öðrum — helzt báðum. Annars get ég ekki hugsað mér neitt hásæti guðs. Þegar við setjum alheimsaflinu þannig takmörk — komum því í mannslíki og setjum það í stóran stól, verður mynd sú hlægileg, eða öllu heldur hræðileg, í huga mínum. Ég er ekki hörundssár í þessum efnum, en ef nokkuð er goðgá, þá er slík skrípamynd af almættinu það. Og þegar við, þessar dægurflugur, tölum um dauða og upprisu, verð ég óþolinmóð. Saga lífsins á jörðinni, eins og mannvitið les hana, er eitt óslitið þroskaskeið, og ég held, að lífið haldi áfram að þroskast um alla eilífð".

„En hvað verður um einstaklingseðlið, sjálfsvitundina, og viljaþrek mannsins? Hvað verður um allt þetta í dauðanum?"

„Það veit ég ekki, og langar ekkert til að vita það — í bráðina. Ég er ekki einu sinni viss um, að neitt af þessu sé til í þeirri merkingu, sem orðin eru vanalega notuð. Allt lífið er ein samfeld heild, já, og þar með jafnvel það, sem kallað er dautt efni. Einstaklingseðlið er ekki annað en sérkenni einnar smáeindar, sem komin er upp úr óskapnaðinum, en er í öllu háð lífsheildinni. Sjálfsvitundin er hæfileiki þessarar eindar, að njóta um leið og hún starfar í

stríði lífsins upp til meiri fullkomnunar. Viljaþrekið, eins og það er vanalega skilið, viðurkenni ég ekki. — En nú ætla ég að biðja fyrirgefningar, séra Héðinn. Ég er að staðhæfa það, sem ég er ekki viss um. Það er svo sjaldan, sem ég get talað við þá, sem hugsa um þessi efni".

„Þú treystir þá lífinu algerlega fyrir tilveru þinni?"

„Já, eða höfundi þess".

„Með öðrum orðum: Þú treystir guði". Það var glaðværð í rödd séra Héðins.

„Já, séra Héðinn; þeim guði, sem vísindin eru smám saman að kynnast betur og betur; en ekki Jahve".

„Fyrirgefðu mér, Ása, en það er ekki forvitni ein, sem ræður spurningum mínum. Finnst þér þú einfær um að ráða lífi þínu? Finnur þú ekki til neinnar sektar við guð? Finnst þér þú ekki þurfa að vinna þér neitt til sáluhjálpar?"

„Ég finn sárt til fáfræði minnar. Ég finn til heimskunnar í heiminum. Ég leitast við að afla mér meiri þekkingar, og mig langar til þess, að miðla öðrum af því litla, sem ég veit. Þetta er sá eini vegur til sáluhjálpar, sem ég læt mig nokkru varða. Og þetta held ég að sé eina ráðið fyrir mennina, til þess að þeir læri að þekkja afstöðu sína hver til annars, og til alls þess, sem lífsanda dregur".

„Þú talar um afstöðu mannanna hvers til annars; en hvað um afstöðu þeirra gagnvart guði?"

Ása þagði stundarkorn; svo sagði hún hægt og stillilega: „Jesús og aðrir vitrir menn hafa sannað, að ef mennirnir komast af hver við annan, komast þeir af við guð". . . .

Þau sneru við, og héldu inn í þorpið. Séra Héðni fannst skoðanir Ásu liggja svo nærri meginatriðum

kristindómsins, að tíminn og náðargjöf heilags anda mundu megna að vinna þessa borg, guði til dýrðar.

Hann fylgdi henni heim. Þau kvöddust með handabandi. Það var ekki í neinu ósjálfræði, að hann sleppti ekki hönd hennar: „Ég elska þig, Ása. Viltu verða konan mín?“

Hún dró ekki höndina að sér. „Ég veit ekki, vinur minn. Þegar þú heldur svona í hönd mína, finnst mér ég lifa meira en nokkru sinni áður. Nóttin er fegri, blærinn hlýrri, öll tilveran unaðslegri. Í hjarta mínu finn ég ekkert nema gleði og fögnuð. En ég verð að hugsa um þig, vinur minn. Þú ert bundinn kirkjunni, sem ég hefi brotizt út úr. Þú mátt ekki láta þér koma til hugar, að ég leggi nokkurn tíma á mig hömlur hennar. Við erum ólík að öllu leyti, nema þessu: að okkur langar bæði til þess, að láta eitthvað gott af okkur leiða“.

„En Ása, elskan mín, með því að lifa saman, hljótum við að nálgast hvort annað í skoðunum“.

„Ekki í lífsskoðunum okkar. Komir þú inn á mínar skoðanir, er prestskap þínum lokið; en inn á þína andlegu braut kem ég aldrei“.

„En mér finnst guð hafa gefið mér þig, Ása. Mér finnst ég ekki geta lifað lengur án þín“.

„Þú gleymir svo mörgu í kvöld, Héðinn. Ég skal minna þig á eitt smá-atriði. Hugsaðu þér, hvernig bækurnar mínar færu í bókaskápnum þínum — Darwin, Huxley, Voltaire, Payne, Ingersoll og fleiri, sem kirkjan fordæmir. — Hugsaðu þig um í heila viku, og komdu svo til mín; þó mig gruni, hver úrslitin muni verða. Þú ráðfærir þig við drottin þinn, í bæninni, og svo vinnur lífið sigur á ykkur báðum. — Góða nótt, vinur minn. .... Já, þú mátt kyssa mig“.

Varir þeirra mættust. Svo hljóp hún frá honum og hvarf inn í húsið. ....

Séra Héðinn var orðinn kaldur og stirður, í stólnum við skrifborðið. Það var því líkast, að þetta, sem hann kallaði ódauðlega sál, væri ekkert annað en ást hans á Ásu; og himnaríki þeirrar sálar, endurminningarnar um stundirnar, sem hann hafði lifað með henni. .... Og Ása var að deyja. ....

„Ó, drottinn himnanna, miskunna þú mér! .... Ég fell í auðmýkt flatur niður að fótskör þinni, drottinn minn. .... Hún hefir verið verkfæri í þinni hendi — svo sterk og trú og einlæg“. ....

— Það var um kvöld heima á prestssetrinu. Unga fólkið í söfnuðinum hafði, eins og oftar, safnazt þar saman til að skemmta sér. Ása lék á slaghörpuna, en unglingarnir dönsuðu. Allt í einu hætti prestkonan í miðju lagi, og leit upp brosandi. „Þykir ykkur ekki annars meira gaman að nýju dönsunum?“

„Jú, jú!“ gall við í öllum áttum.

„Þá skalt þú leika lögin, María mín. Ég er svoddan klaufi, að ég kann þau ekki“.

Lagleg stúlka um tvítugt settist við hljóðfærið og lék hvern gargansönginn eftir annan.

Á allt þetta horfði séra Héðinn, eins og það væri sjálfsagt og eðlilegt. Allt var eins og það átti að vera, fyrst Ása stóð fyrir því. Hún kom líka til hans og stóð hjá honum.

„Blómin dansa eftir því, sem blærinn andar“, hvíslaði hún að manni sínum. „Lífsfjörið birtist allt af í nýjum og nýjum myndum. Við köllum þetta aldarandann, og verðum fokvond af því, að það er öðruvísi í dag en í gær. Héðinn minn, finnst þér ekki, að við sjáum að eins flöt lífselfinnar?“

„Jú, Ása“, svaraði presturinn, eins og í leiðslu. „Hann fer eftir því, hvernig botninn er á þessum eða hinum stað í farveginum. En það, sem er að gerast í djúpinu, skiljum við ekki. Drottinn ræður því“. ....

Með þetta hafði hann gert sig ánægðan: glaum og gjálífi; skáldlegt fimbulfamb um vélar djöfulsins. — Blindur! Staurblindur af ást til Ásu. ....

Ása var að deyja. ....

Löng stuna leið fram af vörum prestsins. ....

„Jesús grætur, heimur hlær. Hismið auma sikátt lifir. Syndaþræll". ....

Það fór hrollur um séra Héðinn; og nú *flúði* hann frá bæninni, inn í kóngsríkið sitt. ....

— Á fögrum sumardegi gerði safnaðarfólk séra Héðins þeim hjónum óvænta heimsókn. Gleði gestanna var svo innileg, og alúðin svo einlæg, að presturinn komst við; og hann þakkaði guði af hrærðu hjarta fyrir þessa ógleymanlegu stund.

Forseti safnaðarins hafði orð fyrir gestunum, og bar fram ríkmannlega gjöf til prestshjónanna. frá söfnuðinum. Síðan voru borð búin og mælt fyrir minni prests og konu hans. Ræðumaður lauk máli sínu þannig:

„Kæri vinur! Ykkur er það, ef til vill ekki kunnugt, að eftir að frú Ása flutti í þetta hús, var það uppnefnt. Lýsi ég nú yfir því, í heyranda hljóði, og í nafni safnaðarins, að uppnefnið skal haldast við prestssetur þetta, að minsta kosti eins lengi og frú Ása á hér heima. Nafnið er *Sólheimar*, og á upptök sín í hjörtum sumra þeirra, sem frúin hefir sent geisla sína til — geisla gleðinnar, fegurðarinnar og kærleikans. Og þessir geislar hafa skinið til okkar þorpsbúa í mörg ár — í meðlæti og mótlæti, í gleði og sorg, yfir vöggunni og niður í grafarmyrkrið. Guð blessi presthjónin í Sólheimum!" — Dynjandi lófaklapp. ....

„Bráðum verður það *myrkraheimar*", tautaði séra Héðinn. .... „Ó, guð, vor guð! Vér föllum fram, og fórnum þér brennandi, brennandi sál. .... Lygi!" .... Jökulgaddur örvæntingarinnar var að setjast

að um sál hans. .... Að eins einn vegur út, og hann lá inn á lönd endurminninganna. ....

— Það var um vetur, að næturlagi. Allt var hljótt í húsinu. Séra Héðinn var á bæn í skrifstofu sinni. Þá var hurðin opnuð hljóðlega, og hvítklædd hjúkrunarkona kom inn.

„Er ég að gera þér ónæði, séra Héðinn?“

„Nei, nei. Er — er nokkuð að?“

„Ekki nema það, að frúin vill, að þú komir og sjáir drenginn ykkar“.

„Guði sé lof!“ og hann flýtti sér á fund Ásu.

„Hefir þú tekið mikið út, elskan mín?“ hvíslaði hann og kyssti hana á ennið.

„Ég veit það ekki, og mér er líka sama um það; því nú hefir lífið veitt mér það bezta, sem í þess valdi stendur að gefa. Líttu á hann Héðinn litla! Já, góði minn, herra prestur! ég er búin að skíra hann. Þú getur gert það sjálfur seinna, ef þér sýnist, en þú gerir það ekki betur en ég, og þú verður að gefa honum sama nafn eins og ég“. Hún var svo barnalega glöð og aldrei hafði honum fundizt hún eins guðdómlega fögur eins og nú.

Reifastranginn lá í handarkrika hennar. Hún lyfti skýlunni frá litla andlitinu, sem gretti sig og kreisti saman augnahvarmana. „Er hann ekki yndislega fallegur, elskan litla?“ spurði hún brosandi.

„Jú, elskan mín“, skrökvaði prestur; því hann var alveg forviða og ráðalaus yfir því, hversu honum fannst barnið ófrítt.

„Og heyrðu mér, Héðinn minn, lof mér að hvísla nokkru að þér. Það er leyndarmál. Hann fær brjóstið sitt í fyrramálið. Og ég hlakka svo mikið til. Og ég hlakka til að þvo honum, og klæða hann, og sjá hann vaxa upp og verða að stórum og sterkum karlmanni“.

„Eigum við ekki, Ása mín, að þakka algóðum guði fyrir þessa gjöf?"

„Þú getur gert það, elskan mín. Ég kann það ekki. Fögnuðurinn í hjarta mínu er þakklætisbæn mín til lífsins; og yfir hann ná engin orð. Svo höfum við hann bara að láni. Hann er eins og við í faðmi lífsins, en á að verða okkur samferða — hvað lengi vitum við ekki".

„Drottinn ræður einn", sagði presturinn hátíðlega.

„En mannvitið á að hjálpa honum til að þekkja lífið, svo hann geti notið þess, og náð tökum á fegurð þess og unaði. Til þess eigum við að hjálpa honum, vinur minn".

„Já, og biðja guð að gefa okkur náð til þess", bætti prestur við. ....

Með þetta hafði hann gert sig ánægðan, þessa ógleymanlegu nótt. Föðurgleðin hafði læst sig um hann. Hann hafði ekki verið meiri nè minni en hver annar heiðingi. .... Héðinn. .... Hvar var Héðinn litli? ....

„Héðinn!"

„Já, pabbi", svaraði barnsrödd frammi í stofunni; og svo kom tíu ára gamall drenghnokki inn í skrifstofuna.

Héðinn litli var lifandi eftirmynd móður sinnar, nema hvað vaxtarlag hans gaf von um stóra og sterka líkamsbyggingu.

„Hvað viltu, pabbi minn?"

„Komdu til mín, barnið mitt. .... Svona. Leggðu hendurnar um hálsinn á mér".

„Ósköp er þér kalt, pabbi. Ertu líka veikur?"

„Nei, Héðinn minn; en það liggur illa á mér, af því mamma þín er veik".

„Já, en hún segist þurfa að deyja, svo hún hætti að verða veik".

„Veiztu hvað það þýðir, Héðinn — að mamma þín

þarf að deyja? Veiztu, að hún fer í burtu frá okkur, og kemur aldrei aftur?“

„Já — nei. Mamma sagðist allt af verða hjá okkur. Hún sagði, að við gætum allt af séð sig, af því við geymdum myndina af henni hérna“, og drengurinn var íbygginn, þegar hann benti á ennið á föður sínum. „Og veiztu hvað, pabbi. Ég var að reyna, að sjá hana áðan, hérna frammi í forstofunni, og ég *gat* séð hana, alveg eins og hún var, áður en hún varð veik“.

„En þegar hún er dáin, getur hún aldrei talað við okkur“.

„Jú, pabbi. Ég reyndi líka að heyra hana tala; og ég gat heyrt hana tala. Hún sagði: ‚Héðinn minn, nú áttu að þvo þér og greiða þér‘, og svo sagði hún: ‚gefðu litlu fuglunum ögn af brauðsneiðinni þinni‘, og hún sagði bara, hvað sem ég vildi. Og ég þekkti, að það var mamma!“

„En hún getur ekki sagt þér til — hvað þú átt að gera, og hvernig þú átt að haga þér“. Prestinum var eitthvað að létta um hjartað.

„Jú“, sagði Héðinn litli, og þóttist góður að vita meira en faðir hans. „Mamma sagði mér að hlusta vel, og þá gæti ég heyrt allt, sem hún hefir sagt mér áður. Og mamma sagði, að hún væri búin að segja mér svo mikið, að það mætti til að vera nóg. Og mamma sagði, að ef ég væri vondur, eða gerði eitthvað ljótt, þá hætti ég að geta séð hana og heyrt til hennar. Og mamma sagði, að hún yrði aldrei gömul og ljót, af því að hún ætlar að deyja. Heldurðu, pabbi, að mamma yrði nokkurn tíma ljót, þó hún færi ekki að deyja?“

„Nei, nei, Héðinn minn, aldrei!“

— Til hvers var að segja barninu, að mamma hans færi langt, langt í burt — þó það væri til himnaríkis? Eða var það víst, að hún — trúlaus — færi

þangað? Eða til hvers væri þá að berjast á móti skynsemistrúarstefnunni? Var annars nokkuð víst um annað líf? Já. Eitt var víst: að ef nokkurt himnaríki var til, þá færi Ása þangað!

Sérfræðingurinn, sem hafði verið að skoða Ásu, kom nú inn, og presturinn sendi Héðinn litla út.

„Það er alveg eins og læknirinn þinn hefir sagt þér, og eins og ég bjóst við. Frúin á að eins skammt eftir. Meinsemdin vex hröðum skrefum; og við því verður ekki gert. Hjúkrunarkonurnar gera allt, sem mögulegt er, til þess að lina þjáningarnar, sem eru einkennilega vægar í þessu tilfelli. Eitt er áríðandi mjög, að hún hreyfi sig sem allra minnst, því þá getur hún dáið allt í einu". Síðan kvaddi hann prest, og fór.

Séra Héðinn reikaði inn í herbergið til Ásu, og settist á stól við rúmið. Þegar hann tók um hönd hennar, brá fyrir ofurlitlu brosi á hinu föla og holdskarpa andliti hennar.

Kvöldsólin sendi geisla yfir mitt rúmið, í gegnum opinn gulggann. Fyrir utan hann breiddi stórt sykurviðartré laufríkt limið móti sumarhimninum, og í greinum þess léku nokkrir smáfuglar sér.

„Elsku Ása mín, viltu gera eina bón mína?" Séra Héðin var svo niðurbeygður, að Ásu rann til rifja að sjá útlit hans.

„Já, vinur minn— ef ég get það".

„Hafðu þá yfir stutta bæn, fyrir mig".

„Aftur flögraði bros um bleikar varirnar. „Já, vinur minn, það skal ég gera". Hún settist snögglega upp í rúminu. Höfuð hennar nam inn í sólargeislann. Hún horfði út um gluggann, og virtist aðgæta litlu fuglana, sem léku sér í liminu. Svo lyfti hún þeirri hendinni, sem laus var, eins og prestur, sem er að blessa yfir söfnuðinn:

„Alfaðir! Ég þakka þér, að þú vaktir mig úr algleymi óskapnaðarins, og fluttir mig inn í þessa miklu elfu lífsins, sem streymir í gegnum tíma og rúm, frá eilífð til eilífðar, — og alla daga mun ég hvíla í faðmi lífsins. — Alfaðir!“ — Hún kippti snögglega að sér höndunum, og greip um síðurnar. Séra Héðinn lagði hana hægt á koddann; og eftir nokkur augnablik var hún látin.

## ALLIR VEGIR FÆRIR

*(Þessi saga er skrifuð með hliðsjón af blaðafregn og er því að miklu leyti raunverulega sönn. — Höf.).*

„Fari þeir allir gráalda —“, svo sem Jónas Grant kvað á. Hann leit á stóran ferhyrndan pappírsböggul, sem pósturinn var nýkominn með. Það var í tuttugasta og fimmta skiftið, sem pósturinn hafði laumað sama bögglinum inn fyrir dyrnar hjá Jónasi Grant; svo honum var ekki ókunnugt um innihaldið. Það var skáldsagan hans, er hann hafði unnið að, af lífi og sál svo mánuðum og jafnvel árum skifti. Yfir henni hafði hann hlegið og grátið; því hún var hold af hans holdi og sál af hans sál. Og þetta óskabarn hans hafði flækzt um alla Ameríku hátt upp í tvö ár frá einum útgefanda, heim til föðurhúsanna, og þaðan aftur til annars útgefanda, svo heim aftur og svona koll af kolli. Heim með sér hafði hún vanalega snoturt gljápappírsspjald, stundum skrautritað: „Það hryggir oss, að handrit yðar er ekki þess eðlis, að vér sjáum oss fært að gefa það út“. — „Já, það er víst alltaf af grátur og gnístran tanna í heimkynnum þeirra, þessara vesalings, margþjáðu píslarvotta, sem á hverjum degi verða að úthella sorgum sínum á tugum og hundruðum skrautritaðra gljápappírsspjalda“. Hann hafði líka gefið þeim fleiri

hryggðarefni en bókina hans. Kvæði, ritgerðir, leikrit og smásögur hafði hann sent í allar áttir: og útkoman varð ætíð hin sama. Allt kom til baka með þessum eilífu, óumbreytanlegu hryggðarvottorðum á snotrum, skrautrituðum gljápappírsspjöldum. — „Gustuk væri nú, að láta greyin hlægja einu sinni“. Og Jónas Grant fleygði sér niður á gamlan og snjáðan legubekk, sem stóð við vegginn á móti glugganum. Á honum svaf hann á nóttinni. Hinna húsgagnanna gætti lítið — stólræfils og skrifborðsins, sem ritvélin stóð á. Bækur blöð og tímarit lágu í haugum og hrúgum í hverju horni, og það, sem hann átti af fötum, utan þess, sem hann var í, hékk á veggnum að hurðarbaki. Hann „át úti“.

Jónas Grant tók pípuna úr treyjuvasa sínum, þjappaði tóbaksleifunum neðar í hausinn, og kveikti í. Það orgaði illhryssingslega í pípunni nokkur augnablik, og svo steindrapst í henni. — „Tóbakslaus. Mikið þó!“ Hann hélt áfram að totta pípuna, seildist eftir tímariti í skrautkápu, sem lá á gólfinu, og blaðaði í því þangað til hann rakst á sögu eftir Rast — þennan óskiljanlega orðabelg, sem aldrei tæmdist, og var átrúnaðargoð útgefanda og ritstjóra. Allt, sem hann skrifaði, seldist fyrir offjár, og aldrei þótti hann afkasta nógu miklu fyrir þá, sem bitust og börðust um að fá að gefa út verk hans. Frægð þessa höfundar var Jónasi Grant hinn mesti leyndardómur. Hann las allt, sem hann náði í eftir Rast, í von um að ráða þessa gátu, en fann aldrei nautn eða ánægju í ritum hans. Og nú las hann söguna, sem hann hafði dottið ofan á í tímaritinu. Hún var um hálfvitlausa meykerlingu og blindan kött hennar. Heimili þeirra var óþrifakompa í sliguðum húsræfli, sem stóð í einu argasta skuggahverfi New York borgar. Í næsta klefa við óþrifakompu kerlingarinnar og kattarins hélt eineygður vasaþjófur til.

Sagan gekk öll út á stríð það og styrjöld, sem blindi kötturinn olli milli húsmóður hans og vasaþjófsins, og enti með því, að meykerlingin klóraði úr höfði vasaþjófsins þetta eina auga hans, en hann náði utan um barkakýlið á meykerlingunni og hengdi hana í greip sinni. Auðvitað var sagan að miklu leyti samtal á því máli, sem fáir mundu kæra sig um að leggja mikið á sig til að læra. En þetta var list. Hlaut að vera list. Og svo voru sjálfsagt ein tvö ferfet með af myndum eftir annan meistara, svo sem til að skýra þessa framúrskarandi mannlífsmynd.

Jónas Grant fleygði ritinu frá sér, gerði pípunni aðra skrópu, saug hana af miklum mætti og glápti upp í loftið. Þar kom hann auga á stóreflis köngulló, sem virtist hafa villzt í kortinu á veggjapappírnum. — Jú, skyldi ekki vera hægt að láta helin hlæja? — Köngulló! — Það var þó frumlegra en blindur köttur. — Og látum okkur nú sjá .. Jú — gömul brjáluð, kynsjúk vændiskona — og láta hana dansa! Það var þó einhver munur eða ruglaður meykerlingar ræfill. — Og svo gamall morðingi, sem látið hefir afskræma á sér andlitið, svo hann þekktist ekki. Hann gerðist — hum — hann gerðist beiningamaður og er orðinn vellauðugur. Jæja, nú, nú, — vændiskonan verður dómari, kviðdómur og böðull. Var að elta köngullóna, þegar hún komst að leyndarmáli betlarans. — Hún myrðir hann. Svo er hún náttúrlega hengd. Köngullóin lifir eftir með allan auðinn. — Sigur lífsins. Ætli það megi ekki notast við það, sem nafn á sögunni?

Jónas Grant hrifsaði pípuna út úr sér og stakk henni í vasa sinn, settist við skrifborðið og lét fingurna leika um töflurnar á ritvélinni. Það var eins og ótal smádjöflar væru, að sparka fótunum um pappírsblöðin í vélinni . . .

Sagan var búin! Sagan um brjálaða, kynsjúka vændiskonu, og stóra köngulló og morðingja-betlara.

— Sigur lífsins! — Bezt að rita gervinafn undir hana. Nafn, sem bar bragð af Bóhemíu, — Ívan. Hvernig væri það? — Ívan Búraski — eða bara Í. Búraski. — Ágætt! — Slá svo utan um „Sigur lífsins“, og senda hann til ritstjóra glæsiritsins, sem svona var hrifinn af þessum bölvuðum Rast. Hæ! Við skyldum sjá. Ætli sá mikli Rast megi ekki vara sig á Í. Búraski? — Og Jónas Grant hló eins og götustrákur, sem hefir leikið illa á óvin sinn.

Það leið oft mánuður frá því, að Jónas Grant sendi handrit til ritstjóra, þangað til pósturinn skilaði því aftur, með hinu grátfagra gljápappírsspjaldi. Að þeim tíma liðnum kom hann á pósthúsið, og spurði hæversklega eftir, hvort ekki væri eitthvað þar til herra Í. Búraski. Jú, jú, og búið að liggja þar í nærri tvær vikur. Að því komið að senda það til baka. Það var þá bréf! Jónas Grant stakk því í vasa sinn, og flýtti sér heim. Undarlegt, að handritið hafði ekki komið til baka, og þó hafði frímerkt umslag fylgt því frá hans hendi. Einu sinni hafði hann komið þeim upp í að skrifa! Eða voru nú raunir þeirra meiri en einu gljápappírsspjaldi fæki?

Jónas opnaði umslag og dró út úr því vélritað sendibréf og — og hvað? Hundrað dala ávísun. Maður þurfti nú svolítið að átta sig. Voru þeir nú að leika á hann? Já, hér var þó bréfið: — „Það er oss ánægja“ — ha, ha, ha! — „Og hafir þú fleiri handrit af slíku tæi, vildum vér mega sitja fyrir“. — Lengra komst hann ekki. Ekki í bráðina. Hann varð að hlæja. ....

Hann þurkaði tárin úr augunum og las allt bréfið frá byrjun til enda. Mestmegnis var það lof um „Sigur Lífsins“, — það aumasta og afkáralegasta, sem hann hafði nokkurn tíma fært í letur, það ljótasta og vitlausasta, sem hann hafði enn hleypt inn í huga sinn. Og allt í einu greip Jónas Grant óstjórnleg

reiði. Það bezta og fegursta, sem hann hafði hugsað og skrifað, var allt virt að vettugi. Ljóðin hans, sögurnar og leikritin, óskabörn hans eigin sálar, þetta, sem hann unni mest og langaði til að leggja á altari listarinnar, var forsmáð, álitið einskis nýtt, og það af þessum mönnum, sem nú mæltust til, jafnvel eggjuðu hann á, að útata sál sína á öðrum eins leir og skarni, eins og hann hafði hnoðað inn í þennan andlega vanskapning, sem hann sendi aðeins til að ofbjóða þeim. — En bíðum við. Var nokkuð á móti því, að lofa Í. Búraski að afla sér fjár og frama? Því ekki að ala þá upp í þeirri dulunni? — Sparka svo í þá fótunum og láta heiminn hlæja að þeim. — Jú, þeir skyldu fá það — bölvaðir!

Á tveimur árum varð Í. Búraski frægastur höfundur í Ameríku. Rit hans voru þýdd á sum Evrópumálin, og stórblöðin fluttu langar ritgerðir um hann og skáldverk hans, ásamt ljósmynd af höfundinum. Myndin þótti bera vitni um framúrskarandi gáfur. Ekki var um að villast, að hér var að ræða um gení. Þá spillti það ekki fyrir frægð þessa undramanns, að enginn vissi nein persónuleg deili á honum. Í sunnudagsútgáfum stórblaðanna gengu margar sögur um uppeldi Í. Búraski, baráttu hans, er hann háði áður en hann náði takmarki sínu, og æfintýri, er hann hafði ratið í. En fáir trúðu þessu, og enginn lagði mikið upp úr því. Miljónameyjar og samkvæmisdrottningar voru bálreiðar og fokvondar út af því, að fá Í. Búraski ekki í heimboð sín. Blaðamönnum var hvergi vært. Þeim var úthúðað fyrir asnaskap sinn, eins og lögregluliði í borg, þar sem glæpamenn ganga óáreittir. Því fundu þeir ekki frægasta rithöfund Ameríku og drógu hann fram í dagsljósið? Var nokkurt vit í þessu? Skárri voru það fjandans fáráðirnir! Synd var þó að segja, að þeir lægju á liði sínu. Hver blaðasnápur og fréttasnati var orðinn spæjari.

Það var opið leyndarmál, að talsverð févon var fyrir hvern þann, sem fyrstur næði fundi Í. Búraski. Flestir komust þeir jafnlangt í leit sinni. Höfðu snuðrað upp, að öll bréfaviðskifti Í. Búraski fóru í gegnum hendur manns, er Jónas Grant hét. Heimili hans var íbúð í ríkmannlegum steinkastala, sem stóð við eina helztu götu New York borgar. — Lengi vel hafði Jónas Grant nokkurn veginn frið fyrir þessum spæjurum, með því að lofa hverjum þeirra fyrir sig, að hann skyldi fyrstur komast á fund Í. Búraski. Þó kom að því um síðir, að forvitni heimsins reyndist honum ofjarl. Og einn góðan veðurdag, þegar tíu fréttasnatar sátu í kring um Jónas Grant, í setustofunni heima hjá honum, og lögðu að honum með bænum, skömmum og hótunum, gafst hann upp. — „Ég er Í. Búraski. Hvað hafið þið um það að segja, herrar mínir?"

„Þú Í. Búraski!" — „Ómögulegt!" — „En myndin af honum?" — „Já, myndin. Þetta er gabb eitt". — „Engar brellur". — „Barrabas". — „Vér látum Barrabas lausan, ef þú selur oss í hendur meistarann".

Jónasi Grant kom í hug Daniel spámaður, þegar hann var í ljónagröfinni. „Bíðið eitt augnablik, herrar mínir, meðan ég skýzt inn í svefnherbergið mitt". — „Þú ferð ekki eitt fet". — „Enga útúrdúra". — „Þessi skrípaleikur hefir gengið nógu lengi". — „Gefðu okkur áritun Í. Búraski". — „En ég neyðist til að minna ykkur á, að ég á hér yfir húsum að ráða. Og Í. Búraski er — er — ja — að klæða sig í svefnherberginu mínu". Jónas Grant komst inn í herbergið og læsti að sér. Út úr klæðaskáp sínum tók hann lítinn kassa og opnaði hann. Í honum var hárkolla og hökutoppur, með öðrum tækjum, til þess að breyta andlitsútliti manns. Það var ekki langrar stundar verk. Eftir fáeinar mínútur kom Jónas

Grant, eða öllu heldur Í. Búraski fram í stofuna: „Þekkið þið mig nú, herrar mínir?“

Fréttaritarana setti hljóða. Þeir könnuðust eflaust við vaxtarlag, klæðaburð og rödd Jónasar Grant. En andlitið! Augun útglent, augnabrúnirnar upp spertar, svo ennið lá í fellingum, munnvikin geifluð niður með hökunni — í stuttu máli hin gáfulega ásjóna, sem hinn menntaði heimur hafði lært að þekkja og dá. Hinn óviðjafnanlegi Í. Búraski.

Áður en blaðamennirnir höfðu áttað sig, tók Jónas Grant af sér hárkolluna og hökutoppinn, og strauk framan úr sér með vasaklútnum sínum. Síðan gekk hann að stofudyrunum, sem vissu út í göngin, og sneri lyklinum í skránni. — „Svona, nú getum við talað saman. Hvað viljið þið ég tali um?“ — Hvílík saga fyrir blöðin! Drottinn minn dýri! Þetta var nóg í bráðina. Bara að hann lofaði þeim út. — O-nei, það lá svo sem ekki á. Þeir voru nógu lengi búnir að bíða þess, að ná tali af Í. Búraski. Nú var þeim bezt að nota tækifærið. Í Búraski gat máske sagt þeim sitt af hverju. Eða Jónas Grant. Eiginlega Jónas Grant. Jónas Grant gat frætt þá um, að allt sem Í. Búraski hafði ritað, var bölvað rugl frá byrjun til enda. Jónas Grant gat sagt þeim, að þeir og ritstjórarnir og útgefendurnir og gagnrýnendurnir og mikið af þjóðinni væri flón og asnar. Jónas Grant hafði notað Í. Búraski til þess að gera gabb að þessum andlegu aumingjum, sem gleyptu við öllum óþverranum, sem lá eftir Í. Búraski, en litu ekki við því, sem Jónas Grant hafði ritað. Og Jónas Grant vissi, að það hafði bókmenntalegt gildi. Hann hafði margboðið þjálfunum handrit sín, en ætíð fengið þau aftur með gljápappírsspjaldinu. Þekktu þeir kannske gljápappírsspjaldið, sem flaut í krókudílatárum þessara erki-asna, útgefendanna? — Átti hann þá óprentuð handrit? — Já, en það voru listaverk. Ekki leirhnoð og skit-

mokstur eftir Í. Búraski. Skildu þeir það? — Þeir skildu það, að fyrst Í. Búraski og Jónas Grant voru einn og sami maðurinn, þurfti ekki að efast um gildi handritanna. — Ekki til nokkurs hlutar, að reyna að koma vitinu fyrir þá. — Þeir kunnu ekki að skammast sín. Skyldi nokkur kunna að skammast sín fyrir að lofa og vegsama Í. Búraski fyrir rit hans? — Þeir hristu höfuðin. Svona var það með öll gení, kunnu aldrei að meta sin eigin verk. — Og ætluðu þessir fréttasnatar að bera það ofan í Jónas Grant, að þetta, sem hann hafði soðið saman, undir gervinafni, í fyrirlitningar skyni og bræði við listdómara og útgefendur, væri leirburður og þvættingur af örgustu tegund? Jæja. Jónas Grant skyldi aldrei, að eilífu, skrifa meira í anda Í. Búraski. Þessir bölvaðir böngulhausar skyldu verða sér til ævarandi skammar fyrir að láta skáldrit Jónasar Grant liggja óprentuð um aldur og æfi. Og Jónas Grant var bál-fjúkandi reiður. — Temperament. Höfðu ekki öll gení temperament? Þetta var allt svo skiljanlegt. — Jónas Grant þagnaði. Varð allt í einu sárþreyttur. Hann lauk upp hurðinni. . . . .

Loksins fékk heimurinn að kynnast þessum Í. Búraski, öðru nafni Jónasi Grant. Hvert útgáfufélagið á fætur öðru bauð í öll þau handrit hans, sem hann kynni að eiga enn óprentuð, hverju nafni, sem þau nefndust.

Breyting sú, er varð á stíl og stefnu þessa heimsfræga höfundar, vakti talsvert umtal í bókmenntaheiminum, og sumir hörmuðu fráhvarf hans frá rithætti og skáldskap Í. Búraski. En allir voru á eitt sáttir um, að í öllum ritum Jónasar Grant kæmi sama snilldin fram. Hann var fyrst og síðast geni, og sönnu geni eru allir vegir færir.

# VEIZLAN MIKLA

Winnipeg-Íslendingar stóðu á öndinni. Sjálfur meistarinn var væntanlegur til borgarinnar. En það var Ingólfur Ægir, hinn heimsfrægi rithöfundur. Engum blöðum var um það að fletta, að hann var listamaður. Sögur hans og leikrit höfðu flogið á vængjum frægðar og snilldar um heim allan. Hver menntaður maður í heimi vestrænnar menningar hefði mátt fyrirverða sig, hefði hann orðið að játa það, að hann þekti ekki hinn íslenzka snilling.

Ekki var hætt við því, að landar Ingólfs í Winnipeg væru fáfróðir um afreksverk hans. Orðstír ritsnillingsins mikla hafði verið básúnaður í hverju stórblaði hins enska heims; og jafnvel Danir og Þjóðverjar höfðu minnzt á hann. En margir af eldri mönnum vorum skilja dönsku, og hlupu þeir með fregnina um landa sinn til íslenzku vikublaðanna í Winnipeg; aðrir þýddu úr ensku langar lofgreinar, og varð hann þannig frægur meðal Vestur-Íslendinga.

Enginn vissi, hvar Ingólfur bjó. En hægt var að koma bréfi til hans með því, að senda það til útgáfufélags þess, er gaf út bækur hans. Var það gert af stjórnarnefnd „Bræðrabandsins" og honum boðið að sitja veizlu með löndum sínum í Winnipeg.

Þarf ekki að orðlengja um rausn þá og viðhöfn, sem undir var búið. Þegar Íslendingur hefir unnið sér frægð á sviði listarinnar, þjóta landar hans upp til handa og fóta til að gefa honum, í það minnsta eina góða máltíð.

— Og þeir stóðu á öndinni.

Veizlan var haldin í veglegasta át-sal borgarinnar; og allt prýðilega undirbúið. Mestu og beztu landar í Winnipeg voru samankomnir. Sannaðist síðar eftir skýrslum hárskera og þeirra, sem gömul föt

hreinsa, að dagana fyrir veizluna miklu var mikið vandað til hreinsunar, bæði á andlitum og skott-frökkum.

En þegar veizlukvöldið kom, fylltist átsalurinn mikli, stundvíslega klukkan 8. Löng, hvít brjóst — skyrtubrjóst — blöstu við hvarvetna eins og skínandi jökulbungur; og silkimjúk frakka-stél blöktu og dilluðu eins og lamba-rófur á hlýjum vordegi.

Refill Rosti stóð vörð við dyrnar, og leyfði inngöngu að eins þeim, sem gátu gert tilkall til félagsskapar með svo fríðri sveit. En til þess þurfti fé og fögur klæði.

Refill var maður stór og digur, vel látinn og auðugur að fé. Mjúkmáll var hann líka, kænn og kurteis; enda þurfti hann nú á öllum hinum mörgu og miklu kostum sínum að halda. Því sauðsvartur almúginn hafði lesið rit heiðursgestsins, og lék mjög hugur á að líta hann augum. En það var hvorttveggja, að þá skorti fé og veizluklæði. Og var það heilög skylda dyravarðar, að snúa þesum vesalingum á burt. Var það mjúkmæli Refils og kunnáttu að þakka, að ekki hlutust vandræði af hinni heimskulegu áfergju hinna óæðri gesta.

Nú líður á kvöldið og ekki kemur heiðursgesturinn. Og enn standa menn á öndinni. Þá opnar Jón Jónsson dyrnar og gengur inn í salinn. En Jón Jónsson var blátt áfram almúgamaður. Hann var hljóður jafnan og faskiftinn. Gekk sjaldan í kirkju, og reifst aldrei um stjórnmál. Þótti hann því lélegur borgari og lá við, að landar fyrirverðu sig fyrir hann. Hann seldi ekki fasteignir og vann ekki „með höndunum". Var hann því álitinn slæpingur og sneiddu menn sig hjá honum.

„Hvert ert þú að fara, Jón minn?" spurði Refill með blíðu, en þó valdsmannlega.

„Mér datt í hug að fá að vera með í þessu samsæti“, svaraði Jón stillilega.

„Já, það væri nú svo sem sjálfsagt, ef þú værir í veizluklæðum og gætir borgað fyrir matinn“. Refill glotti, því hann vissi, að Jón skorti bæði þessi skilyrði.

„En nú er èg ekkert svangur, Mr. Rosti. Og varla myndi Ingólfur Ægir taka til þess, þó èg sé ekki í skott-frakka; en mig hálf-langar til að sjá hann, því mér er maðurinn kær“.

Nei, nei, Jón minn góður“, sagði Refill og var nú að verða fastmæltur. „Þeir, sem hér sitja veizlu í kvöld, verða að borða með heiðursgestinum. Okkur langar til, að þetta samsæti verðiVestur-Íslendingum til sóma“.

„Nú, er þá ómögulegt, að ég fái að sjá Ingólf í veizlunni í kvöld?“ Jón var svo ráðaleysislegur, að Refill fann, að nú þurfti ekki nema nokkur vel valin orð til þess að losast við hann.

„Nei, nei, Jón minn. Það er ekki mögulegt. Og hafðu þig nú út áður en gesturinn kemur. Hans er von á hverri stundu; og við viljum ekki, að hann sjái neitt nema hið bezta og glæsilegasta, sem við höfum á að skipa. Sæmd okkar er okkur fyrir öllu“.

„Já, ég hefi nú raunar nóg að starfa í kvöld“, svaraði Jón. „Vertu sæll, Mr. Rosti, og skilaðu kveðju minni til snillingsins“.

Að því búnu fór Jón. Hann gekk álútur og hugsandi upp eftir gangstéttinni — heim til sín. Þegar hann var kominn inn í herbergi sitt, fór hann úr treyjunni, settist niður við skrifborðið sitt og tók að rita. Hann gleymdi veizlunni. Tíminn leið og það stóð heima, að þegar veizlugestirnir voru orðnir vonlausir um komu heiðursgestsins (og þess vegna hættir að standa á öndinni), hafði Jón lokið við ritstörf sín það kvöld. Hann átti að eins eftir að rita nafn sitt undir; en nafnið var: *Ingólfur Ægir.*

# Guðrún H. Finnsdóttir

## *LANDSKULD*

Síðasta sunnudaginn í ágústmánuði 1916 átti minningarathöfn eftir Einar Bjarnason að fara fram í einni íslenzku kirkjunni í Winnipeg. Það hafði rignt fyrri part dagsins, en var nú stytt upp og kalsa stormur og skýjafar í lofti. Það var líka dauft í huga okkar heimilisfólksins, sem bjó hjá Ingibjörgu gömlu Ólafsson.

Okkur þótti öllum vænt um Einar, og svo vorkenndum við, hvað gömlu konunni féllzt mikið um, er fregnin kom um, að hann væri fallinn í stríðinu. — Hún, sem æfinlega hafði mætt okkur með brosi og hlýjum orðum á kvöldin, þegar við komum heim þreytt og misjafnlega geðgóð eftir erfiði dagsins, gekk nú um þögul og alvarleg og þung í spori. Hún hafði tekið reglulegu ástfóstri við Einar. Hann hafði verið til húsa hjá henni frá því hann var unglingur, og okkur fannst öllum hann vera sama sem sonur hennar, þó þau væru ekkert skyld. Og það duldist engum, að heimilið var öðruvísi eftir að Einar fór í herinn. Nú kallaði Ingibjörg sjaldan á okkur inn í setustofuna sína á kvöldin. Þar inni var æfinlega hlýtt og bjart, og svo skrítilega gamaldags, að það var eins og maður kæmi inn í aðra veröld og okkur fannst það æfinlega dálítil hátíð. — „Einar minn, takið þið nú lag og svo fáum við okkur kaffisopa á eftir“, sagði gamla konan vanalega. Einar hafði fallegan róm og spilaði laglega á píanó, og var lífið og sálin á heimilinu.

En þenna sunnudag var allt tómlegt og þögult. — Við vissum, að Ingibjörg hafði beðið prestinn að halda

minningarræðu um kvöldið í kirkjunni, og ætluðum við öll að vera þar viðstödd.

Okkur fannst dagurinn aldrei ætla að líða. Gamla konan lúrði uppi á lofti. Var það í fyrsta sinni, að hún hitaði okkur ekki síðdegiskaffið, þegar við vorum heima á sunnudögum. Svo við stúlkurnar tókum okkur til og hituðum kaffið. En enginn ætlaði nú að hafa kjark til að færa Ingibjörgu það. Samt herti ég upp hugann og fór upp með bollann, en það var ekki frítt við, að ég hefði hjartslátt. Ég opnaði hurðina hljóðlega. Gamla konan sat við gluggann í ruggustól og horfði út döprum og vonlausum augum. Það var eins og öll gleði og líf væri dáið og farið úr andlitinu, og ætti þangað aldrei afturkvæmt. Hún tók þegjandi við bollanum. Ég stanzaði hjá stólnum hennar meðan hún drakk kaffið. Mig langaði til að segja eitthvað, sem dregið gæti úr sársauka hennar, því svo oft hafði hún strokið hlýjum höndum úr smá misfellum, sem mér höfðu mætt. En allt, sem ég kom mér að að segja, var: „Okkur þykir öllum svo mikið fyrir, að Einar féll“.

„Já, Rúna mín, ég veit það og finn það. En það eru fleiri en hann, sem ég hefi verið að hugsa um í dag — dánir ástvinir og dánar vonir. Það eru mörg ár síðan ég missti manninn minn, og enn fleiri ár síðan ég missti lítinn dreng, sem við áttum, sem líka hét Einar. Það hefir kanske verið nafnið, sem ég tók tryggð við, því við erum stundum svo undarleg og getum ekki skilið okkar eigið hugarfar. — En stundum fannst mér eitthvað svipað í lundarfari þeirra, þó annar væri barn, þegar hann dó, en hinn nærri fullorðinn, þegar ég fyrst kynntist honum. — Það gerir nú í rauninni minna til, hvað okkur mætir, þessum gömlu skörum, því æfin er þá og þegar á enda, en stundum finnst manni lífið strangt í viðskiftum, og margt kemur fyrir á langri leið, Rúna mín. — Ég hefði nú einu sinni svarið fyrir, að ég myndi nokkurntíma sætta mig við að missa litla

drenginn minn — sætta mig við að hann dó, áður en hann fékk að þroskast og vaxa og njóta alls þess góða, sem lífið hefir að bjóða, ef fólkið kann að lifa rétt gagnvart sjálfum sér og öðrum. — Nú veit ég ekki nema það hafi verið honum fyrir beztu og mér líka, að hann dó ungur. — Guð hjálpi öllum mæðrum, sem missa drengina sína í þessu voða stríði — já, guð hjálpi öllum, sem missa sína".

Ingibjörg stundi við og þerraði tárin, sem nú höfðu runnið óhindrað niður vanga hennar. Hún klappaði mér þýðlega á höfuðið um leið og hún sagði: „Þú varst væn að koma hér upp til mín, Rúna mín. Mér fannst ég vera ein stödd úti á eyðihjarni mannlífsins. En það er rangt að láta svona hugsanir fá yfirhönd í huga sér, því þegar í raunirnar rekur, þá er nú fólkið gott.

Aumingja Sigfríður, hvernig skyldi henni líða, ef hún er búin að frétta þetta?"

„Hvað — var ekki allt búið á milli þeirra, Ingibjörg?"

„Jú — búið og ekki búið. „Blað skilur bakka og egg; en anda, sem unnast, fær aldregi eilífð að skilið". Og ekki þykir mér ólíklegt, ef þeim hefði báðum auðnazt að koma lifandi til baka úr þessum hildarleik, að þau hefðu yfirvegað þessi mál með meiri ró og sanngirni, heldur en þau gerðu áður en þau fóru".

„Hvað bar þeim á milli, svona allt í einu? Út af hverju kom það, að Sigfríður sagði Einari upp?" spurði ég.

„Veiztu ekki, barn, að það reis út af stríðinu".

„Er þér sama þó þú segir mér frá því?" spurði ég hikandi. — Mér datt í hug, að það gerði henni gott, að tala um Einar sem lifandi; hún hætti þá að hugsa um hann dauðan — á meðan.

Ingibjörg gamla þagði við stundarkorn, svo leit hún á mig um leið og hún sagði: „Ég ætti ekki að tala um það — allra sízt nú — en ef það gæti orðið til þess að

þú lærðir af því, ef eitthvað svipað kæmi fyrir þig á lífsleiðinni, að stífni og ósveigjanlegleiki við þá, sem manni standa næstir, leiði sjaldan gott af sér, þá er mér sama þó ég segi þér frá því, eins og það gekk til. — Allt fór nú svona af því Einar gekk í herinn, og Sigfríður var svo voðalega æst á móti stríðinu.

Þú manst nú, hvað fólkið skiftist í flokka, sumir með og sumir mót. Æsingarnar voru svo miklar, að lá við barsmíðum og ófriði, þar sem nokkuð margir voru saman komnir. Og það kom jafnvel fyrir hér í bænum, að Íslendingar lentu í handalögmáli út af því. Og satt að segja hélt ég, að ekki væri til í Íslendingum annar eins ofsi og kom fram í þeim málum.

Ég var ein af þeim, sem fannst það óþarfi, að Íslendingar færu í stríðið, jafnvel þó mér gengi illa að verja það mál, þegar ég átti tal um það við Einar, því hann kom ætíð með tvær ástæður á móti minni einni. Ég veit nú, að svo er komið að það er ekki auðvelt fyrir menn að sitja hjá, úr því Kanada lenti í stríðið á annað borð.

Ég tók oft eftir því, að Einari var órótt, t. d. er hann hafði lesið stríðsfréttir, lista yfir fallna og særða Winnipegmenn og allt þess konar. Mig var farið að gruna, að það myndi enda með því, að hann byði sig fram í herþjónustu. Ég var eins og á nálum; maður vissi aldrei, hvaða hörmungar dyndu yfir næsta dag.

Svo var það eitt kvöld snemma í júnímánuði í fyrrasumar; ég var ein heima og sat úti á svölum, bæði til að hvíla mig og njóta ögn kvöldfegurðarinnar og friðarins, sem himinn og jörð önduðu að manni — þrátt fyrir allan ófriðinn meðal mannanna. Mér var litið suður á götuna og sá ég hvar þau komu, Einar og Sigfríður, og gengu hægt. En hvað þau voru ung og fögur bæði og í fullkomnu samræmi við vorið og þetta blíða kvöld. —

„Gaman væri nú að vera orðin ung og trúlofuð,

eins og þið eruð, börnin góð", sagði ég um leið og þau komu upp tröppurnar til mín. En mikið varð ég forviða, þegar hvorugt brosti eða sagði orð. Ég sá þá allt í einu, að Einar var þungur á svip og fár í fasi; það lá reglulega illa á honum. Og Sigfríður, sem er föl í andliti, var með rauða díla í kinnunum; augun ónáttúrlega gljáandi og hvöss og varirnar svo samanklemmdar, að munnurinn var nærri því hörkulegur.

Þeim hafði auðsjáanlega sinnazt, en ég lézt ekkert sjá og sagði glaðlega:

„Ég var einmitt að óska eftir, að eitthvað af ykkur kæmi heim, mér leiddist að sitja hér ein, og var farið að langa í kvöldkaffið. Komið þið inn og segið mér eitthvað í fréttum".

Einar settist strax við píanóið og spilaði dálítið, en það var slitringur og í molum. En hvað hugblær fólks getur orðið áberandi, þó ekkert sé sagt!

Ég fór svo fram í eldhús að búa til kaffið. Eftir dálitla stund kom Sigfríður fram til mín. Ég sá, að hún var óróleg og lá við gráti.

„Ég hefi ekki lyst á kaffi núna, Ingibjörg. Góða nótt'. Og áður en ég gat áttað mig, var hún horfin út um dyrnar — farin heim ein, án þess Einar fylgdi henni. Hvað skyldi þeim hafa borið á milli? Það mun þó aldrei hafa verið eitthvað út af stríðinu, datt mér í hug. Því það er farið að verða misklíðarefni milli vina og vandamanna, jafnvel foreldra og barna. Átti ég að tala við Einar eða láta sem ég hefði ekki tekið eftir neinu?

Stundum hefir afskiftasemi illt eitt í för með sér. En mér líkaði ekki að sjá þau ósátt, svo ég fór inn til Einars.

Hann sat við borðið náfölur af geðshræringu. Ég settist niður, horfði fast á hann og sagði:

„Einar minn, ég vona að ykkur Sigfríði þyki svo

vænt hvoru um annað, að þið látið enga misklíð koma á milli ykkar. Það lá illa á henni núna, þegar hún fór.

Einari sýndist erfitt um mál; hann stóð upp og gekk tvisvar, þrisvar yfir gólfið, stanzaði svo við gluggann og starði lengi út. Loksins kom hann aftur yfir að borðinu og settist þreytulega í stólinn andspænis mér. Hann hallaðist fram á borðið og sagði í lágum og hljómlausum róm:

„Það er allt búið á milli okkar Sigfríðar. Mér finnst hún hefði átt að vera sanngjarnari og sjá, að ég gat ekki gert annað sóma míns vegna“.

Það greip mig undarleg hræðsla og máttleysi um leið og ég spurði:

„Hvað hefirðu gert? Þú ert þó líklega ekki genginn í herinn?“

„Jú, ég skrifaði mig inn í gær“.

„Og þú lézt Sigfríði ekkert vita um það?“

„Ó, við erum búin að tala um það aftur og aftur, og ég hefi reynt að fá hana til að sjá, að ég gat ekki lengur staðið hjá, nema missa alla sjálfsvirðingu og mannskap. Ef ég mætti kunningjum mínum, einkum ef þeir voru í herklæðum, roðnaði ég og mig langaði til að sökkva ofan í jörðina. En það var ekki það versta, heldur ranglætið, að sjá aldraða fjölskyldumenn og unglinga gefa sig fram, þegar hraustir menn á bezta aldri, eins og ég og mínir líkar, draga sig í hlé. Þetta reyndi ég að sýna henni fram á, en hefir líklega tekizt það klaufalega, því hverju heldur þú að hún svari öðru en því, að það sýni meiri hetjuskap og sjálfstæði, að neita að ganga út í bardaga og blóðsúthellingar og þola heldur áfrýjunarorð fjöldans. Ég sagði henni, að ef hún setti þvert nei við því, þá náttúrlega færi ég hvergi, jafnvel þó mér fyndist ég vera minni maður fyrir“.

„Ég legg engin bönd á þig, Einar“, svaraði hún. „Þú getur gert hvað sem þér sýnist mín vegna, en ef þú gengur í herinn, eru okkar vegir skildir“. Mér sárnaði,

að hún skyldi setja mér nokkra afarkosti, og nú fyrst fannst mér ég mega til með að ganga í herinn, til að halda virðingu minni gagnvart henni. Ég sá engan annan veg, og innst í hjarta mér vonaði ég, að hún mundi ekki álíta mig minni mann fyrir — hefði aðeins sagt þetta í ákafa, án þess að meina það; en mér reyndist nú annað. Ég hálf kveið fyrir að segja henni frá, að ég væri kominn í herinn. Samt kærði ég mig ekki um að hún frétti það annars staðar frá, svo ég símaði henni seint í dag og spurði hana, hvort hún vildi ganga með mér suður að á. — „Já!“ kom í glöðum og þýðum róm í símanum; „ganga með þér veröldina á enda“. Undarlegt er mannlegt eðli. Þetta svar gerði mig allt í einu glaðan og vongóðan um að öllu væri óhætt. Ég klæddi mig og puntaði, eins og ég ætlaði að setjast á brúðarbekkinn og gekk svo til móts við hana. — Hún kom þarna á móti mér, há, grannvaxin og yndisleg í hverri hreyfingu. Mig langaði til að taka hana í faðminn, en í þess stað tók ég þétt í höndina á henni og hún svaraði með brosi. Við gengum á stað og töluðum um alla heima og geima. Ég hafði enn ekki sagt henni erindið. Var ósjálfrátt að draga tímann og njóta líðandi stundar.

Við sátum suður á árbakkanum undir stóru tré, sem við höfðum eignað okkur í gamni. Sigfríður studdi hönd undir kinn, en hinni hendi hennar hélt ég í lófa mér undir vanga mínum.

„Sigfríður, viltu segja aftur það, sem þú sagðir í símanum í dag, að þú værir viljug að ganga með mér veröldina á enda?“

Hún leit snögglega upp og svaraði:

„Já, eins lengi og þú ætlast ekki til, að ég gangi með þér á röngum vegi“.

„Elskan mín, ég hefi breytt eftir beztu samvizku og sómatilfinningu úr því sem komið er. Ég gekk í herinn

í gær. Ég mátti til með að gera það, eða standa uppi sviftur öllum manndómi í mínum augum".

„Þú — gekkst — í herinn í — gær?"

Hún tíndi fram orðin á stangli-og það var eins og hún beindi þeim ekki að mér, en horfði beint út á ána, án þess þó hún virtist sjá neitt. Höndina, sem hafði legið hlý og viljug í lófa mínum, dró hún hægt að sér og sveipaði um leið að sér fötum sínum, sem höfðu snert mig, alveg eins og hún væri að færa þau burtu frá einhverjum óhreinindum. Þessi litla hreyfing sýndi mér allt, sem hún hugsaði. Enda hafði hún ekki orð, en stóð á fætur og horfði í kring, eins og hún hefði tapað einhverju.

„Við skulum koma heim, það er orðið framorðið og svalt", sagði hún um leið og við gengum áleiðis. Hvorugt okkar sagði orð alla leið hingað heim. Þegar þú varst gengin fram áðan, þá kom hún til mín, dró hringinn af hendinni á sér og lagði hann hérna á borðið fyrir framan mig, og fór út".

Ég byrjaði að malda í móinn, en Einar spratt upp af stólnum, bandaði hendinni óþolinmóðlega og sagðist hafa sagt mér þetta aðeins vegna þess, að ég hefði ávallt reynzt sér eins og bezta móðir, og hann vildi ekki, að ég gerði mér rangar hugmyndir um, af hverju þetta orsakaðist.

Mér varð ekki svefnsamt nóttina þá. Ég sá, að ég mundi engu fá til leiðar komið, þau voru bæði stórbokkar, einþykk í lund, og alveg sannfærð um, að hvort um sig hefði á réttu máli að standa, eins og æskunni hættir stundum til. Heldur hallaði ég nú á Sigfríði í huga mínum. Mér fannst hún hefði vel mátt hugsa sig betur um, og ég ásetti mér, að einhvern tíma skyldi ég eiga tal um þetta við hana.

Einar fór svo í herbúðir og kom aldrei að sjá mig allt sumarið, og ég vildi ekki biðja hann þess. Sigfríður kom af og til, en stanzaði aldrei lengi. Það var eins og

hún verðist þess, að ég gæti nokkurntíma talað við hana eina.

Seint í október í haust sem leið kom hún eitt kvöld og segir mér, að hún sé ráðin hjá Rauðakross félaginu, og fari bráðlega yfir til Frakklands, eftir að hún hafi lært nauðsynlegustu hjúkrunarreglur. Hún sagðist hafa verið að hugsa um, hvað hún gæti gert til að bæta upp að einhverju leyti þann sársauka, sem hún hefði valdið Einari, og það væri helzt með því, að draga úr sársauka annarra.

„Svo þú ert þá ekki lengur reið við Einar?“ sagði ég.

„Reið við Einar? Nei, það er ég ekki. En við vorum sitt á hvoru máli, og hann mátti ekki búast við, að ég breytti skoðun minni“.

„Hefði þér þá líkað betur, ef hann hefði gefið eftir og setið heima? — Hefði þér þótt meira varið í hann — þótt vænna um hann?“

„Nei, mér hefir aldrei þótt vænna um hann, né meira varið í hann en þá. Og ég sá strax, að það hefði orðið að skugga á milli okkar, hvort okkar sem hefði látið undan. Við vorum komin í þetta net, sem allir virðast flækjast í nú á dögum, hvert sem lifið er“.

„Þú ert farinn að hafa aðra skoðun á þessum hermálum?“

„Nei, ég hata stríðið og mig hryllir við því, hryllir við eymdinni og kvölunum og fortímingunni, sem af því stafar, andlega og líkamlega. Ég má ekki hugsa um alla þá eyðileggingu og skerðingu á fegurð og samræmi mannfélagsheildarinnar. Hugsaðu þér þessa vesalings hermenn! Þeim er raðað eins og peðum á skákborð. Þeir berast á banaspjótum, en eiga þó í raun og veru ekkert sökótt hverjir við aðra. Þeir verða möglunarlaust að lúta hervaldinu, sem þeim er þó sagt, að þeir séu að berjast á móti. Hamingjan gefi, að það verði ekki vonbrigði bjartsýnu og góðu fólki — að það verði ekki hnefarétturinn, sem

situr við völdin, þegar allt er komið í kring. Við biðjum guð — heitt og innilega — um sigur, í kirkjum og heimahúsum. Sama gera óvinaþjóðirnar. Móðurhjartað þar er eins viðkvæmt og bænirnar eins heitar. Guð er algóður faðir allra manna, er okkur kennt — guð er alstaðar nálægur —“.

„Ég líð ekki svona skraf í mínum húsum“, tók ég fram í fyrir henni í þykkju. „Þér nægir ekki að hafa orðið orsök í því, að Einar fór í stríðið, heldur snýst þú á móti þinni eigin þjóð og landi, en út yfir tekur þó, þegar þú ferð að demba guðsorði í lítilsvirðingarskyni inn í þessi mál. Viltu segja mér, — hvað geta Íslendingar gert? Hingað til hafa þeir ekki staðið öðrum þjóðum að baki sem góðir borgarar þessa lands. Ættu þeir að gerast þau ómenni nú, að draga sig í hlé?“

„Ef þeir væru menn, þá mundu þeir neita að fara í stríð“.

„Af því þeir eru menn, Sigfríður, þá bjóða þeir nú þessu landi líf sitt og limu, þegar því liggur á liðveizlu; landinu, sem tók þeim opnum örmum, þegar þeir áttu lítils úrkosta. Það er landskuldin, sem þeir gjalda Kanada, af því þeir eru menn“.

— — — — —

Síðan við áttum þetta samtal, er liðið nærri ár. Einar er fallinn og Sigfríður einhversstaðar yfir á Frakklandi. En ég, sem minnstur mannskaðinn hefði verið að, sit hér ein eftir.

Svona eru örlögin stundum. —

Hvað er annars orðið framorðið? Viltu fara, Rúna mín, og gá að, hvort ekki er farið að líða á kirkjutíma?“

## *FÝKUR Í SPORIN*

Vorið var komið með hlýindi, gróður og söng og æskublæ á öllu.

Trén breiddu út greinarnar, með ungu, ljósgrænu laufinu, sem titraði í hægum sunnanblænum.

Sólin glitraði á vatninu, er lá eins og glampandi spegill í morgunkyrrðinni. Skógarilm og fuglasóng bar alstaðar að. Það var eins og vorið og æskan ætluðu sér að ríkja að eilífu.

Ingólfur í Vík fann og sá fegurðina og vorið, en honum var samt þungt um hjartaræturnar í dag, og ekki hafði honum gengið vel að sofa. Alla nóttina hafði hann þreytt hugann á að líta til baka yfir liðna æfi. Sérstaklega voru öll þreytu- og mæðusporin skýr. Eitt, og ekki það léttasta, varð hann að stíga í dag. Það var brúðkaupsdagur Ragnhildar dóttur hans, og hún var að giftast enskum manni, lækni búsettum í Winnipeg.

Faðir hennar hafði ætlað henni að halda áfram að vera húsfreyja í Vík, giftast einhverjum myndarmanni þar í sveitinni — Íslendingi. En þeir kastalar voru nú allir hrundir til grunna.

Í mörg ár hafði Ingólfur verið að búa sig undir að afhenda dóttur sinni æfistarf sitt sem bezt unnið. Hann hafði lagt alla stund á að bæta og stækka jörðina, engi og akra; sömuleiðis prýða og bæta húsakynnin.

En til hvers var það svo allt?

Ingólfur horfði á bæinn sinn, eins og hann stóð í dag. Íbúðarhúsið, stórt og reisulegt, úr ljósgrárri steinsteypu, með rauðu þaki. Vel hirtur garður allt í kring og breið trjágöng út að aðalveginum. Á bak við íbúðarhúsið var skógarrunni allstór og í rjóðri vestanundir honum stóðu kornhlaða, gripa- og geymsluhús. Allt bar vott um þrifnað, reglusemi og góð efni.

Rennsléttir akrar og engi breiddu sig út fyrir norðan og vestan bæinn. Og vatnið, fult af fiski, liðug hundrað fet frá húsinu. Það hafði haldið í þeim lífinu fyrir löngu síðan, á fyrstu frumbýlingsárunum, meðan hann var að koma upp gripum og rækta jörðina.

Hann sá í anda fyrsta bjálkakofann, sem hann hafði byggt í Vík, lítinn og lágan, með moldargólfi og leir

troðið í rifurnar, þar sem bjálkarnir féllu ekki. — Það mundi ekki þykja boðlegt fjós nú.

Það litla, er keypt var til heimilisþarfa, hafði hann borið á bakinu langar leiðir að. Í tvö ár höfðu þau ekki bragðað annað kjöt en fugla og dýr, sem hann skaut endrum og eins. Þau máttu ekki lóga neinum af þessum fáu skepnum. Svo tókst honum að ala sér upp uxa til aksturs og plæginga. Sjálfur smíðaði hann fyrstu kerruna og voru það stórar framfarir. En ekki voru uxarnir eins hraðfara og bifreiðarnar nú á dögum. Þá var um ekkert að ræða nema vinna og spara, til að geta dregið fram lífið.

Það eina, sem nóg var til af, var eldiviður. Skógurinn þéttur og hávaxinn alla leið fram á vatnsbakkann. Hann þurfti að höggva og ryðja, áður en hægt var að sá karftöflum, hvað þá láta sér detta í hug akuryrkja. Þar sem ekki var þykkur skógur, voru ófær fen og forarkeldur, sem þurfti að þurka upp.

Ingólfur gamli undraðist nú þá fífldirfsku og kjark, sem Þórdís kona hans og hann höfðu haft, er þau byrjuðu búskap þarna. Hann efaðist um, ef hann hefði haft hugmynd um helming allra örðugleikanna, er biðu þeirra, að þau hefðu lagt út í að reisa þarna bú.

Og þó — það var ekki um annað að gera á þeim árum, þau áttu einskis úrkosti. Norðvesturlandið var eyðiskógar og óbyggðar sléttur, er innflytjendur voru settir niður á í smáhópum hingað og þangað.

Ingólfur minntist með þakklæti nágranna sinna; hver hjálpaði öðrum, bæði með vinnu og lífsnauðsynjar. Hjálpsemin var eins mikil og fátæktin. Oft hafði hann horft yfir byggðina og undrast, hvað þetta fólk hafði afkastað miklu með tveim höndum tómum. Flest af því var nú fallið við veginn eða flutt í burtu. Þeir gleymdir, sem höfðu numið og ræktað landið; aðrir komnir í þeirra stað, er nutu ávaxtanna.

Já, það var fallegt og björgulegt í Vík, nú orðið.

Ingólfur leit á hendurnar á sér, kreplar og hnýttar af erfiði og vinnustriti. — Hann hafði að vísu unnið sigur í viðskiftum við fátæktina og einyrkjaháttinn, og alla erfiðleikana, sem landneminn einn þekkir; en þá var líka allt talið. Öllu öðru hafði hann tapað.

Þórdís, konan hans, dó ung — liðlega þrítug; fékk tæringu út úr því, að eiga of erfitt á allan hátt. Engin húsakynni, engin lífsþægindi, bara strit og stríð, fátækt og basl. — Og það, sem reið heilsu hennar að fullu, var, þegar þau misstu börnin, hvert eftir annað, fyrir skort á hjúkrun og læknishjálp.

Vík hafði orðið honum dýrkeypt; og til hvers hafði hann barizt? Nú var Ragnhildur töpuð honum líka, eftirlætið hans, sem hann hafði byggt allar sínar vonir á. Honum fannst hann geta kennt sjálfum sér um það að miklu leyti. Ef hann hefði haldið henni kyrri heima hjá sér, og ekki verið að hugsa um að mennta hana, þá hefði draumur hans líka rætzt, hún hefði ílengzt á föðurleifð sinni.

Í borginni hafði hún fyrst kynnzt þessu mannsefni sínu. Svo, eftir að námi var lokið og hún komin heim, gekk ekki á öðru öll sumrin út en gestagangi frá Winnipeg. Um hverja helgi var allt fullt í Vík af ungu fólki, íslenzku og ensku, sem kom til að heimsækja Ragnhildi og hvíla sig yfir helgina úti í sveit. Og sjaldan vantaði lækninn í hópinn. Ingólfur hafði verið alveg grunlaus. Að vísu hafði honum fundizt hvíldin, sem þetta unga fólk tók sér, vera nokkuð einkennileg. Farið í bifreiðum fram og aftur um alla sveitina, bátsferðir og siglingar út um allt vatn, knattleikir og svo dans og söngur framundir morgun. Hann sá, að Ragnhildur skemmti sér vel, og þess unni hann henni, því ekki hafði verið svo mikið um gleðskap í Vík á meðan hún var að vaxa upp.

Ingólfur hafði oft horft undrandi á dóttur sína í þessum hóp af ókunnu fólki; honum fannst stundum hún

vera ókunnug líka. — Litla stúlkan hans, bóndadóttirin, alin upp af honum úti í einveru og hálfgerðum óbyggðum — hún hélt ekki einungis sínum hlut, heldur bar hún af hópnum að fríðleik, gáfum og tiginni framkomu. Og hann var innilega glaður og þakklátur, að eiga slíka dóttur. —

Sunnudagskvöld eitt að áliðnu sumri hafði Ingólfur gengið vestur á engi, að gá að fé sínu. Eftir að hafa fundið allt í reglu, labbaði hann heimleiðis í hægðum sínum. Það var glaðatunglskin og blíðalogn; hvít-bleik birta lá eins og töfrablæja yfir öllu. Inni í skóginum var allt kvikt — heimur út af fyrir sig, er nú lét fyrst á sér bæra, er komið var kvöld. Trén stóðu eins og verðir, þögulir og kyrlátir, og köstuðu löngum skuggum fram undan sér. Þetta var eitt af þessum yndisfögru kvöldum, sem oft koma hér eftir heita daga. Það er eins og jörðin taki allt líf, sem er þreytt eftir hita og þunga dagsins, í mjúka, svala armana, eins og blíð móðir.

Ingólfur var kominn heim á hlað. Ósjálfrátt og af gömlum vana stanzaði hann og horfði út yfir vatnið, er titraði og gljáði í tunglsljósinu. Honum varð litið suður í fjöruna, skammt fyrir sunnan bæinn. Þar komu þau gangandi, Ragnhildur og læknirinn — og leiddust.

Ingólfur stóð eins og steini lostinn — yfirkominn — af sársauka — vonbrigðum — reiði. — Hver tilfinningin rak aðra.

—. Svo þetta var erindið, sem læknirinn hafði haft að Vík — en ekki hvíld. Já, þessi líka hvíldin! Mikill bölvaður asni hafði hann getað verið. — Og Ragnhildur, hún hafði svikið hann — beinlínis svikið hann — í fyrsta sinn á æfinni, og það fyrir Enskinn, — hún, eina barnið hans. —

Þarna komu þau og leiddust.

Hann var ekki við því búinn að verða á vegi þeirra nú. Þurfti að fá tíma til að hugsa, reyna að jafna sig.

Það var bezt fyrir hann að ganga — ganga úr sér storminn og ofsann, eins og hann hafði svo oft gert áður. Hann flýtti sér burtu frá bænum — burtu frá Ragnhildi og lækninum — burtu frá öllu, út í hljóða nóttina. Hann var einn — aleinn. Hann gekk langar leiðir eftir fjörunni — fram og aftur — fram og aftur.

Oft hafði hann þráð, að Þórdís hefði fengið að lifa, en aldrei eins átakanlega sárt og nú. Það var eins og einstæðingsskapurinn hrópaði að honum. — Hann langaði til að geta hrifið hana út úr eilífðinni, — séð hana, — fundið hana — fengið hjá henni samúð og styrk. — Það mátti hann æfinlega reiða sig á hjá henni, jafnvel eftir að hún var orðin veik. —

Ingólfur staðnæmdist snögglega á göngunni. Hver hafði verið síðasta og eina bæn Þórdísar? — Bað hún hann ekki fyrir litlu Ragnhildi, þá á öðru árinu? — Hann hafði reynt að bregðast ekki trausti hennar.

Honum fannst hann skulda Þórdísi í gröfinni, æsku og lífsgleði, er hún hafði verið svift svo snemma. Þessa skuld hafði hann reynt að greiða Ragnhildi. Og hingað til hafði það verið honum til ánægju. En nú var komið að því, að annaðhvort varð að beygja sig fyrir vilja hins.

Ragnhildur var enginn flysjungur — hina þungu og föstu lund hennar þekkti enginn betur en hann. Nú skildi hann, að hún hafði stundum í seinni tíð horft á hann kvíðandi, alvarlegum augum.

Ingólfur fann allt í einu til þreytu — á sál og líkama. Hann settist í sandinn og studdi hönd undir kinn.

Hugsanirnar voru að smáskýrast — koma með meiri ró.

Minningin um Þórdísi — nálægð hennar, — niðurinn í vatninu, friður og kyrrð næturinnar, — þetta allt strauk þreytta sálu hans, eins og mjúkar ástvinahendur.

Vatnið hafði oft áður verið honum félagi og vinur,

þegar stormur og uppreisn í hans eigin hug höfðu nærri borið hann ofurliði.

Hér hafði hann kropið í einveru og einstæðingsskap. Hér hafði hann beðið heitt og innilega. Og hér hafði hann líka efast um, að nokkur guð væri til. — Tilveran sýndist vera miskunnarlaus heild, sem marði þá sundur, er urðu fyrir tilfinningalausu hjóli atvikanna.

Hér hafði hann grátið tárum, beiskum tárum fullorðins-manns, sem lífið var nærri búið að kremja allan vilja úr. — Hér hafði hann líka fundið frið, frið eftir ofurvald tilfinninganna. Alveg eins og öldurnar á vatninu lægði eftir storminn, svo hafði hann fundið sálarfrið smátt og smátt, eftir því sem árin liðu, — lært að vera þakklátur fyrir bros guðs í sólskininu, tár hans í regninu, — lært að vera þakklátur fyrir lífið sjálft.

Og það var litla Ragnhildur, er átti sterkasta þáttinn í að lýsa og verma upp sál hans aftur, — alla leið frá því að hún, lítið barn, kom hlaupandi á móti honum með útbreiddan faðminn, glaða andlitið, blá, geislandi augu og gullbjarta hárið og skæra barnsróminn, sem kallaði á hann. Það var hún, og enginn annar, sem aftur hafði breitt í kringum hann birtu, vonir, ást og trú á lífið.

Á henni hafði hann svo byggt alla sín framtíðardrauma. Hún átti að njóta alls, sem Þórdís og hann höfðu orðið að fara á mis. Nú hafði hún brugðizt honum í fyrsta sinn! — En var nú rétt að líta svo á það? Hún hafði rétt til að giftast hverjum sem hún kaus, og ekkert var eðlilegra en að hún gifti sig. — En hann hafði vonað — eiginlega ætlast til — að það yrði Íslendingur. —

Hvað gat hann gert? Drepið við fæti og blátt áfram bannað henni að eiga lækninn? Nei, þeir dagar voru fyrir löngu liðnir. Hann gat ekkert — gat ekki sagt orð. Vissi með sjálfum sér, að þó hann setti sig upp á móti því nú, myndi hann á endanum verða að láta undan.

En hann var þó faðir hennar, hafði alið hana upp. Átti hann ekki heimtingu á, að hún tæki tillit til vilja hans í þessu efni? Það var enginn vafi á því, að henni var vel kunnugt um, hvað honum voru þessar ensku mægðir á móti skapi.

Átti hann að launa Ragnhildi alla ástúðina með því, að svifta hana ef til vill gæfu hennar? Þorði hann það? Hvað hafði móðir hennar grætt á að taka saman við hann, verða konan hans? Bláfátækt, heilsuleysi, sorgir, dauða. Hann hafði ekki ráðið svo vel fram úr sinni eigin æfi, að hann þyrði að taka ráðin af öðrum. —

Hann varð að sætta sig við þetta, eins og fleiri íslenzkir foreldrar, er þetta sama hafði komið fyrir. Og hann hafði ráð þeim, að afstýra ekki slíkum giftingum.

Það, sem honum sveið sárast, var, að hann fann, að Ragnhildur var töpuð, — ekki einungis honum, heldur íslenzku sveitinni, sem hún var fædd og alin upp í, og íslenzku félagslífi. Það var sama sagan með allflesta Íslendinga, er giftust hérlendum. Þeir voru tapaðir Íslendingum, hurfu inn í enska hafið.

Ingólfur gamli stundi við og óskaði í huga sér, að Íslendingar hefðu verið eins vitrir og Gyðingar, að gera það að trúarbragðalegu broti, að giftast öðrum þjóðum. Fyrir bragðið höfðu þeir ekki glatað þjóðerni sínu, í gegnum aldirnar, þrátt fyrir það, þótt þeir hafi dreifzt út um allan heim, og búið við ofsóknir og lítilsvirðingu.

Ingólfur stóð á fætur. Það lagði kaldan gust af vatninu. Hann leit til austurs og sá, að farið var að roða fyrir degi.

———

Nýr dagur — ný kynslóð, er verður að hafa sína sögu, sitt starf og reynslu. — Ingólfur hafði sigrað sjálfan sig — eigingirnina og ráðríkið. — Ragnhildur átti að ráða sér sjálf. —

Allar þessar minningar höfðu þyrpzt í kringum hann í nótt; og nú var hann kominn út í glaðan vormorguninn, til að hrista þær af sér. —

Þetta var brúðkaupsdagur Ragnhildar, og hann átti að verða henni til gleði og ánægju; til þess skyldi ekkert sparað. Ekkert ósamræmi, ekkert nema innilegar bænir og hamingjuóskir, skyldu fylgja henni úr föðurgarði.

— Ingólfur horfði aftur yfir bæinn sinn og jörðina. Já, fallegt var í Vík og mikið hafði hann lagt að sér til að koma jörðinni í þetta horf; en nú fannst honum hann hafa unnið fyrir gýg. Víkurland var honum nú lítils virði, nema þá til að bera bein hans, ef það yrði þá leyft óátalið, að hann fengi að hvíla við hlið Þórdísar og barnanna.

Æfilaun útlendingsins eru oftast rýr, og ávallt hin sömu: Honum er gefið land að vísu; en hann gefur í staðinn æfina, heilsuna og alla starfskraftana. Já, landið tekur hann sjálfan, líkama og sál, og börnin hans í þúsund liðu.

## SKRIFLABÚÐIN

Ég man allt af eftir því, hvað ég hlakkaði til sunnudaganna, hér fyrr á árum, — hlakkaði til að eiga heilan dag frá morgni til kvölds til eignar og umráða, vera sjálfri mér ráðandi og þurfa ekki að standa með auðmýktarsvip og segja já, já og nei, nei, eftir því sem yfirboðurunum þóknaðist. Og það voru fleiri landar en ég með þessu marki brenndir, að hlakka til sunnudaganna, hlakka til að kasta af sér vinnuklafanum; mega um frjálst höfuð strjúka og heimsækja vini og kunningja. Það var því ekki alveg að ástæðulausu, að sunnudagurinn varð að aðalheimsóknardegi meðal Íslendinga hér vestra. Ekki svo að skilja, að íslenzkri gestrisni hafi nokkurn tíma verið sett þau takmörk, að binda sig við eina dagstund á viku til heimsókna.

Á fyrstu árum hér kom það og beinlínis af andlegri þörf, því þá var lítill sem enginn félagsskapur, kirkju-

líf eða samkomuhöld, meðal landa hér. Þá voru það fátæku íslenzku heimilin, er tendruðu skærast vitaljós hins íslenzka þjóðlífs. Þar komu menn saman til að talast við á íslenzku, drekka kaffi og njóta íslenzkrar gestrisni, því hún var ekki skilin eftir á Íslandi af þeim, er hingað fluttu, eins og sagt er um ættarfylgjurnar, Lallana, Skotturnar og Mórana, er gengu ljósum logum um sveitirnar heima og gerðu mörgum lífið leitt.

Af þessum gömlu landnemaheimilum standa nú örfá eftir. Á einu þeirra er ég heimagangur. Hjónin þar eru nú bæði aldurhnigin og hvít fyrir hærum, en enn eru þau ung í anda og skemtileg, og yfir heimili þeirra hvílir hlýinda- og vinsemdarblær; látlaus gestrisni situr þar í öndvegi, og í huga þeirra sjálfra sólskin og andleg birta, er laðar og lokkar fólk á öllum aldri að húsum þeirra.

Yfir gömlu konunni hvílir sérstaklega einhverskonar æfintýrablær, er stafar líklega af því, hvað hún hefir frá mörgu að segja, þegar hún vill það við hafa. Við kölluðum hana oft í gamni Scheherasade, eftir sögudrottningunni frægu í „Þúsund og einni nótt“. Hún fluttist hingað vestur um haf á unga aldri, og varð, eins og þá tíðkaðist, að fara strax frá foreldrum sínum til að vinna fyrir sér í vistum. Margar sögur hefir hún sagt mér af því, hve illt hún átti í fyrstu vistunum, en í þetta sinn sleppi ég að segja frá því. Brátt varð hún þó svo heppin, að ráðast sem barnsfóstra til ágætis hjóna, og kallar hún það upphaf gæfu sinnar. Hjá þeim dvaldist hún svo í mörg ár, þar til hún giftist.

Hjón þessi voru vel menntuð og stórrík; voru þau sífeldlega á ferðalagi fram og aftur um Ameríku og stundum yfir til Evrópu. Á mörgum þessum ferðum höfðu þau hana og börnin með sér og þannig atvikaðist það, að hún varð vel menntuð og margfróð kona, þó aldrei hafi hún gengið á skóla. Benti líka margt á heimili þeirra á meiri listasmekk en almennt gerist.

Þau héldu fast við ýmsa gamla og skrítna siði, og einn af þeim var að skrafa í rökkrinu, — ekkert síður þó gestir væru komnir. Héldu þau því fram, að fólk nyti sín betur í samtali, auk þess væri þetta gamall og góður íslenzkur siður. Og eitt er víst, að aldrei varð skortur á umtalsefni þar í rökkrinu.

Eitt af þessum sunnudagskvöldum er mér sérstaklega minnisstætt. Við vorum stödd þar æðimörg og bar margt á góma. Samtalið hafði að mestu snúizt um trúmál, eins og oft vill verða. Við höfðum talað um trúarbrögð Austur- og Vesturlanda, forn og ný, og hinar ýmsu kirkjur og trúarskoðanir, og hve mikinn þátt trúarbrögðin hefðu átt í því, að móta sálarlíf og hugsunarhátt þjóðanna. — Jafnvel draugatrú — hve mikil áhrif hafði hún ekki haft á hugsunarhátt fólksins, og út frá því leiddist samtalið að lokum að sálarfræði og draumum. Endirinn varð sá, að hver varð að segja þann draum, er hann hafði dreymt einkennilegastan.

Húsfreyjan hafði tekið lítinn þátt í samtalinu um tíma, því hún var önnum kafin við kaffiveitingarnar, en er því var lokið, kom hún og blandaði sér í hópinn. Lögðum við nú öll að henni, að segja okkur eitthvað, er hana hefði dreymt. Kvað hún það fátt og márklítið, enda gleymt. Þó væri einn draumur, er sér væri allt af minnisstæður, og stæði sér á sama þó hún segði hann, en til þess þyrfti hún að segja aðdragandann að honum.

„Eins og ég hefi oft sagt ykkur", byrjaði hún, „þá voru hjónin, sem ég vann lengst hjá, oft á ferðalagi. Eitt sumar sem oftar þurfti húsbóndi minn að fara í verzlunarerindum heim til Englands. Tók þá kona hans tækifærið, að fara austur í Kanada að heimsækja frændfólk sitt og fornar stöðvar. Hún hafði börnin og mig með sér, og vorum við þar eystra mestallt sumarið. Ég hafði lítið að gera og marga frístund frá börnunum. Notaði ég þá tímann til að skoða og kynnast þess-

um gamla og skrítna bæ. Þið getið naumast ímyndað ykkur, hvað þeir eru gamaldags og einkennilegir, þessir kaþólsku bæir þar eystra.

Einn stað hafði ég sérstaklega gaman af að koma í. Það var gömul kirkja úr rauðum tigulsteini, sem um langa tíð hafði verið skriflabúð og uppboðsstofa. Var hún full af allskonar gömlu skrani og húsbúnaði. Datt mér stundum í hug, að allur uppgjafa-húsbúnaður úr landinu, góður og illur, væri þarna saman kominn. Öllu ægði saman — þar stóðu hlið við hlið sjaldséðir og fágætir munir, vönduð stofugögn, greypt og handskorin úr dýrasta við, og gamlir stólgarmar, borðskrifli, kláfar og kirnur, allt hugsanlegt og óhugsanlegt rusl. Fram með veggjunum voru raðir af gömlum málverkum, misjafnlega vel gerðum, merkum gömlum koparstungum og steinprentuðum myndum og innanum lélegar krítarmyndir, og bæði þeir, sem höfðu dregið þær, og þeir, sem þær voru af, horfnir og gleymdir.

Oft óskaði ég, að sumt af þessum gömlu munum gæti talað, sagt sögu sína á svipaðan hátt og dregill Matildu drotningar, er segir svo greinilega frá frægðarförum manns hennar. Hefir það sannazt á dúknum þeim, að sumir hlutir hafa part af sál þeirra, er búa þá til; þeim mun meiri, sem hluturinn er fegurri og betur gerður.

Eigandinn að þessari skriflabúð var gamall maður, sköllóttur með síðu, hvítu skeggi og svörtum augum, er lásu fólk niður í kjölinn og sáu furðu fljótt, hverjir voru góðir viðskiftavinir. Var hann sjálfur að mörgu leyti einkennilegasti forngripurinn í búðinni. Hann var fæddur og upp alinn í þessum bæ og hafði alið allan sinn aldur þar, svo hann þekkti þar nálega hvert mannsbarn og sögu þeirra, og þar á meðal húsmóður mína og fólk hennar.

Fyrir hendingu komst hann að því, að ég var þjónustustúlka hennar, og varð það fyrsta tilefnið til kunn-

ingsskapar okkar. Honum gekk í fyrstu illa að trúá því, að ég væri Íslendingur, af því að ég var í engu frábrugðin öðru fólki. Ég stríddi honum á því, að hann hefði trúað því betur, ef ég hefði verið með hornum og klaufum eða einhverjum slíkum sérkennum. Karlinn þreyttist aldrei á því að spyrja mig um Ísland og Íslendinga, og datt mér þá ekki í hug, að hann gerði það í neinum sérstökum tilgangi. Aftur á móti sagði hann mér alls konar kynja- og helgisögur og þjóðsagnir úr hans heimahögum. Enda fylgir það þeim, er búa við hafið, að kunna að segja frá mörgum undarlegum hlutum.

Einhverju sinni sendi húsmóðir mín mig til hans í smávegis erindagerðum og átti ég að bíða eftir svari. En er ég kom þangað, var hann að afgreiða viðskiftafólk og gat því ekki sinnt mér í bráðina. Karlinn benti mér að setjast í einu kirkjuhorninu, er hann hafði útbúið með þægilegum stólum; þar í kring voru raðir af bókaskápum, fullum af bókum; voru þær auðvitað til sölu, og margt af því ágætis bækur og sumt gamlar og sjaldgæfar útgáfur. Þarna var karl vanur að sitja og lesa eða spjalla við kunningja sína, þegar ekkert var að gera, og í búðinni hans var nú sjaldan ös.

Ég var þreytt, því kæfandi drungaloft og hitasvækja var úti og þrumuveður í aðsigi, og varð því fegin að tylla mér niður og hvíla mig. Það hefir sjálfsagt sigið á mig svefnhöfgi, því allt í einu var allt gamla skranið horfið og kirkjan breytt.

Það var bjartur og fagur vormorgun, inn um steindu gluggana lagði sólargeislana, er tvístruðust um kirkjuna með öllum litum regnbogans. Yfir öllu hvildi helgiblær og ró. Kirkjan var full af fólki; reykelsisilm lagði að vitum mér; inni fyrir háaltari hreyfðust kórdjáknar í blárri móðu, og þýðir ómar af „Gloria in Excelsis“ bárust til mín, eins og úr fjarska. Móðan hvarf, og allt skýrðist nú fyrir augum mér. Sjón mín og skiln-

ingur varð miklu glöggari en í vöku. Ég sá nú allt í einu framan í fólkið, en eitt einasta andlit varð þó skýrt fyrir augum mér. Það var kona, há og fríð og höfðingleg; og það kynlegasta var, að á svipstundu vissi ég, að hún var íslenzk. Mér varð litið til dyra, og sá ég að inn kom stór maður, gervilegur og vel búinn. Hann hafði hátt enni og mjótt og hvassa brún, hár og skegg var gráspengt og skeggið klippt í odd. Það, sem mest vakti athygli mína, voru augun, því að það voru vargsaugu, hol og gráðug. Þótti mér þetta allt náttúrlegt.

Maður þessi settist í krókbekk og starði inn eftir kirkjunni. Varð mér þá litið í sömu átt og honum, inn að altarinu. Það var skrautlegt og á því loguðu kerti í stórum silfurstjökum og köstuðu bjarma á altaristöfluna, og eftir það sá ég ekkert annað en hana, því þar blasti við mér sú fegursta mynd, er ég hefi nokkru sinni séð. Það var María mey með Jesúbarnið í fanginu, og voru þau svo ljúf og fögur, að mig bresta orð til að lýsa því. Frá barninu stafaði guðdómlegur ljómi æsku, fegurðar og sakleysis. Það var sem ímynd framtíðarvonanna og hins sí-unga lífs; og móðirin, persónugervingur hins eilífa kærleika, vafði barnið að sér með óumræðilegri ástúð og blíðu og hálf-kvíðablöndnu augnaráði, eins og hún hefði hugboð um, hvað síðar biði þess í Getsemane og á Golgata. Og svo var myndin meistaralega máluð og lifandi, að mér fannst í svipinn að hún myndi hreyfa sig eða ávarpa mig, og mér varð allt í einu ljóst, að í henni bjó sál hússins. —

Þetta hvarf allt og draumurinn breyttist skyndilega. Ég var enn stödd í sömu kirkjunni, en nú var ekki lengur vormorgun og sólskin. Það var haust og allt var grátt, dimmt, úfið og kalt — úti og inni. Grátt loft og þokuslæðingur úti, inni gráir skuggar og ský, er ögruðu úr hverju horni og svifu undir hvelfingu hússins, og líktust helzt töpuðum sálum, er börmuðu sér í hljóði, og enginn sá aumur á. Kirkjan var full af fólki, er

ruddist fram og aftur með æsingi og þjósti. Hver leit annan illu auga og loftið var þrungið af heift. Fólkið tók alls konar breytingum; sumir engdust og lyppuðu sig áfram eins og slöngur, aðrir gengu hnarreistir með miklu stærilæti og veifuðu kringum sig einhverju, en helzt líktist stórum hala, og enn aðrir skriðu á fjórum fótum.

Maðurinn með vargsaugun stóð innst í kirkjunni og gnæfði höfði hærri en aðrir menn; hann hélt á sjóð miklum, er hann hampaði framan í fólkið. Fleiri og fleiri þyrptust í kringum hann, en aðrir stóðu álengdar. Ekki var mér fullkomlega ljóst, um hvað var deilt. En stöðugt þéttist hópurinn í kringum stóra manninn með vargsaugun. En þeir fáu, er ekki vildu slá sér í fylgd með honum, bjuggust nú til brottferðar.

Þá varð mér litið á altaristöfluna, og mér til mikillar undrunar sá ég Maríumyndina hreyfast. Hægt og hátignarlega steig hin heilaga guðsmóðir út úr umgerðinni, sveipaði barnið skikkju sinni, og með óútmálanlegum angistarsvip hvarf hún út úr kirkjunni.

Enginn tók eftir því, að myndin var horfin og að umgerðin var auð uppi yfir altarinu. Ljósin dofnuðu, skuggarnir þéttust, hái maðurinn með vargsaugun hafði nú hækkað, svo að hann bar við hvelfingu hússins, en í kringum hann stigu dökkir svipir dans. Allt í einu hvarf þetta allt, og ég var stödd í niðamyrkri. Áköf hræðsla greip mig. Ég reyndi að hlaupa út, en fæturnir á mér urðu þungir eins og blý, og ég komst hvergi.

Í því hrökk ég upp við ógurlegan þrumugný, eins og himinn og jörð væru að hrynja saman, og brast og brakaði í hverju bandi í kirkjunni. Ég spratt á fætur, tæplega búin að átta mig á, hvort ég væri vakandi eða sofandi. Í því kom gamli maðurinn, horfði á mig og spurði, hvort mér væri illt. „Nei“, svaraði ég, „en ég er hrædd um, að það sé æði loftþungt hér inni, ég sofn-

aði snöggvast og dreymdi svo undarlega". — Hann leit einkennilega á mig, um leið og hann sagði: „Ertu nú alveg viss um, að þig hafi dreymt? Það hefir ýmislegt skrítið komið hér fyrir áður, eftir því sem sögurnar segja". Forvitni mín var nú vakin, svo ég innti hann eftir, hvort það orð lægi á kirkjunni, að þar væri reimt.

Hann hagræddi á sér gleraugunum um leið og hann sagði: „Hm — reimt — ekki kannske beinlínis reimt, en sá orðrómur hefir lengi legið á, að hér væri ekki allt með felldu — en það stafar líklega eingöngu af gömlum munnmælasögum, er gengu um það, fyrir hvaða orsök kirkjan lagðist niður".

Ég lagði nú að karlinum að segja mér frá öllu, er hann vissi sögulegt við þetta gamla hús. — Hann brosti að forvitni minni, strauk skeggið nokkrum sinnum og horfði út í bláinn, eins og hann væri að hugsa sig um, þar til hann byrjaði:

„Það er með þessa kirkju eins og öll önnur gömul hús, þau eiga sína sögu; því eldri sem þau eru, þeim mun breytilegri — alveg eins og fólkið. Mér hefir oft komið til hugar, hvort nokkuð mundi nú eima hér eftir af öllum þeim messusöng, bænum og sálmum, er hér hefir verið flutt, hvort það fólk, er hingað kom, sumt með einlægu hjarta og þar af leiðandi af þörf, aðrir fyrir vana og hræsni, eins og gengur, eins og við gerum enn þann dag í dag, — já, þetta fólk, er hingað kom daglega til að skrifta, biðja og úthella sálu sinni og ná í frið og fyrirgefningu með ýmsum meðulum, eins og t. d. milligöngu prestanna og því fé, er það fórnaði á altari drottins, — hafi ekki skilið eftir einhvern blæ, anda eða loftslag, er fylgi kirkjunni. — Mér hefir stundum fundizt svo vera.

Fyrir löngu síðan var þetta stærsta og ríkasta kirkjan í bænum, er þá stóð með meiri blóma og lífi en nú. Síðan járnbrautir voru lagðar frá hafi til hafs, og siglingar dreifðust til annara hafna, hefir bærinn legið

í svefni og orðið mosavaxinn, eins og Rip Van Winkle.

Í þá tíð var haldið héðan út stórum skipastól, bæði fyrir verzlun og fiskiveiðar. Einn ríkasti og stærsti skipeigandinn var forfaðir húsmóður þinnar. Hann kvað nú hafa verið karl í krapinu, sjóhetja mesta og mikill fyrir sér og lítt við alþýðu skap, harður og óvæginn, en hreinskiftinn og mjög kaþólskur. Hann var lengst æfinnar í förum sjálfur, og lá orð á því, að skipum hans hlekktist aldrei á. Eitt haust, er hann kom heim, varð uppi fótur og fit í bænum, því hann kom kvæntur ungri og fríðri konu. Það fylgdi sögunni, að hann hefði fundið hana og orðið ástfanginn af henni á einhverri eyðieyju norður í höfum, er öll væri þakin snjó og klaka, þar sem sól settist aldrei á sumrum og sæist aldrei á vetrin. Nú veit ég, síðan ég hefi talað við þig, að hún hefir verið íslenzk. Ýmsar sögur gengu af því, hve ríkilát og fögur þessi útlenda kona væri, í hvað miklum glaumi og glaðværð þau lifðu, og hve lítt trúuð hún væri á kaþólska vísu. Er jafnvel mælt, að prestarnir hafi vandað um það við mann hennar, að hún fengist aldrei til að skrifta, og er þá sagt, að hann hafi þaggað niður í þeim með ríkmannlegum gjöfum til kirkjunnar.

Aldrei hafði hún gefið neitt sjálf, að undantekinni einni altaristöflu, er hún kom með úr einni Evrópuferð sinni; fylgdi það sögunni, að myndin hafi verið stórkostlega fögur, og upp frá því hafi hún oft sézt í kirkju með manni sínum. En það var einmitt þessi altaristafla, er síðar varð að miskliðarefni.

Löngu síðar, eftir að þau voru bæði dáin, kom það upp úr kafinu, að myndin í altaristöflunni var eftir málara, er þá var orðinn heimsfrægur fyrir listaverk sín. Kepptust öll listasöfn og auðmenn um verk hans og buðu stórfé fyrir. — En það lánaðist engum að ná þessari mynd.

Eftir mikið stagl, þrætur og ófrið, var að lokum sam-

þykkt að selja myndina, en sama kvöldið og það var gert kviknaði í kirkjunni rétt hjá altarinu. Allir unnu að því með einum hug að slökkva, en þegar það að lokum tókst og farið var að líta eftir skemmdunum, var Maríumyndin brunnin.

Að líkindum hefir kviknað í út frá kertunum á altarinu. Samt varð aldrei með vissu sagt um upptök eldsins. Sumir héldu, að einhver hefði stolið myndinni og kveikt í kirkjunni til að dylja ódæðisverk sitt. En aðrir, og þeir voru langflestir, trúðu því, að þetta væri refsing frá drottni, fyrir ágirndina og virðingarleysið fyrir altaristöflunni.

Sá orðrómur lagðist svo á, að kirkjan væri dæmd. Hjátrúin á því varð svo sterk, að kirkjan lagðist í eyði. — En svo eftir æði tíma var hún dubbuð upp fyrir skriflabúð, og það hefir hún verið ætíð síðan".

— — — — —

Þegar gamla konan hafði lokið máli sínu, þögðum við öll stundarkorn. Það var eins og enginn vildi verða fyrstur til að rjúfa þögnina. Áhrif sögunnar, tunglsljósið og rökkrið hafði hjálpazt að, að setja okkur eins og inn í annan heim. — Gamla konan stóð á fætur og kveikti, og við rönkuðum þá öll við okkur, risum úr sætunum og kvöddum í skyndi, því það var orðið áliðið kvelds.

Á leiðinni heim flaug mér margt í hug, eins og vant var, er ég kom úr þessu húsi. — Undarlegt er það, hvað maður getur misst og orðið gersneyddur allri hugsun í samtali og samveru með sumu fólki, en aftur vekja, skerpa og örva aðrir hugsun, og með þeim er maður til með að þenja út vængina og láta hugsanirnar fljúga út yfir ókunn lönd, láta þær fara eins langt og þær komast og unnt er. — Já, það rótaði í deyfðinni og hugsanamollunni að heimsækja þessi gömlu hjón. En hafði hana nú dreymt þetta í raun og veru, eða var hún að gefa okkur bendingu? Þeirri spurningu hefi

ég aldrei getað svarað. En oft hefir mér dottið til hugar draumurinn, karlinn og skriflabúðin, einkum þegar ég hefi verið stödd í kirkju.

## JÓLAGJÖFIN

Blá rökkurmóða hjúpaði sléttuna. Skýin risu í marglitum, þykkum bólstrum, og sýndust vera fjöll í fjarlægð. Fljótandi litlir skýhnoðrar voru eins og dökkar eyjar, og himininn umhverfis þá blágrænn eins og hafið. En svo voru skýin allt af að taka myndbreytingum. Á augabragði voru það ekki lengur fjöll, heldur borgir — kastalar, með háum, hvítum turnum og hvelfdum bogagöngum.

Norðanvindurinn andaði á turnana og þeir liðuðust í sundur og urðu að allskonar myndum — fögrum konumyndum með flaksandi hár, er liðu fram hjá, deyfðust og greiddust sundur, og hurfu inn á bak við aðra þykkri skýjabólstra. Þarna brá upp óljósri hliðarmynd af ungum og höfðinglegum manni, er á svipstundu varð að gamalmenni með úfið hár og sítt skegg. Svo varð loftið aftur að hafi, og skýin að skipaflota, er sigldi undir fullum seglum til suðurs og hvarf úr sýn.

„Winnipeg — Winnipeg — Winnipeg!" kallaði lestarþjónninn í þunnum og skerandi róm. Gamall íslenzkur maður, Egill Arason að nafni, sem hafði gleymt sér eins og barn, sem er að leikjum, við að horfa á skýjaborgirnar út um gluggann á járnbrautarvagninum, hrökk ónotalega við. Lestin var að renna inn á C. P. R. járnbrautarstöðvarnar í Winnipeg.

Fólkið klæddist í snatri í kápur sínar og feldi, greip í skyndi farangur sinn, og reyndi svo hver sem betur gat að verða fyrstur til að komast út úr lestinni, inn

á stöðina, áfram út í mannfjöldann áleiðis þangað, er leiðir lágu.

Það er hægt að sjá mismun á lundarfari fólks í járnbrautarvagni, eins og alls staðar annars staðar. Sumir eru ferðbúnir löngu áður en lestin stanzar, og tilbúnir að grípa tækifærið að verða fyrstir út. Aðrir eru seinir og síðbúnir. Og einn af þeim var gamli maðurinn. Hann var hvítur á hár og skegg, magur, slitlegur og fátæklega til fara, en bar það þó með sér, að vera prúðmenni og hafa séð fífil sinn fegri, þó hann væri nú orðinn hálfgert rekald. Hann stóð upp og klæddi sig í gamla, snjáða yfirhöfn. Með löngum, grönnum fingrum barðist hann við að hneppa að sér kápunni. Höndin var óstyrk og handatiltektirnar óvissar, eins og verður oft fyrir gömlu fólki. Hann seildist upp á hilluna eftir hattinum sínum og litilli handtösku, en hún var horfin. Einhver miður ráðvandur samferðamaður hafði losað hann við aleigu sína.

„Bölvaðir þjófarnir“, tautaði hann fyrir munni sér. „Ég sé hana aldrei aftur, ef lögreglan hérna er lík því, sem hún var“. Hann svipaðist um, eins og fólk gerir oft, er það vill ekki trúa sínum eigin augum, og staulaðist svo út úr vagninum.

Hann hélt nú leiðar sinnar, eins og hitt fólkið, í gegnum lestarstöðvarnar, út á strætið og upp með Alexöndruhótelinu. Ískaldri vindgusu sló fyrir hornið á byggingunni og reif upp óhreinan snjóinn, er þeyttist framan í hann. Ónota hroll setti að honum, og innan stundar fannst honum frostið ætla að nísta sig inn í merg og bein. Hann stanzaði andartak til að átta sig. Hér var allt svo breytt, að hann þekkti sig tæplega. Aðalstrætið var eitt glitrandi ljóshaf. Háar steinbyggingar — bankar, verzlunarhús og hótel höfðu risið upp, þar sem áður voru timburhjallar og smábúðir. Honum fór að verða ljóst, að hann var í ókunnugum bæ. Jæja, hann rataði nú samt og þekkti sig hér. Hann gekk í

hægðum sínum suður Aðalstrætið og gaf öllu nákvæmar gætur, eins og fólk gerir, sem komið er heim eftir langa burtveru.

Þetta var rétt fyrir jól, og umferðin og ösin á götunum því óvenjulega mikil. Mannfjöldinn streymdi áfram eins og lifandi elfa; allir voru á hraðri ferð. Enginn leit við honum, heilsaði honum eða kannaðist við hann — þetta var allt ókunnugt fólk. Allir voru með jólaböggla — út úr einni búðinni og inn í aðra. — Sumir að leita að „hentugum og ódýrum" jólagjöfum, eins og stóð í auglýsingum, aðrir að dýrum og sjaldgæfum — allt nokkuð eftir ástæðum gefenda og þiggjenda. Og úr nógu var nú að velja. Búðirnar voru uppljómaðar utan og innan með marglitum rafljósum. Gluggarnir fullir af skrautgripum, gullstássi og glitvarningi, er öllu var raðað af mikilli list, til að ganga sem bezt í augu fólksins og sýna fegurð og gæði varningsins.

Þarna var óvenjulega fallega prýddur gluggi, sem margir staðnæmdust fyrir framan. Egill fylgdist með straumnum og stanzaði við líka. Glugginn var stór og skínandi bjartur; í honum miðjum stóð ungt og fagurgrænt grenitré, eitt af þúsundum, er höfðu verið höggvin upp með rótum, og seld fyrir jólaskraut. En úti í skóginum standa gömlu trén eftir, þögul og hnípin og horfa í skörðin, unz snjórinn kemur og hylur allt, með mjúkri, þykkri ábreiðu. Já, þarna stóð nú litla, unga tréð í miðjum glugganum, skreytt ótal jólaljósum, og með tinstjörnu á toppnum, glitrandi og silfurlita — ímynd Betlehemsstjörnunnar. Á greinunum héngu snúrur og þræðir úr spunnum málmi, er tindruðu og glóðu í ljósadýrðinni, eins og þeir væru unnir úr sólargeislum og mánaskini. Í baksýn var málaður heiður alstirndur himinn og vetrarlandslag hulið snjó. Á strjálingi stóðu græn grenitré, er köstuðu skugga á fönnina.

Lengst í fjarlægð sást lítið þorp með kirkju, og fólk á veginum að ganga þangað til aftansöngs.

Neðan undir jólatrénu, í tilbúnum snjó, er sindraði eins og hjarn á vetrarkvöldi, stóð hinn heilagi Nikulás með hreinana sína og sleðann, hlaðinn dýrindis jólagjöfum, og allt í kringum hann í glugganum var dreift skrautmunum, er eigi komust á sleðann.

Og Agli flaug í hug, þar sem hann stóð og horfði á allt þetta skraut, hve allt er breytingum undirorpið á þessari jörð, jafnvel dýrðlingar, því þeir breytast líka og mótast eftir tíðarandanum. Í stað hinnar virðulegu biskupskápu, er hinn heilagi Nikulás bar fyrrum, er hann nú klæddur rauðum stakk, bryddum hvítum héraskinnum, með belti um sig miðjan; og fyrir pyngjurnar þrjár, er hann fyrr á tíð miðlaði úr fé af mildi og örlæti, þeim er nauðstaddir voru, þá er hann farinn að tapa svo dýrðlingseðlinu, að hann er orðinn að hálfgerðri „böggladuggu" verzlunarandans, er flytur þeim stærstu og beztu gjafirnar, er sízt þurfa þeirra með.

Egill brosti hálf-raunalega og sagði við sjálfan sig, um leið og hann fór frá glugganum: „Hvað ætlar þú að senda mér um jólin, gamli kunningi?"

Í þessum hugleiðingum hélt hann áfram. Hann var annars kominn í ljótu klípuna, að missa svona töskuna; í henni hafði hann geymt alla sína peninga, að undanteknu dálitlu af lausu silfri, sem var í vasa hans. Hann hafði lagt inn kæru hjá járnbrautarfélaginu, áður en hann fór af stöðvunum, en hann vissi, að það yrði árangurslaust.

Reynandi væri líklega að tala við lögregluna. Hann var í þann veginn að fara fram hjá Gyðingabúð, og var þar mikið af varningi hengt upp úti og raðað utan við búðargluggana, eins og Gyðinga er siður. Hann eins og stanzaði við og varð ósjálfrátt litið um öxl, og sá lítinn dreng, ræflalegan, kuldaleitan og óhreinan

stanza andartak, lita flóttalega í kringum sig og grípa svo litla, rauða barnaskó og fela í barmi sínum. Agli rann til rifja, að sjá skortinn og fátæktina vera að leiða barnið á glapstigu, og honum datt í hug, að drengurinn ætlaði skóna líklega fyrir jólagjöf; þeir voru sýnilega of litlir á hann sjálfan; svo um leið og hann ætlaði að þjóta fram hjá, greip Egill í hann og sagði lágt og góðmannlega:

„Eigum við ekki heldur að koma inn og kaupa skóna?"

Drengurinn hvítnaði af hræðslu og vissi ekki, hvaðan á sig stóð veðrið, fleygði skónum í ofboði og hvarf út í mannþröngina.

Egill stóð eftir hálfgramur, og í hugsunarleysi laut hann niður, tók upp skóna og virti þá fyrir sér. En rétt í því kom Júðinn út úr búðinni og kom heldur en ekki fát á hann, er hann sá Egil álengdar með skóna í höndunum, og kallaði óðar: „Þjófur! Þjófur!" því honum kom ekki annað til hugar, en að þessi gamli maður hefði hnuplað skónum, og væri að forða sér burtu með þá. Lögregluþjónn, er var þar skammt frá, kom nú til sögunnar. Egill sagði honum, hvernig þetta hefði atvikazt, og fannst lögregluþjóninum, að hann væri að segja sannleikann, og lét það á sér skiljast, en Gyðingurinn varð uppvægur, yppti öxlum, baðaði út höndunum og vældi: „Hann stal skónum! Ég get svarið, að ég sá hann taka þá". Og feit og óhrein Júðakerling kom nú út og bar vitni með bónda sínum, eins og góðar eiginkonur gera vanalega. Skapið í Agli gamla blossaði snöggvast upp, og hann sárlangaði til að svífa á Gyðinginn; en hann stillti sig, og svo gat hann heldur ekki borið á móti því, að hann hafði staðið þarna með skóna í höndunum.

Hann hló við skrítilega, eins og fólki verður stundum, er það er sárt og reitt, sneri sér að lögregluþjóninum og sagði:

„Það er ekki til neins að eyða orðum við svona fólk. Ég er reiðubúinn að koma með þér, — ætlaði mér hvort sem var yfir á lögreglustöðvarnar í öðrum erindagerðum".

— — — — —

Það var rétt í ljósaskiftunum á Þorláksmessukvöld. Vesturhimininn glóði eins og logandi eldhaf — dökkrautt með purpuraröndum niður við sjóndeildarhringinn, rósrautt, er dró hærra upp á hvelfinguna. Aftanskinið lagði inn til Ingibjargar gömlu Ólafsson, þar sem hún sat undir glugganum við eldhúsborðið sitt. Það var eins og hún og herbergið væru vafin friði og ró sólsetursins. Það var líka hlýtt og vistlegt þarna inni hjá gömlu konunni. Eldurinn brast og brakaði ánægjulega í stónni, og suðuhljóðið í katlinum myndaði lága, friðandi tóna, er runnu þægilega saman við malið í feitum ketti, er hringaði sig framan við stóna.

Ingibjörg lagði aftur kvæðabók Jónasar Hallgrímssonar, er hún hafði verið að lesa í, og um leið og hún handlék hana í kjöltu sér, fór hún í huganum yfir þessar látlausu og fögru hendingar úr kvæði Oehlenschlaegers:

„Bíum, bíum, barnið góða!
Sofðu nú sætt og sofðu lengi,
þó að höll og hægindislaus
og grafkyr í grundarskauti
vagga þín standi, vertu í ró".

Hún horfði fram undan sér með því augnaráði og svip, sem kemur á fólk, þegar það sér aðeins með innri augum. Það var afmælisdagur Einars litla í dag — litla drengsins hennar, sem hún missti ungan fyrir löngu, löngu síðan. Þessi dagur var að kvöldi kominn, og hún hafði ekki glatt neinn eða vikið góðu, eins og hún hafði æfinlega gert sér að skyldu á afmælisdaginn hans. Það var eina afmælisgjöfin, er hún gat

gefið honum nú, að miðla öðrum einhverju af þeim yl og birtu, er hans stutta æfi hafði fært henni.

Hún hrökk upp úr hugleiðingum sínum við það að kvöldblaðinu var fleygt inn, og gekk fram í forstofuna eftir því. Það var jólablaðið — stór og myndarleg útgáfa, skrautprentuð. Á fyrstu síðu englamyndir, er buðu gleðileg jól, frið á jörðu og velþóknun yfir mönnunum. Ingibjörg tók þann part blaðsins, braut það saman og stakk því ofan í borðskúffu. Hún ætlaði sér að líta yfir það seinna, og svo voru myndirnar af englum of fallegar til þess að flækjast um húsið. Svo tók hún hversdagspartinn af blaðinu, og leit yfir bæjarfréttirnar, og þar rak hún sig á dálitla grein í smáletri, sem henni hnykkti mjög við. Hún lagði hastarlega frá sér blaðið, tók af sér gleraugun og þurkaði þau í ákafa, án þess að taka eftir, hvað hún gerði. Egill Arason! — sjaldgæft nafn! Hún mundi ekki eftir að hafa heyrt getið um nema einn einasta mann með því nafni. En að hann væri kominn hingað til bæjarins og væri að hnupla skóm — það var alveg ómögulegt. Hafði átt heima hér í bænum fyrir löngu! — Einn síns liðs og öllum ókunnugur — peningalaus og fátæklega klæddur. — Hafði aleigu sína í handtösku, er týndist á lestinni. Skyldi það geta verið Egill, kominn aftur eftir öll þessi ár? Var það mögulegt, að hann væri orðinn — orðinn að þessum ólánsaumingja? Nei, ég trúi því ekki, fyrr en ég tek á. Hún sat æðistund grafkyr og hugsaði sig um, svo spratt hún upp, gekk að símanum og hringdi upp gamlan vin sinn, Ingimar Sveinsson, og bað hann að koma heim til sín eins fljótt og honum væri unnt.

Ingimar brá við og kom að vörmu spori. Gamla konan tók honum opnum örmum, fylgdi honum inn í setustofu sína og bauð honum sæti; sótti portvínsflösku og glös og setti á borðið. Ingimar gaf henni gætur, því hann sá, að hún bjó yfir einhverju, sem henni þótti miður. Hún færði stól að borðinu, settist í hann og

hellti í glas Ingimars og bauð honum, um leið og hún sagði:

„Þú ert nú orðinn vanur við að ég sendi eftir þér, þegar mig brestur ráð og framkvæmdir“.

„Já, það eru nú gamlir samningar; en hingað til hefir þú nú samt lagt á ráðin“, svaraði Ingimar brosandi.

„Er ekki hægt að kaupa fólk út úr fangelsi, sem liggur undir einhverri smávægis ákæru?“

„Jú, það er nú algengt“.

„Manst þú nokkuð eftir Íslendingi, að nafni Egill Arason, sem var hér í Winnipeg fyrir löngu síðan, smíðaði og braskaði heilmikið?“

„Nei, það hefir verið áður en ég kom hingað“.

„Það er líklega rétt“.

Hún rétti honum nú blaðið og benti honum á greinarkornið, um leið og hún sagði:

„Mér leikur sterkur grunur á, að þessi maður sé gamall vinur minn og mannsins míns sáluga, og að hér sé um einhver misgrip að ræða. Erindið við þig í kvöld er að biðja þig að fara niður á lögreglustöðvarnar og komast eftir, hvaða maður þetta er, og ef grunur minn er á rökum byggður, að leysa hann út og koma með hann hingað heim. Hérna eru peningarnir“.

Ingimar þagði andartak áður en hann svaraði:

„Ef þetta skyldi vera þessi gamli kunningi ykkar, þá er það drengilegt af þér, að vilja hjálpa honum, leysa hann út og greiða eitthvað götu hans, en ég sé enga ástæðu fyrir þig, að taka hann inn á heimilið, því eftir líkum að dæma, mun maðurinn vera breyttur frá því sem hann var, er þú þekktir hann. Það gæti orðið þér — og kannske honum líka, — ógeðfellt. Svo ertu tæplega þeim efnum búin, að þú getir allt af haft heimili þitt fyrir gustukastofnun“.

Ingibjörg hallaði sér fram á borðið og studdi hönd undir kinn; hún var alvarleg á svipinn og horfði fram

undan sér, eins og hugur hennar væri í fjarlægð. Ingimar horfði á hana þar sem hún sat, hvít fyrir hærum, djarfmannleg og sviphrein, með lífsreynslu ritaða í hverja rún — gömul, fátæk íslenzk alþýðukona með drottningarlund og drottningarhjarta. Eftir stundar þögn leit hún upp og framan í Ingimar, um leið og hún sagði:

„Af því að ég finn, að þér er ekki um að gera þetta, er ég að hugsa um að segja þér, hvernig það atvikaðist, að ég stend í þeirri skuld við Egil, sem ég aldrei borga.

Það eru nú liðin yfir fjörutíu ár síðan ég kom hingað. Þá var Winnipeg, til þess að gera, lítið þorp, og fátt hér af Íslendingum, en þeim fjölgaði nú óðum og stærri og stærri hópar komu að heiman. Við landar, sem vorum hér fyrir, búsett og kunnug, vorum að berjast við að taka á móti þessu fólki, sjá því fyrir húsaskjóli og hjálpa því áfram fyrst í stað, með því að útvega því vinnu og leiðbeina því, meðan það var ókunnugt; var það stundum vanþakklátt verk.

Svo var það eitt vor, að von var á óvenjulega stórum hóp að heiman. Harðæri og hafísar höfðu verið á Íslandi og sett óhug í landsbúa.

Morguninn, sem fólkið kom, fór fjöldi af löndum hér á járnbrautarstöðvarnar, til þess að taka á móti frændum og vinum, fá fréttir að heiman, og af þessari skrítnu tilfinningu, sem við landar hér höfum, að langa til og vonast eftir, að í för með þeim, sem koma, sé eitthvað af landinu sjálfu. En við erum oftast jafn vonsvikin — Ísland situr eftir óskert norður í höfum.

Ég svipaðist um í mannþrönginni, en fann engan, sem ég þekkti. En utan við hópinn kom ég auga á ung hjón, er engir virtust þekkja. Ég gekk til þeirra og tók þau tali, spurði þau tíðinda af Íslandi, og komst eftir því, að þau voru hér öllum ókunnug. Ég bauð þeim heim með mér, og þáðu þau það með þökkum. Þetta voru þau Egill og Álfheiður kona hans. Mér geðj-

aðist þarna strax svo einkennilega vel að þeim báðum, enda lærði ég það síðar, er ég þekkti þau betur, að þau voru bæði drengir góðir, eins og sagt var um Bergþóru.

Jæja, þau ílengdust hjá okkur, og leigðum við þeim part af húsinu, og féll mjög vel við þau í sambúðinni.

Egill var mesti greindarmaður, en ógnar skapmikill og áhugamaður um alla hluti, en ekki að sama skapi úthaldsgóður. Hann átti stóra framtíðardrauma og sá það flestum fyrr, að Winnipeg mundi verða höfuðból Vesturlandsins.

Og svo var nú Álfheiður — hana hefir mér þótt vænst um af öllum konum, enda var hún indæl manneskja, örlynd og höfðingi í lund, viðkvæm og gefin fyrir músik og skáldskap. Hana dreymdi líka allskonar drauma og talaði við stokka og steina, eins og það væru lifandi verur. Hún hafði næman fegurðarsmekk og var sú list lagin að lesa ljómandi vel; hún náði svo margskonar litbrigðum og blæbreytingum í róminn, þegar hún las, að við hlógum og grétum á víxl. Svo fagra rödd hefi ég aldrei heyrt síðan, nema kannske í einni eða tveimur leikkonum. Hvað við skemmtum okkur oft, og okkur varð allt að gleði og gamni á þeim dögum. Enn brosi ég að mörgu, sem við hlógum að þá, því eftir því sem maður eldist meira, hvarflar hugurinn oftar til æskudaganna og samferðafólksins þá.

En svo komu skuggarnir og féllu yfir hús okkar og heimili.

Ég hafði komið í vist einstæðings stúlkukind, sem hér var öllum ókunnug og átti lítils úrkosta; eftir það kom hún oft og átti eins og athvarf hjá okkur. Hún hafði ekki komið í nokkra daga; og af því að ég vissi, að hún gat lítið bjargað sér í ensku, fór ég að vitja um hana. Húsmóðirin sagði mér, að það mundi vera að byrja í henni slæmt kvef, og kvaðst ekki hafa tekið

hana til að hjúkra henni og vildi helzt losast við hana. Stúlkan lá í köldu kvistherbergi og var að verða mikið lasin, og af því að mér leizt ekki á aðbúðina þarna, tók ég hana heim. Henni þyngdi óðum, og það kom upp úr kafinu, að hún hafði skarlatssótt. Þrengsli og ýmislegt fleira var að hjá okkur, og þó að við reyndum að viðhafa alla varúð, þá hefir það ekki verið nóg, því Álfheiður tók veikina. Hún var þreytt og illa undir það búin að veikjast svona, enda dó hún.

Þú getur nú nærri, hve þungt mér féll, að hafa flutt banamein hennar inn í húsið. En svo var Egill mikið göfugmenni, að aldrei nefndi hann það á nafn né ásakaði nokkurn.

Eftir lát Álfheiðar varð Egill fálátur og eirðarlaus.

Um þær mundir var að færast nýtt líf í bæinn. Allt steig í verði og allir ætluðu að verða ríkir á landsölu og húsabyggingum. Hús og lóðir, keypt í dag, voru seld hærra verði á morgun. Út í þetta slengdi Egill sér og vann eins og víkingur. Hann rak húsasmíði í stórum stíl og veitti fjölda manns atvinnu. Sumir hugðu hann ríkan, aðrir sögðu, að hann ætti ekki fyrir skuldum. Um það vissi ég ekkert, en hitt var okkur kunnugt, að hann byggði betur og af meiri vandvirkni en tíðkaðist þá.

En einn góðan veðurdag hrundi allt í höfuðið á honum og hann stóð uppi öreigi. Þeir, sem voru honum „lægnari og lygnari“, létu greipar sópa um allt, sem honum tilheyrði. Og vinirnir — því þeir voru margir á meðan allt virtist leika í lyndi — hurfu ótrúlega fljótt. Það er fátt, sem mér finnst bera ljósari vott um þrælslund, en að snúa baki að vinum sínum, þegar hamingja þeirra hverfist.

Egill fór héðan burtu, og höfðum við engar fréttir af honum eftir það. Ég taldi jafnvel víst, að hann væri dáinn. En oft, þegar ég hefi gengið fram hjá húsunum, sem hann reisti, hefir mér dottið í hug, að innan

skamms muni það gleymt, hve sterkan þátt Íslendingar hafa átt í því, að leggja undirstöðusteina Winnipegborgar.

Ég er nú orðin langorðari um þetta en ég ætlaði, en mig langaði til að þér skildist, að hér er um ekkert góðverk að ræða, heldur ofurlitla samvizkufriðun. Og ef þú ekki gerir þessa bón mína, þá verð ég að segja, að svo bregðast krosstré sem önnur tré".

Ingimar brosti hæglátlega um leið og hann stóð á fætur og sagði:

„Ég skal gera það, sem ég get, úr því að þér er þetta svona mikið áhugamál".

Ingibjörg beið með óþreyju eftir fréttum, fram eftir kvöldinu, þangað til að Ingimar hringdi símanum. Hún flýtti sér að svara og spurði:

„Er það ekki hann? — Hvað; ekki séð hann? — Hvar er hann þá? — Ja, guð minn góður! — Lungnabólga! Er hann þungt haldinn? — Hvenær var hann fluttur á spítalann? — Getum við fengið að sjá hann í kvöld? — Jæja, þá það. En strax með morgninum. — Góða nótt og þakka þér nú hjartanlega alla fyrirhöfnina".

— — — — — — —

Morguninn eftir fór Ingibjörg yfir á spítala og var þar af og til um daginn. Egill þekkti hana snöggvast, en svo sló út í fyrir honum. Og þar sem Ingibjörg stóð við rúmstokkinn og athugaði hann, fannst henni hún naumast þekkja hann, svo mjög var hann breyttur. Nærvera Ingibjargar virtist friða hann, og þó einkum það, að hún talaði við hann á íslenzku. Stundum fannst honum hún vera Álfheiður, og reyndi Ingibjörg ekki að hafa á móti því, eða að svifta hann þeirri fróun. Hún hlustaði á hann og svaraði honum við og við. Þar sem hann lá þarna, kominn að dauða, var hann að tala um og lifa upp aftur löngu liðna atburði. Hann var að byggja, og það brann í honum sami áhuginn og ákafinn og forðum. Stundum var hann að tala við Álfheiði, eða

hún var að lesa honum; og er það líkt með óráð og drauma, að það, sem er geymt í huganum, hugsað meira um en talað, kemur í ljós, og fólki finnst það gera, sjá og heyra ýmislegt, sem ekki á sér stað.

Þannig leið dagurinn fram undir kvöld. Hátíðablær var að færast yfir spítalann. Hjúkrunarkonurnar gerðu allt, er í þeirra valdi stóð til að flytja jólin inn til sjúklinganna. Þær voru léttari í spori, glaðari og hlýlegri á svipinn, mýkri í handatiltektum og alúðlegri í máli, og báru brosandi sjúklingunum blóm og gjafir, er sendar voru frá vinum og vandamönnum, er ekki gátu komið sjálfir. Ein þeirra kom nú að rúmi Egils, gaf honum nánar gætur og reyndi eitthvað að hagræða honum. Á meðan hún var að því, gekk Ingibjörg yfir að glugganum og starði út í nóttina — nóttina helgu. En hún sá ekkert fyrst í stað, því hugur hennar var of upptekinn. Allt í einu var eins og augu hennar opnuðust. Var þetta Winnipeg — þessi fagra borg, er stóð þarna í hillingum — reifuð fjarlægðarbláma rökkursins? — Það var eins og hún héngi í lausu lofti — væri nær skýjunum en jörðinni — hefði kastað af sér öllum soranum og varpað yfir sig helgiblæju jólanæturinnar. Og henni flaug í hug, að þarna væru hinir fornu framtíðardraumar Egils að rætast á furðulegan hátt — hans, sem nú lá þarna með aftur augun, á landamærum lífs og dauða — draumar landnemans fátæka, sem komið hafði ríkur af vonum og hugsjónum, en orðið afskiftur, — draumar gamla Íslendingsins, sem mestan hluta æfinnar hafði reikað um eyðimörku — en að eins séð framtíðarlandið í hillingum, eins og henni kom Winnipeg fyrir sjónir á þessari stundu.

En á meðan Ingibjörg stóð við gluggann í þessum hugleiðingum, skeðu dásamlegir atburðir í herberginu. Inn að rúmi Egils kom hinn heilagi Nikulás, skrýddur fullum biskupsskrúða, og friður og mildi ljómaði af ásjónu hans. Hann brosti til Egils eins og hann vildi

segja: Hérna er nú jólagjöfin þín. Við hlið hans stóð Álfheiður, eins yndislega fögur og sorgin og þráin höfðu málað hana í huga hans. Augu hennar ljómuðu af ástúð og fögnuði, og hún laut niður að honum og tók í hönd hans; óumræðileg sæla gagntók sálu hans, og hönd í hönd svifu þau út úr sjúkrastofunni, upp yfir borgina, áleiðis út í morgunroða eilífðarinnar!

## *UNDIR ÚTFALL*

(Brot.)

Einhvern tíma, fyrr eða síðar, kemur að því fyrir öllum, að þurfa að gera reikningsskap við lífið, við sjálfan sig, við allt æfistarfið. — Og í kvöld var Ófeigur í Lundi að reikna saman útgjöld og inntektir rúmlega fimmtugrar æfi. Hann lét hestinn lötra í hægðum sínum eftir sléttum veginum. Það fór vel um hann í mjúku sætinu. Veðrið var milt og frostlítið, stafalogn og hvíta tunglsljós. Allt var hulið hreinum nýföllnum snjó, eins langt og augað eygði, nema þar sem skógarrunnarnir stóðu, myrkir og þögulir, á verði eins og hersveitir af dökkálfum.

Hár og herðabreiður og myndarlegur maður var Ófeigur, dökkhærður, snareygur, og skarpleitur. Gleðimaður hafði hann verið á yngri árum, fríður og karlmannlegur, og hafði margri stúlkunni þar í sveit hlýnað um hjartarræturnar í návist hans. Og svo var með allt fyrir Ófeigi — það var eins og lánið elti hann — sagði fólkið. Honum græddist fé og álit með ári hverju. En ríkidæmi Ófeigs var ekki allt heppni. Hann hafði unnið eins og víkingur, og aldrei unnað sér hvíldar, fyrr en nú upp á síðkastið, að hann hafði orðið að neyðast til þess sökum heilsubilunar. Hann var á heimleið frá lækninum þetta kvöld. Þeir voru gamlir vinir og hann hafði sagt Ófeigi sannleikann, að æfinni væri

bráðum lokið. Og Ófeigur fáraðist ekkert um það, því slíkt var ekki eftir skapferli hans, en hugur hans átti óvenju annríkt í kvöld. Nú, þegar tíminn var orðinn svona naumur, fann hann fyrst, hvað litlu hann hafði afkastað, hve snautt lífið hafði verið af öllu nema striti og búsáhyggjum. Ekki vantaði það, að honum hafði græðzt fé, völd og virðingar í sinni sveit, en um leið og hans ytri maður hafði stækkað og vaxið um sig, hafði hans innri og betri maður.— tilfinningar og sálarlífið — rýrnað og skroppið saman. Já, hann þurfti að gera skil hér og þar; en þó var það nú eiginlega Solveig, konan hans, sem hann hafði verið að vanskifta í allri reikningsfærslunni, konan hans, sem hafði unnað honum, annazt hann, alið honum falleg og efnileg börn, strítt og starfað með honum öll þessi ár. Hann gat ekki gert sér grein fyrir því, hvenær það hafði byrjað, né ástæðuna fyrir því, að þau höfðu verið að smáfjarlægjast hvort annað hægt og hægt. Báðum var þeim jafnannt um búskapinn — í því var þeim samhent — en samúðin og gleðin í sálum þeirra og sambúð smáþvarr og varð að fálæti og afskiftaleysi, og að síðustu reis eins og veggur á milli þeirra, sem hvorugt reyndi að rjúfa. Hann hafði til þessa kennt um skapgerð þeirra — hann ráðríkur, skapstór og vinnuharður, en hún stríðlynd, þybbin og fámál — en var ekki undirrótin hin sama — of mikið strit, þreyta og tilbreytingarleysi, er smálamaði alla lífsgleði og samúð? Og glaðlynd hafði þó Solveig verið, glaðlynd, blíð og falleg — og falleg var hún enn, en glaðlyndið var horfið. Og átti hann ekki sök á því? Fáorð, alvarleg og stjórnsöm, og sívinnandi var hún nú, svo að jafnvel móður hans mundi hafa þótt nóg, ef hún hefði verið á lífi, hún, sem var þó svo hrædd um, að Sólveig væri léttúðugur ónytjungur, þegar hann trúlofaðist henni. Já, þegar hann trúlofaðist Sólveigu í trássi við allt og alla, hve hann elskaði hana þá heitt og ásetti sér að bera hana á hönd-

unum til daganna enda! En hafði hann æfinlega gert það?

Og nú, þegar hann keyrði heimleiðis í hægðum sínum, stóð allt í einu ljóslifandi fyrir hugskotssjónum hans kvöldið, sem þau trúlofuðust — hvert einasta smáatvik á þeirri keyrsluferð rifjaðist nú upp fyrir honum. Ærið ólík ferð þessari, að undanteknu því, að það var á aðfangadag jóla eins og nú. Þá hafði hann í för með sér æsku, ást og framtíðarvonir -- Solveigu, en nú var dauðinn föruneytið.

— — — — —

Það hafði verið efnt til jólatréssamkomu í litla skólahúsinu þar í sveitinni; og það var nú engin smáræðishátíð í þá daga. Yngri systkini hans réðu sér ekki fyrir tilhlökkun, að komast þangað, og hann hlakkaði engu minna til ferðarinnar, en mestmegnis vegna þess að Solveig ætlaði að verða með í förinni. Hún var vinnukona hjá móður hans og hafði komið heiman af Íslandi vorinu áður. Hún var ekki búin að vera þar lengi, þegar honum varð það ljóst, að hann var ástfanginn — og það svo alvarlega, að hann sá konuefnið sitt í þessari fátæku, umkomulausu stúlku — ef hún þá vildi hann, því hún hafði þá strax það við sig, að halda fólki í fjarlægð, þegar henni sýndist svo. Allt var á ferð og flugi að búa sig af stað. Hann hafði hagað því svo til, að systkini hans fóru öll í stóra sleðanum; en fyrir litla sleðann, er aðeins tók tvo, spennti hann uppáhalds eldishestinn sinn, og í honum fóru þau Solveig og hann.

Það var reglulegt Manitoba jólaveður, heiður, alstirndur himinn, glaða tunglskin og hvítalogn, — kvöldið var svo kyrrt og hljótt, að það var eins og nóttin héldi niðri í sér andanum. Það var grimmdarfrost og silfurhvítt hjarnið huldi allt, og lá í öldum og kömbum eins og stirðnað úthaf. Enda á sléttan sammerkt að ýmsu leyti við hafið — hún, eins og það, fyllir sálu

manns seiðandi löngun, að leggja af stað og kanna ómælisvíddina. Á sumrum fylgir því þunglyndisþrá, en á vetrum geigur og ótti, því sléttan, undir vetrarsnjó, er enn ægilegri en hafið, af því að hún er kyrrlátari og eyðilegri. — Manni finnst, að dauðinn standi á gægjum við hverja fannbungu. En í þetta skifti var fannbreiðan aðeins töfraland, er þau flugu yfir. Mjúkur snjórinn þyrlaðist undan hesthófunum og marraði undir sleðameiðunum. Loftið, þunnt og kalt, brenndi og sveið andlit þeirra, og við hvern andardrátt greip frostið loðnum loppunum fyrir vitin á þeim. Og þarna úti í hreinni, heiðri og stjörnubjartri jólanóttunni tjáði hann henni ást sína og hug allan, og fékk þau svör, er hjarta hans þráði. Og áfram flugu þau yfir mjúka fönnina — áfram eins og í draumi, ein, alein í dýrðarheimi jólagleði og æskuástar, með söng og gleði í sál sinni, — og hjarnið fram undan þeim var ekki lengur hjarn, heldur töfraland, er ljósálfar höfðu stráð miljónum demanta, er sindruðu og glóðu undir næturhimninum. —

Skólahúsið var lítið og lágt undir loft, en tréð var stórt og fallegt, og lagði af því ilm og angan um allt húsið. Lítið var um jólaskrautið á því, nema dálítið af kertum og heimatilbúnum körfum og pokum úr ýmislega litum pappír, er héngu á greinum þess fullir af sætindum. Börnin sungu, spiluðu og lásu upp, og að því loknu voru jólagjafirnar afhentar. Og enn mundi hann eftir undrunar og gleðisvipnum á Sólveigu, er henni var færður böggull, er hann laumaði á jólatréð, þegar hann kom — og hvað hún roðnaði, er hún opnaði böggulinn og fann þar silki í kjól og dálitla brjóstnál úr gulli — frá honum.

Og andlit allra ljómaði af gleði og góðvild, þegar að lokum fólkið fór að tygja sig til heimferðar. Góða nótt og gleðileg jól, — gleðileg jól, kallaðist fólkið á, þegar út var komið og sleðarnir voru að renna af stað.

Gleðileg jól! Gleðileg jól! kvað við í sleðabjöllunum, unz ómur þeirra dó út í fjarska.

— — — —

Hann var nú kominn heim. Bærinn var allur uppljómaður af ljósum. Þegar hann opnaði dyrnar og gekk inn, lagði á móti honum ilm af jólaréttunum, er blandaðist saman við angan af stóru grenitré, er dóttir hans var að ljúka við að skreyta inni í setustofunni. Jólatréð brosti þarna við honum, glæst og glitrandi af ljósum, glæst og glitrandi af ljósjólagjöfum. Dóttir hans, falleg, glaðleg og prúðbúin, kom á móti honum, er hún varð hans vör, og hjálpaði honum úr loðfeldinum. Hann sá Sólveigu bregða fyrir frammi í eldhúsinu, þar sem hún var að undirbúa jólamatinn. Allt húsið var fágað og skreytt — engu var gleymt. Hátíðablær hvíldi yfir öllu, jólin voru gengin í garð.

Jólagesti — vini og skyldfólk úr nágrenninu — dreif nú að. Með gleði og gestrisni var tekið á móti þeim, og með rausn og myndarskap gengið um beina. Þó var enginn eins glaður og reifur og húsbóndinn, — hann var hrókur alls fagnaðar undir borðum, sá um að allir skemmtu sér og enginn yrði út undan. Og svo leið kvöldið við alls nægtir, gleði og söng, þar til síðustu gestirnir kvöddu og heimilisfólkið tók á sig náðir.

Þau hjónin voru nú orðin ein eftir niðri. Solveig var á stjái fram og aftur um húsið — tók til og færði í lag hér og þar. En Ófeigi varð reikað inn í stofuna, þar sem eldur brann ennþá á arni. Hann settist í hægindastól hjá arninum, rétti fram fæturna og lét ylinn streyma um sig. Hann var dauðþreyttur og eftir sig, eftir glaðværð kvöldsins og þunga dagsins. Hann starði í eldinn og sá stóra trébúta verða að glóandi eldi og síðast kulnaðri öskuhrúgu; og honum flaug í hug, að þarna væru trén að skila aftur sólskini heillar æfi, er þau hefðu fengið að láni sér til lífsuppeldis. Mundi honum endast aldur til að gera hið sama?

# Lára G. Salverson

## *GJÖFIN MEIRI*

Magnús litli athugaði veðrið nákvæmlega. Það leit út fyrir snjókomu. Það var eins og skýin næðu nærri því ofan á þakið á kofanum, sem var hinumegin í götunni, og honum fannst, að hann mundi geta strokið hendinni um þau, ef hann væri kominn upp á mæninn á honum.

Úti á götunni sá hann lítinn svangan hund, sem bar trýnið alveg niður við jörðina, alveg eins og hann væri að leita að einhverju, þar sem hann slettist áfram ólundarlega, og hann minnti Magnús á, að hann væri sjálfur svangur.

Seinlega sneri hann sér við og horfði á móður sína, sem var önnum kafin við að slétta lín. Hún var frekar lág vexti, en fjörleg og hárið hrukkaðist yfir enninu, sem var blautt af svita, í stað þess að leggjast flatt, og er það máske eðlisgjöf þeirra, er sérstakt hugrekki þurfa að sýna. Hún var rjóð í framan af hita og mjög þreytt. Rétt hjá henni stóð karfa á stól, full af þvotti, og átti hún eftir að strauja hann allan, því kaupmannsfrúin þurfti að fá þvottinn sinn þá um daginn.

„Mamma, mér finnst ég vera dálítið svangur", sagði Magnús. Móðir hans lagði straujárnið frá sér, þurkaði svitann af enninu á sér með hendinni og brosti.

„Er það ekki gott, lambið mitt? Þú verður þess fegnari að fá grautinn, þegar hann kemur. Ef þú vilt reyna að vera góður, þangað til ég er búin að strauja treyj-

una þá arna, þá skulum við vekja hana Maríu og fá okkur dagverð".

„Mamma, er það satt, að guð elski litlu börnin?"

„Hvað gæti hann gert annað, góði minn?"

„Og eru ekki jólin núna, mamma?"

„Við mundum segja heima á ættlandinu, að þau byrjuðu klukkan tólf í nótt .... þú skalt sjá .... stjörnur munu glitra með meiri fegurð en vanalega, því englarnir munu með gleði auka birtu þeirra".

„Mamma, hann Samúel sagði mér, að það ætti að vera jólatré í kirkjunni í kveld. Má ég ekki fara þangað? — Jólatré með ljósum á, sagði hann. Ó, mamma, ég hefi aldrei séð jólatré. — Það er ekki ósköp kalt. — Elsku mamma, má ég ekki fara?"

Móðir hans hafði lokið við að slétta kventreyjuna. Hún lagði hana með gætni yfir bakið á stól, lagði frá sér borðið og járnið, og gekk í hægðum sínum að litilli eldavél, sem stóð í einu horninu á húsinu og stóð þar hreyfingarlaus um stund, ef til vill til þess að láta sem minnst bera á geðshræringunni, sem hún hafði komizt í.

Úr næsta og eina herberginu, sem í húsinu var auk þess, sem þau voru í, kom veikluleg mannsrödd, sem spurði um, hvað klukkan væri.

„Hún er hálf eitt, Pétur", svaraði konan hans.

„Mamma, má ég ekki fara?" spurði Magnús.

„Heldurðu, að þú verði ekki hræddur, að fara einn, góði minn? Ég get ekki farið með þér, því hann pabbi þinn er svo veikur".

Gleðin skein út úr augum Magnúsar.

„Nei, nei. Ó, mamma, þetta verða þó sannarleg jól! Og ég heyri sönginn í kirkjunni og sé stjörnurnar líka. .... Pabbi, pabbi, ég ætla að fara að sjá jólatréð í kirkjunni", hrópaði hann upp yfir sig skærum rómi, og hljóp að herbergisdyrum föður síns.

Fölur og þreytulegur á svipinn, eftir langvarandi

sjúkdómsstríð, virti faðirinn drenginn fyrir sér, þar sem hann stóð í herbergisdyrunum með vonarsvip á andlitinu. Hann stundi við og sagði:

„Þú frýs, Magnús, og verður svo veikur eins og hann faðir þinn“.

„Nei, ég skal hlaupa .... og ég treð höndunum inn í úlpuermarnar mínar og hún mamma lætur bréf innan í skóna mína, og þá verður mér ekki svo kalt, ef ég hleyp nógu mikið“.

Á meðan á máltíðinni fátæklegu stóð, reyndi móðir hans að gera honum marga hluti skiljanlega, án þess þó að vera um of berorð.

„Það verða kannske gjafir á jólatrénu, Magnús minn, handa börnunum, sem eiga heilbrigða feður. Þú mátt ekki taka það of nærri þér, þó þú fáir þar enga“.

En Magnús var nú annars hugar. Hafði ekki einn af leikbræðrum hans sagt honum frá undrapersónunni, sem gaf litlum drengjum gjafir um jólin, það er að segja, ef þeir eru góðir drengir, og hafði hann ekki allt af verið góður drengur, sótt bæði vatn og eldivið handa mömmu sinni, og borið fyrir hana þungu þvottakörfuna. Hafði hann ekki allt af passað hana Maríu systur sína, þegar mamma hans var í burtu að heiman, og hafði mamma hans ekki sagt honum, að guði þætti vænt um litlu börnin. Svo það hlyti líka að verða eitthvað undursamlegt handa honum á jólatrénu — trénu í guðs húsi — um það var hann alveg sannfærður, og hann hafði líka látið guð skilja það í bænum sínum.

Rétt eftir klukkan sjö fór Magnús að þvo sér, því hann vildi umfram allt vera hreinn í framan.

Hann þvoði á sér andlitið og eyrun og var svo varkár, að hann jafnvel bað mömmu sína að skoða inn í eyrun, til þess að sjá, hvort þau væru vel hrein. Hann burstaði á sér snögga hárið mjög vandlega. Svo færði mamma hans hann í hreina skyrtu, burstaði gömlu

treyjuna hans og lét pappír innan í skóna, sem voru orðnir litlir, stóð svo og virti hann fyrir sér með hryggð í huga.

En Magnús litli lék við hvern sinn fingur, og gat ekki verið kyrr eina stund. Og gleði hans brauzt út í söng — skærum, gleðiríkum barnasöng. Faðir hans kreppti hnefana fastara saman inni í dimma herberginu, þegar hann heyrði hann syngja — eins og fugl að morgni dags. „Ó, drottinn minn! Fylltu hjarta einhvers manns aumkvun .... vesalings litli drengurinn minn, vesalings litli drengurinn minn!“

Þegar Magnús var tilbúinn að fara, fór hann inn til föður síns og kvaddi hann með kossi. Hann greip utan um systur sína, litlu Margréti, og þrýsti henni að sér, þar til hún fór að hljóða. Svo hljóp hann í faðminn á móður sinni, sem brosti framan í hann, faðmaði hann að sér og kyssti, og mælti:

„Vertu nú góður drengur og mundu eftir því, að ef hann pabbi væri ekki veikur, þá fengir þú gjöf líka. Reyndu að harka af þér og vera hugprúður drengur“.

Svo hljóp Magnús út, lotinn í herðunum; þegar hann var kominn nokkur skref frá húsinu, sneri hann sér við og veifaði með hendinni til móður sinnar glaðlega:

„Þú skalt sjá, mamma, að eitthvað kemur fyrir í þessari ferð, vittu bara til“.

Þegar hann var farinn, settist móðir hans niður þreytulega. María litla kom til móður sinnar og togaði í treyjuermina hennar, en hún sinnti henni ekki, svo barnið andvarpaði og fór hljóðlega og settist niður úti í horni og fór að tala við fólk hinumegin við vegginn.

„Var það ekki mesta heimska, góða mín, að láta drenginn fara?“ mælti Pétur í veikum og hreimlausum málrómi.

„Sjálfsagt“, svaraði kona hans, „en hann hefði ekki getað skilið, eða gleymt því, ef við hefðum neitað honum um svo lítið. Ó, Pétur, að þetta skuli vera að-

fangadagskvöld!“ Svo varð samtal þeirra ekki lengra. María litla þreyttist fljótt á, að tala við ímyndaða fólkið hinumegin við vegginn, og sofnaði útaf í horninu, þar sem hún sat, og tók móðir hennar hana í fang sér, og lagði hana upp í rúm. Svo settist hún niður, en hún gat ekki notið neinnar hvíldar, því hjarta hennar var fullt af óróa og kvíða. Hún var allt af að líta á klukkuna. Hún reyndi að prjóna, en eirði því ekki. — Hún hreinsaði eldavélina, og tíndi saman blöðin, sem María litla hafði dreift út um gólfið.

Magnús litli hljóp áleiðis til kirkjunnar. Hann nísti saman tönnunum og vildi ekki kannast við, að honum væri kalt. Gatan langa var hvít af snjó og lagði draugslega birtu niður á hana frá ljóstýrum, sem stóðu fram með henni. Við og við mætti hann fólki á götunni, eða öllu heldur þaut fram hjá því, án þess að veita því eftirtekt.

Þegar hann að lokum sá gráu steinkirkjuna, sem honum sýndist feikilega stór, alla upplýsta með jólaljósum, barðist hjartað í brjósti hans. Hann sá glampana þrengja sér í gegnum rauðleitu rúðurnar og út á snjóinn fyrir utan, og var hrifinn af, og uppi á þakinu sá hann krossinn, er var að sjá sem silfur í tunglsbirtunni, og ánægjan yfir að sjá þetta var svo mikil, að tárin þrýstu sér fram í augu hans ósjálfrátt, og undrun hans varð ennþá meiri, þegar hann, kaldur og þreyttur, var kominn inn og seztur í hornið á yzta bekknum í kirkjunni.

Hann átti erfitt með að átta sig fyrst, eftir að hann kom inn. Hlýindin voru svo þægileg, ilmurinn frá grenitré, sem stóð innarlega í kirkjunni, og suðan frá fólkinu, sem var að tala, fyllti loftið. Hann hneppti frá sér yfirhöfninni með fingrum, sem voru næstum stirðir af kulda, og hengdi hana með mestu gætni á stólbríkina fyrir aftan sig, til þess að hún yrði ekki fyrir neinum. Svo settist hann í sætið og horfði og horfði.

Kirkjan var skreytt að innan grænum viðargreinum og sveigum og ljósin blikuðu um hana alla. En það undursamlegasta af öllu í augum Magnúsar var tré, sem stóð fyrir framan altarið, mikið og hátt og blikaði allt í ljósum. Þetta allt var eins og undursamlegur draumur. Það var næstum því ótrúlegt, en samt var það satt og raunverulegt. Hátt yfir altarinu var letrað með gullnum og glampandi stöfum: „Dýrð sé guði í upphæðum". Hann gat hæglega lesið stafina. Hann hafði lesið þann boðskap heima hjá móður sinni svo oft. En núna kom hann með ósegjanlegu afli til hans og dýrð hans umvafði hann í heitu geislabaði.

Hann heyrði ekki mikið af ræðu prestsins. En hann óskaði, að hann þyrði að syngja. Söngurinn var svo fagur, og þegar að hópur hvítklæddra barna kom fram og gekk skrúðgöngu eftir göngum kirkjunnar og söng: „Ó, barnið unga í Betlehem", þá komu tárin fram í augun á honum.

Á meðan á þessu stóð, sat Magnús kyrr í sæti sínu og lét ekkert á sér bera. Há og grönn kona hafði sezt í sætið við hliðina á honum, og málhreifur, rauðleitur maður við hina. Þau litu til hans hornauga fyrst, en létu hann svo eiga sig.

Þegar guðsþjónustan og skemmtiskráin var á enda, tók maður, hár vexti og með bros á vörum, að kalla upp nöfn, og í hvert sinn, sem hann kallaði upp nafn, gaf eitthvert barn sig fram, fór til hans og kom aftur frá manninum og trénu, broshýrt með böggul í fanginu.

Magnús litli sat rólegur í sæti sínu og beið. Þegar að börnin fóru fram hjá honum með böggla sína, langaði hann til að samgleðjast þeim, og ef til vill sjá, hvað í þeim væri, en lét þó ekki á sér bæra. Maðurinn hélt áfram að lesa upp nöfnin. Magnúsi þótti undarlegast, hvað lengi maðurinn var að því, og honum sýndist, að það væri búið að taka alla bögglana af trénu, sem skreyttu það áður.

Svo var eins og hann vaknaði allt í einu upp af draumi. Maðurinn var hættur að lesa upp nöfnin. Börnin voru hætt að hlaupa eftir ganginum. Svo stóð allt safnaðarfólkið á fætur og söng hátt og heldur óáheyrilega, og svo fór það að fara út úr kirkjunni.

Háa og granna konan, sem sat á bekknum hjá Magnúsi, vafði sig innan í loðkápu, bretti loðkraganum upp, svo hann náði upp yfir eyru. Litli rauðleiti maðurinn fór að setja upp yfirskóna, og sýndist reyna ósköp mikið á sig við það. En Magnús litli sat höggdofa eins og steinn. .... Þetta var guðshús og hann hafði verið góður drengur .... og samt hafði guð gleymt honum. Hann beit á vörina, þreifaði eftir yfirhöfn sinni, velti sér einhvern veginn í hana og rölti út úr kirkjunni. Eftir því sem lengra leið á kvöldið, því órórri varð móðir Magnúsar. Hún gat ekki kyrr verið. Hún stóð upp og gekk að matarskápnum. Þar var ekki um auðugan garð að gresja. Ofurlítið af hveitimjöli, sem hún ásetti sér að baka úr nokkrar pönnukökur, þó engin væru eggin til þess að bæta þær með, en svo var hún nú orðin svo vön því, að búa til pönnukökur án þess að hafa egg í þeim, og þær voru ekki slæmar.

Þegar hún hafði lokið við að baka pönnukökurnar, vafði hún þær saman, skar þær í sundur og raðaði þeim smekklega á disk; úr gömlu kofforti tók hún gamlan, hvítan borðdúk og lagði hann á borðið, sótti síðan olíulampa og setti hann á borðið. Aftur fór hún að leita í koffortinu, án þess að hún vissi verulega, að hverju hún væri að leita, og fann þar til allrar hamingju lítið hvítt kerti og mjóan, rauðan borða. Hún batt borðann um kertið og lagði það hjá diskinum á borðið. Svo settist hún niður og hlustaði eftir fótataki Magnúsar. Þegar klukkan var orðin tíu, var hún farin að verða mjög óróleg. Hún gekk að dyrunum og leit út. Það var farið að snjóa og vindurinn þeytti snjókornunum í hringiðu. Hún ætlaði varla að ná andanum,

þegar hún kom út úr húsinu og út á götuna. Þar kom Magnús á móti henni og barðist áfram í bylnum grátandi. Þegar hann kom til móður sinnar, var hann að því kominn að hníga niður.

„Mamma! ó, mamma! .... Og ég reyndi að vera svo góður!“ Hún greip hann í fang sér og bar hann inn í húsið og settist með hann í kjöltunni á stólinn við eldavélina og færði hann úr skónum og snjófötunum, án þess að segja eitt orð við hann, lét hann gráta óátalinn.

Þegar hún var búin að færa hann úr skónum og snjóklæðunum og vefja hann inn í hlýju sjali, tók hún höndum um andlit drengsins, leit brosandi framan í hann og mælti: „Svo þú fékkst beztu gjöfina eftir allt saman, góði minn“.

Hann leit stórum augum á móður sína og barðist við að halda tárunum til baka. Magnús var ímyndunarríkt barn. Kannske að jólagjöfin hafi verið send heim til hans. Dæmalaust hafði hann verið heimskur, að hugsa ekki út í það.

„Hvað er það, mamma?“ Móðir hans þrýsti honum fastara upp að sér og hagræddi sér svo á stólnum, að ylinn frá eldavélinni lagði á fæturna á honum.

„Þú hefir heyrt söguna um litla barnið, Jésús. Þú manst eftir því, að þegar hann kom í heiminn, þá var hvergi annars staðar rúm fyrir hann en í fjárhúsjötunni“.

„Já, mamma“.

„Og þú hugsar máske um hina göfugu Maríu, móður Jesú; hún var hrygg og táraðist .... því þessi staður var ekki ákjósanlegur fyrir barnið hennar. Svo manstu, að konungurinn hefði tekið Jesú af lífi, ef hann hefði fengið því orkað, og að foreldrar hans urðu að flýja með barnið; það var og hið mesta hryggðarefni, Magnús minn“.

„Já, mamma“.

„Og ánægjustundir Jesú hafa ef til vill verið fáar í

Galileu .... Manstu eftir hryggðartíð þeirri, sem á eftir fór? .... Manstu eftir honum, þegar hann var einn í grasgarðinum í næturmyrkrinu? — Þegar hann stóð frammi fyrir Pílatusi, og þú manst eftir krossinum?"

„Já, mamma".

Magnús litli var orðinn klökkur í hug út af meðferðinni á Jesú.

„Og jólin eru fyrst og fremst tíð endurminninganna og svo gleðinnar. Þú veizt það, litli drengurinn minn, að Jesús Kristur kemur til jarðarinnar á hverjum einustu jólum, í líking barns þess, sem hann einu sinni var .... og hann kemur til barns þess, sem verðugast hefir verið fyrir móttöku hans á því ári, og á meðan að hann er hjá því, leggst skuggi krossins yfir hann á ný, eins og þegar hann lá í jötunni, og hann fellur líka yfir barnið, sem hann hefir útvalið — það er hin sanna jólagjöf, — velþóknun guðs".

„Ó, mamma!" sagði Magnús litli, og var undursamlegur glampi í augunum á honum. Móðir hans reyndi að kefja tilfinningar sínar, hagræddi sjalinu, sem hún hafði vafið hann innan í, og þrýsti honum fastara að sér og brosti blíðlega framan í hann.

„Og þetta er gjöfin, sem þú fékkst, litli Magnús minn".

„En, mamma —?"

„Veitti nokkur þér eftirtekt í kirkjunni? Var nokkur þar, sem sá þig? Talaði nokkur þar til þín, eða reyndi að tefja fyrir þér?"

„Nei, mamma. En —".

„Jæja, skilurðu nú ekki þetta? Það gat ekki öðruvísi farið, það var ómögulegt. Það sá þig ekki, þetta fólk; þeirra eigin umhugsunarefni skyggði á þig. Það er svo æfinlega með krossins börn, þau eru ekki fjöldanum samferða — þau fylgja drottni sínum. Augnabliks skemmtanir eru þeim einkis virði, — stjörnurnar eru þeirra félagar og englarnir fylgisveit. Brostu aftur,

ástin mín. Ertu ekki sæll að finna þannig náð í augum guðs þins?"

„Ó, mamma!" sagði Magnús og vafði handleggjunum utan um hálsinn á henni móður sinni og kyssti hana innilega. „Ó, það er svo fagurt, svo indælt! En, hvernig vissir þú þetta?"

Móðir hans brosti glaðlega, og það var eins og steini væri létt frá brjósti hennar. Hún stóð á fætur, bar Magnús að borðinu og setti hann þar á stól.

„Því var máske hvíslað að mér", sagði hún. „En sjáðu nú til. Hér er ofurlítið til að gleðja okkur". Hún hellti kaffi og mjólk í bollana, sem voru á borðinu, og settist svo niður hjá honum.

Þegar Magnús sá kertið með rauða borðanum hjá diskinum sínum, klappaði hann saman höndunum af gleði. „Ó, látum okkur kveikja á því, mamma, svo við getum horft á það, meðan við erum að borða".

„Nei, góði minn, við skulum kveikja á því, þegar þú ert háttaður, og láta það svo loga við rúmið þitt á meðan þú sefur. Það er jólakertið, eins kerti og börnin kveiktu á í ættlandinu mínu kæra, og svo dreymir þig — ungi vinurinn útvaldi".

Eftir að Magnús var háttaður, lá hann vakandi og horfði á ljósið á kertinu um stund. Kallaði svo á móður sína. Hún kom að rúminu hans, þreytt, en með ánægjusvip á andlitinu, beygði sig ofan að honum og hann vafði handleggjunum um hálsinn á henni.

„Mamma", hvíslaði hann. „Heldurðu, að þetta hafi hryggt hann? Ég hefði átt að gráta, af því að ég ekki skildi".

„Nei, elsku drengurinn minn. Ég held, að hann skilji öllum öðrum fremur".

Magnús horfði alvarlega á móður sína dálitla stund og mælti svo: „Ég býst við, að skugginn hafi líka fallið yfir þig, þegar þú varst lítil, og að þess vegna skiljir þú ávalt svo vel".

# Bergþór E. Johnson

---

## *DÓMURINN*

Það var bjartur sumarmorgunn. Sólin skein skært. Hún hellti geislaflóði sínu á Ontariovatnið, svo það varð eins og flötur þakinn glitrandi perlum. Skógarbeltin í fjarska sýndust eins og iðandi grænir blómakransar, sem sveigðust fyrir léttum vindblæ. Blómin teygðu gulllitaðar krónur sínar gegn morgunsólinni. eins og vildu þau segja, að allt ætti að vera unaðslegt þann dag, og fuglarnir þöndu vængi sína í loftin blá, eins og þeir ætluðu á þessum blíða degi að uppfylla sínar fegurstu vonir.

Ég sat í dyrunum á tjaldi mínu og var að horfa á alla þessa dýrð náttúrunnar, þegar herlúðurinn truflaði mig af hugsunum mínum, og gaf mér til kynna, að nú væri bezt að tygja sig til fyrir morgunæfingarnar. Við þyrptumst allir í fylkingu fyrir framan tjöldin, eins og vandi okkar var til á morgnana, og bjuggum okkur undir erfiðar æfingar fram að hádeginu. En okkur brá heldur en ekki í brún, þegar við vorum látnir fara beina leið út á aðalflötina austan við herbúðirnar, í stað þess að fara á æfingavöllinn norðan við tjöldin. Við vorum látnir stanza, og svo engar frekari skipanir gefnar.

Undirforingjarnir gengu hljóðir og alvarlegir aftur og fram um flötina, og það fór ekki fram hjá okkur, að eitthvað mikið stóð til. Þó við værum fegnir að vera lausir við æfingarnar, þá vorum við samt óþreyjufullir út af biðinni, því við þóttumst vita, að eitthvað ætti fram að fara, sem við höfðum ekki séð áður. — Loks-

ins kom yfirforingi herbúðanna við Long Branch, Earl kapteinn. Hann var þóttafullur að vanda, og nú, eins og alltaf, fannst mér skína út úr honum sjálfsvirðing sú og álit, er hann hafði á sjálfum sér fyrir að vera yfirforingi yfir fegurstu herbúðum flughersins í Canada. Hann gaf tafarlaust skipanir, og við vorum látnir færa okkur saman, þar til við stóðum þétt saman í röðum, og mynduðum stóran vegg í kringum fermyndað svæði, þar sem foringjarnir stóðu. Nú varð aftur þögn og kyrrð. Við biðum enn stund, og þó við værum þreyttir af að standa hreyfingarlausir, þá fundum við ekkert til þess, vegna óþreyjunnar og eftirvæntingarinnar yfir því, hvað fram ætti að fara.

Allt í einu kom eins og einhver ókyrrð á þyrpinguna. Við, sem stóðum innarlega eða nærri opna svæðinu í ferhyrningnum, gátum ekki séð, hvað var að gerast utan við þyrpinguna, en brátt kom það í ljós. Hermennirnir færðu sig til í einu horninu á ferhyrningnum, og inn kom undirforingi og þrír menn. Undirforinginn lét þá stanza á miðju svæðinu, og sáum við strax, hvað hér átti fram að fara. Maðurinn, sem stóð á milli hinna tveggja, var fangi, og hinir tveir gæzlumenn hans. Hér átti að kveða upp dóm yfir fanganum, sem hafði verið dæmdur af herrétti. Þetta var í fyrsta sinn, sem margir af okkur höfðu séð eða heyrt herréttardóm uppkveðinn.

Mitt fyrsta verk var að líta á fangann. Hann var ungur, á að gizka 19 ára. Meðalmaður á hæð og vel vaxinn. Augun stór og blá, ennið hátt og nefið beint og nokkuð stórt. Munnurinn var fremur smár og varirnar þunnar, en munnvikin báru vott um staðfestu, og allt andlitið sýndi, að hann lét ekki allt fyrir brjósti brenna, ef hann tók eitthvað í sig. Nú var andlitið fölt og alvarlegt, en þó horfði hann ófeiminn á foringjana og félaga sína. Ég fann, að sá, sem stóð við hlið mína, var ókyrr, svo ég leit á hann og ætlaði að fara að segja

honum að standa kyrrum; en mér brá í brún, því hann var náfölur og titraði eins og hrísla í vindi. Ég hvíslaði að honum, hvort hann væri veikur, en hann svaraði nei. Ég hvíslaði að honum aftur og spurði hann, hvort hann vissi, fyrir hvað væri verið að dæma þenna ungling. „Já“, svaraði hann. „Það veit ég. Hann er bezti vinur minn, og fyrir tveim mánuðum síðan bað hann um leyfi að mega fara heim og sjá móður sína, sem lá fyrir dauðanum. Honum var neitað um leyfið, en hann fór án þess, og kom ekki aftur fyrr en fyrir nokkrum dögum síðan. Hann vissi, að herréttur myndi bíða sín, þegar hann kæmi aftur, en hann segist vera reiðubúinn að líða hegninguna, hver svo sem hún verði“.

Við gátum ekki talað meira saman, því Earl kapteinn fór að blaða í skjölunum, sem honum höfðu verið send frá herréttinum. Enginn vissi um dómsúrskurðinn, og ég sá dálitla kippi í kringum munninn á fanganum, þegar hann leit spurningaraugum á yfirforingjann. Húfan var tekin af fanganum og kapteinninn byrjaði að lesa upp dóminn. Við stóðum allir þögulir og órólegir, mikið órólegri, að mér virtist, heldur en fanginn sjálfur. Þegar formálinn var búinn, stanzaði kapteinninn ofurlítið, og svo las hann hægt þessi orð:

„Fyrir að hafa farið burt án leyfis og verið fjarverandi frá hinum konunglega flugher í Kanada í 36 daga, þá dæmist hinn seki, No. 171,638, George Fitzgerald, af þessum herrétti, að úttaka hegningu í fangahúsi flughersins í Toronto og skal sú hegning nema 168 dögum án harðrar vinnu.

Dagsett 10. dag júlímánaðar 1918, í Torontoborg“.

Ég horfði stöðugt á fangann, og þegar dómurinn var uppkveðinn, þá kipptist hann ofurlítið til og varð enn fölari í framan, en svo kom kuldaglott á varirnar og hann leit upp, og horfði á okkur augunum bláum og tindrandi, eins og hann vildi segja: „Ég skammast

mín ekki eins mikið fyrir að úttaka þessa hegningu, eins og ég hefði skammazt mín fyrir að óhlýðnast minum beztu tilfinningum og vitja ekki móður minnar í banalegunni“.

Gæzlumennirnir tóku hann burt, og við snérum aftur heim að herbúðunum. En okkur virtist öll náttúrudýrðin vera horfin. Mér fundust blómin drúpa höfði og fella tár yfir harðýðgi mannanna, og fuglarnir sveigja þróttlausa vængina, eins og vonir þeirra væru enn óuppfylltar, og öldurnar á vatninu virtust ygla sig, eins og þær vildu hremma alla mannlega dómara, og skógargreinarnar virtust teygja greinar sínar upp til himins, eins og til að biðja um meira réttlæti á jörðinni. En ég var truflaður af hugsunum mínum við það, að gæzlumennirnir gengu fram hjá okkur með fangann á leið til fangahússins. — Hann leit til okkar brosandi og gekk hnarreistur, eins og honum fyndist hann hafa breytt rétt og væri reiðubúinn að standa ábyrgð á gerðum sínum. Við stönzuðum allir og hrópuðum „húrra“ fyrir honum, þegar hann fór framhjá, og vildum með því gefa honum til kynna, að við álitum, að hann hefði unnið sigurinn í þessu máli.

---

# Ørn

---

## *ÞEGAR FENNIR Í SPORIN*

Það er margt svo undarlegt í náttúrunnar ríki, og þó er maðurinn það undarlegasta.

Og mér datt sannarlega aldrei í hug, að til gætu verið tvær útgáfur af honum Svend Knutson, en samt varð sú raunin á.

Það var einungis af tilviljun, lítið atvik, sem kom fyrir Svend sjálfan, sem varð orsök þess, að ég sá hann og þekkti, eins og hann hafði verið. Hann er það máske að miklu leyti enn, því ég hugsa, að til séu fáir, sem séð hafa inn fyrir sálar-dyrastafinn hans Knutsons.

Ég var þá nýkominn að heiman. Og eins og þið vitið, var það vanalegt tvennt, sem við landarnir gátum kosið um: annaðhvort skurðina í Winnipeg eða brautarvinnu, og ég valdi það síðarnefnda. Nokkur hundruð mílur austur af Winnipeg var þá verið að leggja eina járnbrautina, höggva brautarstæðið í járnharðan klettinn. — Sú braut liggur nú frá hafi til hafs.

Ég hafði lítið unnið við grjótvinnu áður. Ungur og óharðnaður, og ég viðurkenni það fúslega sjálfur, að ég var ekki margra dala virði fyrstu dagana, sem ég vann þar.

Og þar var það, að ég sá Svend Knutson fyrst. Hann var þar formaður yfir allmörgum mönnum; flest Svíar og Norðmenn, og vinnuþjarkar hinir mestu.

Svend var um sex fet á hæð og mjög þrekinn, ljóshærður og bláeygur, og augun fremur falleg, þegar hægt var að sjá þau; en það var ekki alltaf; það var

eins og augnalokin að ofan og neðan lægju í óafmáanlegum hrukkum og fellingum, og þó augun væru í raun og veru stór, mun þó flestum hafa sýnzt hann smáeygur. Ennið var í meðallagi hátt, en breitt og þunguvaxið; hann var loðbrýndur og þungbrýndur, og djúpar hrukkur á milli brúnanna; hann hafði langt og þykkt yfirskegg, svo munnurinn var að mestu hulinn; hakan var breið og sterkleg, og stóð nokkuð fram.

Ég býst tæplega við að nokkur, er mætti honum á förnum vegi, eða jafnvel þeir, sem voru með honum samvistum, hefðu getað álitið hann fíngerðan að eðlisfari. Því það var ómögulegt að sjá nokkuð fíngert við líkamann. Þó var það málrómurinn, sem mér fannst það hrikalegasta við manninn, og hendurnar þar næst; þær voru ekki mjög langar, en liðamótin afskaplega gild og handarbökin loðin fram á fingur.

Hann lét mig afskiftalausan að mestu fyrstu tvo dagana, sem ég vann þar; sagði mér aðeins fyrir verki, enda var verkið ekki vandasamt fyrir þá, sem því voru vanir; en mér varð það fullerfitt, þótt ég skildi, hvað gera ætti. Það þarf ekki mikil heilabrot við það að aka grjóti í hjólbörum.

En svo var það þriðja daginn minn þarna. Það var komið fram að nóni. Dagurinn var heitur og mollulegur, svo svitinn streymdi niður andlitið á mér og fötin loddu við líkamann. Hjólbörurnar höfðu runnið út af plönkunum, sem ég átti að aka eftir, og þetta var í þriðja skiftið í röð, sem þetta hafði hent mig. Ég var að bisa við að ná börunum upp á plankana aftur.

„Farðu frá!“ var öskrað á norsku rétt að baki mér. Það var Svend.

Svo þreif hann börurnar fullar af grjóti og svifti þeim í einu átaki upp á plankana, rendi þeim þangað sem grjótið átti að fara, kom svo með þær tómar aftur og kastaði þeim til mín.

„Hvernig í andskotanum ætli að járnbrautir yrðu

lagðar, ef þær ættu að vera lagðar af mönnum eins og þér. Ég sé ekki, hvernig í fjandanum þú ferð að renna börunum út af plönkunum; ég veit, að áttræð og rassbrotin kerling gæti unnið verkið betur en þú".

Og hann talaði svo hátt, að hver einasti maður, sem í nánd var, hlaut að geta heyrt til hans.

Ég ætla ekki að reyna að lýsa því, hve reiður ég varð. Af öllum lífs og sálar kröftum hafði ég verið að reyna að gera það, sem ég gat, og mannfjandinn hlaut að sjá það og skilja. — En hvað gat ég gert? Ég hafði ekki svo mikið vald yfir norskunni, að ég gæti svarað miklu á móti. Ensku skildi ég mjög lítið, og að hlaupa í burtu, eins og barinn hundur, hafði ég ekki skap til, enda ekki auðhlaupið; gegnum skóga og fen að fara, og ég rataði ekkert; svo ég yppti einungis öxlum og tók við börunum þegjandi.

En ég verð að viðurkenna, að þetta voru þau einu styggðaryrði, sem Svend talaði til mín allt sumarið, eða meðan vinnan entist. Eftir hádegið þennan dag, gaf hann mér annað verk að vinna, sem var léttara.

Og ég gat ekki gert að því, að mér varð hlýrra og hlýrra i skapi til hans, eftir því sem ég vann lengur með honum. Og ég var heldur ekki sá eini, sem varð fyrir barðinu á honum. Ég heyrði það brátt, að þegar svo lá á honum og honum þótti við þurfa, gaf hann öðrum skammirnar engu verr úti látnar en mér í þetta skifti.

Svend var ekki margmáll, hvorki við vinnu eða frá; þó gat hann verið skemmtilegur stundum, og ég held hann hafi talað meira við mig, sérstaklega ef við vorum tveir saman, en við nokkurn af hinum.

Og smámsaman fór hann að verða mannslegri í mínum augum; ekki út af eins tröllslegur. En ég komst að því hjá hinum, sérstaklega hjá þeim, er þekktu hann bezt, að hann fengi orð fyrir að vera drykkfeldur í meira lagi. — —

Við komum til Winnipeg seint um haustið. Verki því var lokið, sem Knutson hafði verið fengin umsjón yfir, og nokkrir af flokknum, sem með honum höfðu unnið, urðu honum samferða. Þar á meðal ég. En margir tóku vinnu hér og þar á brautarstæðinu.

Knutson talaði um að setjast að um veturinn á búgarði sínum, sem var skammt frá Winnipeg.

En við hinir ætluðum að taka vinnu, hvar sem bezt byðist.

Svend og fleiri af mönnum hans þurftu að hressa sig sama daginn og þeir komu inn. Ég varð að mestu út úr hópnum og tók mér vist á matsöluhúsi utan til í bænum.

Svo var það þrem dögum seinna. Ég var þá búinn að ráða mig til fiskiveiða út við Winnipegvatn, og ætlaði út næsta dag. — Þá rakst ég á Svend, að mér óvörum.

Ég var á gangi í miðparti borgarinnar, um ekkert að hugsa. Þá sé ég allt í einu, hvar Svend stendur og gónir suður strætið. Hann anzaði engu, þegar ég kastaði kveðju á hann. Ég stanzaði og fór að horfa í sömu áttina. Mér datt í hug, að slys hefði viljað til, en ég sá ekkert nema fólksstrauminn fram og aftur.

„Á hvað ertu að horfa, Svend?“ spurði ég að lokum, þegar ég varð ekki var við neitt nýstárlegt.

„Þú hér!“ sagði hann, þegar hann loksins varð var við, að ég stóð hjá honum.

Hann stóð enn um stund þegjandi, og horfði í sömu áttina; en svo sneri hann sér snögglega að mér, og mér fannst, sem maður væri að tala upp úr svefni, þegar hann sagði:

„Komdu með mér, Gunnar; ég þarf að tala við þig“.

Við gengum þegjandi yfir á gistihúsið, sem hann bjó á. Hann dró fram stól, þegar við vorum komnir upp á herbergið, þar sem hann svaf, eða átti að sofa á nóttunni. Mér fannst hann líta svo út, að hann hefði ekki mikið sofið þá nóttina.

„Seztu niður“, sagði hann. Ég gerði það. Svo gekk hann um gólf nokkrar mínútur, áboginn og með hendurnar fyrir aftan bak. Ég var rétt að því kominn að yrða á hann, þegar hann stanzaði, rétti úr sér og barði saman hnefunum, svo glumdi í herberginu:

„Mikill andskotans, bölvaður hundur er ég! Hér hefi eg legið eins og svín í þrjá daga, síðan við komum inn. Eða eru það ekki þrír dagar?“

„Bráðum fjórir“, sagði ég.

„Já, alveg rétt, það eru fjórir“.

Svo kastaði hann sér niður á stól, til hliðar við mig.

„Og svo þurfti ég endilega að mæta henni núna; einmitt núna, eins og ég er útlítandi!“

„Var það konan þín, sem þú varst að horfa á eftir, þegar eg rakst á þig áðan?“

„Nei, það var ekki konan mín. Mér hefði nú verið nokkurn veginn sama, þó ég hefði mætt henni. Ég vona aðeins, að hún hafi ekki þekkt mig“.

Hann sagði þetta eins og við sjálfan sig.

„En hver var þessi hún?“ spurði ég.

„Það er nú einmitt það, sem ég ætla að segja þér frá. Ég er bölvað flón, að vera að bulla um það, sem er löngu liðið, og oftast sjálfum mér gleymt. Það er líklega fjandans brennivínið, sem gerir mig svona blauðan í geðinu. Ég hefi engum sagt þetta áður. En nú finnst mér, að ég megi til að segja einhverjum þetta litla æfintýri; og þú ert maðurinn, sem ég vildi heldur segja það en nokkurum öðrum. Kannske það sé af því, að ég hugsa, að leiðir okkar liggi ekki saman aftur, og þó þú hlæir að mér, þá gerir það mér ekkert til, þegar ég veit ekki af því.

Ég var um seytján ára að aldri, þegar ég sá hana í fyrsta sinn, þá sem vinnukonu á heimili, þar sem ég átti heima. Hún var há og grönn og bar sig eins og drottning; hárið langt og ljósgult á lit; andlitið fremur langt og samsvaraði sér vel. Ég ætla ekki að reyna

að lýsa henni frekar; ég ætla aðeins að segja, að hún var fegursta stúlkan, sem ég hafði þá séð, eða nokkurntíma síðar.

Jörðin var tvíbýli, á meðan móðir mín lifði; en þegar hún dó, sem var tveim árum áður en þetta gerðist, brá faðir minn búi og fór í húsmennsku til bróður síns, sem búið hafði á hálfri jörðinni á móti föður mínum; föðurbróðir minn tók þá við jörðinni allri.

Andrés hét sonur föðurbróður míns; hann var ári eldri en ég, bráðþroska og hinn gervilegasti í öllu; en mér var seinfarið fram og minni en í meðallagi eftir aldri.

Ég man, hvað mér sveið sárt, þegar Jóhanna — svo hét stúlkan — tyllti sér á tá við hliðina á mér, hélt uppi handleggjunum og brosti, eins og hún vildi segja: Komdu hérna veslingur og stattu undir handarkrika mínum; þú ert svo pínulitill, aumingja barnið. Og hún var ekki sein að sjá, að mér geðjaðist þessi mælısnúra miður vel; því ef ég var seinn til eða þóttist ekki vilja gera það, sem hún bað mig, var vana-viðkvæðið þetta: „Á ég að mæla þig, Svend?“ Hún þurfti nú raunar ekki að hafa í hótunum við mig, til að snúa mér eins og snældu og smalarakka; mér, sem hefði viljað borga stórfé fyrir ánægjuna, sem því var samfara, að vera þræll hennar. Mér hefði áreiðanlega liðið hörmulega, ef hún hefði aldrei beðið mig neins“.

„En hvernig var samkomulagið milli Andrésar og hennar?“ spurði ég. — Þá brosti Svend, og ég gat ekki gert mér grein fyrir, hvort brosið var heldur raunalegt eða háðslegt.

„Þar var nú öllu þessu snúið öfugt. Það var hún, sem snérist í kringum Andrés, og það var oftast, þegar ég var tregur til að gera það, sem hún bað mig að gera, að ég vissi, að ég var í raun og veru að gera það fyrir Andrés. En þegar svo stóð á, stríddi hún mér aldrei, og þegar hún sá, að hik var á mér, þá var vana-

viðkvæðið þetta: „Þú gerir það fyrir mig, Svenni minn“.

„Andrés! Hvað ég hataði hann, þegar hann stríddi henni sem mest og dró hana sundur og saman í háði; það voru vansælu stundir mínar, þegar ég sá að henni sárnaði, og það kom ósjaldan fyrir. Hún gekk þá vanalega í burtu þegjandi, og bar höfuðið hátt; en það var allt af gleymt eftir nokkrar mínútur, þótt Andrési tækist að reita hana til reiði.

Einum degi man ég sérstaklega eftir. Ég kom hlaupandi inn í herbergi, sem notað var til geymslu. Þar stóð Jóhanna þá og var eða þóttist vera að vinna eitthvað við þvott. Hún sneri að mér bakinu, þegar ég kom inn, en ég sá, að hún var að gráta. Ég stóð sem negldur niður. Erindið var gleymt. Ég vissi í raun og veru ekkert annað en að hún var að gráta. Og áður en ég vissi, hvað ég var að gera, var ég kominn til hennar og búinn að taka höndunum um hálsinn á henni; ég hallaði höfðinu upp að vanga hennar og grét líka, án þess að geta sagt eitt einasta orð.

Þegar ég rankaði við mér, var hún að greiða hárið á mér með fingrunum.

„Var þetta Andrési að kenna?“ stundi ég upp.

„Nei, Svenni minn. Því heldurðu það? Bara einhver vitleysa, sem ég var að hugsa um. — Og þú fórst að gráta líka“, sagði hún svo og hló upphátt. „Mikið skelfilegt barn ertu“. — Svo ýtti hún mér frá sér, hálf blíðlega, hálf glettnislega. „Svona, hlauptu nú út og þurkaðu af þér tárin“. — —

Ár og hálft leið, án nokkurra stóratburða. Þetta var seint að hausti til. Andrés hafði farið í burtu nokkru áður til náms á búnaðarskóla, og ég var smámsaman að ná meiri líkamlegum þroska. Sambúð okkar Jóhönnu var söm og áður, góðlegur galsi frá hennar hlið, og þegjandi tilbeiðsla frá minni. Enginn fangi held ég að hafi fagnað frelsinu betur en ég fagnaði komu vetr-

arins. Nú var Andrés farinn, og ég bjóst við, að lífi okkar Jóhönnu myndi halla meira saman en áður. Að vísu voru fleiri á heimilinu, en þeir voru eins og hálfgleymdar manneskjur í fjarlægu landi; þeir komu okkar lífi lítið við.

En svo brá snögglega skýi fyrir á sæluhimni mínum. Sumarannir voru allar búnar, og vetrarinnivinnan ekki svo mikil, að allir heimilismenn hefðu mikinn starfa, svo Jóhanna greip tækifærið og bað húsmóður sína um leyfi til að heimsækja skyldfólk sitt, sem heima átti í næsta firði. Leyfið var veitt og Jóhanna bjó sig til fararinnar. Mér þótti fregnin slæm; þó huggaði ég mig við það, að tvær, eða í mesta lagi þrjár vikur hlytu þó einhverntíma að líða.

Landslagi þarna var svo háttað, að fjörðurinn, þar sem ég átti heima, og fjörðurinn, þar sem ættingjar Jóhönnu bjuggu, skárust inn í landið í skakkhorn. Mynduðu þeir þannig allbreiðan skaga, sem mjókkaði, þegar dró inn með fjörðunum. Og inn í þennan skaga frá báðum fjörðunum skárust svo langir en þröngir dalir, fjöllum luktir á þrjá vegu.

Það skilyrði fylgdi fararleyfi Jóhönnu, að hún næði sér í fylgdarmann yfir fjallið; og eins og ég óskaði og vonaðist eftir, leitaði hún fyrst til mín.

Við lögðum af stað árla morguns upp dalinn, sem leið lá, gangandi, því ófært var með hesta upp úr dalsbotninum. Ferðin gekk greiðlega fram dalinn, við hlupum sprett og sprett, gengum svo hægt á milli og röbbuðum um alla heima og geima. Þegar upp í dalbotninn kom, tók við brekka af brekku. Við klifum brekkurnar rösklega, og áður en varði, stóðum við þar sem efsta og tröllslegasta brekkan tók við. Við urðum sammála um að taka okkur stutta hvíld, áður en við réðumst á hana, og settumst niður hlið við hlið.

„Ekki veit ég, hvernig ég hefði komizt þetta, ef þú hefðir ekki verið svo góður að fylgja mér“.

„Ó, þú hefðir bara fengið einhvern annan til fylgdar við þig“, svaraði ég.

„Ja, ekki veit ég það nú, hvort nokkur annar mundi hafa gert það, þó ég hefði beðið, að minnsta kosti ekki svona umtölulaust. Og svo kaus ég nú helzt að fá þig með mér, Svend“.

„Og fremur en Andrés, þó hann hefði verið hér?“

Það var ekki áreynslulaust, að koma fram spurningunni, og ég veit ekki því ég spurði; líklega hulin gremja til Andrésar hafi verið farin að setjast að hjá mér, kannske til þeirra beggja. Ég sá, að hún roðnaði.

„Já, fremur en Andrés“, svaraði hún svo eftir litla umhugsun. „En því spyrðu svona, drengur? Ég var ekkert að hugsa um Andrés. Ertu kannske farinn að sjá eftir að hafa lofazt til að fylgja mér?“

„Ó, nei, langt frá því. Og ekki myndi mig langa til að þú villtist, eða að nykurinn, sem býr í vötnunum í hinum dalnum, næði í þig. Það er sagt, að það geti verið varhugavert fyrir ungar og fallegar stúlkur að ferðast einar meðfram vötnunum“, sagði ég og hló.

Hún hló líka.

„En nú skulum við halda áfram“.

Okkur gekk greiðlega upp undir brúnina, en þar var orðið svo bratt, að varla var hægt að fóta sig í grjótskriðunum, og sumstaðar smáskaflar frá því veturinn áður. Það var í einum þessum skafli, að Jóhanna var rétt búin að missa fótanna. Ég náði í höndina á henni um leið og hún rann til. Eftir það hélt ég í höndina á henni með þeirri hægri, en notaði þá vinstri til að leita mér halds, þegar brattinn varð sem mestur. Svona fikruðum við okkur upp á brúnina.

Háfjallið var ekki nema fáein hundruð faðmar á breidd. Við gengum þegjandi fram á hina dalbrúnina og héldumst enn í hendur.

Dalurinn, sem nú lá fyrir neðan okkur, var öðruvísi útlits en sá, er við skildum að baki. Lágt klettabelti

með skriðum sumstaðar, sem teygðu sig upp á brúnina, luktu dalinn að ofan. Þar fyrir neðan tók við löng og hallalítil slétta, með smávötnum og skógarbeltum hér og þar, og neðarlega í dalnum endaði þessi slétta í tveim eða þrem bröttum brekkum, og þar við sjóinn stóð bærinn, þar sem ættingjar Jóhönnu bjuggu. Dálitið snjóföl hafði fallið í dalnum, en blásið af uppi á brúninni. Og þarna lá dalurinn fyrir neðan, alhvítur með dökkum smávötnum hér og hvar og skógarflesjunum, sem hrist höfðu af sér snjóinn.

„Bíddu nú hérna á meðan ég leita að góðum stað til þess að komast niður“, sagði ég.

Hún sleppti á mér hendinni nokkuð seinlega.

„Fyrir guðs skuld, farðu varlega!

Ekki vildi ég verða orsök í dauða þínum, eða ég vildi þá verða samferða“. Og nú var ekkert bros á andlitinu.

Ég hljóp léttur eins og lamb fram með brúninni, þar til ég fann skarð, þar sem auðvelt var að komast niður. Ég kallaði, að hún skyldi koma og hljóp á móti henni.

„Eigum við ekki að leiðast?“ sagði hún, þegar við mættumst, og rétti mér höndina. Það var einmitt það, sem ég hafði vonazt eftir. Ég tók þegjandi í hönd hennar, og þannig leiddumst við niður dalinn. Hvorugt talaði margt. Mér fannst við hafa farið skammt, þegar ég varð þess var, að við vorum komin niður að neðri brekkunni, og bær ættingja Jóhönnu blasti við, ekki langt fyrir neðan. Þar nam Jóhanna staðar.

„Þú ert nú búinn að fylgja mér mikið lengra en þú hefðir átt að gera. Þú mátt til með að hafa dagsljós yfir kjölinn, þó ekki sé lengra; því þar yfir er svo vandratað, þó ég viti náttúrlega, að þú ert hvorki hræddur við nykra né myrkur“, sagði hún og brosti lítið eitt.

Ég maldaði í móinn. Ég vildi fylgja henni lengra, en það var ekki við það komandi. Hún sagði, sem satt var, að vonast væri eftir mér heim að kvöldi, annars hefði ég getað gist hjá hennar fólki um nóttina.

„Og því verðum við að kveðjast“, sagði hún og rétti mér höndina.

„Vertu nú blessaður og sæll; ég veit ekki, hvernig eða hvenær ég get borgað þér fyrir fylgdina“.

Ég horfði í augu hennar. Ég vissi svo vel, hvernig hún gat borgað og margborgað. Aðeins einn koss. Ég hefi aldrei óskað neins svo heitt eða langað jafnmikið til nokkurs, eins og þess að hún kysti mig. Og ég veit ekki, hvað eða hvernig nokkurt afl gat haldið mér frá að láta þá ósk mín í ljósi með orðum.

Var það mitt eigið stórlæti að biðja ekki um það, er mér fannst ég eiga skilið, eða er einhversstaðar eitthvert óþekkt afl, sem fléttar örlagaþræði okkar, að okkur fornspurðum og án tillits til óska eða vona? Máske.

Aðeins einn koss; í sjálfu sér smáræði, en getur þó orðið orsök stórra atburða. Einn einasti koss hefði getað gerbreytt lífi okkar beggja.

Og þannig skildum við.

Ég stóð og horfði á eftir henni, þar til hún hvarf niður fyrir brekkubrúnina. Gat það verið, að hún liti ekki aftur? Nei, hún gerði það ekki.

Ég sneri andlitinu í áttina til heimahaga minna. Leiðin var ekki vandrötuð; sporin okkar beggja í snjónum beindu mér braut. Ég gekk meðfram slóðinni, án þess að stíga inn í hana nokkurs staðar; að raska þar spori var mér goðgá. En nú gekk yfir með smáéljum; það snjóaði við og við og léttar vindhviður feyktu snjókornunum til og frá. — Sporin fóru að óskýrast smám saman, — ég horfði á það með söknuði. Ég gekk þeim megin, sem hennar spor lágu — ég hraðaði göngunni sem mest — ég hljóp; ég vildi vera kominn sem lengst, áður en þau hyrfu með öllu.

Ein vindhviðan og eitt élið enn! Ég sá varla slóðina. Ég vonaði að sjá hana betur, þegar élinu birti upp; því birti upp — ég var kominn upp undir dalbrúnina, og

sá skarðið sama, þar sem við höfðum gengið niður. En sporin okkar í snjónum voru horfin með öllu; ég stóð þar, sem ég vissi að við höfðum gengið. Þau voru áreiðanlega ekki til framar.

Ég horfði aftur — ég sá lítinn blett fjarðarins og yzta tanga strandarinnar hinu megin, — ég sá brimlöðrið þeytast upp í loftið, og mynda hvítt kögur meðfram ströndinni. Og mér fannst ég finna öldur ókominna tíma brotna á söndum sálar minnar og rista þar rúnir sínar. Aldrei, aldrei framar liggja leiðir ykkar samhliða. Og spor ykkar eru horfin að eilífu.

Ég kastaði mér niður í snjóinn og grét eins og barn, beisklega og sárt. En smám saman heyrði ég aðra rödd, milda og mjúka: Sporin ykkar voru þó hrein, tárhrein eins og snjórinn, sem jafnaði yfir þau. — Og minningin lifir án þess að saurgast.

Ég hraðaði mér heim.

Jóhanna dvaldi áfram hjá ættfólki sínu.

Sumarið eftir fór ég til Ameríku.

Ég skrifaði föður mínum stundum, en ég forðaðist að spyrja um Jóhönnu; og hann minntist hennar lítið annað en það, að hún hefði flutzt eitthvað burtu.

Svona liðu þrjú ár. Ég hugsaði oft til hennar og sporanna okkar í snjónum. Og ég reyndi að halda lífi mínu hreinu, eins og þeim minningum.

Ég veit ekki, hvers ég óskaði.

Samt held ég, að ég hafi alltaf vonað, að fundum okkar bæri saman, fyrr eða síðar. Og þá sá ég hana alltaf eins og hún var, þegar við skildum í dalnum heima.

Og svo sá ég hana einn dag. Það var á samkomu meðal Svía og Norðmanna, að sumri til; ég mætti henni og manni, sem með henni var.

Ég þekkti hana strax og hún mig. Hún var enn fallegri en áður. Nú var hún fullþroskuð kona. En það var eitthvað í andlitinu, sem ég kannaðist ekki við. Var það letur taps eða gróða? Ég vissi það ekki.

„Sem ég er lifandi manneskja, það er hann Svend! En mikill voða-rumur ertu orðinn“.

Svo tyllti hún sér á tá, teygði út handlegginn og brosti, eins og hún hafði svo oft áður gert.

Ég óskaði þeim hjartanlega til hamingju, henni og manninum hennar tilvonandi.

Síðan eru mörg ár liðin; ég á konu og börn og elska þau eins mikið og almennt gerist. En þú getur skilið, að ég er mikið breyttur, og að sporin mín eru ekki lengur hrein, ekki öll að minnsta kosti, þó ég hafi sjaldnast stigið svo fast til jarðar, að ekki hafi bráðlega blásið yfir þau aftur. En svo varðar það kannske ekki mestu, hvað aðrir sjá af lífi okkar. Hitt verður líklega þýðingarmeira, hvað við vitum um okkur sjálfir.

Jóhanna er líka breytt. Ég sé hana stundum, þó oftast tilsýndar. Ég veit ekki, hvort hún þekkir mig nú orðið að sjá mig. Henni líður vel, eða ekki veit ég annað. Hún á mörg börn og mannvænleg. En það eru farnar að sjást hrukkur í andlitinu og hvít hár í gullna hárinu hennar. Og það fer eins og hnífstunga í minn eigin líkama, hver hrukka, sem bætist við, og hvert hár, sem ég sé grána.

Ég vona bara, að hún hafi ekki þekkt mig áðan“.

Svend stóð upp.

„Ég fer heim til mín í dag. Vertu sæll“, sagði hann og rétti mér höndina. — —

Ég hefi ekki getað gleymt Svend, né sögunni hans. Máske hefir hún minnt mig á gömul spor, sem vert væri að halda hreinum.

---

# Kveldúlfur

## *HÁVARÐUR ÚR KRÓKI*

Kveldsólin var að síga til viðar bak við lauflausu skógarrunnana vestur á sléttunum. Bleikir, hálfkaldir geislar smugu inn um gluggann og skinu með daufri kveldbirtu á breiðan skallann og nær því jafnhvíta hárstrýið á honum Hávarði gamla frá Króki, sem sat við skrifborðið sitt hjá glugganum og horfði á nokkra æpandi stráka, sem léku sér að því að henda smásteinum að gömlum ketti, sem flýði mjálmandi inn um garðshliðið.

„Síðasti þátturinn á leiksviðinu“, nöldraði gamli maðurinn gremjulega, og fór að lesa nýskrifað bréf, sem lá á borðinu — hálfhátt. — — „Eftir svo sem klukkustund verð ég steindauður. Það er áreiðanlegt. Í morgun vaknaði ég með bölvaðri höfuðveilunni, rétt eins og um árið, daginn sem ég fékk slagið — og svo aftur fyrir fimm árum, þegar ég fékk sama kastið. Já, ég er áreiðanlega úr sögunni. Skrokkurinn þolir sama sem ekkert nú orðið — og svo er ég búinn að missa alla löngun til þess að lifa, og viljann til þess að berjast á móti dauðanum. Áður fannst mér ég ómögulega mega deyja. Fyrst langaði mig í völd og metorð, og svo seinna, þegar það vildi ekki lánast, langaði mig þó að minnsta kosti til að fá ofurlitla viðurkenning — langaði til að sjá ofurlítinn árangur af lífsstarfinu, því satt að segja hefi ég þó ekki legið á liði mínu. En er ég þá ekki ánægður með að hverfa? Hefi ég þá beðið ósigur? Ónei; ég sigra núna — í dauðanum. Taktu nú bara eftir, hvað blöðin segja á morgun. Heldurðu kannske, að þau kalli mig uppreistarmann, föð-

urlandssvikara, eða því um líkt, þegar ég er dauður? Nei, trú mér til; það mun kveða við annan tón — því þá verða það nú ekki kölluð landráð, þó menn fallist á skoðanir mínar — og skoðanir mínar eru búnar að festa rætur hjá þjóðinni, því mátt þú trúa. En það mátti ekki koma við það, því þá gat ég orðið hættulegur keppinautur um völdin; þá var ég sjálfkjörinn foringi, auðvitað. En þjóðin getur ekki staðið í stað — mannsandinn verður aldrei fjötraður til lengdar, hann hlýtur að sprengja af sér umbúðirnar — eða deyja. Og umbúðirnar eru arfur frá liðnum öldum — allt þetta, sem við köllum „venjur, lög eða játningar“, eru bara gamlar flíkur, sem mannkynið sneið sér eftir vexti — eftir sínum þroska og ástæðum. En mannkynið þroskast og breytist og gömlu fötin — gamla fyrirkomulagið, gengur úr sér og verður úrelt, og nýjar flíkur verður að sníða.

En brautryðjendurnir, ljósberarnir, — hvað verður um þá? Lifandi eru þeir ofsóttir; en dauðir eru þeir gerðir að dýrðlingum. Starfskraftar þeirra eyðast; lífskraftar þeirra eyðast eins og dropinn, sem holar bjargið, eða sólargeislinn, sem hamast við að þíða klakann, þangað til hann sjálfur kólnar og deyr — já, þeir eyðast, — en ekki til einskis, því klettinn hafa þeir klofið og klakann hafa þeir brætt. — —

Þú sér, að ég er nú að verða skáldlegur — en það verður að fyrirgefast svona á dauðastundinni.

Annars ætlaði ég að biðja þig að líta til með henni Dísu, þegar ég er farinn. Ég sendi hana hálfnauðuga til baðstaðanna úti á ströndinni í morgun, því ég vildi hlífa henni við því versta, að vera heima.

Jæja, þú verður að afsaka, þó ég komi ekki í haust til að skjóta með þér andir, því eins og þú sér, verður mér það ómögulegt; og vertu nú sæll.

Þinn einl. Hávarður frá Króki“.

Hann braut bréfið saman og skrifaði utan á það

ofur rólega með fastri hendi: „Til herra sýslumannsins í Austursýslu“. Svo lagði hann það varlega frá sér og fór að horfa á tvær myndir, sem héngu á veggnum. Önnur var af alvarlegri gráhærðri konu í svörtum klæðum. Það var móðir hans, sem vaggaði honum í svefni og las yfir honum fagrar bænir á kveldin — þegar hann var barn. — Skyldi hann nú fá að sjá hana aftur þarna fyrir handan?

Hin var af henni Dísu, fagurlimaðri í hvítum sumarkjól — alveg eins og hún var í skógareldinum, þegar hann gaf honum langa Jóa glóðarauga fyrir að fylgja henni heim um kveldið, og þá um sumarið drakk hann svart teið með þurru brauði, svo hann gæti boðið henni í stúdenta gildin um veturinn. „Ég held að ég borgi þér þetta aldrei“, hafði hún sagt, þegar hún komst að því. Borgi það aldrei? Hafði hún ekki margborgað það? Því það var hún, sem þrátt fyrir allt hafði þó gert hann að gæfumanni. Lakast var að geta nú ekki tekið hana með sér, því hvernig sem það væri þarna fyrir handan, þá mundi honum samt leiðast, ef hann ætti nú að bíða eftir henni lengi — og ekki mundi henni líða betur. — Ljósið smádvínaði í stofunni — og svo kom nóttin.

— — — — —

Flaggað í hálfa stöng um allan bæinn — fólkið með áhyggjusvip. „Hvað hefir komið fyrir?“ spurðu þeir, sem ekkert vissu. „Hann Hávarður úr Króki, foringi þeirra frjálslyndu er dáinn“; svöruðu hinir með klökkva.

Mest var þó alvaran í þingsalnum, þar sem sætið hans stóð og tjaldað svörtu.

„Hvernig skyldi þetta fara?“ hugsuðu drembilegir, feitir þingmenn, sem fólkið hafði kosið einungis vegna þess, að þeir voru „fastir fyrir“ og líklegir að standa sem bjarg í vegi fyrir öllum ísjárverðum breytingum og stemma stigu fyrir þessum voðamanni og byltinga-

segg, sem blöðin sögðu, að mundi fara með allt — bæði landið og fólkið — til helvítis, ef hann fengi að ráða. Þeir voru fyrir löngu búnir að læra langar skammaklausur um hann, „og hans nóta“, sem þeir notuðu í öllum kosningum; en nú dugði það auðvitað ekki lengur, úr því maðurinn var dáinn. Svo nú þurftu þeir að nota eitthvað annað, og mátti vita, hvernig þeim tækist með ný ræðuefni. Aldrei höfðu þeim fundist þingsætin, eins mjúk eins og einmitt núna — en bráðum komu kosningarnar — og þá var allt svo óvíst með framtíðina. — Mestur var þó áhyggjusvipurinn á forsætisráðherranum, sem von var.

„Já, nú gera bölvaðir bjánarnir hann að dýrðlingi og blöðin hæla honum“. Ó, hvað honum fannst það auðvirðilega, heimskulega andstyggilegt, að hafa svívirt manninn og skammað hann, meðan hann lifði og gat fundið til, en þurfa svo undir eins að fara að hæla honum, þegar hann var dauður. En svona óumræðilega heimskt var fólkið. — O-jæja, hann ætti nú ekki samt að vera að finna að því, þó það væri dálítið heimskt. — Það gat líka komið sér vel stundum. Bara að maður kynni þá að spila á brjálæðistilfinningar, sem óneitanlega ráða mestu hjá flestum — en það gat nú líka orðið skolli erfitt. En hvað um það, eitthvað varð nú samt að taka til bragðs. Hitt var verra, að hann átti í þungu stríði við sjálfan sig — í stríði við ógeðið, kæfandi andstyggðina á öllum þessum fáránlega skrípaleik, sem bæði hann og líklega allir aðrir skynsamir menn verða stöðugt að leika, til þess að geðjast fólkinu. Hann bókstaflega hataði sjálfan sig stundum fyrir að hafa gert sig að þessu skrípi. Og löngunin — eðlislöngun hans eigin hálfdrepna manneðlis — bauð honum að varpa frá sér gervinu og láta sannfæringuna ráða. Hann var hvað eftir annað næstum því búinn að gefa þessari heimskulegu löngun, — „þessari voða veiklun“, eins og hann sjálfur kallaði það, lausan tauminn. — Hvaða

heimska var þetta nú annars? Ætti hann kannske að kippa fótunum undan sjálfum sér? Átti hann máske að leggja framtíðina í sölurnar bara af eftirlátssemi við þessar bölvaðar kenjar? Nei, nú þurfti hann að nota skynsemina — nú þurfti hann að leika vel.

Hann var staðinn á fætur til að halda ræðu — allir þögðu.

„Ég þarf víst ekki að lýsa því fyrir hinum heiðruðu þingmönnum, hvaða skaða landið og við höfum beðið við þetta fráfall, því þó okkur kæmi stundum ekki saman um aðferðir, áttum við þó margt og langtum fleira sameiginlegt, svo sem ástina á föðurlandinu, og einlægan vilja til að reynast því trúir. Og nú, þegar dauðans kalda hönd hefir skilið okkur að jarðneskum samvistum, erum við áreiðanlega nær hvor öðrum í samúðarfullum skilningi. Svo mun það að minnsta kosti vera með hinn mikla og göfuga samverkamann, sem nú hefir endurfæðzt til æðra skilnings í öðru og betra lífi, og svo á það einnig að vera með okkur, þó við séum ennþá háðir breyskleika og skammsýni jarðlífsins. Er það ekki annars órækur vottur um guðdómseðli mannsins, að hann getur fyrirgefið allt í dauðanum. Og nú á þessu háalvarlega augnabliki, þegar dauðinn hefir höggið nýtt skarð í vinahópinn, og þannig minnt oss á alvöru dauðans og eilífðarinnar, á fullkomnunina fyrirheitnu og sæluna eilífu, þar sem mannlegur veikleiki hverfur eins og fis, viljum við leitast við að gleyma öllum óþægilegum endurminningum, en minnast hins aðeins, sem — þrátt fyrir allt, sem ofaná kann að hafa flotið — lá þó ávallt innst og dýpst í meðvitund okkar allra, sem hér höfum borið hita og þunga dagsins, samantengt í anda af sameiginlegri ábyrgðartilfinningu og sameiginlegum kærleika til landsins og þjóðarinnar. Til þess nú að við, samverkamenn og vinir hins látna, sýnum á áþreifanlegan og viðeigandi hátt sorg vora og samhygð út af fráfalli þessa

drenglynda og trúa sonar fósturjarðarinnar, vil ég leyfa mér að bera þá uppástungu fram, að þingið og ráðuneytið votti ekkjunni og vandamönnum hins látna hjartanlega samhygð".

Forsætisráðherrann beið, meðan tillagan var samþykkt í einu hljóði. Svo hélt hann áfram:

„Til að sýna minningu hins látna verðskuldaða virðingu, vil ég ennfremur leggja það til, að þingfundum verði frestað um óákveðinn tíma".

Við þetta spruttu þingmennirnir á fætur — þeir höfðu næstum gleymt fyrirmannsbragnum og embættissvipnum í fátinu, og hröðuðu sér burt eins og ærslafullir strákar úr skóla.

— — — — —

Nú var mikið um dýrðir. Veglegasta kirkjan í höfuðstaðnum var troðfull af fólki. Hátíðlegur sorgarsöngur ómaði um hvelfinguna. Svört kista, alþakin fögrum krönsum, stóð fyrir framan prédikunarstólinn. Helztu prestar borgarinnar og beztu ræðugarpar þjóðarinnar kepptust um að bera lofið á hann Hávarð úr Króki, sem nú var því miður sálaður og gat þar af leiðandi ekki notið þess. Bezt sagðist þó forsætisráðherranum, og þegar hann talaði viðkvæmt um „sættina eilífu", komust flestir við og sumir beinlínis tárfeldu.

Líkfylgdin hélt til grafarinnar. Sex þingmenn gengu virðulega á eftir vagninum — í virðingarskyni við hinn framliðna.

Kistan seig niður í gröfina; moldarhnausarnir skullu á lokinu, en glamrið í hálffrosinni moldinni næstum kafnaði í emjandi sálmasöng. Nokkrir heldri menn stóðu fyrirmannlega kringum gröfina með hryggðarsvip og gættu þess vandlega — vildu jafnvel ekki kannast við það fyrir sjálfum sér — að undir niðri voru þeir ofurlítið glaðir, því óneitanlega var það þó happ að geta jarðað hann Hávarð gamla frá Króki, svona rétt fyrir kosningarnar.

# Stephan G. Stephansson

## AR

### 1. Morgun-vindurinn.

„Fögur eins og sumarið og góð eins og sólin“, söng morgun-vindurinn, sem þeysti niður Fögrubrekku. Allar brekkurósirnar litu upp, horfðu á eftir honum og roðnuðu. „Um hverja ætli hann hafi sagt þetta?“ „Um hverja ætli hann hafi sagt þetta?“ hvísluðu þær og stungu saman höfðum. Það var niðurinn í grasinu. „Um hverja ætli hann hafi sagt þetta, þó!“ hvein í gamalli hríslu á næsta hólbarði. Hún var bæði eldri og sá miklu víðar um, en brekkurósirnar. „Það var víst um enga ykkar, litlu bjánarnir. Morgun-vindurinn fer um víða veröld og sér allt, sem skrautlegt er. Hann hirðir aðeins um fallegasta litinn í geislanum-barna og snotrasta knappinn á víðinum hérna; hann flýgur láð og lög, að leita að fegurðinni. Það er um hana, sem hann kveður. Heyrið nú til, hann er að syngja þetta sama, við sinuna hérna úti á Flóanum. Um hverja ætli hann segi það!“

Svo kom morgun-vindurinn aftur um hádegis-bilið. Þetta skeði í landi, þar sem sólin sezt aldrei á vorin, og þá er rétt að kenna allt við föður ljósanna, morguninn. Hann söng sama kvæðið; en brekkurósirnar litu nú ekki upp. Hvaða unaður var af því, fyrst þær máttu ekki ímynda sér, að kvæðið væri um þær. Þær voru farnar að skrælna. „Óhræsi varstu“, sagði morgun-vindurinn við gömlu hrísluna og tók í hárið á henni svo hún bognaði. Brekkan, sem tók mark á því sem þú sagðir, er nú að fölna; en Flóinn, sem ekki heyrði

til þín, er óðum að grænka. Vissurðu ekki, að það er glæpur að rýma burt ánægjunni og fegurðar-tilfinningunni, jafnvel með sannleikanum?"

### 2. *Gráskeggur.*

Um kveldið gekk sá maður, er Gráskeggur nefndist, í tjaldið fyrir Útstein konung; og er þeir höfðu kvaðzt, leit konungur við honum og spurði: Hver er fæðingarstaður þinn, foreldri og íþrótt, gamli maður? Úr hverju landi bar þig hingað, og hvert er erindi þitt? Hvað hefir þú séð á ferðum þínum, því langt muntu að kominn, eður hvert muntu héðan stefna?

All fjölspurull eruð þér, herra, svaraði Gráskeggur, og ekki veit ég, ef ég kann úr að leysa. Karl og kerling voru foreldri mín; er þá full langt rakið, því enginn lærdómur fer meir á bug við sannleikann en ættfræðin. Föðurland mun Frón, því loft og sær var mér ætíð úrhendis. Þá eina kann ég íþróttina, að koma svo til dyra sem ég er klæddur. Úr Hvítramannalandi kom ég, en lokið er erindi mínu, því leitað hefi ég farsældar og fundið. Nú er ég á leið til átthaga minna; veit ég ei enn, hvar þeir liggja, en skammt á ég nú ófarið. Kann ég ekki fleiri æfintýri.

Seg oss gjör frá fundi þínum, mælti Útsteinn; á slíkum leiðangri erum nú vér og hirð vor, og æ farið erindisleysu.

Hverf aftur konungur, svaraði Gráskeggur, sú, er þú leitar eftir, leiddi þig á götu og hvarf svo heim aftur. En þá var ég ungur, er ég réðist í lag með Unaðsemd drottningu, og góð þótti mér um stund hennar þjónusta. Henni gaf ég sakleysi mitt og fleiri gripi, en tók við reynslunni; en eigi undi ég þar lengi, því hafa vildi hún alvöruna. Fór ég þá til Metnaðs jarls; færði ég honum lítillætið, en þáði mannþekkinguna, en fá vildi hann sanngirnina einnig og skildi það með okkur. Næst var ég á vist með Auði konungi; lét ég hann fá örlætið,

en hann gaf mér hagsýnina í móti; en þaðan hvarf ég, því fleka vildi hann af mér ráðvendnina. Þá þóttist ég fullreynt hafa þá höfðingjana, og leitaði á fund spekinga. Gekk ég fyrst í klaustur með Guðsótta ábóta; hann neyddi mig til að láta af hendi tilbeiðsluna, en seldi mér hugsjónina, en frá honum strauk ég, er hann rændist eftir skynseminni. Þaðan komst ég til Fróða kennara; færði ég honum fullvissuna, en þáði af honum þekkinguna, en ekki gat ég ílengzt þar, því taka vildi hann ímyndanina líka. Um stund dvaldi ég hjá Braga söngmanni; hann tók aleigu mína mót fegurðar tilfinningunni, en löngum hljóp ég þaðan, því oft skorti þar mat.

Víða hefir þú reynzt, sagði þá Útsteinn konungur, en lítil þykja mér erindislokin.

Enn er ei saga mín öll, svaraði Gráskeggur. Nú þóttist ég hvergi athvarf eiga, og brigðular höfðu mér vonirnar gerzt. Skygndist ég nú um í eigin eðli, og þar fann ég farsældina, konungur; hafði ég borið hana í barmi mér athugalaust, alla götu.

Nú fer þú með fals mikið, svaraði Útsteinn, því það kann eg af útliti þínu að ráða, að mjög taka elli og lúi að halla á þig; og vesall mun sá, er hrekst sem vergangsmaður.

Ekki þekkist farsældin að útliti né iðn, herra, mælti Gráskeggur, heldur finnst hún í þreki, er veit neitt í lífi og dauða sitt ofurefli, og skapi, er á sér verklaun í eigin starfi. Og snú aftur, konungur, svo sem ég réði yður til fyrrum.

Engan trúnað leggjum vér á sögu þína, gamli maður, svaraði konungur, og lengra munum vér leita, áður vér hverfum heim.

Fyrir vissi ég svar yðar, mælti Gráskeggur. Sama veg hljótum vér allir að fara, og þurfum langt að leita, áður vér finnum farsældina. Út liggur braut vor og þó situr hún jafnan inni. En fár kemst heim aftur.

Um nóttina hvarf Gráskeggur úr tjaldinu og lézt enginn vita, hvað af var orðið. Héldu ýmsir það Óðinn verið hafa, eða vætt nokkurn.

## *3. Fyrirför.*

„Ég hefi beyg af honum stundum, þegar hann verður flóttalegur á svipinn, eins og sá maður, sem hefir glæp á samvizkunni".

Svona minntist þú á mig, ungfrú Engilráð. Þú bjóst þig á dansinn, og þrýstir mjallhvítri hendi ofan í hanzkann þinn.

Það er engin von, að þig gruni, að þetta er þér að kenna. En þú minnir mig samt á hann — en á líkan hátt eins og sigurför hershöfðingjans um borgina minnir mig á valkestina, sem brúuðu díkið utan við.

— — Við gátum aldrei án hans verið, þegar við lékum okkur. Hann var svo greindur og glaðlyndur. Hann vann fyrir uppeldi sínu á daginn og skemmtun okkar á nóttunni. Þó hann væri þreyttur, og vildi vera án þess, gat hann aldrei talizt undan því.

„Hafðu það sem þú vilt", sagði Afleiðingin við hann. „Taktu til láns af lífinu, unglingur. Ég held reikningana. — Þú ert enn svo sterkur og hraustur, að aldur þinn hefir aðeins styzt fimm ár", sagði hún svo við hann, þegar hann var liðugt tvítugur.

Hann brosti að því. Ein fimm ár af elli, langa langt í burtu, hvers virði voru þau? Svo gat þetta verið misreikningur; áreiðanlega var hann þó byggður á óvissu.

— — Hann erfiðaði á daginn, þangað til dimmt var orðið og hann sveið í hverja taug. Á nóttunni las hann og hugsaði, þangað til glýju dró fyrir augun og aftureldingin og fótaferðin lögðust á hann eins og kvalræði.

„Nú munar meiru", sagði Afleiðingin, þegar hann varð rúmt þrítugur. „Þú hefir eytt tíu árum æfi þinnar fyrir þig fram, og er þó heldur vanreiknað".

— — Hann lét það sem vind um eyrun þjóta. Hann miðaði langlífi við ágæti, ekki árafjölda.

En við höfðum hugboð um, að Afleiðingin segði þetta satt, en honum var það þó sjálfrátt. Hann gat borðað vel á daginn og sofið fast á nóttunni, eins og fénaðurinn og margir dugnaðarmenn.

— — Hann var önnum kafinn myrkranna milli. Þegar áhyggjurnar settust á kveldin, stigu heilabrotin upp og bönnuðu honum svefn. Hann var nú staddur í árstíðinni, þegar vorsáning var lokið, en hæfileikar manns sjálfs brjótast fram til að spretta. Hann vakti og vann, þangað til hann yngdist ekki lengur upp með vorinu, né lifnaði yfir honum, þó hann læsi fallega hugsun. Sérhver tilfinning var sljófguð, nema sú, að hafa varið allri æfi sinni til að stytta sjálfum sér aldur.

„Fimmtán ára reikningshalli", sagði Afleiðingin.

„Nú verður þú að koma", sagði Dauðinn.

Svo bárum við hann til grafar, og bjuggum öll yfir hugsaninni, hve hörmuleg fásinna það var, að tæma svona sjálfan sig til síðasta blóðdropa hálfri mannsæfi fyrir örlög fram.

Ég veit, að þetta var honum sjálfum að kenna, og að ég er í engri sök, fremur en þið og hann Kain.

— — En stundum þó, þegar ég hugsa um hann, ásækir mig einhver óró, skyld angist þeirrar sálar, sem grunar sjálfa sig um, að hafa unnið glæpvíg. Er ég ekki einn hluti af jarðveginum, sem gróðurinn sólbrennur í, svona snemma?

Í þeim brjálsemisköstum er það, sem þér stendur þessi stuggur af svipnum mínum, ungfrú Engilráð.

## 4. *Seinasta lóan.*

Hinumegin dalsins, andspænis mér, stóð snarbrattur hálsinn, skriður og lausagrjót alveg onað hamrinum við árgilið; enginn götustigur lá yfir klungrið; allur gróður hafði hrapað þar til dauðs. Þeim megin, sem ég

stóð, bugaðist aðlíðandi fjallshlíðin með valllendisdrögum og lyngmóum á breiðan höfða yfir undir hálsinn, eins og ef að hlíðin kenndi í brjósti um hann, seildist til hans með hendinni og vildi rétta honum hlýrri klæðnað. En áin veltist fram út á milli þeirra, í biksvörtum hyljum og leirljósum strengjum, niður í þverhníptri hamraþrónni, ofan héraðið, fram yfir eyrarnar, úti fljótið. Henni leiddust dalaþrengslin, og brunaði fram til að komast út í lífið og víða veröldina; hún var unglingur innan við tvítugt. Svo féll hún í fljótið og týndi sjálfri sér.

— — Veðrið var óvanalega gott allan septembermánuð; það var eins og íslenzka haustið vildi, að lóurnar, sem voru að flytja sig, minntust sín með hlýjum hug í þetta skifti. Nú voru þær allar farnar. Svo kom október, sá fyrsti með austanhríð, annar með norðangadd og sá þriðji með sunnanflapur og upprofið, þegar allir hlutir anda frá sér hráslaga og manni finnst að koma út úr húsdyrum eins og að stíga í krapabað. Þúfnafyllir af blotsnjó lá yfir mónum; hann var samt að síga; krækilyngið stakk mórauðum gómunum hér og hvar út um hann. Lækir og dragavætlur brigsluðust upp af krapstíflum og svellbunkum. Höfðinn hafði breytt útliti; nú var hann eins og fögur og mjúk hönd, sem maður strauk í æskunni, þegar ellin og lúinn hafa hnýtt æðarnar og kreppt allar taugar. Dagsbirtan var korguð, eins og liðið væri að úthalli, lognkólgan hékk í slæðu yfir dalsmynninu og hlíðunum. Í hásuðri rofaði til geislalausrar sólar, eins og maurildis í rökkvuðum barrskógi, og samt sýndist hún vera svo nærri manni, eins og hún héngi uppi milli jökulsins og dalbotnsins. Nær manni, dýpst niðri í dalverpinu, blikuðu tveir ljósgullnir skildir, niður á botninum á grárri snjókistunni. Þar breiddist áin út við sléttar eyrar, og sólskinið hafði einhvern veginn slæðzt

þar niður, eins og fagrar endurminningar frá æskuárum manns.

- — - - Hu, hu, hu, kvað við í mónum fyrir ofan mig, en rómurinn var hreimlaus, eins og í fiðlustreng, sem hefir vöknað.

Það var seinasta lóan, sem kvað þar. Svo hætti söngurinn; hún kom ekki lengur upp hljóði í laginu við dirrídí.

Hví hafði hún ekki flogið burt með félögum sínum, en beðið hretsins, vesalingur? Hafði hún tafið eftir elliglöpunum, svo hún héldi, að hún gæti enn með bilaða rómnum sínum núna í hausthretinu, þegar meginið af tímanum er tóm nótt, sungið eins sætt og vorið sem leið, þegar hún var ung og bjóst við, að sumarið entist til eilífðar, að heimurinn væri loksins orðinn það, sem allir hafa vonað og þráð, eintómur söngur og gróður.

— Þá duttu mér í hug við æskufélagar mínir, sem hófum raddir okkar fyrir hálfum mannsaldri síðan og ætluðum að syngja sumar yfir landið til eilífðar. Við sáum þá svo glöggt, að það væri hægt. Nú er þó aftur komið haust, sumir þeirra eru flognir, aðrir þegja og búa sig til ferða, fáeinir kvaka enn við og við og lyfta vængjunum eins og útfarinn, stiginn á skipsfjöl, sem veifar til manns hendinni að skilnaði.

Kvíðvænlegast af öllu er, að verða seinasta lóan.

## 5. *Fráfall gamla Guðmundar stúdents.*

### Hálfstolið og hálffrjálst.

Gamlárskveldið var indælt vetrarkveld; veðrið notalegt eins og vorblíða, en andrúmsloftið léttara og hreinna; andvarinn frá jöklinum lék um mann eins og fjörgandi ylur, manni jafnvel fannst, að snjórinn sjálfur myndi hlýr og voðfeldur, eins og mjúk og hrein dúnsæng. Birta tungls og stjarna var mildari en nokkurt sólskin, þó hún væri ekki eins skær. Hálfþíður úthaginn blasti við manni, snivinn eða auður, eins og

jólahlákan hefði gert hann að tryggum sáttmála milli sumar-sólbruna og vetrarharðinda.

Gamlárskvöldið var bjart og blítt. Hefði maður átt að velja um það og fegursta sumardaginn, sem maður mundi eftir, og ekki getað hreppt nema annaðhvort, myndi maður helzt hafa dregið um þau blindandi. Enginn veðurnæmur mannshugur gat gert mun þeirra öðruvísi.

— Síra Hákon fann það líka á sér; hann var hress og léttur í spori, þó hann væri orðinn hálf-sjötugur. Bæjarleiðin frá Garði ofan að Gerði var örstutt, enda óaði honum ekki við henni, þó nótt væri komin og hann einsaman. Hann þurfti heldur ekki að prédika í Garðskirkju að morgni, Sveinbjörn, aðstoðari hans, átti að gera það; því var hann líka feginn, uppgefinn og úttæmdur eins og hann var, á fjörutíu ára prédikunum, öllum um sama efni. Jafnvel meðalskynsemi fellst á, að það myndi vera þreytandi að kveða sömu vísuna alla æfi, ef ekkert mætti skifta um nema róminn, þó maður tryði, að hún væri allra vísna fallegust. Hugur síra Hákonar var allur fanginn af endurminningum og von, þetta gamlárskveld. Gamli síra Guðmundur stúdent í Gerði hafði sent til hans og beðið hann að vitja sín þessa nótt. Guðmundur hafði legið rúmfastur alllengi og var talinn aðfram kominn. Marga nóttina höfðu þeir saman verið um æfina, jafnaldrar, skólabræður, nærri aldavinir. Í mörgu öðru höfðu þeir þó farizt á mis um dagana. Hamingjan hafði gefið Hákoni þetta farsæla meðalvit, sem gerði hann að sómamanni, sveitaröðling, og nú loks að prestaöldungi. Æfi Guðmundar hafði gengið slörkulegar. Enginn frýði honum vits, þó ágreiningur væri um, hver maður hann var. Einstaka maður minntist hans til góðs; flestum stóð stuggur af framkomu hans og vitsmunum; þeir sáu ekki, að aðrir en hrekkjamenn þyrftu á svo miklu viti að halda. Það var almenningsgrunur, að hann væri

misendis-karl, þó enginn gæti sagt með vissu, hvað helzt illt hann hefði gert.

Endurminningarnar í huga síra Hákonar runnu frá því, hve raunalegt það væri, að Guðmundi varð lítið gagn að miklum hæfileikum. Svo rifjaðist upp æfisaga Guðmundar, frá því hann var gálaus en drenglyndur unglingur, sem þótti ósköp vænt um móður sína. Þeir ólust upp nágrennis.

Svo fóru skólaárin í hönd. Framan af var Guðmundur öfundlaust uppáhald allra bekkjanauta sinna. Það var eins og það lægi í meðvitund þeirra allra að treysta honum til nærri alls, eins og honum væri ekkert ofvaxið og væri ákvarðað mikilmenni. Seinustu námsárin fór það samt minnkandi. Það leit út eins og hann hefði orðið fráskila skólabragnum, væri ekki lengur fullorðið barn, sem lærir það, sem því er sett fyrir, eins og hinir, sem voru honum samtíða. Vit, sem efar hið viðtekna, er allatíð einrænt og sjálfbirgingslegt í augum sprenglærðrar einfeldni. Hann lenti í deilum og keppni og einangraðist æ meir. Þó það sýndist auðunninn leikur, að sigra ekki meiri garp, með viðurkenndri, samlagðri, óhaggandi vizku, ótal spekinga og kennifeðra, sem skólafræðin hvíldi á, varð Guðmundur stundum svo skarpseigur í hugsunum og örðugur viðfangs að verja sitt mál, og svör hans voru svo keimlík heilbrigðri skynsemi, að þó andstæðingar hans vissu, að hann hlyti að hafa haft miður, fundu þeir þó til þess, að sinn eigin sigur var ekki eins auðsjáanlegur eins og þeir bjuggust við, og voru því ekki allskostar ánægðir með hann.

Guðmundur útskrifaðist þó og hefði getað orðið prestur, en það vildi hann með engu móti, jafnvel þó unnustan sliti við hann heitorð; því foreldrar hennar sáu henni engan farborða, nema hún yrði prestskona að minnsta kosti.

Síra Hákoni var það enn minnisstætt, hvernig hann

lagði að Guðmundi, að breyta slíkri fyriræltun, og hversu Guðmundur tók af um það, því sér hnykkti við prestaeiðnum. Hvernig sem Hákon reyndi að færa honum rök að því, að loforð manns um að vinna hið æðsta og háleitasta lífsstarf í heiminum gæti aldrei verið varhugavert, þó kraftar manns gætu ef til vill ekki haldið það allt, brosti Guðmundur að heilræðum hans og daufheyrðist, en hélt því fram, að það, sem væri rétt gert af Hákoni sjálfum, gilti ekki jafnt um alla menn.

Enn mundi Hákon gerla, hverju Guðmundur svaraði, þegar hann spurði loks í einlægni sinni, hvort hann hefði náð í bækur Aríusar eða Zvinglis? Voðalegri villutrúarmenn þekkti Hákon ekki í þá daga, og ekki að öðru en því, sem eftir þeim var haft og hrakið fyrir þeim — löngu fráverandi dauðum; honum kom ekki til hugar, að Guðmundur gæti verið orðinn katólskur, prótestantisk sál að ætt og uppeldi, sem sú óguðlega kirkja gat ekki hafa gert neitt peningaboð í. Guðmundur lagði krumluna á öxlina á honum. „Heyrðu, Hákon sveitungi“, sagði hann, „mannstu eftir honum Skúla skottulækni, sem aldrei vissi, hvað að neinum sjúkling gekk og sagði svo alltaf, að það mundi vera tegund af ormaveiki — eða honum Finni gamla á Fjárvanka, sem æfinlega svaraði, ef hann missti skepnu og var spurður um tildrögin: „O hún hefir víst étið gras og eitrast af því!“ Eins ætlar þér að fara. Ég veit ekki hvort ég man, hvað Aríus og Zvingli eiga að hafa sagt, nema ég fletti upp á því. Það eru atvikin, sem mig hafa leitt afvega, ef þú vilt svo. Manstu, þegar það datt upp úr mér, að Edda og Biblían væru innblásnar á líkan hátt, þegar við piltar nokkrir sátum saman í fyrra og viðtalið lenti af hendingu á goðafræðinni, kappið, sem úr því varð, og eftirsögurnar? Í fyrstunni sleppti ég þessu af rælni, án þess nokkru sinni að hafa hugsað um það. Ég var viss um, að það var rangt mál og óverjandi, og ætlaði sjálfum mér að rekast í vörð-

eins víðfrægt og „Merino“ að minnsta kosti, ef hagar þess næðu yfir tvær heimsálfur. Eitt er víst, svona leiðarmót er ekki lagsnauðasti leikurinn í landvörn sveitanna. Þetta fólk verður seint þorparalýður, það hefir sungið sig saman við sveitina sína.

— — — —

Alstaðar gengur sama sagan: borgir eyða byggðum, hér í landi líka, unz þær lenda með iðnaðar-þjóðirnar á alheims-hreppinn, og þar er búizt um á sama hátt eins og Svaði gerði í hallærinu forðum, öreigunum hrundið fyrir ætternisstapa styrjaldanna, svo enn verði þeim lengra lífs auðið á afskiftunum, sem öflugastir eru. Synir og dætur sveitanna flytja sig inní iðnaðarborgirnar, niðjar þeirra flestir sökkva þar ofaní sorpið með tímanum. Erum við „Kanada-Íslendingar“ ekki til þess ættkjörnir, að fresta þeim forlögum, sem mest við megnum, syngja okkur saman við sveitirnar okkar? Kanada sjálf á engan þjóðsöng enn, sem leiftrar svo af landshelgi, að birti yfir búskapnum — eins fagurt og það er þó og framdreymið. Hér eru engir söngvar til enn í alþýðumunni, sem lyfta vængjum hugsananna yfir sléttan leirinn, engir ómar, sem ekki eru hásir af mörhljóði umsýslu og ábata.

— — — —

Séð hefi ég kafla úr erindi eftir skáld-goða Noregs, Björnson, þar sem hann ágætir Norðmenn, sem eftir sátu, en flýðu ekki land sitt forðum upp úr Hafurfjarðar orustu, eins og Íslendingarnir, því þeir hafi ekki svikizt úr leik, að gera garðinn frægan. Farfýsi og metnaður okkar Íslendinga væri þar, að vísu, búin til mótmæla. En ef þú kemur einhverntíma, erlendur og ókunnugur orðinn, í syngjandi sveit fornra ættstöðva, myndu tilfinningar þínar finna bót í máli Björnsons, þær höggva þá svo nærri sjálfum þér, að þér yrði unnt að afsaka, ef ekki réttlæta, þá þjóðrækni, sem litur á landflóttamanninn næstum eins og trúníð-

ing. Að sönnu hefðu Norðmenn glatað öllu því, sem þeir glötuðu, þó Íslendingar, þeir fáu sem út fluttu, hefðu allir setið kyrrir, og tvísýnt, að sá Björnson og nýi Norvegur, sem síðar rann upp, hefði til orðið, hefði enginn Snorri komið fram né Ísland byggzt.

— — — —

Hversu langir sem vetrar verða, kemur þó ætíð sá dagur, að sumarið syngur: Blessuð sértu, sveitin mín, yfir öllum löndum, sunnan frá miðjarðarbaug norður fyrir Greipur Grænlands. Vorhugur íslenzkrar tungu og íslenzkra ljóða á sér enn dag, til að verða jafn langkvæður.

## *HÆGT ER AÐ ÞREYJA ÞORRANN OG GÓUNA*

Staddur var ég á ferð fyrir fáum árum, einn míns liðs og í ókunnum bæ. Loksins hafði ég leitað uppi autt sæti í einum mannflutningavagni eimlestarinnar. Inni var ös af ferðafólki. Leiðin lá út í vetrar-lágnættið, fram um fannkyngda sléttuna, yfir víðavang nístingskulda og næðinga, þar sem loft og láð virðast vera lokuð sund.

— — — —

Vagninn sá, er svo var gestrisinn, að ætla mér autt sæti, var meira en hálfsetinn af rússneskum stritvinnumönnum og hversdagsklæddum, sem nú höfðu lokið sumarvertíð sinni við brautarlagning úti í öræfum. Hér voru þeir á heimleið til vetrarsetu í nýbýlunum, sem þeir áttu einhversstaðar austur á auðninni, og mörgum mílnatugum af vandrötuðum vegleysum norðan við brautina, sem þeir sjálfir voru að leggja. Farargervi þeirra allt var flækingslegt, og tungumálið, sem þeir töluðu, vissum við hinir ekki hvað þýddi þeirra milli, sem var gremjulegra, af því að sumir

þeirra voru okkur það orðfróðari, að þeir skildu fullvel flest, sem við sögðum, og víst lá vel á þeim eftir útivistina, en alveg ólátalaust.

Fyrir sömu sök og ég, þrengslin, lentu nokkrir aðrir úrtíningar meiri manna í Rússa-rúminu, sjálfsagt ættaðir sinn úr hverri átt, og á því eina bandi saman, að við vorum ekki Rússar og allir með ólundarsvip yfir að vera á vondan stað komnir, og sumir vöktu máls á því við vagnstjórann.

— — — —

Rússarnir fóru að syngja sína söngva, og sungu um stund. Auðvitað þekkti ég ekki það, sem þeir fóru með. hvorki ljóð né lag. En það lét svo mjúkt og mæðulega, að ég hlýddi á það hljómklökkur, eins og vetrarkvíðann heima, þegar hann gjálfraði fyrir golunni úti fyrir gluggaþekjunni, eða þegar ég heyri súginn þjóta í sölnuðu skógarlaufinu hérna á haustin.

Vagnstjórinn hastaði nú á Rússana herralega, til eftirlætis við okkur ekki-Rússana. Hann hafði líka flutt nokkra af okkur meiri mönnunum í sæmilegra fólksfélag, ef að sæti losnaði, lengra aftur á lestinni. Loks kom hann til mín og bauðst til að búa um mig á betri bekk. Ég naut þess víst, að ég var vitund skár klæddur, en þessir verkamenn í vinnulörfunum, og bar svo utan á mér heimild til króksbekkjar hjá heldra fólkinu. Ég afþakkaði boðið. Kvaðst mundu reyna að komast af litla stund lengur. Hann tók því vel og hughreysti mig með, að skammt yrði nú þreyttum að þola. Þessi sóða-sveit, sem ég sæti hjá, yrði nú að rýma vagninn á næstu stöð.

Undir söngnum hafði ég orðið hugsi. Yfir mig hafði liðið ein þessi stund, þegar smáatvik líta út eins og lykill að anddyri aldarfarsins, svo örlögin blasi við, aftur og fram. Þessi angurværi kveinstafur í rússnesku röddunum (rann mér í hug), hann er sársaukahljómurinn úr sögunni þeirra, hann er klökkvi kúgaðrar þjóðar.

Um leið og ímyndun mín rakti upp ið fáa, sem ég er fróður um í ættbálks-sögu þessa óvígasta knérunns af Arianaættinni, sem kallast Slafar, undir yfirgangi Tartara, norrænna víkinga, Rómverja og stjórn sinna eigin guða og manna. Mér fannst ég merkja í rússnesku röddunum slag í lífæð lýðsins.

——— — —

Áður hafði ég af hendingu gengið á annan óm, runninn frá sömu sögu. Það var ljóð í lausu máli eftir Marxim Gorki, kunnasta nútíðarskáld Rússanna. Það var hetjukvæði um Máfinn, eða hvað menn vilja kalla það, þetta stormanda kyn, sem um aldur og árdaga stríðir á öldum úthafsins, steytir móti stormunum og skýzt undan upp í óveðrið með skríkjandi sigurópi hins flóttafleyga, þegar haf og himinn virðast hafa dregið saman allt sitt afl til að kremja hann við klettabrúnina, sleppur frá þeim lifandi, aðeins til að eiga í sama leiknum við þá upp aftur og aftur og æfilangt.

Ég skildi um hvern þetta var kveðið. Máfurinn var enginn annar en frelsisþrá rússneska byltingarandans, í bardaga hans að bjarga landi sínu.

Til var íslenzk munnmælasaga. Móðir mín sagði mér hana ungum. Hvergi hefi ég heyrt hana né séð annarstaðar. Hjá mér verður hún ekki að ljóði í lausu máli, en engu að síður bergmálar hún enn í mínu minni eins og ómur úr Íslandssögu.

Það var fyrir löngu liðnu, þegar skortur og hallæri eyddu Íslendingum, að ekkja bjó í koti með krökkum sínum, einbúi, úti í örvæni öræfa og vetrarveðra. Tvö átti hún börnin, en bara eina kú. Jólin komu þar líka, en í bjargþrota bæ. Börnin kjökruðu við móður sína yfir skortinum á lífsbjörg og ljósi. Hún huggaði þau með því, að kýrin kæmist í nyt, í næstu góulok. Við vitum, að milli jóla og einmánaðar yrðu þrír mánuðir á milli máltíða. En með þessari bjargarvon tókst móð-

urinni að gera börnin sín svo jólasæl, að þau sungu sig í svefn með ljóðstöfunum í víðkvæðinu þessu:

„Hægt er að þreyja þorrann og góuna! Og þá ber kýrin“.

Einu sinni gat móðir mín um það, að sumir bættu því við söguna, að bæði börnin hefðu orðið hungurmorða löngu fyrir góulok, en hún sagðist vita, að það væri ekki satt. „En á hverju lifðu börnin svona lengi þá?“ spurði ég. „Það veit ég ekki fyrir víst“, svaraði mamma, „en líklega á lífsvonunum“.

Þessi jólasöngur barnanna sver sig í íslenzka ætt. Þetta líf á lífsvoninni, þegar harðærið stendur sem hæst; þessi þögula starsýn fram úr öllu öngþveiti. Að vísu gáfu Norðmenn henni viðurnefnið: Tómlátur er hann enn, Mörlandinn, þegar Íslendingurinn geymdi það, sem hann gleymdi ekki. En skopið hæfði þá líka sjálfa, ef skop það var, því eitt af skáldum hins endurborna Noregs á öldinni sem leið kveður svo að orði um þá, í einu sannspáasta kvæðinu sínu:

„Mig skal komma — om inkje saa braat!“ — Eða eins og allt erindið gæti sagt á íslenzku:

Margir eru, sem vola og veina:
mér vinnist hvergi, sé aldrei til taks —
en látum vílmögu kvarta og kveina,
ég skal komast — þó ég rjúki ei strax.

Það var traustið á, „að hægt sé að þreyja þorrann og góuna“, sem varði vonirnar falli, í samúðinni við sína líka, þegar sá aflminni er ofurliði borinn, hvar í heimi sem var. Þegar rússnesk tunga grípur fyrir munninn á finnskunni á Finnmörk. Þegar Suður-Jótinn verður sakamaður, fyrir að syngja danska vísu á mannamóti. Þegar franski alþýðukennarinn í Elsass verður á elliárum að kveðja barnaskólann sinn í síðasta sinni á hernumda tungu sína, sem ofbeldið hefir út-

þyggt úr skólum lýðsins, sem á hana að móðurmáli. Fullþroska þjóðerni er eins og fullþroska einstaklingur (ályktar umhugsun manns), eiginleikar þess verða yfirbugaðir, en aldrei afmáðir. Varpið fullmenntum manni í fangelsi, hugsjónir hans umbreytast ekki samt. Hinn óþroskaði og ættlerinn gætu orðið þar að öðrum manni. Villiþjóðir einar verða gerðar að umskiftingum, eins og reifabörnin og örvasarnir í álfasögunum okkar. Sá af skáldum Breta, sem í lífi sínu og ljóði bauð hrokanum og skinhelginni biræfnast byrginn, hefir mótað þetta minnisstæðast í skáldskapinn í forsöng sínum að Bandingjanum í Chillon, þannig:

„Eternal Spirit of the chainless Mind!
Brightest in dungeons, Liberty thou art.

And when thy sons to fetters are consign'd
Their country conquers with their martyrdom,
And freedom's fame finds wings on every wind".

En af því ég hefi nú ekki á hraðbergi þýðing hans á þessu, sem betur átti íslenzk orð yfir það en ég, verð ég að segja það svona:

Eilífa þrá hins hlekkjalausa hugs,
hæst skín þú, frelsi, myrkrastofu í.
Og upp úr hlekkjum sona þinna sí
reis sigur-þjóð — þeir leystu lýð með því
og lyftu hverjum brotnum væng til flugs.

Í dag er Finnland finnskt, Jótland danskt, Elsass franskt, þjóðernin, sem þraukuðu af þyngstan þorra og grimmustu góu. Sú hátíð er hæst, þegar gengið hefir verið eftir góðum spám. Næst henni er hin, þegar hvergi rættist úr hrakspánum.

Frelsisþrá — sjálfstæðisþrá — menningarþrá —

framfaraþrá — farsældarþrá! hvað sem á að kalla hana! Þessi þrá, sem ein gerir lífið hér að lifandi manna lífi og mennina að mönnum — hún er Máfurinn, sem Gorki orti um, og ég get dáðst að þeim ljóðum, með hugann í hans sporum. En sá söngur er stórþjóða-drápa og mér fannst ég merkja óm af brotinni bringu, í rússnesku röddunum forðum. Útsærinn er svo óendanlega víður, öldurnar svo efldar undan stormum allra-átta, framsýnin á þar svo langt að sjá til lands, gegnum rokið, að vonunum villist stundum sýn, hvort Máfinn muni bera upp að hömrunum eða höfninni.

Íslenzka munnmælasagan um börnin, sú sem ég hafði yfir áðan, er að vísu æfintýri einstæðingsins, smáþjóðarinnar okkar. En hún er þó eins og hringhenda með sigurhljóm í hverjum stuðli. Aðeins að þreyja þorrann til góuloka, og sjá fram úr vetri. Það hefir íslenzka þjóðin ætíð gert, og núna nýlega, og beggja megin hafsins veturinn í fyrra, og veturinn sem síðast leið. Ég veit, hvers við öll óskum, íslenzku smalarnir og selráðskonurnar hérna við Wynyard, sem sé, að íslenzkan eigi ætíð þau börn, hvar í heimi sem er, sem sjá fram til sumars.

— — — —

Íslenzka þjóðin hefir, eins og börnin, sem mamma sagði mér frá, lifað á lífsvonunum, frá þeim jólum landnámsaldarinnar, þegar forfeður okkar voru frjálsast fólk í heimi, og íslenzk tunga töluð í höllum tignustu manna um Norðurheim. Að vísu varð hungurvakan síðan mörg og löng, fram til einmánaðar átjándu aldar, upp til sólmánaðar eða selmánaðar hinnar nítjándu, þegar Ísland varð aftur frjálst og landnám þess hafði staðfestst vestan hafs. Aftur er að hefjast: „vinreið á víðum botni vindkers“, út um götuna milli sels og bæjar, upp í fjöllin og víðsýnið, þangað sem sumarið

sýnir sig stærst, og fegurstu huldufólkssögurnar urðu til forðum.

— — — —

Þökk sé ykkur, Íslendingar við Wynyard, fyrir daginn þann í dag. Ykkur, sem dróguð Íslandsfána við hún í morgun, með sama hug sem skáldið kvað erlendis:

„Sittu heil með háa skautið hvítra fanna,
ljósa dísin drauma minna,
dýra móðir barna þinna“.

Ykkur, sem dragið hann aftur niður í kvöld, með ljúfum kveðjum, „Frá þeim, sem heim til hennar seinna vitja, og hinum, sem hún aldrei fær að sjá“.

# Guðbrandur Erlendsson

---

## *Á GRÆNAVATNI*[1])

Ég tek nú dálitið aftur í tímann, og vil geta lítils viðburðar, er fyrir kom fyrstu viku maímánaðar.

Veður var yndislegt, hvergi gaf að líta skýhnoðra á lofti; við og við hreyfði hægur vestanvindur nýlaufgað skógarlimið, er gaf frá sér þægilegan ilm, er ég svo oft varð var við í skógum Nýja Skotlands, einkum á vorin. Fyrir áhrifum þessa ágæta lofts, er sem hver taug í líkama mannsins fái nýjan þrótt og nýjan dug. Í ákafa bylti ég saman trjábolunum og hugði að koma sem mestu í verk.

Allt í einu kemur mér kýrin í hug, fer að hlusta eftir kýrbjöllunni, og þótt það væri ekki neitt óvanalegt, að ekki heyrðist til hennar á þessum tíma dags, var engu líkara en mér fyndist sem eitthvað hefði komið fyrir hana, og án þess að velta þessu í huga mínum hleyp ég á stað og, það sem merkilegast var, fann kúna bráðlega mjög illa stadda.

Fyrir sunnan Grænavatnið var lítil lækjarsitra, alveg rótlaus. Þar var kýrin og sá nú aðeins á hrygginn, og höfuðið hafði hún lagt á bakkann. Upp að Sólheimum hljóp ég og tjáði Sigurjóni, hvar komið var, og var hann ekki lengi að búa sig til ferðar með mér.

Ekki tók það langa stund að ná kúnni úr feninu, en mjög var af henni dregið og ekki hugsanlegt, að hún kæmist upp á hæðina það kvöldið, svo við byggðum henni dálítið skýli þar í næsta skógarrjóðri, og gátum

---

1) Úr „Markland. Endurminningar frá árunum 1875—1881".

svo með miklum erfiðismunum komið henni þangað áður nóttin skall á, en uxinn varð að liggja úti. Í kempið bar ég kúnni hey, vatn og hafra.

Nú var, sem oft vill verða, að ekki er ein báran stök. Það var annan daginn eftir að kýrin kom í skýlið, að ég gekk fram hjá Riders fjósinu með skjólu í hendi, í hverri að voru hafrar handa kúnni. Ég get sagt það með sanni, að á þeim árum var mér ekki byltu hætt, en nú var því líkast, sem mér væri hrundið áfram, svo ég lá flatur á jörðinni; samt var það ekki í frásögur færandi, hefði ég ekki verið svo óheppinn, að nýgræðingsstofn varð undir miðri bringunni. Afleiðing byltunnar var sú, að ég hafði slæman sting í bringunni fullar þrjár vikur. Eftir fimm daga gat kýrin gengið heim í fjósið sitt og fylgdi henni þá rauðskjöldóttur kálfur, og var það ekki smálítið gleðiefni fyrir litlu stúlkurnar mínar, að sjá nú lítinn kálf, og svó um leið að eiga von á mjólk, eftir að hafa verið án hennar fjóra mánuði. Kýrin mjólkaði dável, en svo kom flugnavargurinn óviðjafnanlegi og setti hana í hálfa nyt.

Hálfur mánuður var liðinn frá því ég fékk byltuna, sem var og er mér ráðgáta; ég hafði unnið stöðugt við að byngja saman og hreinsa til, en á þessu tímabili hafði ég mikil óþægindi af stingnum, og oftar varð ég að setja mig niður, en venja mín var til; á þessu tímabili hafði mjög lítið rignt, svo ég réði það af að kveikja í öllum byngjunum; vindur var hægur úr suðvestri, og sá ég fljótlega, að engin hætta var á ferðum, ef ekki hvessti, því eldurinn leitaði ekkert út frá byngjunum. En svo klukkan að ganga tvö síðdegis hvessti allt í einu; ég sá vindinn bera flyksur frá eldinum yfir fjósið og alla leið til skógar; á sama andartaki kviknaði þar í þurru laufinu og breiddist út með geysi hraða; ég fékk við ekkert ráðið.

Vel skildi ég hættuna, er af skógareldi stóð, var bú-

inn að heyra svo mikið af skógarbrennum og jafnvel sjá afleiðingar þeirra.

Nú voru góð ráð dýr; ég vissi, að eldurinn hlaut að fara hægar, þegar inn í skóginn kæmi, og var nú eina ráðið, ef mér tækist að rífa svo sem fet breiða ræmu með hófnum þvert yfir hæðina nokkru lengra norður og þannig komast í kringum eldinn; ekki var ég fyrr búinn að hugsa þetta, en ég var kominn á stað með hófinn og fletti af mosanum, og byrjaði ég að vestan; eftir lítinn tíma var ég kominn á móts við mitt eldhafið og logaði ekki minna á trjátoppunum en niðri við jörðina. Ég fór að hafa von um sigur, eldurinn fór ekki nema að rispunni, sem ég hafði gert, mér skilaði vel áfram, og ég sá austur fyrir eldinn; það var aðeins herzlumunurinn, en takið ætlaði að taka frá mér andann og svo var hitinn orðinn illþolandi; nú var þó um að gjöra, að liggja ekki á liði sínu.

Á einu andartaki kemur vindur svo mikill, að hvín í skóginum, og var reykjarmökkurinn svo þykkur, að ég sá ekki handa minna skil; hélt ég niðri í mér andanum, sem þá ekki var auðvelt, því ég var móður mjög, og út úr reyknum komst ég, en sá, að meira fékk ég ekki að gjört.

Eins og leiftur fór í gegnum huga minn hættan, sem nú stóð af eldinum; áður sól gengi til viðar yrði hann kominn að námabænum Carebar; mér var kunnugt um það, að furuskógarnir náðu þar heim að húsum, enda sum þeirra inni í skóginum. Þetta var grátleg tilhugsun. Það eina, sem ég gat gert, var að senda bænarandvarp til himnaföðurins, og það gerði ég; ég bað hann að senda regnskúr, sem slökkti þennan eld; ég hafði aðeins slept orðunum, þegar lítil skúr kom, nægileg til að slökkva eldinn; svo var sama sólskinið og áður.

Ég læt lesarann sjálfráðan, hverju hann trúir í til-

liti til bænheyrslunnar, segi aðeins söguna eins rétt og mér er frekast unnt.

Heldur var ég liðléttur næsta dag; takið var slæmt, en svo náði ég mér fljótt aftur. Þegar sáningu var lokið, fór ég að líta eftir, hvar tiltækilegast myndi fyrir mig að bera niður ljá þetta sumar.

Liðuga mílu í austur frá Grænavatni er heyland ekki svo lítið; var það eign bónda nokkurs, John Butcher að nafni, í austur Musquodoboit. Hann fór ég að finna og fala af honum heyland til slægna og hey til kaups; hann tók lítt a með slægjurnar, en vel með heysöluna; samt sagðist hann skyldi lána mér eins dags slægju og selja mér tvö tonn, og mætti ég, hvort sem mér kæmi betur, borga sér í peningum eða höggva fyrir sig faðma við, næsta vetur í febrúar, því hann hafði tekið að sér að höggva við fyrir gullnámuna í Carabier; hann sagðist borga 50 cent fyrir hvert „cord", en fæði yrði ég að sjá mér fyrir sjálfur; velkomið væri mér að vera í skýlinu við viðarhöggið. Ég kaus heldur að höggva viðinn. Svo lofaði hann að láta mig með bréfi vita, hvenær hann kæmi þar út og byrjaði slátt, sem hann og stundvíslega enti.

Svo rann upp dagurinn, er John ákvað að byrja skyldi sláttinn.

Fyrst um morguninn var logn og sterkur hiti, en þegar fram á daginn leið, rann á hægur suðvestan vindur og var hann mér mjög kærkominn, því annars hefði tæpast verið vinnandi verk að slá með orfi og ljá þétt og stórvaxið gras, eins og var vestast á heylendinu, einmitt þar sem John valdi mér slægjur.

Ég hafði beðið í heila klukkustund, þegar John kom við þriðja mann, er allir höfðu járnorf og í þeim afarlanga ljái; voru þau nokkuð frábrugðin lipra og létta tréorfinu mínu með stutta, skozka ljáinn.

Naumast höfðum við kastað kveðju hver til annars,

þegar annar maður Johns tekur eftir mínu verkfæri og spyr, hvort mér sé alvara að slá með þessu; ég kvað svo vera. Hann spyr, hvort svona séu orfin á Íslandi, og játti ég því; hlær hann þá svo dátt að þessu heyskaparverkfæri mínu, að honum vöknaði um augu. Þessi hlátur særði þjóðernistilfinningu mína í mesta máta, og var það ætlun mín, að þeir hefðu ekki eins fíflslega skoðun á beina orfinu mínu og stutta ljánum, þegar þeir færu heim um kvöldið. John markaði mér spildukorn, sem var um ekru og einn fjórða og spyr með brosi á vörunum, hvort þetta muni ekki nægileg dagslægja fyrir mig. Ég svaraði rétt eins og ég hugsaði, að það þætti mér ólíklegt.

Síðan tóku þeir til sláttar austar á enginu, ekki samt lengra frá en svo, og ég sá vel til þeirra og þeir til mín. Á hádegi sá ég þá kveikja eld og hita sér te; ég gerði eins og tók góðan dúr eftir máltíð, eins og venja mín hefir ætíð verið. Þegar úrið mitt var hálf þrjú, var bletturinn sleginn; geng ég þá til John, og segist hafa vonað, að hann léti mig hafa dagslægju.

Það kvaðst hann hafa ætlað sér og skuli hann bæta við mig; var hann fljótur að því og segir um leið, að ekki hafi sér komið í hug, að hægt væri að slá eina ekru á dag með litla ljánum mínum og beina orfinu; og það, sem ég nú í huga mínum gladdist mest af, var það, að þeir hvorki hlógu né gerðu lítið úr íslenzka orfinu eftir það. Þessi viðbót var næst því að vera þrír fjórðu hlutar úr ekru, og þar sem grasið var heldur rýrt, gekk fljótt á blettinn.

Sannleikurinn er sá, að á sléttu engi slær maðurinn meira með hérlendum orfum og ljá; járnorfið er gott, þar sem mikið gras er, og þar sem það er dálítið þyngra en tréorfið, útheimtir það minni krafta að fylgja á eftir ljánum.

Lengra niður með læknum voru tveir heylandsblett-

ir allgóðir, og sagði John mér væri heimilt að slá þá, þeir væru á stjórnarlandi; að vísu hefði það verið venja sín að slá þá, en hér eftir skyldi ég hagnýta mér grasið af þeim, og lét ég ekki segja mér það tvisvar.

Viðkynning og viðskifti okkar John Butchers fóru vel, bæði þá og síðar.

---

Á yngri árum mínum var ég ekki trúaður á dularfull fyrirbrigði; samt neitaði ég þeim ekki. En það liggur svo ríkt í manneðlinu að efa það, sem hann ekki sér með eigin augum; en nú er svo komið, að ég hefi fyrir löngu fengið sönnun fyrir því, og væri mér ljúft þegar í stað að gjöra grein fyrir staðhæfingu minni, en svo væri það að fara út frá efni þessarar ritgjörðar og kemur henni ekki við; aðeins hefi ég litla sögu að segja, sem telja má í sambandi við þau og kom fyrir á Grænavatni þennan vetur.

Komið var fram yfir miðvetur, systir mín farin í vist; dætur okkar konu minnar voru í rúmi gagnvart okkar rúmi; nálægt miðri nóttu vakna ég við það, að Anna mín kallar: „Pabbi, komdu fljótt!“ Ég var á sama andartaki kominn að rúmi hennar. „Hvað er að, elsku barnið mitt?“, spurði ég. „Ég var búin að vera litla stund vakandi; svo leit ég upp, og þá sá ég mann standa á milli rúmanna“. „Hvar er hann nú?“ spurði ég. „Þegar þú stökkst ofan úr rúminu, þá fór hann“, svaraði barnið. „Hvaða undra rugl er þetta“, segi ég. „Það er ekkert rugl“, mælti hún. „Þú veizt það, elsku pabbi, að ég skrökva aldrei“. Ég sagðist vita það og að við skyldum ekki tala meira um þetta.

Mér datt í hug, að einhver hefði læðzt inn í húsið, kveikti því ljós í skyndi og sannfærðist um, að svo var ekki. Nóttin var dimm, svo ekki var hætt við, að hún gæti séð glampa á nokkuð það, er valdið gat missýn, enda var hún svo skýr og langt frá að vera fljótfær.

Ekki meira en viku síðar fór ég tímanlega á fætur;

geng út á pallinn framan við húsið, halla mér fram á riðið vestan við pallinn og er að hugsa um það, að víst ætli ég að verða heppinn með veðrið; ég ætlaði að bregða mér til Musquodoboit. Ég sé þá eins og mannsmynd; var sem henni brygði upp undan pallinum þar sem ég stóð; hún líður áfram, ekki hraðara en maður vanalega gengur; ég beið ekki augnablik, heldur flýtti mér á eftir henni, en hún varð fljótari en ég að Rider's fjósinu; þar hvarf hún mér.

Gat það átt sér stað, að einhver óheillaandi ætti heimkynni á þessari hæð? Þrennt hafði komið fyrir, sem var nokkuð dularfullt: Fyrst þegar ég datt byltuna fram undan þessum kofa og mér fannst eins og mér væri hrundið áfram af miklu afli, svo það, sem dóttir mín sá, og nú það, sem ég var sjónarvottur að. Og var það ekki hugsanlegt, að þessi andi hefði verið valdur að dauða kálfsins míns, sem fyrir fám dögum lá dauður í fjósinu einn morgun, þegar ég fór að gefa, og ég gat ekki fundið út, hvað hefði drepið hann?

Víst var um það, að því var trúað heima, að andar gætu valdið skepnum dauða. Fylltur eldmóði miklum, samfara þjóðtrúnni, sem nú náði haldi á mér, sagði ég nokkur orð, og fylgdi þar hugur máli. Eftir það varð einskis vart á Grænavatni, sem dularfullt gæti kallazt.

---

# Jónas J. Hunford

## *LANDNÁM Í ALBERTAHÉRAÐI*

Frumherjar landnámsins í Alberta komu meginlega sunnan og austan frá Norður-Dakota; það voru Íslendingar þeir, sem fyrstir brutu ísinn og efndu til bólstaðar í héraðinu, sem þá blasti við sem eyðimörk, en sem tíminn og mannshendurnar hafa nú breytt í blómlega sveit. Hver myndi þá hafa trúað því, sem úr lítilli fjarlægð gat að líta yfir hina mannlausu, óyrktu auðn, að það yrðu Íslendingar, sem fyrstan og stærstan hlut ættu að því, að hefja þessa óbyggðu, ömurlegu landauðn í það álit, að hún nú eftir liðin 20 ár þyldi sanngjarnan samanburð við aðrar jafngamlar nýlendur Íslendinga. Allir voru þeir fátækir, og það, sem þó var verra, búnir að slíta beztu árunum, kröftum og heilsu, heima á gamla ættlandinu, og svo lúnir og langþjáðir af ferðaslarki og þræidómi í þessari álfu.

Landnám Íslendinga í Alberta byrjaði árið 1888, úr Pembinahéraði, Norður-Dakota. Þó var Ólafur Guðmundson — Goodman — áður fluttur með fjölskyldu sína til Calgary, líklega ári fyrr, 1887, og faðir hans og bræður, sem fluttu litlu síðar en hann og settust þeir að hjá Ólafi. Að öðru leyti verður þessara manna getið síðar, í landnámsþættinum.

Ýmsar voru orsakir til þess, að menn fýstust að flytja burt úr hinu frjósama, gagnauðga Pembinahéraði; ekki var það fyrir þá sök, að mönnum dyldist, að Dakota væri framtíðarinnar auðæfa og hagsældarland, sem líklegt væri til að endurgjalda í ríkulegum mæli erfiði og tilkostnað innbyggjanna; en það var líka séð,

að það tók sinn tíma; tók bæði langan tíma og mikið fé, svo mjög var vafasamt, að sumir myndu standa gegnum það tímabil. —

Allflestir Íslendingar, sem þangað fluttu, bæði frá Nýja Íslandi og heiman frá gamla landinu, höfðu komið þangað, sem næst því, félausir; margir urðu því að hleypa sér í stórskuldir, til að geta unnið löndin. Margir tóku það ráð, að veðsetja óðul sín og jafnvel allt, sem þeir áttu, fyrir stórum peningaupphæðum, til að kaupa vinnudýr og verkfæri til akuryrkju. Lánið fékkst, en með hinum mestu afarkostum, tilgjöfum og okurrentum; og eðlilega gat ekki kornyrkjan, sem þá var í byrjun og barndómi, gefið svo fljótan og ríkulegan arð, að lántakendurnir gætu með nokkrum þolanlegum afkomuvegi sloppið gegnum kúgunarklærnar. Það sýndist vera á þeim tímum lík afstaða fyrir sumum og frændum þeirra kringum 874, annað hvort að gerast ánauðugir þrælar okurfélaga og auðkýfinga, eða flýja í tíma óðul og eignir, og það varð sem fyrrum, að þeir tóku síðari kostinn. — Enn var sú orsök til burtflutninganna úr Dakota, að þangað voru komnir handan um haf ekki svo fáir menn, bæði fjölskyldufeður og einhleypir menn, sem hugðu á landnám nær tímar liðu; en á þeim árum var land mjög numið í Dakota, í grennd við byggðir Íslendinga, það sem nýtilegt þótti; þessum mönnum var því um tvennt að velja: annað hvort að verða seint eða aldrei sjálfstæðir menn, eða leita sér staðfestu í fjarliggjandi héruðum. Og Íslendingar voru enn of hugstórir og kjarkmiklir til þess, að þeim féllust hendur; þeir vildu heldur voga til hins óvissa, en lifa við áþján og ósjálfstæði; þeim hraus hugur við, að ná hvergi fótfestu á jörðunni og gera þannig sig og afkomendur sína að ættlerum; nei, þeir vildu ráða sér sjálfir. — Svo voru nokkrir, sem fundu sér nauðsyn að breyta um, vegna heilsunnar; þeir fundu, að þeir þoldu ekki loftslagið; fundu, að hin löngu

vetrarfrost og hið þurra, fasta meginlandsloft myndi innan fárra ára verða þeim að aldurtila. — Af þessum og fleiri ástæðum hugðu menn á brottflutning úr Dakota.

Í marzmánuði 1888 var skotið á fundi; skyldi þá ræða um burtflutning á næstu vordögum. Á þeim fundi voru nær 30 manns; fluttu þetta mál sérstaklega þeir Ólafur Ólafsson, Espihóli, Einar Jónasson, læknir, og Sigurður J. Björnsson. Sýndu þeir ljóslega fram á, hve horfurnar væru ískyggilegar fyrir ýmsum, að sitja kyrrir, og eigi uggvænt, að svo kæmi ráði sumra hinna fátæku, að þeir losnuðu nauðuglega, ef þeir létu undir höfuð leggjast að hvata ferð sinni eins fljótt og hægt væri. Kom þá svo, að samþykkt var að undirbúa landnámsferð á næsta vori. Var þá rætt um, hvert flytja skyldi; fannst það mjög á, að hugir flestra stefndu vestur um fjöll, til hinnar veðursælu Kyrrahafs-strandar; í hugum manna brosti við hið tignarlega fjölbreytta útsýni, hin vestlæga náttúrufegurð; hið vestlæga haf, fjöllin, dalirnir, firðirnir, víkurnar og vogarnir, allt þetta var sem segulafl, sem dró hugi manna að sér, án þess að menn, þá í svipinn, tækju nægilegt tillit til erfiðleikanna og kostnaðarins, sem óhjákvæmilega hlyti að verða því samfara, að flytja þangað. Eigi þótti samt hinum hyggnari mönnum ráð að binda þetta fastmælum, án þess að senda mann vestur til landskoðunar og annars nauðsynlegs undirbúnings. Skyldi hann ferðast á kostnað þeirra, er hygðu á vesturferð næsta vor. Fundurinn kaus til þeirrar ferðar Sigurð J. Björnsson, sem fúslega gaf kost á sér. Skyldi hann ferðast alla leið vestur að Kyrrahafi, og líta eftir hagkvæmu nýlendusvæði fyrir Íslendinga. Var Sigurði ríkt á lagt, að velja plássið þar sem landkostir væru góðir, og gagnsemi af vötnum og ám, því mest var búizt við í framtíðinni kvikfjárrækt og veiðiskap sem atvinnuveg. Einnig skyldi Sigurður búa í haginn ýms þægindi fyrir vestur-

farana, svo sem með fargjald og fleira. Peninga til ferðarinnar vestur skyldi Sigurður fá, af frjálsum framlögum, og ætlum vér víst, að allir, sem hlut áttu að þessu máli, hafi lagt til sinn pening, þótt oss uggi, að veganesti hans hafi verið rýrara en æskilegt hefði verið. Flestir höfðu þá þröngan skó í peningasökum, og urðu því að sníða stakkinn eftir vextinum.

Sigurður tók sér nokkru síðar far með Norður-Kyrrahafs-brautinni vestur til Vancouver; þaðan hélt hann norður um eyjuna, allt til Nanimo, sem mun vera um þrjú hundruð mílum norður frá Victoria. Ekki mun Sigurður hafa átt kost á, á þeirri leið, að skoða land vítt yfir; en svo sagðist honum frá, að hvergi hefði sér litizt hagkvæmar stöðvar fyrir nýbyggja; og víst var um það, að svo sneri Sigurður aftur austur um, að hann hafði enga ákvörðun tekið um það, að leiða flokk sinn vestur að Kyrrahafi. Sumum mun nú hafa fundizt Sigurður reka slælega sitt erindi þar vestra; en að öllu yfirveguðu sýnist það hafa haft við lítið að styðjast. Sigurð skorti hvorttveggja, fé og tíma, til að svipta sér frá einu plássi til annars þar vestra; og það er víst, í því efni gat hann naumast breytt gagnvart flokk sínum öðruvísi en hann gerði, hvað Kyrrahafsferðina snerti.

Þegar Sigurður kom að vestan til Calgary, fann hann Ólaf Goodman, sem fyrr er nefndur; tóku þeir tal með sér, um vesturflutning Dakotamanna. Ólafur hafði þá, eigi löngu áður, ferðast norður, til að líta eftir landkostum kringum Red Deer ána; leizt honum land þar mjög vel og þar myndi gott nýlendusvæði; kvað hann sér svo hug um segja, að þar myndi vel fallið, að Íslendingar stofnuðu nýlendu. Búinn mun Ólafur hafa verið þá að taka þar land fyrir sig og föður sinn, þó vér ekki kunnum að segja það víst, og hefði svo verið, var mjög eðlilegt, að hann hlynnti að því, að Íslendingar flyttu þar norður um; en slíkt þurfti samt ekki að vera ástæðan, því Ólafur var kunnur að því, að vilja löndum sínum

hið bezta, sem oft gaf raun á. — Hvatti hann nú Sigurð til að fara norður og kanna landið norðan Red Deer árinnar. En hvort sem þeim ráðum var ráðið stutt eða lengi, þá réðist það, að Sigurður færi norður; fékk Ólafur honum til fylgdar bróður sinn, Sigfús Goodman, sem áður hafði farið norður og var því kunnugur leiðinni. Í þeirri ferð skoðaði Sigurður landið norður frá Red Deer ánni, þrjú „township". — Leizt honum land þar hið byggilegasta, og ákvað að fá sett til síðu Townsh. 36, Range 1. og Townsh. 36, R. 2., fyrir íslenzka innflytjendur. Að því framkvæmdu hélt hann aftur til Dakota, og kom þangað fyrstu dagana af maímánuði.

Sigurður hafði frá Calgary ritað ýmsum syðra og sagt hið ljósasta af ferðum sínum. Segir hann þá svo í bréfi til mín: „Mér leizt vel á landið norður frá Red Deer ánni; jarðvegur er þar góður og grösugur; skiftist þar á meginlega plógland og engi, með skógarbeltum hér og þar. Veiði er sögð þar hvívetna í ám og vötnum, og vetrar eru sagðir vera styttri og vægari í Alberta en austur í Manitoba". Þegar Sigurður kom suður úr ferð sinni, höfðu menn selt talsvert af eignum sínum; og þótt mönnum þætti all-illt, að verða að breyta ætlun sinni, að flytja vestur að Kyrrahafi, breyttist þó ekki áform manna að flytja burtu. Sigurður eggjaði menn að flytja vestur til Alberta; kvað sér þar sýnast landkosti góða. Kvaðst hann hugsa, að það pláss væri mjög eftir kröfum Íslendinga og við þeirra skap, að loftslagi, veðráttu og landkostum. Var þá fastmælum bundið, að flytja til Alberta og byrja landnám, á því landsplássi, sem Sigurður hafði skoðað og ákveðið, og í grennd við það. Það var hvorttveggja, að flestir þeir, sem höfðu ráðizt til þessarar farar, voru fátækir menn, og hitt: að eignir þeirra seldust varla fyrir hálfvirði; peningaupphæðir þeirra urðu því harla smáar, til að flytja mörg hundruð mílur, og byrja svo búnað í afskekktu,

önumdu héraði. Sumir voru svo efnalausir, að þeir höfðu lítið meira en fararevri.

Tuttugasta og fjórða maímánaðar 1888 var ferðin byrjuð; fólk og farangur var flutt á hestavögnum norður að landamærum ríkjanna. Í Gretna voru keypt farbréf til Winnipeg, sem kostuðu þrjá dali. Engar lifandi skepnur mátti þá flytja norður yfir landamærin, utan með þeim skildaga að hafa þær í haldi við merkjalínuna 90 daga á eigendanna kostnað, og sáu menn hann lítt kleifan. S. J. Björnsson gaf þær upplýsingar, að nautgripir í Alberta væru í afarverði, eins og síðar gaf raun á. Var því til ráðs tekið að kaupa nokkrar kýr í Gretna og þar í grennd og flytja þær vestur. Voru þá keyptar 12 kýr og einn árungur; verðið á þeim var 20—25 dali hver kýr. Flestar voru kýr þessar magrar og ljótar útlits, og óbættar að kynferði. Svo var leigður járnbrautarvagn fyrir 85 dali, til að flytja þessa nautgripi og farangur manna vestur til Calgary; einn maður hafði frítt far í vagninum til að hirða gripina á ferðinni. — Svo var ferðinni haldið áfram til Winnipeg.

Í Winnipeg urðu menn að dvelja nærfelt tvo sólarhringa, af þeirri ástæðu, að S. J. Björnsson áleit ráðlegast að kaupa þar ýms búsgögn, svo sem matreiðslustór og ýms smærri áhöld; kvaðst hann vita, að allt þesskonar væri dýrara vestur í Calgary, sem þó ekki var í raun og veru, þegar flutningskostnaður var lagður við söluverðið, svo það varð aðeins til fyrirhafnar, en engra hagsbóta; og það ætlum vér óhætt að segja, að slíkt var vanhyggju Sigurðar að kenna. Svo voru menn að heimsækja vini og vandamenn, sem bjuggu í borginni, og kveðja þá. — Þá voru farbréf keypt til Calgary, og fengu vesturfarar þau fyrir hálft verð, 17 dali og 50 cent fyrir fullorðna.

Í hópnum, sem flutti frá Dakota, voru þessir fjölskyldufeður: Sigurður J. Björnsson, Ólafur Ólafsson

frá Espihóli, Benedikt Ólafsson, Einar Jónasson læknir, Sigurður Árnason, Bjarni Jónsson, Jónas J. Hunford, Benedikt Jónsson Bardal, Gísli Jónsson Dalmann. Í ferðinni voru einnig þrír fjölskyldulausir menn: Guðmundur Þorláksson, Jón Guðmundson og Jósef Jónsson. Í Winnipeg keyptu sér einnig far vestur: Jóhann Björnsson, Eyjólfur Helgason og einn einhleypur maður, Jón Einarsson. Frá Winnipeg var lagt á stað 29. maí mánaðar og komið til Calgary aðfaranótt 1. júnímánaðar. Settust menn þá að á innflytjendahúsinu fyrst. Ýmsra ástæðna vegna dvöldu innflytjendurnir í Calgary nokkra daga. Mjög var þá ráð á reiki, og ýmsar voru þá ráðagerðir manna. Vildu sumir setjast að í Calgary-bæ, og sæta atvinnu, sem þá var nokkur í bænum; hinir voru þó fleiri, sem fýstu að flytja norður til fyrirheitna landsins; það urðu líka úrslit þeirra mála, að þeir, sem enn höfðu dálitla peninga, bjuggust til norðurferðar, en til allrar óhamingju sneru að því ráði sumir af þeim, sem varla höfðu til næsta dags, og sem betur hefðu ráðið að sitja kyrrir og búa í haginn fyrir seinni tímann, og til þess réði Ólafur Goodman fastlega. Betur hefði farið, hefði ráðum hans verið hlítt, og máttu hinir fátækari gjalda þeirrar glópsku sinnar lengi síðan. Allir flutningar norður voru þá torsóttir. Engin járnbraut var þá norður um landið, frá Calgary; en loforð um, að hún yrði byggð innan skamms, og gefið í skyn, að hún rynni um það landsvæði, sem Íslendingar ætluðu að nema. Til Red Deer árinnar eru frá Calgary nær 80 mílur vegar, sem þá varð að fara á hestavögnum. Þegar rigningatíð stóð yfir, var vegur þessi lítt fær.— Þeir, sem norður ætluðu að flytja, urðu að leigja mann til að flytja allan farangur sinn, norður að Red Deer á, og kostaði það ærna peninga, sem þá um sinn hefðu verið til annars betur brúkaðir. En svo var það þó ef til vill minnsti kostnaðurinn við þessa ferð. Fyrir þessa menn var eigi um annað að gera en kaupa fleiri pör af

hestum, til að geta bæði komið fram ferðinni, og svo var fyrirsjáanlega ókleift fyrir þessa nýbyggja að eiga engin akdýr. Réðist það þá, að þeir af flokknum, sem helzt höfðu dálitil peningaráð, keyptu þrjú eða fjögur hestapör, aktygi á þau og tilsvarandi vagna, og á þeim skyldi svo flytja fólk, sængurklæði og nauðsynlegan klæðnað til ferðarinnar. Hestar þessir voru smáir, og ekki í góðu útliti, dugðu því síður en skyldi; samt voru þeir afardýrir.

Í Calgary dvaldist mönnum, bæði vegna ýmissa undirbúningsumsvifa og svo rigninga, sem þá voru óvanalega miklar. Nálægt miðjum júnímánuði mun flokkurinn hafa tekið sig upp úr bænum og stefnt á norðurleið. Ferð þessi var bæði torsótt og erfið, og bar til þess einkum tvennt: það, að akdýrin voru illa í standi til þeirrar ferðar og hitt: að vegir voru lítt færir, vegna rigninganna, sem þá gengu. Það var ekki ósjaldan, að öllu yrði að afhlessa, fólki og flutningi; karlmenn urðu að ganga nær því alla leiðina, nema aðeins keyrslumenn. Margsinnis urðu karlmenn að bera kvenfólk og börn yfir verstu foræðin, því annars mundi það hafa gersamlega sokkið. Það var næstum óskiljanlegt, hvað konur og börn entust og héldu lífi og heilsu, því aðbúnaður og meðferð var hin versta, sem hugsast gat. Mann hryllir enn við því, að hugsa til þess, að sjá konurnar ofan á ýmsum flutningi á vögnunum, með barnahópinn utan um sig, oft votar og kaldar; koma svo til náttstaðar og leggjast til hvíldar ofan á blauta og kalda jörðina. Dagleiðir voru stuttar, stundum aðeins 10 mílur. Á sjötta degi náði flokkurinn norður að Red Deer ánni, þar sem síðar var kallaður Mylnubakki. — Urðu menn því harla fegnir, að vera komnir það áleiðis með heilu og höldnu, þótt margt misjafnt hefði á dagana drifið, og menn og skepnur væri þreytt og þjakað. Slógu menn þá upp tjöldum og tóku á sig náðir.

Heldur hafði mönnum fundizt dauft á að líta, á pláss-

inu frá Calgary til Red Deer; aðeins sáust 5 hús á allri þeirri leið, meðfram veginum; í þeim bjuggu menn, sem höfðu setzt þar að, sumir fyrir löngum tíma, mest í þeim tilgangi, að hafa fé út úr ferðamönnum, því sá vegur var fjölfarinn; seldu þeir ýmislegt, sem ferðamenn máttu ekki án vera, og okruðu þeir óspart á þeirri sölu. Yfir að líta mátti segja, að þetta væri auðn ein. Þegar norður dró, nálægt Red Deer, sáust á stöku stöðum til vesturs nýbýli, sunnan litlu Red Deer árinnar, sem rennur frá suðvestri í stóru Red Deer. Það er nú kallað Litlu Red Deer hérað, og er nú fjölbyggt. Hinir fyrstu landnemar þar komu austan úr fylkjum, frá Ontario og víðar, sumir með nokkur efni, enda eru þar sumir orðnir vel efnaðir.

Þótt menn hefðu nú yfirstigið marga örðugleika á þessari leið, sáu menn, að enn var versti farartálminn ósigraður, sá þröskuldurinn, sem þá og lengi eftir það varð nýlendubúum til skaða og örðugleika. Hin geigvæna Red Deer á bauð fólkinu byrginn; nú veltist hún fram í stórflóði svo ægilegu, að annað slíkt sáu menn ekki um næsta áratug. Til norðurs og norðvesturs blasti við hinumegin árinnar fyrirheitna landið, sem Jósúa okkar hafði útvalið, en sem nú var auðn ein yfir að líta. Aðeins var komið eitt íbúðarhús á norðurbakka árinnar; lifði í því einbúi, að nafni L. Zage. — Nú þótti flestum útlitið hið ískyggilegasta; þótt menn fynndi nú ráð til að yfirstíga ána, sem ógnaði með sínu ófsamagni, var þá samt ekki ægilegt að vera hinumegin, að miklu leyti útilokaður frá öllum lífsþægindum og lífsskilyrðum hvítra manna? Hver vissi hvað lengi? Það var ekki ástæðulaust, að sumir hugsuðu líkt þessu. En menn voru líka fullir af fögrum vonum; þá dreymdi um góða og farsæla framtíð, og það meira en nokkuð annað jók mönnum dug og eins og stælti þeirra andlega og líkamlega framsóknarafl. — Mönnum höfðu verið gefnar vonir um, að innan skamms skyldi verða

byggð járnbraut frá Calgary norður til Edmonton; það styrkti líka menn eigi alllítið í þeirri von, að litlu vestar en tjöldin stóðu meðfram ánni var búið að byggja dálitinn kafla undir járnbraut, og eftir því, sýndust líkurnar býsna sterkar, að hin fyrirhugaða járnbraut ætti að byggjast gegnum hið fyrirhugaða nýlendusvæði, eða í grennd við það. Annað, sem þótti styrkja líkurnar, var, að búið var að flytja þangað á bakkann ný vönduð áhöld til sögunar, gufuketil og sagir m. fl., sem Athabaska-félagið átti, og búið að byggja tvö bjálkahús, til íbúðar og geymslu. Í þeim lifði einn maður á kostnað félagsins, til eftirlits á góssi þess. Kvað hann félagið myndi innan skamms byggja mylnuna og taka til starfa. Hugðu menn gott til, að þarna myndi opnast atvinna um langan tíma og tækifæri til að fá sagaðan við í byggingar, en sem reyndust tálvonir einar; mylnan var að vísu byggð seint og síðar meir, en starfaði lítið og stutt, svo mönnum varð að henni lítil hagnaðarbót. Samráða urðu menn um það, að flytja norður yfir ána, en það, sem var nú torveldast, var að koma fólki og fénaði norður yfir ána. Ekki var þarna um báta að tala, sem til flutninga væru færir. Að vísu voru þar við ána tveir smábátar, sem varla voru fyrir nema einn mann, en eigi voru þeir álitleg ferja í stórflóðum; samt fóru Íslendingar oft á þeim yfir ána meðan þeir dvöldu á bakkanum. Þá var það einhverju sinni, að Zage sá, er fyrr er nefndur, kom til móts við Íslendinga; innti hann til við Sigurð Jósúa, að hann fengi sér menn til liðveizlu. Kvaðst hann vetrinum áður hafa fellda bjálka til húsagerða, upp í tungu þeirri, er fram gengur milli ánna Red Deer og Medicine; kvaðst hann mundu setja þá í samfastan fleka, og flota honum síðan eftir ánum ofan móts við bústað sinn; hét hann að launa þessa liðveizlu ósleitilega, sérstaklega með því, að flytja á bjálkaflotanum Íslendinga og búslóð þeirra yfir um ána; lét hann að eigi mundi

það torvelt og talaði um það digurmannlega; kom svo, að Jósúa gein yfir flugu þessari, og hét honum liðveizlu; leitaði hann þá um við menn, hverjir vildu verða til fararinnar. Urðu til þess þeir Benedikt Bardal, Guðmundur Þorláksson, Jón Guðmundsson og Jón Einarsson; urðu þeir vel við kvöð þessari og hugðu með því geta leyst vandræði manna, að komast auðveldlega yfir ána. L. Zage átti hestapar, og sást eigi annað slíkt, því síður betra á þeim árum í Alberta. Það voru tvö merhryssi brún að lit, að öllu hin vænlegustu; það var að ágætum haft, að Zage hefði dregið á þeim frá Calgary 5000 pd. þungt hlass, en um sannleiksgildi þeirrar sögu veit ég ekki víst, hitt vissi ég, að hann treysti þeim mikið og taldi þeim fátt ókleift. — Zage þurfti yfir Medicine ána í tunguna, þangað sem bjálkaviðurinn var; áin var í ægilegu stórflóði, samt hugði Zage að keyra yfir hana á brúnu hryssunum með Íslendingana; það gerði hann með þeim hætti, að allt fór á kaf, óðar en tók frá landi; flæktist þá önnur hryssan í aktygjunum og skall flöt, en hin hryssan dró allt ein á sundinu; stóðu Íslendingar þá í vagninum og tók vatnið þeim undir hendur; allt náði samt miður hagkvæmri lendingu undir bakka, hvar hryssan náði vel niðri; stukku þá mennirnir út úr vagninum, og skáru fjötrin af þeirri hryssunni, sem fallin var; mennirnir stóðu þar í bakkanum og náðu aðeins niðri. Lá þá við, að Zage yrði hugfall, en Íslendingar mæltu ekki æðruorð. Menn og skepnur björguðust upp á bakkann, en eigi varð af framkvæmdum hvað vinnuna áhrærði. Allt, sem Íslendingarnir höfðu, var lífshætta og hrakningar, en annað ekki.

Þegar þessi „Flosaráð“ urðu að engu, tókst að nýju ráðagjörð um það, að fá komizt yfir ána; rigningatíðin stóð enn yfir, svo áin hélzt í stórflóði, og ósýnt var, að hún myndi lækka svo um langan tíma, að hún yrði farin á hestum, með fólk og flutning. Nokkrir höfðu

keypt í félagi dálítið af borðvið í Calgary og flutt hann með sér. Þá var það til ráðs tekið, að byggja flatbáta til flutnings yfir ána úr þeim borðvið, sem til var. Voru þeir Ólafur Ólafsson, B. Bardal og Gísli Dalmann vanir bátasmiðir frá Nýja Íslandi, og tóku því til starfa. Dvöldu menn þarna á bakkanum, meðan á bátssmíðinni stóð.

Það var þriðjudaginn 27. júnímánaðar að flytja skyldi yfir um ána. Báturinn var þá fullgjör; á honum skyldi flytja fólkið, faranguriun og vagnana, og hafa hestana á eftir bátnum, en nautgripina skyldi láta synda yfir. Þetta var gert og tókst óhappalaust, en svaðilför var það mikil á mönnum og skepnum. Þegar öllum flutningum var lokið, var dagur að kveldi kominn, og sváfu menn í tjöldum þá nótt í grennd við bústað Zage.

Þarna voru þá komnir norður fyrir Red Deer 11 fjölskyldufeður og fjórir menn einhleypir. Alls mun fólkið hafa verið samtals 50, eða sem næst því.

Ennfremur var í þeim flokki Guðmundur Jónsson, faðir Ólafs Goodmans, sem kom frá Calgary, en hafði áður fest sér land nyrðra. — Með honum var Jón Jónsson, sem hafði farið úr Dakota veturinn áður, og vann hjá Ó. Goodman; hafði Ólafur fengið hann til fylgdar við föður sinn, og aðstoðar, meðan Guðmundur var að byggja á landi sínu; í þessari ferð festi Jón land fyrir sig og föður sinn, sem þá var enn ókominn frá Dakota; Jón hvarf að því búnu aftur til Calgary og sætti þar atvinnu langan tíma. Kona hans og börn komu með flokknum um vorið frá Dakota. — Næsta dag eftir, 28. júní, fóru menn að litast um; allir voru þá búnir að fá meira en nóg af ferðalaginu, og urðu því fegnir að setjast um kyrrt; dreifðust menn þá og leituðust fyrir, hvar bezt myndi til bólstaðar; höfðu sumir meira umstang fyrir því en þurft hefði, og kom þó ekki heppilega niður, eins og sýndi sig síðar; en dreifingin á þessum fámenna fátæka flokk var til þess, að draga úr þeim litlu

kröftum, sem hann hafði yfir að ráða, og gera líf hinna fátæku nýbýlinga enn erfiðara. Nú eftir 20 ár er sem hrollur fari um mann, að líta til baka og virða fyrir sér ástæðurnar, eins og þær voru þá; að vera komnir með konur og börn, allir eignalitlir, sumir eignalausir, út í þessa auðn, næstum 100 mílur burt frá öllum lífsþægindum, var í mesta máta voðalegt, enda máttu margir lengi gjalda þeirrar fífldirfsku. Og ekki síður er það aðdáunarvert, hve vel rættist fram úr örðugleikunum fyrir flestum af þessum fyrstu landnemum.

Það hefir flestum komið saman um, að rétt væri að telja aldur landnámsins frá 27. júnímánaðar 1888.

# Friðrik J. Bergmann

## *JÓLIN Í BJÁLKAKOFANUM*

Ennþá eru jólin að ganga í garð. Og allir verða þeim fegnir, í þetta sinn eins og ætíð áður. Því það fylgir þeim meiri fögnuður en nokkurri hátíð. Sá fögnuður er svo mikill og almennur, að hér um bil öllum finnst, að byrðin muni verða dálítið léttari á jólunum en endranær. Það muni þá liggja töluvert betur á þeim. Þeir muni þá reyna að vera eins sælir og lukkulegir og þeim er framast unnt.

Hvað þessi fögnuður er dýrmætur, hvað þessi tilhlökkun mannshjartans til einhvers, sem framundan er, er óumræðilega mikils virði. Ekki mættu mennirnir með nokkuru móti verða án jólanna og þess fagnaðar, sem ávallt er þeim samfara.

Það er heilög skylda hvers manns að láta jólafögnuðinn vera sem mestan í hjarta sínu. Og sá maður, sem á mikið af honum hjá sjálfum sér, leitast líka við að gera aðra glaða og ánægða í kringum sig.

Þegar vér berum saman fyrstu jólin, sem vér lifðum í landi þessi, við þau jól, sem nú eru yfir oss að líða, er breytingin orðin býsna mikil. Oss mun flestum finnast jólin fyrstu frumbýlinganna íslenzku vera nokkuð fátækleg. Ef við gætum horft inn í bjálkakofana, eins og þeir voru fyrir árum síðan niðri í Nýja Íslandi, suður í Pembina County í Norður-Dakota, eða vestur í Argyle, mundum vér komast við af þeirri fátækt, sem þá átti sér stað með löndum vorum. Menn voru ekki fjölskrúðugir um þær mundir. En oftast nær höfðu menn allra brýnustu nauðsynjar. Gátu gengið ögn betur til

fara, malað dálitið fleiri kaffibaunir til að láta á könnuna, svo ilmurinn yrði meiri, þegar hellt var í bollann, en á rúmhelgum dögum, þegar maður svolgraði niður kaffið án þess að hugsa nokkura lifandi vitund um keiminn, af því að það var þá ekki neinn tími til þess.

Það var ekki mikið um skrautmuni kringum frumbýlingana á þeim árum. Fjórir bjálkaveggir og einhverju klesst í rifurnar, svo ekki sæist út — alloft því, sem við nú reynum vanalega að hafa sem allra lengst frá húsunum og ekki á almanna færi. Tveir gluggar, annar á miðjum stafni, hinn vanalega á hliðinni, öðruhvoru megin hurðarinnar. Væri bóndinn sérlegur bjargálnamaður, hafði hann ef til vill leyft sér að kosta svo miklu til, að hafa loft í húsinu. Annars var ekkert loft nema raftarnir einir, þakið lágt og oftast nær úr torfi.

Í einu horninu stóð hjónarúmið. En fyrir framan það borðið, sem allir átu mat sinn við, vanalega undir glugganum; þar sem ofurlítil efni voru, var á það breiddur vaxdúkur. Og ef hægt var að kaupa nýjan vaxdúk fyrir jólin, kom svo mikill hátíðisblær yfir þessi fátæklegu híbýli, og það var líkast því að vera kominn í nýtt hús. Einn stóll var vanalega til, en oftast nær var hann meira eða minna fatlaður, svo töluverða varasemi þurfti við að hafa, þegar á hann var sezt, og ekki nema stillingarmönnum hent að hafast þar við til langframa.

Miklu öruggari sæti voru ferðakoffortin íslenzku, sem stóðu hingað og þangað meðfram veggjunum. Þau höfðu samferða orðið frá Íslandi. Þar hafði búslóðinni allri verið komið fyrir, þegar flutt var burt af fósturjörðinni. Það var oftast nær svo mikið við þau haft, að þau voru máluð ýmist fagur-rauð eða fagur-græn. Stundum var nafn eigandans á þau málað með ýmislegri listfagurri leturgerð. Nú stóðu þau hringinn í kring í húsum og voru uppáhaldssæti fólksins og gestanna.

sögunarmylnur, og eins mörg ís- og frystihús á hann og til eru á öllu Íslandi.

Hann þjónar ekki all-fáum embættum, hann Jón. Hann er málafærslumaður í Dakota og Minnesota, og á sæti á löggjafarþinginu í Dakota og Manitoba. Bæði lögregludómari og friðdómari er hann, og sömuleiðis lögregluþjónn og sveitarskrifari. Hann þjónar mörgum brauðum og kennir við ýmsa alþýðuskóla, bæði í Bandaríkjunum og Kanada, og er sömuleiðis kennari við tvo lærða skóla. Hann er og ritstjóri og heldur úti tveimur vikublöðum og þremur mánaðarblöðum. Allra mesti læknir er hann, og fæst við allar greinar læknisfræðinnar, — er tannlæknir í Detroit, og álitinn ágætur hrossalæknir í norðvesturhéruðunum í Canada. Hann er hraðritari og hraðfréttaþjónn, vélstjóri, kapteinn og ljósmyndari, og smiður er hann á tré og alla málma og vinnur því við ýmsar verksmiðjur. Lífs- og eldsábyrgðaragent er hann, og er meðlimur allra merkustu félaga í Kanada, að undanteknum gróðafélögum. Í stuttu máli: hann fæst við allt, og hefir, eins og Enskurinn segir: **„his finger in the pie“**, hvar sem hann kemur. Enginn í öllu landinu er meiri námsmaður en Jón Vesturfari; og við marga hina betri háskóla stundar hann nám, með elju og atorku, og er alstaðar í fremstu röð. Mest les hann guðfræði, læknisfræði og lög, en vísindamaður er hann ekki.

Í innsta eðli sínu er Jón róstugjarn og skapmikill, og þolir illa yfirgang, en hann skeytir sjaldan skapi sínu á öðrum en sínu eigin hyski (löndum sínum), og á aldrei í illdeilum við nokkurn lifandi mann nema sjálfan sig. Hann segir sjálfum sér óspart til syndanna, því hann er maður hygginn og harður. Hann finnur samt framúrskarandi mikið til sín, og getur ekki samþykkt það, að nokkur maður í landinu sé af betra bergi brotinn en hann sjálfur. Hann finnur víkingablóðið ólga í æðum sínum, og gengur því beserksgang í heimahús-

um; en á mannfundum kemur hann prúðmannlega fram, því hann álítur það mikilsvarðandi fyrir sig, að ná hylli annara þjóða manna, — og kemur þar í ljós framsýni hans og hyggni. Hann er sparsamur og meira en það — hann er allt að því að vera nirfill, en hann vill ekki að það berist út um víða veröld. Biddu hann að gefa þér fimm cents handa fátæku ekkjunni með stóra barnahópinn — ekkjunni systur hans; — nei, vertu rólegur, hann á þá ekki fimm cents til í eigu sinni; honum vöknar um augu, þegar þú segir honum sorgarsögu ekkjunnar, og hann leitar í öllum vösum sínum að fimm centum, en þau eru þar þá ekki til í þann svipinn! En þegar heimssýning er haldin — hvar helzt sem er, — þá er Jón þar kominn með fulla vasana af fimm dollars seðlum, sem hann tekur á að eins í lífsnauðsyn. Það er hvorttveggja, að Jón hefir náð centum sínum með súrum sveita, enda nær þeim enginn frá honum, nema með ógurlegustu erfiðismunum.

Jón er allt annað en vinfastur maður, enda reiðir hann sig aldrei á vináttu nokkurs manns. Hann hugsar eins og Goldsmith:

„And what is friendship but a name,  
A charm that lulls to sleep —  
A shade that follows wealth and fame,  
And leaves the wretch to weep“.

Með því að Jón Vesturfari er skapmikill, er honum síður sýndur yfirgangur; og með því að hann ber mikla virðingu fyrir sjálfum sér, bera aðrir virðingu fyrir honum (að nokkru leyti); og með því að hann er löghlýðinn, nær hann hylli allra góðra manna; og vegna þess að hann er ötull, iðjusamur og sparsamur, græðist honum fé á stuttum tíma; og þess vegna er það auðsætt, að hann verður, þegar fram líða stundir, mjög

svo þýðingarmikil persóna í þessu landi. En allt af er hann að verða ólíkari Jóni bróður sínum hinum austræna, og bráðum verður lítið ættarmót með þeim.

## *ENDURMINNINGAR UM STEPHAN G. STEPHANSSON*

Ég man það glöggt, rétt eins og það hefði skeð í gær, er ég sá skáldið Stephan G. Stephansson í fyrsta sinn. Það var að kvöldi hins 6. nóvembermánaðar 1908. Ég átti þá heima í íslenzku nýlendunni, sem á þeim árum var kölluð Marshland-byggð (eða Big Grass). Það haust var Stephan að ferðast um ýmsar byggðir Íslendinga, bæði hér í Kanada og í Bandaríkjunum, og las upp kvæðaflokka eftir sig. Og þetta áminnsta kvöld (þann 6. nóv.) las hann upp þessi kvæði sín í samkomuhúsinu á Big Point. Eggert Jóhannsson, vinur hans, var með honum í þetta skiftið, og ætluðu þeir að ná til Marshland-byggðar þá um nóttina og gista hjá mér. Ég hlakkaði mikið til komu þeirra og ætlaði endilega að vaka um kvöldið, þangað til að þeir kæmu.

Þegar á kvöldið leið, bjó ég um mig á legubekk, en einsetti mér þó að sofna ekki. Ég fór að rifja upp í huganum ýmislegt, sem ég hafði lesið eftir Stephan; og eins fór ég að gjöra mér í hugarlund, hvernig hann væri útlits, eftir mynd þeirri að dæma, sem ég hafði séð af honum. Ég mundi það, að ég hafði séð mynd af honum í „Öldinni" (sem kom út með „Heimskringlu" hér fyrr á árum), og hafði mér jafnan virzt sú mynd benda á það, að Stephan væri mjög fornmannlegur ásýndum og sérlega norrænn í skapi. — Fyrst, þegar ég hafði heyrt hans getið, var hann nefndur Stefán Guðmundsson, og var sagður að vera mikill gáfumaður og efni í gott skáld. En kvæði hans höfðu þó ekki vakið verulega eftirtekt mína, fyrr en þau fóru að birt-

ast í „Öldinni“. — Haustið 1897 fékk ég fyrsta bréfið frá honum, og hefi ég geymt það (og öll önnur bréf, sem hann skrifaði mér) eins og helgan dóm. Mér höfðu æfinlega þótt bréf hans vinsamleg, skemmtileg og stórmerkileg. Og þó mér þætti kvæðin hans frumleg, kraftmikil og skáldleg, þá fannst mér samt bréfin hans og annað, sem hann hafði ritað í óbundnu máli, vera enn þá hugðnæmara og ljúfara fyrir skilning minn. Ég man, hvað ég var hrifinn af köflum þeim, sem hann skrifaði í „Heimskringlu“, hér á árunum, og nefndi „Ar“. Yfir þeim köflum er sérkennilegur snilldarblær, sem bendir á það, að hefði Stephan ritað eingöngu í óbundnu máli, þá hefði honum verið vísað til sætis á hinum æðsta bekk í musteri heimsbókmenntanna, og jafnvel þeir Thackeray og Hugo hefðu setið þar skör lægra; og þar að auki hefði allur hinn menntaði heimur getað lesið ritverk Stephans, af því að hægara hefði verið að þýða það, sem hann hefði ritað í óbundnu en bundnu máli.

Annað var það, sem ég var að hugsa um, á meðan ég beið eftir Stephani, að kvöldi hins 6. nóv. 1908, og það var þetta: Hefði hann orðið annað eins stórskáld — ort eins mikið af tilþrifamiklum ljóðum — ef hann hefði ekki verið bóndi og barizt við þá örðugleika, sem frumbýlingslífið hefir í för með sér? Hefði hann ort önnur eins ljóð og „Við verkalok“, „Saskat-sjúan“ og önnur snilldarkvæði í „Út á víða-vangi“, ef hann hefði verið háskólagenginn embættismaður í stórborg? Og hefði hann ort öll þessi kvæði, ef hann hefði ekki verið bóndi í Alberta?

Og þegar ég var að velta þessu fyrir mér, og renna huganum yfir þau af kvæðum þessum, sem ég hafði lesið, þá fannst mér að Stephan hafa lýst landslaginu í Alberta svo meistaraleg, að ekkert gæti komizt í samjöfnuð við það. Ég sá fjöll og dali, vötn og ár og skóga, þar vestur frá, mjög ljóslega — ekki einungis

sem landslags-myndir, heldur miklu fremur sem lifandi verur. Það var alveg eins og hólar og lautir, lækir og vötn og skógarrunnar, vestur þar, fengi mál og skilning og hreyfiafl, þegar hann snerti hörpu sína. Hann segir, til dæmis, við vatnið:

Svo máðum á sandbotni hvílist þú létt,
og hælunum spyrnir við höfðana djúpt,
og höndunum strýkur við fjöruborð gljúpt".

Og við greniskóginn þetta:

„Þér hefir víst á vetrum þrátt
verið kalt á fótum".

Um lækinn segir hann:

„Mig klæði sem fljótast, mig fýsir að sjá 'ann,
minn forn-vinur gamall og nágranni er 'ann.
Hann læddist svo feiminn um farveg sinn lágan".

Og þá er þessi mynd glögg:

„Hjallinn hár
hnakka-fattur, brattur,
bograr blár".

Eða í kvæðinu „Sumarkvöld í Alberta":

„Og þarna standa hólar
þétt í flokkum frammi.
Með fagurtyppta kolla
yfir grænum hvammi".

Og þá verður Saskatchewanfljótið lifandi:

„Með ættarsvipinn þíns heima-ranns,
ert vala, er segir upp sögu af þjóð,
sem svarlaus þegir og kann þinn óð".

— — — —

„Og kletta hjó hún og sló af slóð,
og sléttu gróf hún, sem fyrir stóð".

Eins er kvæðið „Í bátnum" mér minnistætt:

„Ég vinina fáa en viðfeldna á,
þau vötnin bláu hér norður frá".

Þar er líka skógurinn:

„Á höfðunum lágu hann tyllist á tá
og tifandi smáöldu starir á,
og ljóðar við lá:
„Mér finnst það svo girnilegt, góða mín!
að gægjast í bláu augun þín‘.“

Og svo þetta í sama kvæði:

„Strönd og löndin leggja höndur ljúft í
skaut þitt, sjór,
fjöll á knébeð krjúpa,
klæði bláu hjúpa
djúpra dala kór“.

Vissulega fannst mér að ég sjá allt þetta mjög glöggt. Mér fannst ég sjá alla þessa góðu vini Stephans G. Stephanssonar, allar þessar fögru verur og hollvætti, sem höfðu aukið hljóði í strengi hörpunnar hans og örvað hann til að kveða hin mörgu, þróttmiklu kvæði um náttúrufegurðina í Alberta-fylkinu, sem hann unni hugástum, næstum eins heitt og hann unni Íslandi.

Og þegar ég renndi huganum yfir allt þetta, þá fann ég, að mig varðaði ekkert um það, hvort Stephan væri stór maður vexti, eða ekki; eða hvort hann væri fríður sýnum eða hið gagnstæða; eða hvort hann væri þýður og skemmtilegur í viðmóti eða þögull og þunglyndur. Hvað varðaði mig um það? Því hitt vissi ég (og mér var nóg að vita það), að hinn innri maður hans var tígulegur og göfugur höfðingi — að hann var eitt hið langmesta og einkennilegasta skáld þjóðar sinnar, að fornu og nýju. Það gladdi mig innilega. Og í hjarta mínu var ég skáldinu þakklátur fyrir ljóðin, og bóndanum fyrir skáldið.

Út frá þessum hugleiðingum sofnaði ég, fyrr en mig varði, að kvöldi hins 6. nóv. 1908. En að líkindum hefi ég ekki lengi sofið, þegar ég varð þess var — en hálf óglöggt þó — að ekið var heim að húsinu, og þóttist ég vita, að Guðbrandur Ólafsson Johnson væri kominn með þá Eggert og Stephan, á hinum eldfjörugu hest-

um sínum, því að ég hafði beðið Guðbrand að sækja þá til Big Point. Ég heyrði, að talað var lágt fyrir utan gluggann, og um leið var ekið af stað frá húsinu. Í sömu svipan var klappað á rúðuna í glugganum á herberginu, sem ég var í, því að ég hafði lagt svo fyrir, að það yrði gjört, ef þeir Eggert og Stephan kæmu heim til mín um nóttina. Ég spratt á fætur og gekk að glugganum; og þó ég vissi, hverjir komnir væru, þá kallaði ég út og spurði: „Hverjir eru þar“? „Drengir!“ var svarað í þýðum og glaðlegum rómi. — Fáum augnablikum síðar, var ég búinn að ljúka upp dyrum og bjóða hinum góðu, kærkomnu gestum inn. — Og enn man ég vel eftir því, hvað veðrið var blítt og yndislegt, þetta kvöld, þó svona langt væri liðið á haustið; það hefði mátt kalla það sanna vorblíðu.

Og nú var ég búinn að sjá Stephan G. Stepansson. Og ekki varð ég fyrir neinum vonbrigðum, hvað útlit hans og viðmót áhrærði. Það var langt frá því, að hann væri forneskjulegur og óþýður — heldur einmitt hið gagnstæða. Hann var eins og glaðlyndur æskumaður og lék á als oddi, ef svo mætti að orði kveða. Hann var fremur lítill vexti. Og þó hann væri enginn fríðleiksmaður (í venjulegri merkingu), þá bauð hann af sér svo góðan þokka, og var svo alúðlegur og aðlaðandi, að mér varð undir eins verulega hlýtt til hans. Og að hlýða á tal hans var mér sönn unun ( enda var það í sjálfu sér æðri menntun, að kynnast honum og hlýða á tal hans), og þó minntist hann aldrei, svo ég heyrði, á sinn eigin skáldskap — hafði ekki yfir eitt einasta vísuorð úr kvæðum sínum, nema þegar hann las þau upp á samkomum. Rödd hans þótti mér viðkunnanleg, og hann talaði skýrt og hagaði vel orðum sínum. Og augun hans ljómuðu af eldlegu fjöri, þegar hann talaði um það, sem honum var verulega hugleikið. Og mætti segja um Stephan, það sem dr. Björn M. Olsen sagði um Jón Sigurðsson, að í augum hans hefði mátt lesa

allt hið einkennilegasta í fari hans: „ljúfmennskuna, glaðlyndið, fjörið, viljaþrekið og karlmannslundina, skarpskyggni og dómgreind, hyggindi og viturleik“. — Þannig kom Stephan mér fyrir sjónir strax í fyrsta sinn, er ég sá hann, og ávállt í hvert sinn, er ég sá hann, eftir það.

Að kvöldi hins 7. nóvembermánaðar 1908, las Stephan upp kvæðaflokk eftir sig í samkomuhúsi í Marshlands-byggð, og kallaði hann kvæði þau: „Flutningurinn í nýja húsið“, og eru þau prentuð í „Andvökum“ (þriðja bindi). Aldrei gleymi ég því kvöldi. Ég man það, að Stephan flutti kvæðin svo vel og skýrt og blátt áfram, að ég heyrði hvert einasta orð, og mér fannst ég skilja kvæði þessi mikið betur en ella, vegna þess að hann las þau upp sjálfur. Allir, sem þarna voru staddir það kvöld, virtust hlýða á upplesturinn með mestu eftirtekt; og ég er viss um, að allir hafa farið heim til sín glaðir og ánægðir um nóttina. Og oft hefi ég hugsað um það síðan, hvort það sé annars nokkrum unnt — þrátt fyrir allar listarinnar reglur — að flytja svo kvæði, að aðrir geti skilið það til hlítar, nema sjálfu skáldinu, sem orti það. Að minnsta kosti efa ég það, að ég hefði skilið þessi kvæði Stephans eins vel, ef einhver annar hefði lesið þau þarna upp.

Þann 9. nóv. lögðu þeir Eggert og Stephan á stað áleiðis til Winnipeg, og fór ég með þeim til næstu járnbrautar-stöðvar (Woodside); en þangað ók Jón Austmann með okkur alla í góðum létti-vagni, sem tveir gæðingar gengu fyrir. Og á meðan við vorum á leiðinni suður renni-sléttar grundirnar til Woodside, var Stephan að segja okkur ýmsar íslenzkar þjóðsagnir; og sagði hann svo vel frá, að unun var á að hlýða.

Næst sá ég Stephan G. Stephansson vestur í Vancouver-borg í British Columbia. Það var í febrúarmánuði 1913. Íslendingar í Vancouver höfðu boðið honum þangað vestur, til þess að vera í miðsvetrar-samsæti

því, er íslenzka félagið „Kveldúlfur" (í Vancouver) stofnaði til, þann vetur. Flutti Stephan þar (í samsætinu) kvæðið sitt „Kveldúlfsminni", sem prentað er í „Andvökum" (fjórða bindi), og var kvæðið ágætlega vel flutt. Samkoman var fjölmenn, og var það eitthvert hið rausnarlegasta miðsvetrar-samsæti, sem Íslendingar vestan hafs hafa haldið. Stephan dvaldi um nokkurn tíma í Vancouver, og ferðaðist svo um flestar íslenzkar byggðir á Kyrrahafsströndinni, og var honum alstaðar vel fagnað — Ég heyrði hann flytja kvæðið „Kveldúlfsminni". Ég heyrði hann líka flytja kvæðið, sem hann orti til vinar síns, Eggerts Jóhannssonar. Það kvæði flutti hann í samsæti, sem var haldið í húsi Þorsteins S. Borgfjörðs. Og alltaf bar Stephan kvæðin fram skýrt og blátt áfram. Enn var hann kátur og ljúfmannlegur og lék á als oddi, eins og glaðvær æskumaður. — Sérstaklega man ég eftir því, að hann dáðist að ströndinni. Hún minnti hann á Ísland, að líkindum. Hann segir í kvæðinu „Með fjörum fram":

> „Það var æsku-unun mín að sjá
> út á víði, sveitar-bænum frá —
> Ægir, ég varð fundi þínum feginn!
> Hún er ættgeng þörfin mín á þér.
> Það er líka eins og hugsun hver,
> stígi upp úr hafi hrein og þvegin".

Og svo er líka þetta:

> „ — Hér er alltaf einhverstaðar nær
> Íslendingur, því er mörk og sær,
> borgir og sveitir, kostulegri og kærri".

Þar næst sá ég Stephan vorið 1924. Ég fór í júnímánuði með þeim dr. J. P. Pálssyni og Jóni kaupmanni Hallgrímssyni Goodmundson (frænda mínum) vestur til Markerville í Alberta, til þess að heimsækja Stephan. Ókum við alla leið í bifreið læknisins. Var veður hið

*bezta og vegir góðir.* Við vorum þrjá daga hvora leið, og þrjá sólarhringa dvöldum við hjá Stephani. Mér *þótti fagurt umhorfs í Alberta nýlendunni íslenzku.* Og ánægjulegt var að heimsækja Stephan og fólkið hans — konuna hans og börnin — sem tók okkur með opnum örmum gestrisninnar. Við gengum stundum með Stephani út um engi og haga, yfir hóla og lautir. Og ég renndi oft augunum vestur til fjallanna, þó þau væru oft hulin þoku, þá daga, sem ég dvaldi þar. En áin Huld (Medicine River) rann í ótal bugðum gegnum nýlenduna og minnti mig á kvæðið „Hirðinginn", og fleiri kvæði Stephans. Huld er eins og lækurinn í kvæðinu hans Tennysons: hún heldur ávallt áfram, þó mennirnir komi og fari. — Eitt kvöldið sýndi Stephan okkur grafreit fólksins síns, og benti hann mér á þann reit, er hann ætlaði sér — í norðaustur-horni garðsins. Ég spurði hann, af hverju að hann hefði valið þennan sérstaka blett handa sér. „Af því ég vil vera sem allra næst Íslandi", svaraði hann. — Þegar við (dr. Pálsson, Jón og ég) lögðum á stað heimleiðis, þá fylgdi hann okkur til Innisfail (um 16 mílur) og kvaddi okkur þar. *Þá fann ég betur en nokkru sinni áður, hversu norrænn hann var í anda.* — Ég hefi heyrt marga tala um það, *hversu sönn og á háu stigi að gestrisni hans hafi* verið, og hvílíkur höfðingi hann hafi verið í lund.

Aftur sá ég Stephan *sumarið 1926, bæði hér í* Elfros og í Winnipeg. Það sumar dvaldi hann fáa daga hér, og var þá gestur vinar síns dr. Jóhannesar P. Pálssonar. Og þó Stephan væri þá kominn á áttræðis-aldur og heilsan mjög biluð, þá var hann enn ungur og hress í anda, alveg eins og hann var haustið 1908, þegar ég sá hann fyrst. Enn var sönn unun að hlýða á tal hans, og enn var minnið hans svo gott og traust, að hann gat farið með dýrar og fornyrtar vísur utanbókar, án þess að honum fipaðist. — — Ég sá hann í síðasta sinn þann 11. ágústmánaðar 1926. Hann var þá í þann veginn að

leggja af stað heimleiðis frá Elfros, og kom yfir í hús mitt, til þess að kveðja okkur (konuna mína og mig). Ég man, að hann var kátur og léttur í lund og lék við hvern sinn fingur eins og elskulegt ungmenni. — — Ári síðar (eða að kvöldi hins 10. ág. 1927) heyrði ég þá harmafregn, að hann væri dáinn. Síðan eru nú réttir fjórir mánuðir; og á þeim tíma hefir verið meira um hann talað, og meira um hann ritað, en um nokkurn annan Íslending í Vesturheimi. Og flestir (eða allir) eru á sama máli um það, að hann hafi verið vitmaður með afbrigðum og voldugt skáld. — En vinirnir hans góðu, sem kynntust honum lengst og þekktu hann bezt og skildu hann rétt, vita það, að þó hann væri mikill vitmaður og eitt hið langmesta og stórvirkasta skáld þjóðar sinnar, þá var hann samt enn meiri sem mannkostamaður og mannvinur.

Elfros, Sask. 10. des. 1927.

# Jóhannes P. Pálsson

## STEPHAN G. STEPHANSSON
*(Nokkur orð um skáldið og manninn).*

Að ég hefi færzt í fang að rita nokkur orð um Stephan G Stephansson, kemur ekki til af því, að ég þykist verkinu vaxinn eða búist við að komast þangað með tærnar, sem ýmsir íslenzkir menntamenn ná með hælana. Auk þess trúi ég því fastlega, sem Voltaire segir: „Ég held, að tvær blaðsíður, sem sýnishorn af andans fegurð stórskáldanna, séu miklu meira virði en allt lofið, sem eftir þá er skrifað“. Ástæðan fyrir línum þessum er öllu fremur sú, að mér er ljúft að minnast mannsins ekki síður en skáldsins; því mér finnst ég eiga báðum mikið upp að inna. Ekki er heldur óhugsandi að þeir, sem skyggnast vilja inn í skapgerð Stephans, þegar árin líða, verði þakklátir þeim, sem voru honum sammála og samferða og sem að einhverju leyti létu í ljós skilning sinn á honum. Svo má varla minna vera en við, sem skiljum hann að einhverju leyti og njótum verka hans, gerum okkar ýtrasta til þess að vekja athygli hinna, og auka skilning þeirra á ljóðum hans; því svo er um fjársjóð þann, er hann arfleiddi heiminn að, að hann ávaxtast því meir sem fleiri njóta hans. Og ég trúi því, að margir, sem áttuðu sig ekki á þessu andans trölli, meðan hann dvaldi meðal okkar, eigi eftir að sitja í auðmýkt við fótaskör hans og læra:

„Að tekjulaust er gullið vits og vona,
að vita það, en leita og grafa þó,
og þykjast aldrei nema af því nóg,
oss finnst það heimskt — en samt er það nú svona:

þá eignin manna öll er reidd til þings,
og erfða-minning skiftir sanngjarn dauðinn,
við kysum sögu-sæti Þveræings
oss sjálfum fyrr en Möðruvalla-auðinn".

Ég var svo heppinn að kynnast Stephani persónulega, og ég dáðist ekkert minna að honum sjálfum, en ljóðunum hans, enda munu fá skáld hafa komið eins oft til dyranna eins og þeir voru klæddir, sem hann. Það, sem mér fannst mest áberandi, í viðkynning við hann, var skarpskyggni hans, góðmennska, hreinskilni og víðtæk þekking á öllum sviðum bæði að fornu og nýju. Til dæmis komst ég að því, að hann hafði glöggva hugmynd um líkamsbygging mannsins og nefndi líffærin nöfnum, sem vísindamenn hafa gefið þeim. Og svo var hann harður, eins og Íslendingar kalla það, að hann henti stundum gaman að þeim kvillum sínum, sem drógu hann til bana. Og þessi sérkenni hans koma ávallt og alstaðar fram í kvæðum hans; og er því ekki að furða, þó sumum finnist ljóð hans erfið aðgöngu, sér í lagi þeim, sem vanir eru við andlegt léttmeti. Þó held ég, að í framtíðinni verði það talinn sómi fyrir núlifandi Íslendinga, hversu margir þeirra skildu Stephan og unnu honum.

Við að athuga æfiferil Stephans G. Stephanssonar, styrkist sú trú manna, að ljóð hans eigi langa og fagra framtíð fyrir höndum. Þroski hans sem skálds, frá hagmælsku óbreytts unglings til andríkis og snilldar stórskáldsins, var eins hægfara eins og hann var ákveðinn. Hér var móðir Náttúra að verki, eins og þegar hún vandar sig mest. List Stephans blossaði ekki upp á himni íslenzkra bókmennta allt í einu, eins og lofteldur. Miklu fremur líktist hún óþekktri stjörnu í ljósaskiftunum, í fyrstu svo óglögg, að þeir einir eygðu hana, sem hvassa sjón áttu. En smátt og smátt skýrðist hún, og aldrei ljómaði hún skærar en þegar myrkur heimskunnar grúfði svartast yfir vestrænni menningu.

Mörgum þeim samtíðarmönnum Stephans, sem skaparinn hafði blásið í brjóst neista skáldgáfunnar, uxu fjaðrir í heimkynnum bókmennta og lista, en auður og aðall blésu þeim byr undir báða vængi. Má þó svo að orði kveða: að flug sumra þeirra nam ekki hærra en steinkastalar auðvaldsins, að þeir komust aldrei út úr rykmekki skrílsmenningarinnar. En Stephan lá við barm náttúrunnar og safnaði kröftum „úti á víðavangi", unz hann náði taumhaldi á sjálfum Pegasus, og eins og Þorsteinn:

„Hann fór því hirðlofsins van,
hristandi af vængjunum böndin".

Margvíslegar torfærur liggja á vegi listamannsins, en engar hatramlegri en þær, sem hann skapar sér sjálfur með því, að virða „hirðlofið" að vettugi. En svo fer jafnan fyrir þeim — í svip að minnsta kosti — sem hrista af vængjunum böndin, og láta sannleikann gera sig frjálsa. Og svo frjáls var Stephan, að hann kvað upp úr, nær honum sýndist, hvort sem í hlut átti eitt ómenni, eða heilt stórveldi, hvort sem hann stóð einn uppi, eða hann átti heila sveit góðra manna að baki sér. Margir, sem dá þetta lundareinkenni eins og það lýsti sér hjá fornmönnum, lágu Stephani á hálsi fyrir að sverja sig í ætt við forfeðurna, og töldu einbeitni hans og djörfung vera einstrengingshátt og stórbokkaskap. Ekkert er fjær sanni en bregða Stephani um þessa bresti. — Þegar véfréttin gerði upp milli grískra gáfumanna, og kvað Sókrates vitrastan þeirra, segir sagan, að hann hafi með engu móti skilið þetta fyrr en hann komst á snoðir um, að hann var sá maðurinn í Aþenuborg, er sárast fann til fákunnáttu sinnar. — Ég hygg, að hið þróttmikla, andvaka vit Stephans hafi átt að sumu leyti rót sína að rekja að sömu upptökum eins og vizka gríska spekingsins. Þessi auðmýkt andans auðkennir alla þá, sem hrundið hafa mannkyninu upp úr myrkradjúpi fáfræði og hjátrúar í áttina til ljósari

þekkingar á tilverunni. Og Stephan átti hana í ríkum mæli. „Þetta er það sannasta og réttasta, sem ég veit“, sagði hann eitt sinn við mig, og bætti svo við brosandi: „en ég veit líka, að það er ekki alveg satt“. Mér kom þetta á óvart. Það er óvanalegt, að maður, sem flytur mál sitt af þeim sannfæringar-krafti, sem Stephan gerir, þykist viss um, að hann fari í ýmsu villur vegar. En mér datt í hug kvæðið hans „Hvað er sannleikur?“

„Því sannleikur 'vor, óyggjandi og allur,
er ástand vort — en ekki véfrétt nokkur“.

Og ástand okkar breytist með hverju líðandi augnabliki. Eitthvað á þessa leið svaraði ég honum, og án þess að við ræddum þetta frekar, fannst mér ég skilja hann í það skiftið. Ég bað hann að fara með allt kvæðið fyrir mig, en hann breytti umtalsefninu. Og aldrei fékk ég hann til að fara með vísu eftir sig. Honum virtist heldur ekki kært, að talað væri við hann um ljóð hans, nema ef hann varð þess var, að þau juku skilning manns á skoðunum hans og áhugamálum. Enda mun hann hafa kunnað lítið utanbókar eftir sjálfan sig. „Þetta rugl mitt“, var hann vanur að kalla kvæðin sín. Það voru ekki ljóðabækur hans né skáldfrægð, sem hann bar fyrir brjósti, heldur stefnur þær og straumar, sem hann helgaði vit sitt, snilld og manndóm. Hann leit ekki stærra á sig en svo, að hann kveið því, að ljóð sín, sem listaverk, yrðu einhverntíma léttvæg fundin, og reyndust þeim fótakefli, sem höfðu-nefnt þau meistaraverk. Ef einhver gaf honum í skyn, að hann stæði of hátt, til þess að svara sumum þeim, sem af flónsku sinni eða fordómum atyrtu hann, tók hann því úrstinnt. „Það er góðra gjalda vert, að þeir lesa þetta vísna-rugl mitt“, sagði hann einu sinni. „Þeir hafa þá ástæðu til að úthúða mér fyrir það, sem þeim finnst vera meinlokur mínar; og þó ekki væri nema kurteisi vegna, verð ég að kannast við þá. Annars hefi ég gaman af körlunum; og mér er vel við þá“. Honum var að þessu

sinni bent á, að hann væri stundum ærið napur i garð þessara „karla". „Það er þá klaufaskap minum að kenna", sagði Stephan. „Mér er vel til allra manna, en mér er meinilla við þá strauma, sem sumir láta berast með". — Þannig er þá maðurinn, sem borinn var út fyrir stórbokkaskap og þvergirðing! Annars var það með Stephan G. Stephansson eins og önnur andans mikilmenni: Eftir því, sem betur eru athugaðir þeir lestir, er samtið hans laug á hann, því meir vex hann i augum óvilhallra manna, unz;

„Hann stendur sem hreystinnar heilaga mynd,
og hreinskilnin, klöppuð úr bergi".

Þá var Stephani oft brugðið um bölsýni, hvað svo sem það orð þýðir i hugum þeirra, sem nota það sem nýtt heiti á Grýlu. Sjálfur hefi ég aldrei kynnzt lifsglaðari manni en Stephani. Ég held lika, að lengi megi leita i ljóðasafni hans eftir einni einustu hending, sem ber vott um víl eða vonleysi. Satt er það, að hann dregur oft upp átakanlegar mannlifsmyndir, og beitir þar stundum göldrum og gerningum dramatiskrar snilldar, eins og t. d. i kvæðunum: „Aftaka óeirðarmannsins", „Transvaal" og „Vígslóði". En hvergi barmar hann sér yfir óförum lifsins. Alstaðar birtist trú hans á sigur þess i baráttunni — upp úr óskapnaðinum til eilifrar fullkomnunar. Hversu illa sem mennirnir eru leiknir i dag, sökum heimsku þeirra, vonar Stephan betri tiðar á morgun. Og trú hans — sem kallaður var trúleysingi — er tröllatrú. Þar, eins og i öðrum efnum, ber hann höfuð og herðar yfir samtið sína. Við þetta kannast allir lærisveinar Stephans, og nægir hér að gefa litið dæmi. Þegar Bolshevikar brutust til valda á Rússlandi, stóð allur hinn svokallaði menntaði heimur á öndinni, og fór ekki i neina launkofa með óbeit þá og vantraust, sem „orthodox" hagfræði, trú og stjórnkænska báru til þeirra Bolshevika. Þjóðhöfðingjar á Vesturlöndum skulfu á beinunum af ótta, litilsigldur

almúginn sá ekki annað fyrir höndum, en úti væri um allt gott og heilagt í heimi hér. Viðurstyggð eyðileggingarinnar blasti við. Bolsheviki var vöndur í höndum djöfulsins, og með honum mundi sá gamli sópa burt af jörðunni heimilinu, kirkjunni, stjórnmennskunni, réttarfarinu — allri siðmenningunni eins og hún lagði sig. Stephan horfir á leikinn og lætur ekki glepjast, hvorki fyrir hræðsluóp né bölbænir. En hann spyr stillilega:

„Er til ríkis kominn kannske
karlssonur úr Garðshorninu?

— — — — —

Er hann heims úr böli boginn,
blóðugur að rísa og hækka,
múginn vorn að máttkva, stækka?
Sannleiksvottur, lýtum loginn!
ljós, sem fyrir hundrað árum
Frakkar slökktu í sínum sárum?
Lítil-magnans morgunroði?
Fót-troðinna friðarboði?"

Og enn spyr andi Stephans vonglaður, trúaður. Spurningunum svarar framtíðin. Þó er nú þegar viðurkennt af sumum gáfuðustu mönnum, sem nú eru uppi, að þetta uppátæki hinna svokölluðu Bolshevika sé sú tilraun, er hljóti að verða mannkyninu til ómetanlegrar blessunar. Og þegar ég nú skrifa þessar línur, liggur dagblað á borðinu hjá mér, með þessum ummælum helzta stjórnmálaskörungs Breta: „Og þegar rússneska stjórnin er búin að koma á skipulagi heima fyrir, verður þjóðin nær því, að vera ósigrandi, en nokkur önnur þjóð í heimi".

Trúmennirnir segja, að trúin eigi að bjarga okkur í mótlætinu og lýsa mönnunum í gegnum þennan dauðans skuggadal. Trú Stephans var ljós á leið hans. Stundum hefir „rétttrúnaðinum" sjálfsagt fundizt afskifti Stephans af þeim gamla fremur gaman en alvara. Satt

er það, að Stephan var stundum fremur léttúðugur í garð kölska, þegar hann kom fram í skrípa-gerfi því, sem miðaldakirkjan skrýddi hann. Stephani hefir víst fundizt karlinn þá vera í fríi, og gerðist glettinn:

„Fyrir öllu eldra sér
skal ungur lotning bera —
lastaðu ekki Lúcifer,
láttu karlinn vera".

Vilaskuld má draga fleira út úr vísunni, en glettur til þess gamla! Og eins er með kvæði hans „Kölski í skáninni".

En þegar djöfullinn kemur í hversdags-fötunum — gervi heimskunnar — kveður við annan tón hjá Stephani. Þá leggst hann á bæn til mannlegra vitsmuna, steypir ljósi skáldgáfu sinnar og skilnings yfir mannlífið, hlífir engum, hvorki mönnum né málefnum. Hann rífur þá úr rekkju, sem sofa andlegum svefni, og lemur á þeim, sem liggja fyrir í skálkaskjóli nýtízku og gamalvana, kallar leysing og bylting í lið með sér, gefur andskota mannkynsins — heimskunni — engin grið, verður Jón Vídalín okkar tíma:

„Upp mót kúgun, eymd og spilling,
öld þá byltist líkt og haf.
Látum alla lyga gylling
leirnum mannlífs skolast af.
Hræðumst ei þó hrynji og falli
heimsku guð af vanans stalli.
Fyrst vor trú á þau er þrotin,
þau mega gjarnan liggja brotin!
Trú, sem barst, er brást í nauð
björg, sem væntum hjálparsnauð".

Jafnan hafa gröf og dauði ástvinanna verið álitin eldraun trúarinnar. Athugum nú, hvernig Stephan mætir sorginni. Sjáum til, hvort trú hans, sem kölluð hefir verið trúleysi, bjargar honum. Við líkbörur sonar síns, sem sleginn var af eldingu, kveður hann:

„Já, nú er vægð að vita á því grein,
að var ei það, er laust þig svona, kæri,
neitt skynbært vald, er vilji neinu mein,
né venji á gott, með slys sem tækifæri!
Því grimmdarverkin, hvað helzt sem þeir kenna —
í hverju hjarta sviðaheitast brenna.

— —

Og hægra er við skeð að sætta sig,
ef sitja ei hræðsla og refsing öllum megin.

— — — —

Ég kveð þig ugglaus. En ég til þess finn
um alla þá, sem harm um lát þitt bera,
að geta ei borið meira en hlutann minn
af mæðu þeirra: án þín nú að vera —
til æfiloka á ég til þess merki
þú ert hjá mér, í ljóði mínu og verki".

Einnig langar mig til að vísa til hinna mörgu kvæða, sem Stephan orti eftir látna vini. Þau bera með sér, að hann var tryggur og tilfinningaríkur langt fram yfir það, er almennt gerist; og varð því sársaukinn við fráfall vinanna þeim mun átakanlegri. En trú hans á heilbrigt mannvit og tilgang lífsins styrkti hann í sorginni. Og í stað þess, að sjá einhvern refsiguð yfir moldum liðinna ástvina, blasti lífið við honum, heilt og óskift, gott og blessað í sigurför sinni út úr óskapnaðinum. Fyrir ljósi skynseminnar hvarf grafarmyrkrið, því í sjálfum dauðanum er lífið enn að verki. Og frá gröfinni gekk hann í hátign norræns manndóms, sem ekkert hræðist og biður sér aldrei griða.

„Og ekki var hugsjón hans hegning né laun,
nei, hún var alls manngöfgis sjálfskylduraun".

Ekki var langt frá því, að Stephan væri, um eitt skeið álitinn landráðamaður. Þó þekki ég engin ættjarðarljóð hugljúfari, þróttmeiri og fegurri en sum kvæði Stephans. Aðferð hans var, hér sem víðar, önnur en sú, er maður á að venjast. Ást hans á landi og þjóð var ást

hans á jörðunni, gjörvöllu mannkyni. Og sú ást var svo rík og rót-tæk, að hún læðist út í hendingum hans, þegar minnst varir. Aldrei verður hann svo hrifinn af tign og fegurð náttúrunnar, að mennirnir gleymist honum. Hér, eins og ætíð, er hann í fullu samræmi við lífsskoðun sína: að lífið og náttúran sé ein óslitin heild. Fegurstu náttúru-lýsingar Stephans hlaupa upp í fangið á manni, sem dæmisögur goðborins spámanns, til dæmis:

„Öll fjöll voru gaddhvít, og grimmlegust þau,
sem gnæfðu yfir byggðinni hæst.
— Á jökla þá leggur ið harðasta hjarn,
sem himninum teygja sig næst".

— Eða smákvæðið „Sóllaukur". Margt skáld hefði gert sig ánægt með þá nákvæmni í lýsing og snilld í máli, sem kemur fram í ljóðinu um litla „angurgapann", og látið þar við sitja; en hjá Stephani verður það að eftirmæli eftir „óþekkta hermanninn", sem vakað hefir, strítt og fallið í liði þeirra vormanna, sem geta tekið undir með skáldinu:

„Um stund skal við andviðrin una
með áhuga þorsins,
til dýrðlegu daganna muna
og dreyma til vorsins".

Og þó er ást Stephans á landinu, móður jörð, svo hjartfólgin, að hann getur ekki hugsað sér, að nokkur maður vonist eftir því himnaríki, sem ekki ber svip fósturjarðarinnar:

„Fjarst í eilífðar útsæ
vakir eylendan þín:
nóttlaus vor-aldar veröld
þar sem víðsýnið skín".

Hér gefst ekki rúm til að fara mörgum orðum um þau kvæði, sem Stephan orti fyrir minnum landa og þjóða. Enda nægir eitt þeirra til að gera grein fyrir „föðurlandsást" hans. Og ég ætla í því sambandi að

benda á kvæðið hans „Undir íslenzkum fána". Út úr hverri línu þessa fegursta ættjarðar-óðs, sem ég hefi lesið, skín djúp og heit ást til heimilis, vandamanna og heimalands, en um fram allt gætir mannúðarinnar og góðviljans í garð *allra* manna:

„Yppstu á ólgandi sænum
sem orðsending hvatleg frá bróður til bróður".

Hver biður þjóð sinni meiri blessunar en að fáninn hennar tákni bróðurkveðju til hvers farmanns á fjörðum inni eða í útsænum? Ætlan mín er sú, að þetta sé hinn eini þjóðsöngur, sem enn hefir kveðinn verið, svo úr garði gerður, að hver þjóð, sem er, gæti sungið hann sér og öllum heiminum til blessunar, án þess að breyta hugtaki eins einasta orðs. Svona mikill föðurlandsvinur var Stephan, að öll jörðin var hans föðurland, og hann gat aldrei markað sér bás með þeim, sem ekki sjá út fyrir landsteinana.

— — — —

Þó Stephan ætti vald á öllum blæbrigðum íslenzkrar tungu, lét hann aldrei blekkjast af hljómfegurð hennar né sló hann landi og lýð gullhamra í eintómri hrynjandi glamuryrða. Manna bezt kunni hann að meta manngildi forfeðranna, en missti þó aldrei sjónar á stórmennum samtíðar sinnar. Vafurlogar fornaldarinnar urðu honum aldrei að villiljósum, en hann leitaðist ávallt við, að lýsa með þeim samtíð sinni. Á þjóðhátíðum sleppti hann sér aldrei út í algleymi ímyndaðrar dýrðar og fullkomnunar lands og lýðs. Jafnan lagði hann á met skynseminnar hvert málefni lands og þjóðar, og leitast við að sýna, hversu mikla blessun eða bölvun það hefði í för með sér fyrir sveitina hans — alla jörðina, fyrir þjóðina hans, mannkynið. Og í þessu sýndi hann jafnan hugprýði þess manns, sem er ætíð reiðubúinn að leggja lífið í sölurnar fyrir föðurlandið, því sú var tíðin jafnvel að:

„Stærsta huga þurfti þá,
að þora að sitja hjá".

Væru Englendingar yfirleitt þeir menn að lesa og skilja norræna tungu, hefðu þeir efalaust hneppt Stephan í fangelsi fyrir að kveða „Vígslóða". Þá vann hann sér fjandskap sumra vina sinna, en um leið þann orðstír, sem vex með degi hverjum, eftir því sem heræðið sljákkar og mennirnir leyfa óbrjálaðri skynsémi að skera úr um þá rangsleitni, sem lá til grundvallar fyrir upptökum styrjaldarinnar miklu. „Give till it hurts", sögðu þeir á stríðsárunum. Stephan gaf heiminum „Vígslóða", og að líkindum ekki alveg sársaukalaust. Og um það dæmir framtíðin, hve stór gjöfin er og höfðingleg. — Þetta er þá *landráðamaðurinn* eða *föðurlandsvinurinn*, allt eftir útsýni og innræti þess, sem orðin notar.

Kaldlyndi Stephans hefir oft verið við brugðið, og jafnan hefir sú athugun fylgt með, að hann gæti verið mikill vitmaður, án þess að vera skáld. „Enginn varnar honum vitsins", hafa þessir sjálfkjörnu dómarar sagt, og fundizt talsvert um sína eigin speki. En skáld — nú, það var annað mál. Annaðhvort hafa þeir ekki lesið „Andvökur", eða þeir mæla gáfu skáldsins eftir grátgusum og ástarblossum, sem þeir finna ekki í ljóðum hans, verða svo ekki á annan hátt varir viðkvæmni hans og blíðu.

Tilfinningar Stephans blossa aldrei upp, né kólna út, á einu augnabliki. Þær koma fram í kvæðum hans og lifi eins og vermandi bjarmi, ljós, sem aldrei blaktir á skari, ylur, sem aldrei kulnar. Eftir þessu tók ég fyrst, þegar ég las kvæðið „Kurly":

„Við sáumst ei tíðar. — Er lækkar á leið
in lágfleyga desembersól,
þú árlega heimsækir huga minn þó
og heimtar 'ann til þín um jól.

Ég spyr ei til leiðar — neinn vísar mér veg
né velur þar betur en ég.
Þitt hérað er draumland mitt, hús þitt mín spá,
og hugurinn ratar þann veg.

— — — — — — —

Í gröf þína, Kurlý mín! kveð ég um jól,
í kot þitt, í höll þína inn.
Í fásinni áranna ekki er þér gleymt,
því enn er ég riddarinn þinn".

Um tildrög kvæðisins segir höfundurinn mér þetta: Stuttu eftir að hann kom að heiman var hann vinnumaður hjá bóndahjónum í Wisconsin-ríki. Þau áttu sex ára dóttur, fallega og hrokkinhærða, sem hændist svo að útlendingnum, að hún kaus oft heldur að vera hjá honum en foreldrum sínum. Í vistarlok kvaddi hann húsbændur sína árla morguns, löngu fyrir vanalegan fótaferðartíma „Kurlý"; en þegar Stephan var að ganga úr hlaði, snaraðist „Kurlý" út úr bæjardyrunum, stökk upp í fang hans og þrýsti höfði hans að barmi sínum: „So you were going away, Steve, without saying good-bye to Curly?"

Eftir það sá Stephan hana aldrei. En tuttugu til þrjátíu árum síðar orti hann snilldarkvæðið um litlu kærustuna sína; og tuttugu og þremur árum eftir það fann ég, að enn lagði ylinn frá eldinum, sem litli enski óvitinn hafði tendrað í hjarta útlendingsins.

Þá hefi ég heyrt menn segja, að kaldlyndi Stephans sýndi sig í því, að ekki liggi nein ástarljóð eftir hann. Að líkindum hafa þeir hinir sömu ekki komið auga á kvæði hans „Mansöngur". Það mun óþarft, að leita í ljóðum Stephans eftir ópum æstrar kynhvatar. Tilfinningalíf hans var svo margþætt, og samræmi þess svo fullkomið, að þar fekk engin ein tilhneiging að sitja að völdum. Fyrir ríki hjarta hans réði einvaldsdrottning — mannvizkan. Og undir stjórn hennar urðu tilfinningar og hvatir siðaðar, án þess að sofna, hraust-

ar án hæmstola æðis. Ekkert af kvæðum Stephans ber ljósari vott þess, hversu mikla rækt hann lagði við tilfinningar hins breyska mannshjarta, en „Mansöngur“. Og þegar tímar líða fram og meiri festa og jafnvægi kemst á skapgerð mannanna, finnst mér ekki ótrúlegt, að fleiri ástarkvæði verði ort í líkum anda og „Mansöngur“. Enda trúði Stephan mér fyrir því, að stúlkan, sem hann orti kvæðið til, var *hans eigin hugsjón*.

Af því ég hefi enn ekki séð neitt ritað um þennan þátt í sálarlífi Stephans, né skoðanir hans á kynmálum, sem nú er mest fjallað um, langar mig til að orðlengja hér ofurlítið. Í ritgerð sinni „Jökulgöngur“, segir hann frá því, að hann hafi eitt sinn verið „staddur við sveitasýning, hérna vestan hafs. Þangað kom múgur og margmenni af vænu og velbúnu fólki. Það ætlaði að skemmta sér við eintóm búpeningsþing — furðulega feit svín, og uxa af aðalsnautaættum. — — Mér varð það minnisstætt, sökum orðanna, sem einhver svaraði mér þarna. Ég hafði sagt eitthvert hrósyrði um manninn, sem mesta virðinguna hlaut, tók við flestum verðlaununum, og varð einskonar konungur dýranna í kvíunum. „Ojæja“, laumaði einhver náungi að mér, sem nálægt stóð, „en eg veit varla hvað segja skal, þegar sjálfur fósturfaðirinn er verst ræktaða skepnan í hjörðinni“. Þessu hefi ég aldrei gleymt. — — Hér var saman komin öll sveitaráhyggjan“.

Það fer varla hjá því, að Stephan hafi órað fyrir því, að kynval sé nauðsynlegt mönnum eigi síður en skepnum. En „Mansöng“ lét hann eftir sig, svo ekki yrði um villzt, að höfuð og hjarta ættu að starfa saman í þeim mannbótum, sem nú þegar hefir sumstaðar lagzt til nokkur köld lagaákvæði. Aftur á móti var hann fráhverfur hinni svokölluðu Freud-stefnu — að kynhvötin ráði beinlínis eða óbeinlínis öllum hugsunum, orðum og gerðum mannanna; og honum féll miður, að

mörg af yngri og efnilegri skáldum Íslands virtust leggja allmikið upp úr þessari kenningu.

Sökum frumleika Stephans er erfitt að bera hann saman við önnur skáld. En við hverja tilraun í þá átt, vex hann í vitund manns. T. d. er allmargt skylt með honum og Robert Burns. Báðir voru fátækir bóndamenn, báðir sjálfmenntaðir, báðir einarðir talsmenn lítilmagnans; báðir alfrjálsir í skoðunum. Tungan hlýddi báðum eins og gott barn. En hér stóð Stephan betur að vígi; því það mál, sem Burns orti á, hversu lífs-lifandi sem það varð í ljóðum hans, má teljast hrognamál í samanburði við íslenzkuna. Enda er það eitt af afreksverkum Stephans, hversu íslenzk tunga hefir auðgazt fyrir andagift hans og orðlægni. En þá skilur alveg með þeim Burns og Stephani, þegar tekið er til greina líf þeirra og lífsstarf. Eldurinn hjá Burns blossar upp og brennir hann á unga aldri upp til ösku; en hjá Stephani varir hann sem vermandi blessun langrar og farsællar æfi.

Margir virðast í nokkrum efa um, hvort ljóð Stephans verði nokkurn tíma viðlesin. Sá efi finnst mér sprottinn af vantrausti til snilldar hans, hyggjuvits og framsýni. Fyrir mitt leyti er ég sannfærður um, að sá mannheimur: sem Stephan G. Stephansson vinnur fyrir og vonast eftir, á sér stund og stað á komandi öldum; og þá verður hann lárviðarskáld þjóðar sinnar — gjörvalls mannkyns.

## Björn B. Jónsson

---

### *YELLOWSTONE PARK*

Yellowstone Park liggur í norðvesturhorninu á ríkinu Wyoming að mestu, en yztu jaðrar hans ná þó bæði inn í Montana og Idaho. Vegalengd þangað frá St. Paul er rétt um 1000 mílur. Landspilda þessi er 62 mílur á lengd frá norðri til suðurs og 54 mílur á breidd frá austri til vesturs. Hún nær yfir 3.412 ferhyrningsmílur. Með sérstakri löggjöf kongressins 1872 var land þetta um aldur og æfi gert að ríkiseign, og er það algerlega undir stjórn þingsins, sem árlega leggur fram mikla peningaupphæð til vegagerðar og hirðingar á því. Allt árið um kring eru þar flokkar hermanna, sem líta eftir, að ekkert sé þar skemmt, né skotin dýrin þar. Að eins fjóra sumarmánuðina er „parkinn" opinn fyrir ferðafólk.

Ferðin um Yellowstone Park tekur sex daga, ef farið er eftir hinni venjulegu ferðaáætlun. Vilji maður haga ferðum sínum öðruvísi og vera lengur, borgar maður 8 dollara fyrir hvern dag, sem umfram er. En þessir sex dagar nægja til að sjá allt hið helzta, ef maður notar vel tímann. Alls ekur maður í „parkinum" 152 mílur. Vegurinn, sem stjórnin hefir látið gera þar, er sannkallað stórvirki. Hann liggur æ hærra eftir því sem sunnar dregur, þar til komið er um 10,000 fet yfir sjávarmál. Sumsstaðar er vegurinn höggvinn inn í kletta og ekið eftir fárra feta breiðum stöllum; er þá stundum annarsvegar himinhátt hamraberg, en hinsvegar hyldýpis gjá. En þó sumum þyki stundum nóg

um, er þetta þó engin sérleg glæfraför, og ökumaðurinn stýrir hestunum af mikilli list.

Þótt svona sé hátt farið og öldótt þar uppi, er þó Yellowstone Park eiginlega dalverpi upp í fjöllunum. Og öll náttúruumbrotin þar held ég séu aðeins dauðateygjur ógurlegs eldgígs, sem þar hefir á umliðnum öldum verið með miklu meira og hrikalegra lífi en nú er. Enda þykjast menn hafa veitt því eftirtekt, að alltaf sé að draga af kröftum umbrotanna. Tvær „höfuðskepnur", eldur og vatn, eru valdar að flestu, bæði því fagra og hrikalega, sem hér gefur að líta. Eldurinn, hitinn í jörðinni, er voldugastur herra í ríki þessu. Einkum ber á því við fyrsta áfangastaðinn, Mammoth Hot Springs (heitu laugarnar stóru). Þar eru klettarnir og jarðkúpan full af kalki og brennisteini. Hefir þar augsýnilega lengi logað eldur, en við það að kólna og storkna hefir svo jarðlagið fengið á sig ótal einkennilegar kynjamyndir. Enn þá rýkur á þessum stöðvum víða upp úr jörðinni og víða er hin megnasta brennisteinssvæla. Af því stafar það þá einnig, að flest örnefni um þær slóðir eru kennd við djöfulinn. Var okkur líka af fylgdarmanni okkar sögð mjög kímileg saga um það, hvernig djöfullinn hefði hafzt þar við, áður en hann flutti sig til Chicago! Af híbýlum hins forna óvinar þarna á brennisteins-svæðinu nefni ég ekkert nema eldhúsið hans — „The Devils Kitchen". Því nafni heitir hellir einn niðri í jörðinni. Er farið þangað niður í stiga 30 fet gegnum ofurlitla rifu, sem er á jarðarskorpunni. Að neðan er hellirinn miklu víðari um sig og afar-langur. Þar niðri er áköf hita- og brennisteins-svæla, og flýta því flestir sér upp aftur.

Margt er þar í útsýninu, sem lengi verður minnisstætt þeim, sem um Yellowstone Park aka. Margir eru þar tignarlegir fjallahnúkar, svo sem eins og „Electric Peak" — hann á að vera þrunginn af rafmagni, — og glerhóllinn, „Obsidian Cliff". Þá er heldur ekki sízt að

gjá klettabrúna, „The National Bridge", sem liggur milli tveggja kletta yfir djúpa gjá, og til að sjá skyldi enginn öðru trúa en að hún væri gerð af mannahöndum. Tvisvar liggur leiðin gegnum skínandi falleg „hlið" — svo eru nefnd opin, þar sem vegurinn hefir verið sprengdur gegnum björg. Annað hliðið heitir „Silfurhliðið" en hitt „Gullhliðið", og draga þau nöfn sín af litunum á berginu, sem á öðrum staðnum er silfurgrátt, en á hinum sem gull að lit. En ekki get ég látið mér til hugar koma að lýsa útsýninu hér í þessu stutta máli. Ég segi hér ekkert um ána, Yellowstone River, svo fögur sem hún er; ekkert um lækina, sem hvarvetna buna eftir giljunum, og ekkert um silunginn í ánni og lækjunum; stöðuvatninu fagra þarna uppi í fjöllunum, Yellowstone Lake, og gufuskipsferðinni eftir því, sleppi ég. Ekki heldur minnist ég neitt á dýrin í Yellowstone Park; minnist jafnvel ekki á nafna mína, birnina, sem voru svo gæfir og góðlyndir og stóðu kyrrir fáa faðma frá okkur, meðan við vorum að taka myndir af þeim.

En ómögulegt er að minnast svo á Yellowstone Park, að maður geti ekki um heitu laugarnar, hverana og geysana. Í þessum undraheimi, Yellowstone Park, eru yfir 4000 sjóðandi hverar og 100 geysar. Heil svæði eru þar, þar sem allt vellur og sýður. Sumstaðar eru feiknastórar skálar, þar sem aur og leðja vella og sjóða. Eru slíkir staðir kallaðir „Mud Pools" (leirhverar). Í klettaskálum sér maður víða kalkkenda leðju, með ýmsum litum, vella og sjóða. Þær skálar eru kallaðar „Paint Pots". En lang-merkilegast er sjálft hið heita, tæra vatn. Hvarvetna verða á vegi manns ýmist smáar eða feikna-stórar skálar úr allskonar og marglitum málmtegundum, fullar af tærasta vatni, sjóðandi heitu. Ég hefi aldrei séð litadýrð fyrr en ég sá þessa vatnspolla. Sumar þessar „skálar" virtust samansettar úr óteljandi smáögnum, hver smáögn með sínum sérstaka lit. Vatnið var tært eins og tár, og svo heitt, að lá við suðu, og

var því ávalt eins og titringur á því, en titringurinn virtist ekki vera á vatninu sjálfu, heldur sýndust allar hinar marglitu agnir í börmum og botni skálarinnar iða, og var því á að horfa eins og verið væri að hrista óteljandi demanta fast við augu manns. Þegar svo sólin glampaði á þessa gimsteinaspegla, þá varð litfegurðin svo dásamleg og dýrðleg, að henni verður við ekkert líkt. Regnboga-litirnir eru ónógir til samanburðar. Enginn málari hefir blandað svo litum; aðeins guð og náttúran geta málað svona. — Sumstaðar sér maður eins og „skálar“ þessar á hvolfi og brotið gat á botninn. Vatnið vellur og sýður undir skálunum og spýtist við og við upp um gatið; því stærri sem skálarnar eru, því hærra spýtist upp úr. Þetta er þá kallað „Baby Geysers“ (Geysa-ungar), og minnir þetta mig á það, sem mörgum þykir tilkomumest í Yellowstone Park, geysana.

Hvergi í heimi eru eins margir geysar saman komnir eins og í Yellowstone Park, og hvergi eru þeir eins stórir eins og þeir stærstu þar. Þeir eru oftast margir á sama stað, en svo langt bil á milli byggða þeirra. Auðvitað gjósa þeir ekki allir í einu og enginn einn maður getur séð þá alla. Margir geysanna gjósa með reglubundnu millibili, og getur maður því setið um þá. — „Excelsior“ heitir stærsti geysirinn í Yellowstone Park og er hann sagður stærstur í heimi. En því miður lætur hann ekkert á sér bera á síðari árum; hefir ekki gosið svo menn viti síðan 1881. Næstir að stærð eru þeir „Giant“, „Giantess“, „Beehive“ og „Old Faithful“. Þeir eru allir sífellt á ferðinni. „Giant“ spýr vatninu 250 fet upp í loftið, „Beehive“ 200 fet, og hinir tveir, sem nefndir voru, nálega eins hátt. Öllum þykir víst vænst um „Old Faithful“, því hann ber nafn með rentu og bregzt manni aldrei. Hann gýs nákvæmlega einu sinni á hverri klukkustund. Fyrst heyrast dunur og dynkir niðri í skálinni, þegar hann er að taka sig til; svo fara smámsaman að koma stórar hvítfyssandi gus-

úr af sjóðanda vatni upp úr skálaropinu, og svo allt í einu gýs hann í háa loft, þráðbeint upp í loftið, nærri 200 fet. Svona stendur úr honum strokan 5—6 mínútur í einu. Hálfri annari millíón gallóna af vatni spýr hann í hvert sinn. Smámsaman fer ofsinn í honum að sefast og hann missir mátt sinn, sígur hægt og hægt og hverfur ofan í skálina, og er þá borð á henni eftir. Fjórum sinnum sá ég „Old Faithful" leika leik sinn, og þótti mér ávallt tilkomumeira í hvert sinn. Marga fleiri geysa sá ég í algleymingi, en sleppi að lýsa þeim.

Aðeins einu undri enn skal ég reyna að lýsa. Það er hin mikla gjá — „The Grand Canyon". Hún er eitthvað 20 mílna löng, og er varið nærri heilum degi til að skoða hann. Er það þó aðallega um svo sem 4 mílna svæði, að farið er. Þar sem hún er mest, er hún hér um bil 1,200 feta djúp, undur mjó að neðan, og rennur þar Yellowstone-áin og sýnist svolítil spræna. Gjáin víkkar alltaf eftir því sem ofar kemur, og er fjarska breitt milli gjárbarmanna. Veggirnir eru að sjá sem væri þeir úr kristalli og eru með allskonar lagi og litum og gljá og glitra í sólskininu. Maður gengur fram á klettasnös í gjárbarminum og horfir upp og ofan gjána, svo langt sem augað eygir, og þá er eins og blasi við manni alstaðar í gjárhlíðunum óteljandi hallir með turnum og portum og kastalar úr gimsteinum og gulli. Tveir voldugir fossar eru í ánni með nokkru millibili þarna í gjánni; er annar hærri en hinn, og þegar horft er eftir gjánni, ber þá hvorn í annan. Neðri fossinn fellur á fimmta hundrað fet, og er það hin dýrðlegasta sjón í sjálfu sér, en þó miklu meiri sökum litadýrðar gjárinnar, sem blandast saman við dýrð fossins.

Ein klettasnösin, sem skagar fram í gjárbarminn og maður stendur á til að horfa eftir gjánni, heitir „Inspiration Point" (Innblásturs-oddi). Það ætti einnig að vera réttnefni, því engin sjón getur hugsazt meir „in-

spirerandi“ en þessi volduga, tignarlega, dýrðlega mynd. Ég hefi séð skráðar hugsanir skálda og spekinga, sem í hug þeirra hafa komið, er þeir stóðu á „Inspiration Point“, og nú furða ég mig eigi svo mjög á þeim hugsunum, eftir að hafa sjálfur séð þar dýrðina. Frá þessum stað ritaði mælskumaðurinn John L. Stoddard meðal annars þetta:

„Í dag sá ég gjána miklu í Yellowstone og hennar margbreytilegu og óviðjafnanlegu litadýrð. Ég skoðaði kastala hennar og dómkirkjuturna, sem hönd guðs hefir úthöggvið, og ég hlustaði á nið hins volduga foss — og mér fannst, að hér hlyti allt takmarkað að tilbiðja, hinn ótakmarkaði að bænheyra, og öll alviddin hlusta á“.

Stórskáldið enska, Rudyard Kipling, kemst svo að orði um gjána: „Eftir veggjum gjárinnar var að sjá sem öldugang óteljandi lita — fagurrauðra, stálgrárra, mjallhvitra, himinblárra og allra annara lita. Sólskinsið tók við þessum litum og bætti nýjum litum við. — Einu sinni hefi ég séð morgunroðann breiða sig um stöðuvatn í Rajputana og í öðru sinni sólsetrið á Ordney Sagar; en í þetta sinn sá ég bæði undrin í einu. Gjáin logaði eins og Trójuborg, og sá logi slokknar aldrei, og guði sé lof fyrir það, að hvorki penni né bursti geta málað þessa dýrð fullkomlega. Kvöldið kom og læddist gegnum furuskóginn í kringum oss. Ég gekk hægt og varlega út á klöpp — hún var ýmist blóðrauð eða ljósrauð, — og horfði niður í dýpsta dýpið. Og nú veit ég, hvað það er að sitja krýndur uppi í dýrð sólsetursins“. — Lang-frumlegust er þó hugsunin hjá gamla dr. Talmage, er honum datt í hug, þegar hann horfði yfir gjána. Hann segir: „Hvílíkur salur þetta væri til að halda í hinn síðasta allsherjar dóm! Sjáið þennan hamramma foss og regnbogana við fætur hans! Þegar þetta volduga vatnsfall svo stöðvaðist og storknaði í umbrotum hins mikla dags, hvílíkur

staður væri það þá fyrir hina skínandi fætur dómara lifenda og dauðra að standa á, og kasta svo regnbogunum eins og kórónum að fótum hans! Á botni þessarar stóru gjár er pallur, sem allar þjóðir heimsins gæti staðið á, en herskarar himinsins gæti setið á hinum ótalmörgu veggloftum hringinn í kring í gjánni! Og hversu básúna höfuðengilsins myndi bergmála um öll þessi skörð, hella og hæðir! Hví skyldi ekki dagurinn mesti, sem heimurinn nokkurn tíma sér, útlíða í hinu stórkostlegasta útsýni, sem almættið hefir skapað?"

Engar samanhangandi hugsanir á ég sjálfur frá því ég stóð þarna á „Inspiration Point". Ég sat þar lengi aleinn — og í rauninni þarf maður að vera aleinn til þess að geta fullkomlega notið slíkrar stundar. Ég man það eitt, að heilög lotning var í hjarta mínu og ég kendi ómótstæðilegrar löngunar til að biðja guð. Mér fannst hann þá vera svo nærri mér. Ég man það líka, að ég hafði upp orð Jónasar Hallgrímssonar:

Drottins hönd þeim vörnum veldur.
Vittu, barn, sú hönd er sterk.
Gat ei nema guð og eldur
gjört svo dýrðlegt furðuverk.

Ég þori nú ekki að taka upp meira rúm til að lýsa Yellowstone Park. Óhætt held ég mér sé að fullyrða það, að enginn, sem þangað ferðast, sjái eftir því. Viðurgjörningur allur er hinn bezti á hótelunum í „parkinum". Á kvöldin er þar skemmt með söng og hljóðfæraslætti, svo ekki þarf manni að leiðast þær stundirnar, sem maður ekki er að skoða sig um. Ekkert get ég hugsað mér meir hressanda og lífganda fyrir þreyttan huga manns en það, að vera einn vikutíma fráskilinn heiminum í einveru við dýrð náttúrunnar þarna uppi í fjöllunum. Náttúran breiðir þar faðminn móti manni og þar er allt náttúrlegt. Þar er ekkert húm-

þug, engin fölsk fegurð, engin svikadýrð, ekkert mannlegt prjál, enginn leikhúsahégómi, engar kalkaðar grafir. En þar er náttúran með sína viðkvæmu, saklausu blíðu, en líka með sína hrikadýrð. Og þar er hin eilífa almættishönd alls staðar sýnileg. Því nær brjóstum náttúrunnar sem maður er, því nær er hann hjarta guðs.

„Guðs hjarta heyrist slá;
í hjarta mínu þá
býr fró og friður“.

## Rögnvaldur Pétursson

### *HÚSIN Á EYÐIMÖRKINNI*

Ferð héðan úr borg austur að hafi er ekki viðburðarík. — Þeim, sem fer þá ferð í fimmta skifti, finnst fátt um allt, sem fyrir augu ber — nema vegalengdina. Hún er eilífðarleið. Þá er heldur ekki um náttúrufegurðina að ræða lengi vel; því eins og allir vita, liggur helmingur leiðarinnar gegn um hálfgjörða eyðimörk, ef farið er hér megin landamæranna, en ekki austur Bandaríki. Allur austurhluti þessa fylkis og vesturhluti Ontario, er ein grjóturð vaxin skógi, er hér og hvar hefir brunnið, svo að eftir standa svartir stofnar. Til og frá á þessu svæði eru mýrar, keldudrög og smátjarnir. Óvíða sjást grasflákar, heldur mosi og hrís, þar sem grjótið liggur ekki alveg bert ofanjarðar. Að undanteknum fáeinum þorpum, er svæði þetta mjög lítið byggt.

Fram með brautinni eru þó hús hér og þar á strjálingi. Í þeim búa þjónar járnbrautarfélagsins, er gæta eiga brautarinnar og viðhalda henni. Menn þessir mega heita algjörlega útilokaðir frá heiminum, þótt þeir búi inni í miðju landinu. Óvíðast eru kofarnir stærri en svo, að í þeim fái búið tveir eða þrír. Og eins og þeir eru litlir, svo eru þeir fátæklegir og hrörlegir. Í enga þessa kofa eru tengdir talþræðir eða fréttaþræðir, og skemmst milli þeirra eru þetta 6—8 mílur. Vita nágrannar því ekkert, hvað hjá hinum gjörist, nema þegar af hendingu fundum ber saman, við vinnu á daginn, þegar þeir fara um brautina, eða þegar einhver þeirra flýr undan skógareldi í grennd við

sig og leitar til hins næsta, sé þá kofi hans óbrunninn og fólk lifandi.

Þessir menn vinna þarna árið út og árið inn. Fara alltaf yfir sama spottann á brautinni á hverjum degi, til þess að huga að trjáböndunum; færa þau í lag, ef þau hafa eitthvað úr lagi færzt; huga að naglahausunum, sem stálteinunum halda föstum, eða hreinsa af brautinni aur og grjót, er oft fellur yfir hana eftir undangengin ofviðri og rigningar. Er æfi þeirra tilbreytingarlaus. Fámennið er þeirra fylginautur, mest tveir eða þrír saman. Svo er æfin út úr skilin frá öllu því, sem er að gjörast út um heiminn, að þótt þeir búi þarna miðja vega milli tveggja stærstu borganna í þessu landi, fá þeir ekki fréttir vikum saman af því, sem er að gjörast allt í kringum þá.

En fram með veginum þekkja þeir hvern stein og hvert tré. Og vel má hugsa, að svo festi þeir vináttu við trén, að einhvern morgun, eftir mikla óveðursnótt, er þeir fara þenna sama veg og eitt tréð hefir verið fellt um nóttina af eldingu, að þeir sakni þess, eins og gamals vinar, sem nú væri dáinn. Trén eru einu lifandi verurnar, sem búa allt í kringum þá. Sjálfum er þeim útbyggt úr mannfélaginu og þeir orðnir smáborgarar *trjáfélagsins*, sem á víðlendastar byggðir í þessari álfu.

Allt svo tilbreytingarlaust sem líf þessara manna er, þá er þó æfi kvennanna enn einstæðingslegri, sem heima búa.

Þeir eru á ferð fram og aftur að deginum. Þeir sjá trén, sem eru lengra burtu, og ekki orðin eins sjónleið og hin, sem næst standa kofanum, og eru alltaf eins, og stynja alltaf eins undan veðrum og vindum. Og þótt þau tali ekki á tungu manna, heldur með þyti vindarins, sem ferðast utan úr eilífð, — þá eru þau þó hálf-mennsk og málið spakt og dularfullt, því það er röddin utan úr geimnum.

Út úr kofadyrunum sést skammt: Yfir járnbrautina og yfir runnann næsta, hinumegin. Sporin verða, eins og nálarsporin, þétt hvert við annað, aftur og fram um kofagólfið, út að viðarbúðlungnum, út í vatnsbólið.

Dagarnir allir tilbreytingarlaust tilbreytingarleysi. Vélahljóðið að morgni eða kveldi myndi gjöra ofurlítinn dagamun, ef ekki heyrðist það alla daga jafnt og væri ávallt eins.

Gestir, engir; engar kirkjuferðir; ekkert að fara, enginn að ræða við. Mannsröddin sjálf verður að lokum ókennileg.

Að vísu kemur þangað gamall maður í skósíðum klæðum einu sinni á ári, að bjóða þjónustu sína og blessun Heilagrar Móður, Kirkjunnar. Það er ljósberinn til þeirra, sem í myrkrunum sitja, og tjaldinu er lyft um stund og saldyrum mannheima upplokið til hálfs. — Það þarf máske að skíra eða kasta vígðu vatni á gröf!

En oft kemur hann of seint.

Hefði hann komið mánuðinum fyrr, hefði hann verið beðinn að skíra, en nú er það um seinan, og nú þarf þess ekki með. — Drengurinn litli var orðinn nærri ársgamall.

Hann gengur þá að gröfinni undir trjánum, blessar yfir hana með upplyftum höndum og nefnir nafnið, sem búið var að helga í huganum. Skírn og útför verða samferða; — helgunar-athafnir lífsins.

Svo fer hann, — með bóndanum, er hann kemur heim frá vinnunni, til næsta húss, og yfir er fallin sama þögnin og áður.

Fáir veita fólki þessu eftirtekt, sem gjörzt hefir útlagar, til þess samgöngurnar geti haldizt greiðar og óslitnar um landið. Enn færri þekkja æfi þess og baráttu.

Það gjörir engin stórvirki í heiminum; á engan þátt í stjórn landsins; veit naumast þegar ráðherraskifti

verða, því dagarnir tilkynna það ekki, hvorki að morgni eða kveldi dags. Þó eiga menn og konur starfa þess ósegjanlega mikið að þakka. Vegna þess, að fólk þetta býr þarna í útlegðinni, fáum vér bréf vor, að austan — heiman frá Íslandi — með skilum. Vegna þess að fólk þetta þjónar sinni köllun með trúmennsku, fáum vér nauðsynjarnar, skrautið, munaðarvarninginn, sem Evrópa býr til, fréttablöðin, símskeytin; og frá oss fáum vér sent til baka aftur afrakstur vinnu vorrar og afurðir jarðar.

Á skömmum tíma getum vér ferðast fleiri þúsund mílur vegar, fram og aftur, jafn hættulaust og þó vér sætum heima hjá oss, vegna þess, að þessir menn eyða æfinni í að fara fram og aftur um brautina og huga að trjáböndum og nöglum.

Hinn mikli gróði járnbrautarfélaganna — þetta 40—100 af hundraði á öllu starfsfé — sprettur af þjónustu þessa fólks og þeirri afsölun, sem það gjörir við lífið. Væri það ofmikið, að elli þessa fólks, þegar æfinni hallar og kraftarnir eru þrotnir, væri tryggð með örlitlum launum, örlítilli hlutdeild í gróðanum mikla? Vissulega ætti stjórnir landsins að sjá um það, hugsar maður, — stjórnirnar, sem aðstoða járnbrautarherrana og sæma þá nafnbótum og auði. Hví skyldi þær ekki líka vernda járnbrautarþjónana fyrir öreiga elli?

# Guttormur Guttormsson

## ÞJÓÐARARFUR OG ÞJÓÐRÆKNI

Feginn hefði ég viljað vera maður fyrir efninu, sem á var bent, er ég var beðinn um línur þessar, maður til að leysa verkið svo af hendi, að um munaði. Mætti ég tala eins og sá, er vald hefir, *um framtíð íslenzks þjóðernis hér í álfu;* mætti ég ráða rún örlaganna sjálfum mér og öðrum í vil, og færa löndum mínum góðar fregnir og sannar af æfibrautinni fram undan, þá væri óskasteinninn kominn í mínar hendur. En því miður hefi ég ekki eignazt þann dýrgrip enn, né heldur er ég svo spámannlega vaxinn, að ég treysti mér til að segja mikið um óorðna hluti.

Og þó er það einmitt framtíðin, sem aðallega er um að hugsa í sambandi við þetta mál um viðhald vestur-íslenzks þjóðernis. Fyrir hana gerum vér það, sem gert verður í því máli; og það, sem vér látum ógert, verður hennar tap. En hún krefur annars fremur en lófalesturs. Ókomnir tímar munu fara sinna ferða fyrir spám öllum og draumórum, en fyrir ráðum og dáð munu þeir bera meiri virðingu. Hvort sem fyrir oss liggur að hreppa hagstæð veður eða mótvinda, þá er svo mikið víst, að ef vér leggjum árar í bát nú, eða tökum ranga stefnu, þá er öll von úti. Ef vér því viljum, að eitthvað íslenzkt fái að lifa hér, þá þurfum vér að gjöra sjálfum oss sem allra glöggasta grein fyrir því, hvað það er, sem lífgjafar er vert og hvers vegna, og í hverjum anda vinna skuli að viðhaldinu. Svo verður auðvitað höndin að fylgja huganum.

Um þetta efni vildi ég fara nokkrum orðum — hvað

það sé, sem réttur leyfir og skylda krefur í þjóðernismálinu, og hvað undir þurfi að búa í viðleitni vorri í þeim sökum, svo vel sé. Aðrir hafa ritað vel um efnið áður, og verður því erfitt að bera hér eintómt nýnæmi á borð fyrir lesandann; en málið er mikilvægt og þarf að ræðast sem allra mest út í æsar og skoðast frá öllum hliðum. Geti ég nú lagt fram eitthvað nýtilegt, jafnvel þótt ekki væri nema það, að dusta rykið af einhverri gamalli og góðri hugsun, þá fyndist mér sjálfum betur farið en heima setið.

Ekki er vert að kippa sér upp við það, þótt mjög skifti í tvö horn um álit manna á þessu máli. Öfgar gjöra vart við sig í öllum álitamálum, og ekki er einber skaði skeður, þótt þeim lendi saman annan sprettinn. Þær minna mig á kvörnina Grótta, sem ambáttirnar tvær voru látnar mala gullið í fyrir Fróða konung, — en sungu söng sinn á meðan. Þegar tveim skoðunum andvígum lendir saman, þá finnst mér oft eins og þar sé komnar skessurnar Fenja og Menja; orðasennan er Grótta-söngur þeirra; en út á milli urgandi kvarnarsteinanna, sem eru öfgar tveggja hliða, hreytist svo gulldustið, Fróða-mjöl sannleikans, svo fínt og sein-unnið, að enginn tekur eftir því, fyrr en rimman er öll um garð gengin.

Ekki hefur nú reyndar skoðanamunurinn um þjóðernismálið lent oft út í opinberar blaða-rimmur, en öfgum tvennskonar hefir þó lent þar saman, og þær hafa við áreksturinn hreytt frá sér fáeinum sannleiks-neistum, sem vert er á að líta — svo ég breyti líkingunni ofurlítið, með leyfi lesandans.

Öfgar eru það á aðra hlið, að vilja girða í kring um íslenzka hópinn hér — gjöra sjálfa oss og niðja vora að eilífum útlendingum í landi þessu. Reyndar kannast víst fáir við, að einmitt þetta sé ósk sín, og það er eðlilegt, þar sem ekki þarf annað en að lýsa þeim hugsunarhætti með berum orðum til þess að sjá, hve

fráleitur hann er. En hann segir þó til sín óbeinlínis í rökum og anda, þegar rætt er um þjóðernismálið.

Einangrunar-tilhneiging þessi getur gert út af við sjálft íslenzku-viðhaldið, verði hún einráð um það mál; hún er svo gagnstæð því, sem rétt er. Vér höfum nú einusinni setzt að í þessu landi og ætlum að bera beinin hér; vér megum því ekki skorast undan að borga landskuldina. Landi þessu skuldum vér í einu orði það, að vera hérlendir í orðsins bezta skilningi; vér skuldum því allt gott og nýtilegt, sem vér eigum, bæði einstaklingarnir og heildin — og einmitt sú skuld er ein aðalástæðan fyrir því, að vér megum ekki varpa á sorphaug gleymskunnar öllu því gulli, sem vér höfðum með oss frá Íslandi. Til landskuldarinnar teljast þessar kvaðir: hjarta vort, því að landið er vort land, og vér eigum að elska það; kraftar vorir óskiftir og ötullega notaðir; hollusta og tryggð af vorri hálfu í öllum landsmálum; mannblendni, svo að tunga þjóðarinnar verði jafntöm fólki voru sem öðrum landslýð, og allar nýtar hugsjónir og hreyfingar hérlends þjóðlífs komist í vora eigu; framgirni, svo að vér lötrum ekki á eftir öðrum í neinu því, sem til heilla horfir; hjartalag og siðferði sem allra bezt, svo að af oss standi blessun, sem aðallega er um að hugsa, fremur en óblessun í þeim efnum; líf vort og limir jafnvel, ef þörf gerist. Þetta skuldum vér landinu, sem vér búum í. Ég fyrir mitt leyti er andvígur hverri hreyfing, íslenzkri eða óíslenzkri, sem leitast við að stela einhverju undan af landskuldinni.

Þessi tilhneiging, að vilja bora sér út í horn, kemur meðal annars upp um sig í fávísu þjóðernisdrambi, sem lítur stórt á „landann", en niður á allar kynkvíslir aðrar, hérlendar og útlendar. Ég hefi heyrt því haldið fram þráfaldlega, og í fullri alvöru, að vér Íslendingar værum slík andleg og líkamleg ofurmenni, slík hreinkynja afkvæmi höfðingjanna nor-

rænu, að vér mættum ekki spillast af of nánu samneyti við annan landslýð. Misjafnlega er auðvitað farið með þessa skoðun í framsögninni, en allt ber að sama brunni með lofdýrðina, þegar einhver maður af íslenzkum ættum kemst í listamanna-hóp eða leikfélag, eða nær í verðlaun fyrir glímur eða við skólapróf, eða reynist lífseigur og athugull í svaðilförum. Tilhneiging margra vor á meðal er að miklast af þessu eins og einhverjum óviðjafnanlegum heimsins-undrum, sem lýsi sérstökum yfirburðum vorum yfir aðrar þjóðir. „Ekki er um það að tala, allsstaðar er landinn fremstur“, sagði einn „þjóðrækinn“ Íslendingur nýlega. Væri svo, þá mætti setja landann í glerhylki, til þess að aðrar þjóðir gæti starað á hann með undrun og lotning, en ekki snert á honum.

Sízt vildi ég gjöra lítið úr því, sem landar mínir öðru hvoru megin hafs hafa vel unnið, né vefengja það eða lítilsvirða, að þjóð vor er yfirleitt eins laus við andlegan kyrking og vanskapnað, eins og sumar þær þjóðir, sem betur hafa staðið að vígi í lífsbaráttunni. Yfir þessu megum vér hjartanlega gleðjast. En gáum að: það er fagurt og gott af hverju foreldri að elska börnin sín og taka því með þökkum, ef þau eru vel af Guði gefin. En að telja sér trú um, að þau sé þeir hálf-guðir, sem annara krógar jafnist hvergi við — það er ekki föðurást, heldur ofdramb og heimska, og börnunum hinn aumasti ills-viti. Sami munur er á þjóðarást og þjóðardrambi.

Vér Íslendingar erum eins og fólk er flest, það er heyrir til sama mannflokki; vel stæðir í sumum greinum, en miður í öðrum. Stöndum líklega að öllu samanjöfnuðu hvorki framar né aftar frændþjóðum vorum, svo teljandi sé; að minnsta kosti komumst vér ekki í dýrlingatölu við samanburðinn. Hetjublóð norrænu höfðingjanna rennur í æðum vorum, blandað þrælablóði. Ekki skal um það dæmt hér, hvor ættstofninn

sé í sjálfu sér göfugri, en sannleikur þessi felur í sér heilnæmt lyf við ætternisdrambi, hvernig sem á hann er litið. Í einu orði sagt: vér Íslendingar erum nýtir liðsmenn upp og ofan, en ekkert einvalalið.

Annað veifið tekur hrokinn augun af þessu goði sínu, „landanum", og skimar í kring um sig, á hérlent þjóðlíf. Ekki þykir honum það útsýni fagurt. Honum vex í augum spillingin, oddborgaraskapurinn, hugsjónafæðin. Sá „selskapur" finnst honum ekki samboðinn löndum sínum. Vér, hárfínir hugsjónamennirnir, þurfum að hafa alla varhygð á þessu vestræna sölutorgi; verðum að sveipa skykkjunum að oss — eins og Farisear í heiðingjaþröng — til þess að saurgast ekki.

Einræningsskapnum væri nokkur vorkunn, ef þessi lýsing á andlegu lífi kjörlands vors væri í alla staði réttmæt — þó hitt væri þó auðvitað nær, að nota þá þessa marglofuðu yfirburði vora til hjálpar öðrum. Það er satt, að Ameríkumenn eru gróðamenn miklir, og eyðslusamir eftir því, og er hvorttveggja eðlilegt, þegar á allt er litið. Hingað streyma mannflokkar, sem um langan aldur hafa búið við fremur þröngan kost. Hér finna þeir landrými geysimikið og ógrynni allskonar auðæfa. Enginn veit enn, hve mikill sá auður er — þjóðin veit ekki aura sinna tal. Gróðahugurinn veður í auðæfasafni þessu eins og hvalur í síldartorfu, og kann sér ekki hóf; veiðin svo mikil og tækifærin svo mörg. Gróðabraskið hefir á sér einhvern æfintýrablæ, sem heillar menn og hvetur til stórræða á því sviði. Menn komast í „spenning", þegar þeir hugsa um miljónirnar, sem framtakssamir menn hafa rakað hér saman á fáum árum. Okur og rangsleitni veldur minni geðshræringu á meðan sá hópur er hverfandi, sem býr við neyðarkjör.

Þetta er sannleikurinn um dollarsdýrkun Ameríkumanna. Að hún beri vott um dýrslega sjálfselsku,

ramspillta, hugsjónablinda og hjartalausa, það nær engri átt. Eða hvaðan komu þá ágætismennirnir, sem þetta land hefir eignazt? Uxu þeir eins og vínber á þyrnum eða fíkjur á þistlum? Eða sjálfstæðishugurinn? Þetta land á merkilega frelsissögu. Hér hafa menn oftar en einu sinni tekið upp vopn, ekki til að verja eigið frelsi sitt, heldur af því þeir trúðu því, að þeir gætu með þeim hætti hjálpað öðrum til frelsis. Hugsjónalaus er engin þjóð, sem það gerir.

Þjóðlífið hér í Bandaríkjunum og Kanada er því að mínu áliti full-samboðið hverjum þeim flokki manna, sem hingað flytur. Vér Íslendingar þar engin undantekning. Þjóðernis-gorgeir og einræningsskapur spáir engu góðu, hvorki sjálfum oss né landi þessu.

Þá er ekki betra hófleysið, sem stefnir í hina áttina. Í þeim jaðrinum eru mennirnir, sem vilja niðurskurð. Auðvitað nota þeir ekki svo stórt orð, en allt skilst; og allir þekkja kenninguna. Vér eigum, segja þeir, að gjörast heimamenn á herragarði þessum hinum vestræna, en ekki leigja hér eitthvert halakot eða bauka við húsmennsku. Þetta er texti þeirrar kenningar, og ekkert út á hann að setja. En svo kemur „útleggingin“: Til þess að komast í vistina og standast þar vora „pligt“, þá þurfum vér að leggja frá oss íslenzku föggurnar utan við túngarðinn. Helzt að kveikja í þeim þar. Sá farangur verður ekki nema til þyngsla hér á slóðum, og til athlægis. Einhvern tíma kemur að því hvort sem er, að vér missum hann, og hví þá ekki að losast við hann þegar í stað? — Svo hljóðar sá póstur.

Kenning þessi er í fyrstu komin frá innfæddum, enskumælandi mönnum, er þykir sinn fugl fagur, eins og eðlilegt er. Þeim hættir til að líta niður á alla aðkomumenn, telja þá síðri sjálfum sér, setja allar aðfluttar þjóðerniseinkunnir — nema engil-saxneskar — í sama númerið, eins og þjóðlífinu sé hætta búin

af öllu slíku. Allir tala nú á dögum um *americanization*, en undir því skrafi býr hjá innlendum vanalega þetta: Það þarf að gjöra miskunnarverk á aumingja útlendingunum, og varúðarverk um leið; sótthreinsa þá, verka af þeim allt þetta útlenda þjóðernis-gróm, til þess að ekki standi af þeim sýkingar-háski hér í landinu. Og þeim velgjörning eiga svo auðvitað allir útlendingar að taka með þökkum.

Hér er auðvitað um nauðsynjaverk að ræða, ef vel og sanngjarnlega er unnið. Það horfir ekki til heilla, að margar ólíkar og misjafnlega mannaðar kynkvíslir ílendist hér, fráskildar þjóðlífinu; sumar þeirra alókunnugar eða jafnvel fráhverfar hérlendri menning. Þjóðareining er óhjákvæmileg lífsnauðsyn landi þessu. Um það er ekki að tala. En svo skjátlast þeim í einu, sem um þenna margviðurkennda sannleika fjasa mest: Þeir vilja í þjóðmenningarefnum vera gefendur aðeins, en ekki þiggjendur. Svo örlátir eru þeir í þeim sökum. Í stað þess að leggja breiðan grunn undir framtíðarmenning landsins og safna til hennar nothæfum efniviðum allra þeirra þjóðflokka, sem hingað hafa flutzt, þá vilja þeir ekki láta neinn flokk nema þann, sem löndum ræður hér, leggja neitt fram til smíðisins. Engil-saxneskir þjóðhættir hafa ráðið hér lögum og lofum hingað til, og þeir einir eiga að erfa landið. Hitt á allt að hverfa.

Innlendum er nokkur vorkunn, þótt þeir haldi slíku fram, en ekki kann ég við að sjá aðkomumennina taka í sama strenginn. Og þó láta þeir sig hafa það, margir hverjir. Það er ekki langt síðan hérlend blöð luku lofsorði á háskóla-prófessor nokkurn frá Ítalíu, sem mælt hafði fram með skjótri og algjörri þjóðernisglötun við landa sína hér, ekki aðeins til merkis um hollustu við þetta kjörland þeirra, heldur miklu fremur í virðingarskyni við allsherjaryfirburði þeirrar engil-saxnesku menningar, sem hér væri fyrir. Það

var honum aðalástæðan. Keimlíkar hugsanir hafa stundum gjört vart við sig vor á meðal.

Ekki nenni ég að eyða lýsingarorðum í slíka auðsveipni. Það nægir, að hún er engu betri en sérgæðingsháttúrinn. Svo hvimleitt sem það er, að ala upp þjóðernisgorgeir í sjálfum sér, þá er þó hálfu verra, að beygja sig í auðmýkt undir þann löst, þegar hann lýsir sér í fari innlendra. Sé það rangt, að hreykja sér upp eins og ofurmenni, þá þurfum vér ekki að verða neinir aukvisar heldur. Mannlegast væri það, ef vér reyndum að standa jafnfætis öðrum mönnum og værum ekki síðri neinum, hvorki við framlög eða réttarkröfu. Satt er það, að vér höfum mikið þegið hér, en ofurlítið lögðum vér þó sjálfir til; mikið höfum vér að læra og getum enn lært, í skóla hérlends þjóðlífs, en vér eigum líka ýmsar gersemar í vorum eigin menningarfórum, og oss er skylt að leggja þá gripi, eða andvirði þeirra, inn í búið hér, um leið og vér gjörumst heimamenn. En það verður ekki gjört, nema vér metum þann þjóðarart einhvers sjálfir og látum hann ganga, ef kostur er, í erfðir til barna vorra.

Þegar ég var drengur í Nýja Íslandi, reyndi ég nokkrum sinnum að ná upp smáum furutrjám úti í skógi og planta þeim heima við hús. Ég var ekki vel að mér í þeirri list. Ræturnar reif ég upp moldarlausar, svo að allar fínu tágarnar slitnuðu af og urðu eftir í jörðinni. En það eru einmitt þessar hárfínu rótartægjur, sem draga næringuna úr jarðveginum. Nýgræðingarnir visnuðu svo upp á skömmum tíma, hvernig sem hlúð var að þeim. Ég átti auðvitað að stinga upp moldina með rótunum, til þess að koma þeim heilum á húfi í nýja jarðveginn.

Sömu varúðar finnst mér að gæta þurfi, þegar hópar manna flytjast úr einu landi í annað. Sálarlíf þeirra er rótfest í þjóðmenning ættlandsins, og eitthvað af þeim jarðvegi þurfa þeir að flytja með sér, til

þess að fínar rætur haggist ekki. Annars er hætt við því, að þeir dafni ekki í nýja jarðveginum; að þeir verði þar ófrjósöm og visin tré, í andlegum skilningi talað, þurrir og harðir gróðafauskar, þegar bezt lætur.

Einhverskonar íhald er lífsnauðsynlegt öllu því, sem gott er og dýrmætt í mannssálinni. Þú getur ekki látið eignir andans ganga hrossakaupum. Til eigna þeirra telst það, sem kalla mætti þjóðarreynslu; það er lífsspeki sérkennileg, sem hver þjóð hefir með eigin kröftum unnið úr eigin lífskjörum sínum. Það er afarerfitt að varpa þeim arfi frá sér, og taka sér annan, sem svo verði manni jafnmikils virði. Ást og tryggð eru með sama markinu brenndar: þær eru vanafastar og heimilisræknar. Rekir þú þær á flæking, þá deyja þær. Eins er um hugsjónir og mennnigarsérkenni. Þú getur ekki svift þeim eignum til, né haft þær í skiftabralli, þér að skaðlausu. Þessum sannleika gleyma jafnan óþreyjufullir byltingamenn; gæta þess ekki, að sannar framfarir eru fólgnar í þroska, en ekki sviftingum og umróti.

Það er því auðsætt, að of skjótar þjóðernissviftingar eru skaði þessu landi, fremur en ábati. Ef vér vörpum frá oss ást vorri til Íslands og Íslendinga, þá gengur oss ver á eftir að elska nokkurt land, nokkra þjóð, og verðum svo fyrir bragðið kaldlyndari gagnvart kjörlandinu. Ef vér megum ekki hlúa að frændrækninni, þá eru litlar líkur til þess, að vér verðum ástúðlegri við vandalausa. Ef vér eigum að afrækja þann andans auð, sem safnazt hefir og geymzt í vorum eigin ættum, þá verður býsna lítið andríkið, sem vér leggjum fram til uppbyggingar hérlendu hugsanalífi. Hljótum, í einu orði sagt, að rýra manngildi vort með slíkri afneitun vors betra manns, og verðum lakari Ameríkumenn fyrir bragðið, en ekki betri.

Nú segir einhver, ef til vill, að eitthvað geti verið hæft í þessu, þegar um fullorðið fólk sé að ræða, fætt

og uppalið heima á Íslandi. Um börnin sé öðru máli að gegna. Þau sé fædd hér, vaxi upp í hérlendum hugarheimi og menntist á skólum þessa lands. Líf þeirra sé rótfest hérmegin hafs frá byrjun og þurfi því enga næring úr íslenzkum jarðvegi. Ekki get ég fallizt á þá skoðun. Ég held, að enginn kynflokkur geti skift algjörlega um andlegan jarðveg á æfitíð einnar kynslóðar eða jafnvel tveggja. Það ástand er aldrei heilbrigt, þegar tvær kynslóðir, sem um stundar sakir eiga samleið, geta hvorki lært að skilja né meta hvor aðra — þegar hinir eldri sjá ekkert gott í kröfum og háttum nýrra tíma, og synirnir láta sér fátt um finnast flest það, sem foreldrum þeirra er dýrmætt. Þá er svo hætt við, að þroskinn verði öfugur. En sú yrði niðurstaðan, ef öfgarnar aðrar hvorar, sem áður voru nefndar, næði yfirráðum yfir þjóðernismálinu.

Sumir halda því fram, að íslenzkt þjóðerni komi hér alls ekki til greina. Æskulýðurinn þurfi ekki að taka neitt íslenzkt í arf, þurfi hvorki að skilja né tileinka sér nokkur menningar-sérkenni feðra sinna. Hann sé lögerfingi hérlendra kynslóða, og taki arfinn í skólum landsins. Hafi, í einu orði sagt, ekkert sérstakt að sækja til foreldra sinna, sér til andlegs þroska. Sú kenning er auðvitað í samræmi við tíðarandann. Menning vorrar tíðar, og sérstaklega hér í landi, hvílir á striti dauðra véla, að sínu leyti eins og andlegur þroski margra fornþjóða hafði þrælahaldið að bakhjarli. Þá fengu frjálsir menn tóm til lærdóms og lista, af því að þrælarnir unnu slitverkin. Nú taka vélarnar að sér þrældómsslitið meir og meir, og það er auðvitað ágætt í sjálfu sér, því að um leið verða menningartækin meir og meir almenningseign — það er að segja, ef vel og gæfusamlega er byggt ofan á þennan vélagrundvöll. En annmarkar fylgja þó kostunum. Einn hængurinn er sá, að menn

eru nú orðnir svo vanir erfiðissparnaði þeim og fljótvirkni, sem vélum fylgir, að þeim finnst allur hægðarauki jafnsjálfsagður í störfum andans líka. Sálarlífið dregur þannig dám af vélamergðinni; menn ætla sér þá dul, að geta tekið ómak af sálum sínum með allskonar „maskínuríi", líkt og höndin hefir komið þreytuverkum sínum yfir á margbrotin iðjutól og aðrar uppgötvanir.

Skóli, kirkja og ýmsar aðrar stofnanir verða svo í hugum margra að slíku „maskínuríi", sem að sjálfsögðu eigi að taka af einstaklingum og heimilum allt það ómak, sem því fylgir, að koma sálum unglinga til manndóms. Eigi börnin að verða kristin, þá er kirkjan og sunnudagsskólinn — þangað má senda þau, og svo er ekki meira um það. Eigi þau að menntast, þá er barnaskólinn til taks að kenna þeim allt það, sem þau þurfa að vita. Svo hugsar tíðarandinn, og varpar svo allri sinni áhyggju, út af andlegri velferð æskulýðsins, upp á slíkar stofnanir. Íslenzkt fólk hefir auðvitað dregið dám af hugsunarhætti þessum, eins og aðrir — og finnst mér það illa farið. Vér værum miklu betur komnir hér, ef heimilislífið íslenzka, með beinum og stöðugum áhrifum þess, bæði menningarlegum og kristilegum, á sálir unglinganna, hefði náð að festa hér rætur og verða til liðs þeim menningartækjum, sem hér eru fyrir hendi. Margir landar mínir minnast sjálfsagt með lotningu og þakklæti umönnunar þeirrar hinnar andlegu, sem þeir nutu heima hjá foreldrum sínum, heimafræðslunnar, sem var svo frábærlega notadrjúg, og vökukvöldanna, sem oft gáfu af sér uppbygging, hugarfjör og andlega nautn. Þar að minnsta kosti var nokkuð íslenzkt, sem vel mátti lifa hér vestan hafs í einhverri mynd og varla gat spillt fyrir hollustu vorri við kjörlandið.

Það sæti ekki á mér að gjöra lítið úr verki því, sem unnið er í þarfir æskulýðsins á menningarstofnunum

þessa lands, enda dettur mér ekkert slíkt í hug. En hitt vildi ég sagt hafa, að engin stofnun getur með öllu tekið af mönnum ómak það hið andlega, sem náttúran og forsjónin hefir ætlað sjálfum þeim. En til þeirrar skylduvinnu má telja beint og persónulegt eftirlit með andlegum framförum unglinga þeirra, sem tengdar eru við líf vort að einhverju leyti. Engin stofnun, hversu góð sem hún er, getur létt þeirri ábyrgð af oss. Svo eru það ekki heldur neinar vélar, sem uppfræðsluverkin vinna utan heimilis, heldur fólk með holdi og blóði, með takmörkuðum kröftum og mannlegum tilfinningum, alveg eins og foreldrarnir og skyldmennin heima. Sá lýður þarf styrktar við eins og aðrir, og getur lítið á unnið, ef áhrifin heima fyrir og í hversdagslífinu yfir höfuð eru andvíg eða letjandi. Í þeim efnum getur enginn, sem umgengst unglingana, og sízt af öllu faðir eða móðir, verið algjörlega hlutlaus. Sinnuleysið svæfir út frá sér. En aftur á hinn bóginn, mæti ungmennið vakandi hugsun og andlegu fjöri heima fyrir, kosti eldra fólkið kapps um að opna hjarta sitt fyrir börnunum, þá koma þar til sögunnar áhrif svo dýrmæt, svo vekjandi, að engin stofnun utan heimilis getur að réttu lagi komizt af án þeirra, né haft nokkuð annað á boðstólum í þeirra stað.

En ef íslenzkur maður ætlar að opna hjarta sitt fyrir unglingunum og gefa þeim það dýrmætasta, sem hann á til, verða það þá ekki fjársjóðir grafnir úr íslenzkum jarðvegi? Ef hann vill helga hugi þeirra með þeim skáldskap, sem hann sjálfur ann mest, getur hann þá gengið fram hjá íslenzkum ljóðum? Eða vilji hann glæða hjá þeim trú, verður honum þá ekki heitast um hjartaræturnar, ef kristindómsorðið, sem henn fer með, er á íslenzku? Eins fer það, ef hann vill vekja hjá þeim ímyndun og andlegt fjör með hreystisögum, æfintýrum, mannlýsingum og öðru þesskonar,

getur hann þá með óskertum áhuga gengið fram hjá íslenzkum sagna-auði eða endurminningum úr íslenzku lífi? — Nei, heimavakningin vekur ekki, ef vér drögum það undan, sem næst liggur hjartarótum sjálfra vor.

Ómaki þessu getum vér ekki heldur smeygt af oss yfir á laugardagsskóla, kennslutíma í íslenzku við ýmsar menntastofnanir, eða íslenzka kristindómsuppfræðslu. Allt þetta hjálpar auðvitað til, en það er sömu lögum háð og önnur skólamenntun: þar er engum vélum á að skipa, er létt geti allri fyrirhöfn þessa máls af heimilum og einstaklingum; aðeins menn og konur, sem taka að sér að veita heimilunum aðstoð eftir föngum. Og þeim gengur illa að verma barnshjartað, ef enginn eldur er á arninum heima fyrir. Sjálfs er höndin hollust. Fundahöld, hrókaræður og rokna-ritgjörðir eru til lítils, ef menn humma svo fram af sér, þegar til reyndar kemur, vandann og alla fyrirhöfnina, sem málinu fylgir.

Það verður óheillaverk í fleiri greinum en einni, að fela fyrir börnunum þann eldinn, sem bezt vermir sjálfum oss. Tjónið kemur eigi aðeins niður á menningarþroskanum, heldur á siðferðinu líka. Þegar of mikið djúp er staðfest milli fullorðinna og unglinga, þá er allsterk tilhneiging til agaleysis og sjálfræðis oftast nær einhversstaðar á meðal afleiðinganna. En er ekki vökin orðin allvíð, þegar ágætið mestallt í andlegri eigu foreldranna er börnunum einkis virði? Ég mætti jafnvel taka dýpra í árinni, því að þekkingarleysi unglinganna á þeim efnum fylgir alla jafna lítilsvirðing, ekki sízt þegar innlendir láta það sífellt í veðri vaka, að útlenda gullið sé ekki gjaldgengt í þessu landi — sé alls ekki „skír málmur“, og eigi hér engan rétt á sér. Í sama strenginn taka svo sumir niðurskurðarmennirnir vor á meðal, þegar þeir tala um þá óskapa-þvingun, sem með tilsögn í íslenzku sé lögð

á aumingja börnin og unglingana. Hvað þýðir sá barlómur annað en það, að kennsla sú sé ekki ómaksins verð og eigi því að hætta? Og svo verður lítilsvirðingin stundum berorðari. Það er ekki ýkja-langt síðan einn af því sauðahúsi lét það uppi við mig, að þeir væru allir andlega vankaðir meira og minna, þessir landar vorir, sem væru að burðast með þetta þjóðernismál. Hvernig eiga börnin að bera holla virðingu fyrir sjónarmiði og þjóðlegum sérkennum foreldra sinna, þegar úr ýmsum áttum hljómar í eyrum þeirra lítilsvirðingin, ýmist í berum orðum eða undir rós? Það er ekki langt síðan eitt vestur-íslenzka barnið spurði með kæruleysis-svip, þegar minnst var á Hallgrím Pétursson í sunnudagaskóla: *„What guy was that?“* (Hvaða náungi var það?). Stefnir sú kynslóð áfram eða aftur á bak, sem svona getur spurt? Ætli barnið það yrði minna mannsefni og síður til inntekta landi þessu, ef það fengi ofurlítið að kynnast trúarljóðum Hallgríms — nógu mikið til þess, að geta þekkt og virt höfundinn?

Setjum svo, að vér viljum brúa sprunguna með því að verða enskir sjálfir, felum íslenzku einkennin fyrir börnum vorum, bjóðum þeim ekkert annað en það, sem engil-saxneskt er, hvorki á heimilinu, né í sunnudagsskóla, né á ræðu-palli, né í félagslífinu nokkursstaðar. Er þá björninn unnin? Ekki alveg. Eldra fólkið getur aldrei skafið af íslenzku einkennin, aldrei stælt tungutak eða þjóðháttu innlendra manna svo vel, að ekki gæti þar erfiðis og ófimleika. Og um leið missa menn þau tækin, sem þeim eru tömust. Þeir njóta sín svo ekki eins vel og áður við neitt það verk andlegt, sem þeir vinna fyrir unglingana. Sumir leggja jafnvel árar í bát, treysta sér ekki til að vinna, svo að haldi komi, með nýjum tækjum. Unglingarnir sjá svo fyrir sér þennan ófullkomleika alls staðar, en vita lítið sem ekkert til íslenzku kostanna, sem vega þar

upp á móti; láta sér svo fátt um finnast alla leiðsögn hinna eldri og hafa hennar ekki hálf not. Í einu orði sagt: Í tunguskiftunum liggur ekki sú allra meina bót, er sumir gefa í skyn, hvorki í kirkjustarfinu né í öðru félagslífi vor á meðal. Það ráð er hið mesta neyðarúrræði eins og sakir standa, og ekki takandi fyrr en í fulla hnefana. Séra Jón Bjarnason talaði ekki út í hött, þegar hann minntist á fjórða boðorðið í sambandi við þjóðernis-viðhald vort hér vestan hafs. Það verður óskiljanleg heppni, ef hirðuleysið um íslenzkar erfðir veldur hvergi andlegum afturkipp í þjóðflokkinum, ef vér fáum ekki að kenna á tilhneiging þeirri til léttúðar og andleysis, sem vanalega fylgja, þegar samhengið slitnar milli náinna kynslóða.

Það er því börnum enginn skaði, heldur einmitt mikill ábati, að geta haldið við sig tungu feðranna að einhverju leyti. Sumum finnst það þó ganga misþyrmingum næst, eða landráðum, eða ég veit ekki hverju, að leggja ó-enskan tungumálslærdóm á auminga börnin. Þessi viðbára er auðvitað komin frá innlendum. Það fylgir þeim, sem enskuna eiga að móðurmáli, að vilja sem minnst með allan tungumálalærdóm hafa. Þeim finnst sín tunga vera sjálfkjörið alheimsmál, og leggja því sjaldan hart að sér við námið á öðrum málum, nema peninga-hagnaður komi í aðra hönd. Andi þessi er býsna hávær í ýmsum Bandaríkjablöðum rétt sem stendur. Þau hamast á móti hverjum aðkomnum þjóðflokki, sem einhverja rækt leggur við tungu feðra sinna, en í sömu andránni vilja þau láta unga menn sem allra flesta komast niður í spánversku, til þess að Bandaríkin getið haft verzlunarviðskifti við Suður-Ameríku. — Vorkunn er nú reyndar sumum „útlendingum“ þótt þeir bregði hérlendri menningu um oddborgarahátt, þegar þeir heyra annan eins tvísöng í málgögnum hennar.

En er nú þetta satt, að það þurfi að vera sú dæma-

laus þvingun á börnunum, og standi aukheldur þekkingu þeirra á landsmálum fyrir þrifum, ef þau verða bænabókarfær á útlendri tungu? Sé svo, þá er gáfnafarið i vorum ættum innan við meðallag. Það er ekkert einsdæmi, að heilar þjóðir eða kynkvíslir hafi haft þekking á tveim málum í senn, eða fleirum. Í ríki Rómverja var tungumálaþekking býsna almenn. Allir Rómverjar, sem vettlingi gátu valdið andlega, töluðu grísku. Í skattlöndunum talaði jafnvel almenningur tvö mál eða þrjú, einkum þar sem samgöngur voru miklar, kunnu auk móðurmálsins talsvert í grísku, eða latínu, eða báðum til samans. Í Mið-Evrópu þykir það ekki nema sjálfsagt um hvern miðlungsmann að upplýsing, að hann sé stautfær á útlendu máli. Og ég man svo langt, að unglingar á Íslandi þóttust ekki hart leiknir, ef þeir gátu fengið tilsögn í dönsku eða ensku. Hví mega þá ekki íslenzku foreldrarnir hér á slóðum kenna börnum sínum feðramálið, án þess að verða sakaðir um óholla íhaldssemi og harðneskju? Berum íslenzku-námið saman við aðra tungumála-þekkingu, sem unglingar vorrar þjóðar eiga kost á að afla sér í landi þessu. Munu þeir ekki hafa meira gagn af íslenzkunni, sem þeir geta lært með lítilli fyrirhöfn í æsku, og kynnzt smám saman meir og meir, eftir því sem þeir stálpast — munu þeir ekki geta aflað meiri lifandi þekkingar á bókmenntum þess máls og búið betur að þeirri menntun, heldur en þó að þeir komist við illan leik yfir einhverja nasasjón í frönsku eða þýzku, lesi á þeim málum tvær bækur eða þrjár með miklum erfiðismunum, og gleymi svo, eins og flesta hendir, öllu saman eftir fáein ár? Íslenzkan tapar engu við þann samanburð og gjörir jafnvel enn betur: þeir unglingar vorir, sem verða að gera sig ánægða með alþýðuskólamenntun, geta þó eignazt aðgang að bókmenntum tveggja þjóða, og það með fremur auðveldu móti, ef þeir halda tryggð við þjóðararfinn.

Þjóðernismálið hefi ég nú reynt að skoða frá þeirri hlið einungis, sem veit að skyldum vorum við þetta land. En hins vil ég þó ekki dylja neinn mann, að ég tel ekki þjóðflokk minn lausan frá öllum skyldum við ættlandið, þótt vér séum hingað fluttir og ætlum hér að sitja. Þetta eru voðaleg orð, ég veit það — eða svo finnst tíðarandanum. Þó eru þau sönn. Og meira að segja: Hérlenda þjóðin er í ofurlítilli skuld við Ísland. Eða er það sanngjarnt, að borga naut og svín fullu verði, ef flutt eru austan að, en telja sig í engri skuld fyrir mannfólkið, sem þaðan hefir komið? Hafi nokkuð verið í íslenzka landnema spunnið, þá var hingaðflutningur þeirra gróði þessu landi, en tap ættjörðinni, og þá er þetta land siðferðislega skyldugt til að jafna reikninginn í einhverri mynd. Lúkninguna verðum vér að taka að oss, Vestur-Íslendingar, með því að halda frændrækninni við í lengstu lög, vera „gamla landinu" hliðhollir, þegar færi gefst, og leitast við að koma andlegri vöru þess í hærra verð á heimsmarkaðinum. Og ekki tapar þetta land heldur, þótt samneytið haldist. Af því að íslenzkan fékk að lifa vor á meðal á landnáms-tíðinni hér, þá fékk Ísland færi á að kynnast Vesturheims-menningunni, og sú kynning verður því meiri, sem málið helzt hér lengur lifandi. Ekki ætti það að vera stórmikið hryggðarefni þjóðræknum Ameríkumönnum.

Stórþjóðirnar hafa náð undir sig öllum nýlendusvæðum heimsins, og taka líklega seint í mál að gefa smælingjunum nokkuð eftir af því herfangi. Um þetta er ekki til neins að kvarta; smáþjóðirnar verða að hafa það, hvort sem það er rétt eða rangt, en þeim er þá líka vorkunn, þótt þær langi til að eiga ítök í hjörtum þeirra barna sinna, sem numið hafa land á vegum annara þjóða. Nú er íslenzkur maður kominn til vor að heiman, launaður af landsfé að sögn, eða með styrktarfé, sem í fyrstu kom úr landssjóði. Svo er að

sjá, sem þetta hafi hneykslað einhverja „patríótana“ hér. Það var ekki mót von. En hvað skal þá segja um vesturferðaagentana, sem hérlendar stjórnir kostuðu heim til Íslands, í þeim erindum að ná fólki þaðan burt til Vesturheims? — Það er aum regla, sem ekki má beita á tvo vegu, segir Enskurinn.

Skyldur vorar í þjóðræknismálinu horfa þá svona við, að því er mér virðist. Fyrst er skuldin við þetta land; hún verður ætíð að skipa öndvegi. En mikilvægur hluti þessarar skuldar er í því fólginn, að vér eigum að gjöra niðja vora svo vel úr garði, sem unnt er, og stelum þar engu undan, sem eflt getur manndóm þeirra, jafnvel þótt það sé komið heiman frá Íslandi. Svo ber hins að gæta, að ættlandsskuldin er ekki úr sögunni, þótt vér hugsum fyrst um skyldur vorar hér.

Ekki er því að leyna, að ef haldið er í þetta horfið, þá verðum vér enn um nokkra hríð sérkennilegur hópur eða ættflokkur í þessu þjóðfélagi, og það eins fyrir því, þótt vér forðumst allar öfgar og einræningsskap. Þetta telja sumir hættulegt. Þeir vilja bræða öll þjóðarbrotin saman, svo að niðjarnir verði allir með sömu þjóðareinkennum og þeim alenskum. Ég held, að þjóð þessi verði ekkert betur komin, þótt hraðað sé þeirri sambræðslu. Allir þurfum vér auðvitað að dragast saman, eiga í samlögum tungumál landsins og allt hérlent ágæti. En að vér þurfum um leið að losast við sérkennin öll, sem segja til uppruna vors, og renna saman í eina tilbreytingarlausa þjóðernisflatneskju — það er annað mál. Ég held einmitt, að fjölbreytt þjóðlíf verði miklu nýtara. Kínverjar eru sagðir svo nauðalíkir allir, að hvítir menn geti varla greint þá í sundur. Það yrði, held ég, ekkert heillaverk, þótt þetta land væri gjört að andlegu Kínaveldi.

# Guðmundur Árnason

## *TVENN SAMBÖND*

„Öllu er afmörkuð stund og sérhver hlutur undir himninum hefir sinn tíma“, segir prédikarinn. Hann var bölsýnn maður, sem mat lítils hégóma veraldarinnar, og margt var hégómi í augum hans, sem bjartsýnni mönnum á öllum tímum hefir fundizt enginn hégómi. En hvað sem lífsskoðun þessa gamla bölsýnismanns líður, er gaman að lesa orð hans, og maður verður að samsinna með honum, að sérhver hlutur undir himninum hafi sinn tíma, nema það, sem er svo mikill hégómi, að það ætti ekki að vera til; og þó samt, hafi það orðið til vegna heimsku eða afglapa einhverra, verður það að hafa sinn tíma.

Það var annar spekingur, sem tók sér fyrir hendur að kenna mönnunum að þekkja sjálfa sig, og það hafði þær afleiðingar fyrir hann sjálfan, að hann var dæmdur til þess að drekka eiturbikar. Menn hefir aldrei langað til að þekkja sjálfa sig.

Hvað er sjálfsþekking?

Þeirri spurningu má eflaust svara á fleiri en einn hátt. Vanalega mun það þýða einhverskonar innskoðun eða sjálfsprófun, til þess — ja, til hvers? Til þess að kannast við syndir sínar, mundu þeir segja, sem mest hugsa um spillingu og afturhvarf og þesskonar; en svo gæti máske einhverjum dottið í hug, að það ætti að vera til þess að geta séð sjálfan sig eins og aðrir sjá mann, eins og Robert Burns kemst að orði. En þá er nú varla við að búast, að sjálfsþekkingin sé skoðuð mjög eftirsóknarverð þekking.

Sjálfs-þekking, ef hún á að vera nokkurs verð, fæst aldrei með eintómri innskoðun. Einstaklingurinn verður ekki slitinn út úr sambandinu við annað fólk. Hver maður er hluti einhverrar heildar, oft margra heilda, og hann getur ekki lært að þekkja sjálfan sig, nema hann þekki það, sem hann er hluti af, og samböndin milli sín og þess.

Við Vestur-Íslendingar höfum talað mikið um sjálfa okkur, við höfum haldið margar þjóðlegar innskoðanir, ef svo mætti að orði kveða; og árangurinn hefir oftast orðið sá, að við höfum haft margt gott um sjálfa okkur að segja. Fyrir nokkrum árum orti eitt skáld okkar háðkvæði um sjálfshólið í okkur og sendi það, að mig minnir, forstöðunefnd þjóðminningarhátíðar. Það varð víst eitthvert umtal um það, sem von var, hvort þetta hefði átt vel við. En hvað sem því líður, var víst flest af því, sem skáldið sagði, verðskuldað. Við erum sjálfhælið fólk; við tölum um sjálfa okkur eins og við værum gáfaðri og duglegri en nokkrir aðrir menn í þessu landi; okkur finnst mikið til um það, hve við komumst vel áfram, eins og við orðum það. Ef áframhaldið væri eins mikið í raun og veru og við höldum að það sé, þá ættum við fyrir löngu að vera orðnir eitt af sjö undrum veraldarinnar.

Það kemur fyrir, að við tölum um galla okkar, eða öllu heldur um galla hver annars. Það er nú gert til þess að hafa eitthvað að segja um mótstöðumanninn og berjast fyrir málefni sínu. En á því tekur vitanlega enginn neitt mark. En á lofinu tökum við mark, í því erum við einlægir.

Allt hefir sínar orsakir. Við höfum að mörgu leyti átt erfitt aðstöðu, eins og allir útlendingar, og það hefir eðlilega verið nokkurt fagnaðarefni, þegar einhver af þjóðflokknum hefir skarað fram úr í einhverju. Við hinir höfum tileinkað okkur eitthvað af því. Okkur hefir fundizt, sem það gæfi okkur góða ástæðu til að

segja við þá innlendu, sem hafa ekki ávallt veitt okkur fulla viðurkenningu fúslega: Þarna sjáið þið, hvað Íslendingar geta. Sá, sem fram úr hefir skarað, hefir orðið ímynd þjóðflokksins alls í augum okkar. Þetta hefir efalaust gert okkur þó nokkurt gagn: það hefir aukið okkur sjálfstraust, og sannarlega höfum við þurft þess með.

En svo getur verið að hrósið, sem við berum á sjálfa okkur, sé meðfram af því sprottið, að við höfum einangrað sjálfa okkur allmikið, þegar við höfum verið að reyna að þekkja sjálfa okkur, eða höldum, að við höfum verið að því. Við höfum, ef til vill, ekki tekið nógu vel til greina öll okkar sambönd út á við.

Tvö lang-þýðingarmestu samböndin, sem við stöndum í við annað fólk, eru sambönd okkar við íslenzku þjóðina og samband okkar við hérlenda þjóð, eða enskumælandi fólkið hér í kringum okkur. Við annað fólk hér í landi höfum við svo að segja ekkert saman að sælda.

Sambandið við íslenzku þjóðina er ætternislegt og þjóðernislegt. Það er okkur ósjálfrátt. Það er líkt og samband manns við móður sína. Við getum verið ánægðir með það ættarsamband, eða við getum óskað, að við værum öðru vísi til komnir. Það gerir hver eins og hann hefir skap til. En við erum þessarar ættar, íslenzkt þjóðerni er okkar þjóðerni, samkvæmt lífslögum, sem aldrei verður breytt.

Hvern veg ættum við þá að líta á sjálfa okkur í sambandi við þá heild?

Þar kemur okkur nú ekki öllum saman; því er ekki til neins að leyna. Sumir halda, að við ættum að virða ættarböndin vettugi. En er það hægt? Við megum ekki gleyma því, að þau bönd eru okkur ásköpuð; við getum ekki slitið þau. Það, sem okkur er í blóð runnið frá móðurþjóð okkar, ef það orð má nota, verður ekki frá okkur skilið. Við getum gert sjálfa okkur svo heimska,

að gleyma þessu sambandi, en svo mikið andlegt þroskaleysi er þó næstum óhugsandi.

Aðrir, og þeir eru fleiri, að ég hygg, vilja muna ættarböndin og gera þau traustari. Þeim finnst, að okkur ætti að skiljast, að í okkar náttúrlega þjóðerni sé svo margt gott, að það væri óvit, eitt hið mesta, að loka augum fyrir því. Að uppræta það, er varla um að tala, því að það fylgir hverjum, sem fast er við hann. Ef einhver kynni að halda, að hér sé verið að gera of mikið úr þjóðerniseinkennunum, þá má nefna eitt dæmi, sem nægir til að sanna, að svo er ekki. Hvers vegna fást fleiri Íslendingar, hlutfallslega við fólksfjölda, en aðrir menn, við að yrkja hér í landi? Aðeins eitt svar er mögulegt, og það er: af því við erum af skáldaþjóð komnir. Það er sama þótt sagt sé, að margt af því, sem ort er, ætti ekki að vera ort. Eiginleikinn er þjóðlegur, skáldskapargáfan er almennari á Íslandi en annars staðar, og við sverjum okkur í ættina, ef til vill of mikið, en ósjálfrátt — við erum svona gerðir.

Ættar- og þjóðernissambandið, sé rétt á það litið, gefur okkur ekki neina ástæðu til að ætla, að við séum meiri og betri en allt annað fólk. Þjóðararfur okkar liggur ekki í neinum almennum yfirburðum; hann liggur í sérkennum, sem hafa gert íslenzka þjóð að merkilegri þjóð. Þessi sérkenni liggja á sviði andlegra afreka. Bókmenntirnar eru ávöxtur þeirra. Og það er þessi ávöxtur, sem okkur er gagnlegastur, hann getum við hagnýtt; hann er okkar eign.

Veit ég vel, að ýmsum finnst sem það sé að tala fyrir ofan höfuð almennings, að tala um bókmenntir; þær séu ekki fyrir almenning, en slíkt er misskilningur. Það, sem er kallað bókmenntir, er einn mikilsverðasti þátturinn í allri menningu. Og við erum þátttakendur í menningunni, eins og hún er um okkar æfi. Hafi hugsunarháttur þjóðarinnar göfgazt vegna áhrifa eins skálds, þá höfum við göfgazt,

